# ÞÚSUND OG EIN NÓTT.

ARABISKAR SÖGUR.




Badur kóngsdóttir í búningi Kamaralsamans kóngssonar.

**II. BINDI.**

KAUPMANNAHÖFN.

ÚTGEFANDI PÁLL SVEINSSON.

PRENTUÐ HJÁ LOUIS KLEIN.

1859.

## 141. nótt.

### Sagan af krypplingnum litla.

„Herra!“ tók Scheherasade til máls, þegar Dínarsade hafði vakið hana, „einusinni bjó skraddari í Kaschgar, sem átti afbragðs fríða konu; höfðu þau hina heitustu ást hvert á öðru. Það var einhvern dag, er hann sat við vinnu sína, að lítill krypplingur settist fyrir utan sölubúð hans, og fór að syngja og slá bjöllubumbu. Hafði skraddarinn skemmtun af þessu, og með því hann vildi að kona hans líka hefði unun af því, bauð hann krypplingnum heim með sjer. Þetta var um kvöldverðar tíma og hafði skraddarakonan soðið ljúffengan fiskimat, bar hún hann nú fram og settust þau þrjú saman til borðs. En meðan þau snæddu hlekktist krypplíngnum á, því hann gleypti stórt fiskbein, og dó af því að vörmu spori og fengu þau hjónin ekki að gert. Fjellst þeim því meira um slys þetta, sem það vildi til á heimili þeirra, og þau máttu búast við, að þeim yrði refsað einsog morðingjum, þegar atburður þessi yrði kunnur. En skraddaranum kom úrræði í hug til að losast við líkið með hægu móti. Þau hjónin tóku það, svo að annað þeirra hjelt undir höfuðið en hitt undir fæturna, og báru það til húss nokkurs í nágrenninu, sem læknir einn bjó í; hann var Gyðingur. Þau drápu á dyr, en þar hagaði svo til, að upp frá þeim gekk brattur stigi til herbergis læknisins. Ambátt nokkur kom undireins ofan til dyra og hafði eigi ljós með sjer, lauk hún upp og spurði, hvert erindi þeirra væri. „Segðu húsbónda þínum,“ önsuðu þau, „að við höfum komið hingað með dauðveikan mann til þess, að hann skyldi ráðleggja honum eitthvert meðal. Fáðu honum þetta svo hann ekki skuli halda, að hann

muni vinna ókeypis." Og laumaði þá skraddarinn silfurpenningi í lófa ambáttarinnar; en ámeðan hún fór inn til hússbónda síns, báru þau hjónin líkið í skyndingu upp stigann, lögðu það niður og flýttu sjer heim.

Læknirinn brást glaður við boðskap ambáttarinnar og fje það, er honum galzt fyrifram, hugsaði hann með sjer, að ekki stoðaði að slá slöku við sjúklingi, sem svo mikil gróðavon var af. „Komdu fljótt með ljósið!" segir hann við ambáttina og hleypur áundan í myrkrinu að stiganum og rak hann þá fótinn svo hart í krypplinginn, að hann valt ofan stigann og var við sjálft búið, að læknirinn yrði honum samferða. Hann kallaði eptir ljósi, og þá er ambáttin loksins kom með það, gengu þau bæði ofan stigann, og sáu þá að það, sem niður hafði oltið, var dauður maður. Þá varð læknirinn dauðhræddur, ákallaði Móses, Aron, Jósúa og alla spámenn Gyðinga og mælti: „Ó mig auman! að eg skyldi æða að stiganum í myrkrinu. Eg er banamaður hans og er mjer glötunin vís, nema hamingjan líkni mjer. Bráðum verð eg dreginn burt einsog morðingi!" Svo hræddur sem hann var, hafði hann þó vit til þess að láta loka dyrum sínum svo að enginn af þeim, er framhjá gengju, kæmizt að óhamingju hans Loksins bar hann líkið inní herbergi konu sinnar og lá við hún liði í ómegin er hún sá þessa ólánsbyrði. „Æ!" kallaði hún upp, „við erum frá ef við ekki komum líkinu burt í nótt. Liggi það hjer til morguns, þá verður það bani okkar, æ! hvernig atvikaðist það, að þú skyldir verða þessum manni að bana." „Það varðar minnst um það," ansaði Gyðingurinn, „mestu varðar, að finna gott ráð til að sleppa úr þessum vandræðum."

# 142. nótt.

„Þau hjónin báru nú saman ráð sín og reyndist konan úrræðabetri, rjeði hún til þess að bera líkið uppá þak og fleygja því niður um reykháfinn í hús nábúa þeirra, sem var mahómedanskrar trúar og var soldáni í útvegum um flesk, olíu, smjör og allskonar feitmeti; geymdi hann vistaforða sinn þar í húsinu og skemmdist hann mjög af músum og völskum. Var nú gert að ráði konunnar, krypplingurinn var borinn upp á þak og látinn með

varkárni ofan síga á reipum, sem smeygt var undir hendur honum, ofaní reykháf nábúans. þannig kom hann niður standandi og stóð grafkyr í sömu stellingu, þegar reipin voru dregin upp.

Óðar enn þau Gyðingahjón voru komin ofaní hús sitt, kom fleskmangarinu heim úr brúdkaupi einu með skriðljós í hendi, og varð honum hverft við, er hann sá mann standa á arni sínum. En með því hann var enginn gunga og hann hugði að þetta mundi vera þjófur, greip hann lurk, óð að krypplingnum og grenjaði hátt: „Hana nú! eg hjelt að mýsnar og völskurnar ætu frá mjer feitmetið, en nú sje eg að þú ber það út um reykháfinn. En eg skal sjá svo um, að þig fýsi hingað ekki annað sinn.“ Lamdi hann þá líkið, svo að það datt niður á grúfu, og varð hann þá því ólmari að lemja, en er hann fann að maðurinn ekki hrærði legg nje lið, fór hann að skoða skepnu þessa, er hann misþyrmdi svo mjög, og sá að maðurinn var örendur. Snjerist nú reiði hans upp í hræðslu og hugsaði hann með sjer: „Hvað hef eg gert, ólánssamur maður! drepið mann — eg ætlaði ekki heipt minni af. Drottinn minn! ef þú ekki hefur miskunn með mjer, þá er eg glataður. Bölfað sje allt viðsmjör og feitmeti, því það hefnr komið mjer til að drygja þenna stórglæp.“ þarna stóð hann náfölur, grafkyrr og ráðalaus, og bjóst við að lögregluþjónar mundu þá og þegar koma og draga sig til lífláts.

## 143. nótt.

„Í fyrstunni hafði fleskmangari soldáns ekki tekið eptir að það var krypplingur, sem hann hafði drepið, en er hann sá það, fór hann að heitast: „Bölfaður krypplingurinn!“ mælti hann, „krypplings hundur! guð gæfi að þú hefðir heldur stolið öllu feitmetinu frá mjer enn að eg skyldi finna þig hjerna, þá hefði eg komizt hjá þessum vandræðum, sem eg hef ratað í vegna þín og kryppunnar á þjer. Ó þjer stjörnur himinsins! látið ljós yðvart skína mjer í þessum voðalega háska.“ Svo mælti hann, tók krypplinginn uppá herðar sjer, bar hann útúr húsinn og allt til enda strætisins; þar reisti hann líkið keiprjett upp við sölubúð eina, hljóp síðan heim og þorði ekki að líta aptur fyrir sig.

Skömmu fyrir dag vildi svo til, að ríkur kristinn kaupmaður, sem hafði það umboð, að kaupa flestar nauðsynja vörur til hirðar soldáns, gekk frá húsi sínu til lauga, því hann hafði alla nóttina verið á svalli. Svo ölvaður sem hann var, sá hann að skammt mundi eptir nætur, og að bráðum mundi kallað til morgunbæna. Greikkaði hann því sporið til lauganna, svo að hann næði þangað fyrr, enn hann gæti orðið á vegi nokkurra Mahómets manna, sem til musteris færu, svo að ekki yrði farið með hann í fangelsi fyrir drykkjuskap. En nú vildi svo til, að hann nauðsynja vegna þurfti að nema staðar hjá búðinni við strætisendann, þarsem fleskmangarinn hafði sett krypplinginn. Kom kaupmaður einhvernveginn við hann, svo að hann datt ofaná bak honum, hjelt hann þá að þetta væri ræningi, sem rjeðist á sig, lamdi hann hnefa högg í höfuðið og kallaði eptir hjálp, þarsem hann var að berja líkið á jörðinni. Næturvörður rann á ópið, og er hann sá, að hinn kristni maður misþyrmdi krypplingnum, sem var Mahómets trúar, spurði hann hvernig á því stæði. Svaraði þá kaupmaður: „Hann ætlaði að stela frá mjer og reyndi til að grípa fyrir kverkar mjer.“ Næturvörðurinn þreif þá í handlegg honum og mælti: „Þú hefur hefnt þín svo nægir, farðu burt hjeðan,“ ætlaði hann þá um leið að hjálpa krypplingnum á fætur, en varð skjótt þess áskynja, að hann var örendur, og mælti: „Svona dirfast kristnir menn að myrða átrúendur Mahómets;“ að svo mæltu tók hann kaupmann fastan og fór med hann til lögreglu stjóra, var hann þar hnepptur í varðhald, þangaðtil dómarinn kæmi á fætur og prófaði hann.

Nú rann af kaupmanninum og fór hann að hugsa um æfintýri sitt, og því lengur sem hann hugleiddi það, því torskildara virtist honum, að nokkur maður skyldi geta látið líf sitt fyrir meðal hnefahöggum. En allt fyrir það hlaut hann þó að telja sig sekan í glæp þessum, svo sem öll atvik höfðu verið, og er til prófsins kom, gat hann ekki borið á móti því. En með því krypplingurinn hafði verið hirðfífl soldáns, vildi lögreglustjóri hinna kristnu borgarmanna ekki láta taka hinn kristna mann af lífi, svo að soldán ekki vissi af. Fór hann því til hallarinnar og gerði soldáni grein fyrir málavöxtum, svaraði sóldán þá: „Eg get enga miskunn sýnt kristnum manni, sem drepur Mahómets mann; farið og

gerið skyldu yðar!“ Ljet þá lögreglustjóri reisa gálga og kallara kunngjöra, að hengja ætti kristinn mann, sem hefði drepið Mahómets mann. A tilteknum tíma var kaupmaður leiddur til gálgans, böðullinn brá snörunni um háls honum og ætlaði að draga hann upp, en í því ruddist fleskmangarinn fram ígegnum mannþröngina og kallaði til böðulsins: „Hættu! hættu! hann hefur ekki drýgt glæpinn, heldur eg.“ Lögreglustjórinn, sem var nærstaddur við aftökuna prófaði hann undireins og sagði fleskmangarinn, hversu hann hefði barið krypplinginn og borið hann síðan á strætisenda, þarsem hinn kristni maður fann hann. „Mjer nægir,“ sagði hann, „að hafa drepið Mahómets mann, og vil eg ekki ofþyngja samvizku mína með dauða saklauss kristins manns.“

## 144. nótt.

„Þegar nú fleskmangarinn játaði hátt og opinberlega, að hann hefði myrt krypplinginn, varð lögreglustjórinn að láta kaupmann njóta rjettar síns. Hann skipaði því böðlinum að sleppa hinum kristna manni og hengja í hans stað þann, er sjálfur hafði játað sökinni á hendur sjer. Böðullinn hlýddi og ætlaði að þeyta fleskmangaranum upp í gálgann, en í því kom læknirinn að, ruddizt fram til gálgans og sagði böðlinum að hætta. Og er hann kom á fund lögreglustjóra sagði hann, að Mahómets maður sá, er hengja átti, væri saklaus, skírði hann og frá, hvernig dauði krypplingsins hefði hlotizt af sjer óviljandi og hvernig hann hefði komið líkinu í hús. Kvadst hann ekki hafa viljað verða orsök i dauða tveggja Mahómets manna, og hefði ráðið af að afplána misgjörð sína, vildi hann því ganga í stað fleskmangarans, sem væri saklaus.

Þegar dómarinn var orðinn sannfærður um, að Gyðingurinn væri morðinginn, skipaði hann að lífláta hann í stað fleskmangarans, en ljet sleppa honum. Snaran var látin um háls læknisins og átti hann að deya í sama vetfangi, en í því ljet skraddarinn til sín heyra og beiddi böðulinn að standa við. Ruddist skraddarinn fram fyrir lögreglustjórann og mælti: „Herra! nærri lá að þjer hefðuð líflátið þrjá saklausa menn, en ef þjer viljið veita mjer

áheyrn, munuð þjer komast að raun um, hver er hinn rjetti morðingi krypplingsins.“ Þvínæst sagði hann honum, hvernig krypplingurinn hefði komið til búðar sinnar, að hann hefði farið heim, með honum, borðað með honum og hefði hann þá gleypt fiskbein og dáið af því; síðan hefði hann með konu sinni borið hann til Gyðingsins og lagt hann á efstu tröppuna í stiganum. „Þegar læknirinn gekk út,“ sagði hann, „spyrndi hann við krypplingnum, svo að hann valt ofan tröppurnar, og hjelt hann að hann á þann hátt hefði orðið honum að bana. En fyrst málið er nú þannig vaxið, þá sleppið læknirnum og líflátið mig í hans stað.“

Lögreglustjórinn og þeir, sem viðstaddir voru, furðuðu sig stórum á hinum kynlegu atvikum, sem orðið höfðu samfara dauða krypplingsins, skipaði lögreglustjóri að sleppa læknirnum og hengja skraddarann í hans stað, úr því hann gengist við glæp sínum. Brá þá böðullinn snörunni um háls skraddaranum.

## 145. nótt.

„Meðan böðullinn bjóst til að hengja skraddarann, hafði soldán spurt eptir fífli sínu, krypplingnum, því honum var ómögulegt að vera án hans til lengdar. Sagði þá einn af hirðmönnum hans: „Herra! krypplingurinn, sem þjer viljið finna, hafði drukkið sig kenndan í gærkveldi, hann læddist útúr höllinni, aldrei þessu vanur, og fór að ráfa um borgina, en ímorgun snemma fannst hann dauður. Nú hefur verið leiddur fyrir lögreglustjóra sá, sem drap hann og lætur dómarinn reisa honum gálga, en í því að á að hengja hann kemur annar maður og þriðji og gefa sig hver um sig fram einsog morðingjar, og segja hver annan sýknann; nú er dómarinn að prófa einn, sem þykist vera hinn rjetti morðingi.“

Þegar soldáninn í Kaschgar heyrði þetta, sendi hann undireins mann til aftökustaðarins með þau boð, að lögreglustjóri skyldi að vörmu spori koma með hina ákærðu og lík krypplingsins, því soldán langaði til að sjá hann einusinni ennþá. Skilaboð þessi komu einmitt þegar böðullinn var að taka í bandið til að toga skraddarann upp; var hann nú tekinn úr snörunni og var farið

með hann til soldáns með fleskmangaranum, hinum kristna kaupmanni og krypplingnum, sem lögregluþjónarnir báru. Lögreglustjóri fleygði sjer flötum fyrir fætur soldáns og er hann var uppstaðinn, sagði hann honum allt, er hann vissi sannast af sögu krypplingisins. þókti soldáni hún vera svo merkileg, að hann skipaði hirðsagnaritara sínum að skrifa hana upp nákvæmlega. þvínæst mælti hann til þeirra, sem viðstaddir voru: „Hafið þið nokkurntíma heyrt nokkuð fáheyrðara enn það, sem hefur viljað til krypplingnum, veslings fíblinu mínu?"

Hinn kristni kaupmaður laut honum svo lágt, að enni hans snerti jörðina og sagði: „Voldugi herra! undarlegri sögu kann eg enn þessa, og skal eg segja hana ef yðar hátign leyfir. Enginn mun heyra hana svo að hann ekki komist við." Soldán samþykktist þetta og sagði hinn söguna.

## Sagan, er hinn kristni kaupmaður sagði.

Áðurenn eg byrja sögu þá, er eg hjet að segja, dirfist eg með leyfi yðar hátignar að geta þess, að mjer varð ekki þeirrar sæmdar auðið að fæðast í ríki yðru. Eg er frá Kairó í Egyptalandi, Kopta þjóðar og kristinnar trúar. Faðir minn var milligöngumaður í kaupskap og ljet mjer töluverða fjármuni eptir sig. Eg stundaði sömu iðn og hann og einn dag bar svo til, er eg var í hinu opinbera húsi kornverzlunarmanna í Kairó, að ungur maður vel til fara, ríðandi asna, heilsaði mjer; hann spurði mig, hvað stór mælir af sesam (baunategund) kostaði, álíka góðum og hann hafði í poka einum, er hann sýndi mjer.

## 146. nótt.

„Eg skoðaði baunirnar og svaraði, að eptir kaupverði á torgum kostaði stór mælir af þeim hundrað silfurdrökmur.*) „Farið þá til kaupmanna," segir hann, „þeirra, er vilja kaupa það af mjer fyrir þetta verð, komið síðan í gestaherbergi eitt hjá Sigurporti, sem stendur þar einstakt og afskekkt frá öðrum húsum." Að svo

*) Drakma er griskur peningur, hjerumbil tvö mörk.

mæltu fór hann og skildi eptir hjá mjer sýnishornið, sýndi eg það mörgum kaupmönnum, kváðust þeir mundu kaupa hvað mikið sem fáanlegt væri, ef þeir fengju mælirinn á hundrað og tíu drökmur, og græddi eg þannig tíu drökmur á mæli. Fór eg feginn gróða mínum til Sigurports, þarsem hinn ungi kaupmaður beið mín; tók hann mig með sjer í geymslubúr sitt, sem var fullt af sesam; þar voru í fimmtíu stórmælirar, ljet eg mæla þá og láta uppá asna, og seldi eg fyrir fimmþúsund silfurdrökmur. Þá sagði kaupmaðurinn: „Yður bera tíu drökmur af mælirnum, eða fimm hundruð drökmur samtals, og skal eg láta yður fá þær. Hins, sem eptir er og eg á, þarf eg ekki að sinni, veitið því móttöku fyrir mína hönd og geymið það þangaðtil eg kem og sæki það.“ Sagði eg þá að eg skyldi hafa peningana á reiðum höndum, hvenær sem hann kæmi. Eg kyssti á hönd honum að skilnaði og gekk burt glaður af stórmennsku hans. Eptir mánaðar tíma kom hann til mín og mælti: „Hvar eru nú hinar fjögur þúsund og fimmhundruð drökmur, sem eg á?“ „Þær eru til taks,“ ansaði eg, „og skal eg greiða yður þær útí hönd.“ Nú með því hann sat á asna sínum, beiddi eg hann að fara af baki, og sýna mjer þá virðingu að þiggja hjá mjer einhvern beina, en hann svaraði: „Nei! nú má eg ekki fara af baki, eg hef ýmislegt að annast hjer nálægt, sem ótt kallar að, en á heimleiðinni skal eg taka við fjenu og bið eg yður að hafa það til taks handa mjer.“ Þvínæst reið hann burt og kom ekki aptur fyrr enn að heilum mánuði liðnum. Hugsaði eg þá með mjer, að kaupmaður hefði mikið traust á mjer, þarsem hann skildi svo mikið fje eptir í vörzlum mínum. Þegar hinn þriðji mánuður var liðinn, kom hann aptur og reið asna sínum einsog áður, en var nú betur búinn enn að undanförnu. Eg gekk á móti honum, sárbeiddi hann að fara af baki og spurði, hvort eg ætti ekki að greiða honum fje sitt. „Það liggur ekki á,“ sagði hann með hýru yfirbragði, „eg veit að það er í góðum stað, og mun sækja það þegar allir aðrir fjármunir mínir eru uppgengnir, og eg á ekkert eptir nema þetta. Lifið heilir! þjer megið vonast eptir mjer seint í vikunni. Svo mælti hann, keyrði asnann með svipunni og var óðara horfinn mjer úr augsýn. „Gott og vel,“ hugsaði eg, „hann sagði að eg mætti

vonast eptir sjer seint í vikunni, en eptir því sem honum fórust orð mun eg ekki sjá hann í langan tíma. En hvað sem því líður, mun eg koma fje hans á vöxtu og hafa af því drjúgan arð.“

Þetta fór og sem eg gat til, því eg sá ekki hinn unga kaupmann fyrr enn árið var umliðið. Eptir árslokin kom hann og var þá skrautbúinn einsog þegar eg hafði sjeð hann síðast; en nú þókti mjer sem honum væri mikið niðri fyrir. Beiddi eg hann að gera mjer þann sóma að koma inní hús mitt. Svaraði hann þá: „Svo skal vera í þetta sinn, en samt með því skilyrði, að þjer ekki kostið miklu til mín vegna.“ „Það skal vera sem þjer viljið,“ ansaði eg, „en farið fyrir alla muni af baki.“ Hann gerði svo og fór inn með mjer, skipaði eg þá að tilreiða máltíð þá, er eg ætlaði að veita honum, en meðan á því stóð vorum við að tala saman. En er maturinn var tilbúinn settumst við til borðs. Undireins og hann ljet upp i sig fyrsta bitann, tók eg eptir því að hann borðaði með vinstri hendinni, og þókti mjer kynlegt, að hann alls ekki neytti hægri handarinnar. Eg vissi ekki hvað eg ætti að halda um þetta, því hinn ungi kaupmaður hafði jafnan sýnt mjer kurteisi frá því eg kynntist honum fyrst. „Getur það verið,“ hugsaði eg með mjer, „að hann geri þetta til þess að óvirða mig? því borðar hann ekki með hægri hendinni?“

# 147. nótt.

„Mjer ljek mesta forvitni á að vita, hversvegna gestur minn snæddi með vinstri hendinni. Þegar þjónustufólk mitt hafði tekið upp borð eptir máltíðina og var farið út, settumst við hver hjá öðrum í legubekk og bauð eg hinum unga kaupmanni ljúffengasta sætabrauð, en hann tók við því með vinstri hendinni. „Herra!“ tók eg til máls, „misvirðið ekki, að eg dirfist að spyrja, hversvegna þjer neytið ekki hægri handarinnar. Yður mun sjálfsagt vera illt í henni.“ Hann stundi við og sókti andvörpin djúpt neðan, tók hægri handlegg sinn frammundan skikkjunni, sem allt til þessa hafði hulið hann, og sá eg nú, að hann hafði misst höndina, þókti mjer það kynlegt. „Yður hefir víst þókt fyrir,“ mælti hann, „að eg skyldi snæða með vinstri hendinni, en nú sjáið þjer, hvort eg

átti annars úrkosti.“ Sagði eg þá: „Mætti eg spyrja yður, af hverju slysi hafið þjer misst höndina?“ Við spurningu þessa hrundu honum tár af augum, en er hann hafði þerrað þau af sjer, sagði hann mjer sögu sína á sömu leið og eg mun segja yður hana.

„Eg er frá Bagdad,“ tók hann til máls, „og sonur auðugs manns, sem var afbragð annara manna þar í borginni bæði sökum mannkosta og metorða. Undireins og eg var kominn útí heiminn, kynntist eg mönnum, sem víðförlir voru, sögðu þeir mjer marga undursamlega hluti frá Egyptalandi og einkum frá stóru Kairó, svo að ákafur ferðahugur kom í mig. Faðir minn var þá enn á lífi og mundi ekki hafa leyft mjer það; en er hann var andaður og eg var orðinn sjálfs mín ráðandi, ásetti eg mjer að ferðast til Kairó. Keypti eg þá fyrir stórmikið fje allskonar dýrindis vefnað frá Bagdad og Mussul, og lagði á stað. Þegar eg var kominn til Kairó ljet eg staðar numið við gestaherbergi, sem kennt er við borgina Mesrúr. Leigði eg mjer þar hús og geymslubúr, og ljet bera þangað varningsstranga, er eg hafði flutt á úlföldum. Þegar eg var búinn að því, gekk eg til herbergis míns til þess að hvílast eptir ferðina, en fylgdarmenn mínir keyptu vistir á meðan og matbjuggu. Þegar eg hafði snætt, gekk eg út til að skoða höllina, nokkur musteri, opinber torg og annað það, er vert var að sjá. Daginn eptir bjó eg mig vel, ljet taka nokkuð af hinum fegursta og dýrasta vefnaði úr ströngum mínum, og þræla mína bera það til hinnar Sirkassisku sölubúðar til þess að vita, hvað mjer byðist fyrir það. Þyrptist þar í kringum mig fjöldi verzlunarmanna og kallara, er spurt höfðu tilkomu mína. Eg fjekk mörgum köllurum sýnishorn af vefnaðartegundum mínum, og sýndu þeir þau og höfðu á boðstólum í öllum sölubúðum. En allir kaupmenn buðu mjer miklu minna fyrir vefnaðinn enn eg hafði sjálfur borgað og kostað til flutnings, þókti mjer þetta hvimleitt. En er eg ljet óánægju mínu í ljósi við kallarana, sögðu þeir: „Ef þjer viljið hlýða oss, skulum vjer kenna yður gott ráð, svo að þjer munuð engan skaða hafa á vörum yðar.“

# 148. nótt.

„Eg spurði kallarana, hvert ráð þetta væri og svöruðu þeir mjer: „Þjer skuluð skipta varningi yðar niður á marga verzlunarmenn og láta þá selja lítið í senn. Skuluð þjer sækja til þeirra andvirði hins selda tvisvar í viku, Mánadag og Föstudag og munuð þjer þannig hafa ábata öllu fremur enn skaða og kaupmennirnir munu einnig græða nokkuð. Meðan á því stendur getið þjer stytt yður stundir og farið um borgina og Nílfljótið yður til skemmtunar. Eg hlýðnaðist ráði þessu, skipti varningnum niður á verzlunarmenn þá, sem mjer var sagt, að skilríkastir væru, fengu þeir mjer kvittun fyrir varningnum, staðfesta af vitnum, með því skilyrði, að eg ekki mætti krefja þá gjaldsins hinn fyrsta mánuð. En er eg hafði ráðstafað efnum mínum þannig, hugsaði eg ekki um annað enn skemmtanir og kynntist við marga menn, sem voru á aldur við mig, og gerðu sitt til að stytta mjer stundir. Þegar hinn fyrsti mánuður var liðinn fór eg tvisvar í viku til kaupmanna og var þá með mjer embættismaður, sem skoðaði bækur þeirra, og víxlari, sem prófaði gjaldið; hafði eg á hverjum gjalddegi töluvert fje heim með mjer. Ljet eg þó ekki hjá líða að vitja á fund kaupmanna á öðrum dögum, og var eg vanur að sitja á tali við þá á morgnana og horfa á það, sem fram fór í sölubúðunum.

Einhvern morgun þegar eg sat í búð kaupmanns nokkurs, er Bedreddín hjet, kom inn til hans kona; var það auðsjeð að hún mundi vera göfug bæði á búningi hennar og framgöngu, og eins því að henni fylgði vel búin ambátt. Hún settist niður nálægt mjer og leitst mjer vel á hana sakir fríðleika hennar og hins nátturlega þokka, sem lýsti sjer í öllu látbragði hennar, svo að mig langaði til að verða nokkurs vísari hver hún væri. Mun hún hafa tekið eptir því, að mjer var yndi að horfa á hana, en ekki tók hún því með styggð heldur lypti hún blæu þeirri, er hún bar utanyfir hinni þunnu nettludúks blæju, sá eg þá hin fögru svörtu augu hennar og varð frá mjer numinn. En samt varð hugur minn einkum fanginn af sætleika raddar hennar, og kurteisi þeirri og hæversku, er hún sýndi þegar kaupmaður heilsaði henni og spurði, hvernig henni hefði liðið síðan

þau sáust seinast. En er hún hafði talað við hann stundarkorn um hitt og þetta, kvaðst hún vera að leita að einhverskonar gullstöfuðum silkivefnaði og þykjast vera viss um, að hún mundi fá hann hjá honum, því hann ætti byrgasta búð, og væri sjer þökk á að skoða vefnað þenna, ef hann hefði hann til.

Bedreddín sýndi henni margskonar vefnað og kaus hún einn úr og spurði um verð hans; hann setti upp ellefu hundruð silfurdrökmur og ljet hún sjer það líka, kvaðst hún taka vefnaðinn með sjer og ekki borga hann fyrr enn næsta dag, því hún hefði ekki peninga á sjer. Þá mælti Bedreddín: „Eg skyldi gjarna fá yður vefnaðinn og eiga hjá yður andvirðið, ef það væri sjálfs mín eign, en þessi ungi maður er eigandinn og á eg þegar í dag að standa honum skil á fjenu.“ „Því farið þjer svo með mig?“ segir konan, „kaupi eg ekki opt hjá yður og hef eg ekki ætíð sent yður borgunina næsta dag, þegar þjer hafið leyft mjer að hafa eitthvað burt með mjer óborgað.“ Kaupmaður kvað svo vera en krafðist borgunar í þetta skipti. „Eigið þjer það þá sjálfur!“ mælti hún í reiði og fleygði í hann vefnaðinum, „Guð tortýni öllum kaupmönnum og öllu, sem þeirra er! þið eruð hver öðrum líkir og sýnið aldrei neina nærgætni.“ Að svo mæltu spratt hún upp og gekk burt með miklum reiðihug til Bedreddíns.

## 149. nótt.

„Þegar eg sá að konan ætlaði að fara, fann eg að hjarta mínu var hlýtt til hennar og kallaði eg eptir henni og mælti: „Göfuga jungfrú! auðsýnið mjer þá náð, að koma aptur, hver veit nema mjer hugsizt ráð til að gera svo báðum ykkur líki.“ „Hún snjeri þá við og kvaðst gera það mjer að skapi, en eg vjek mjer að kaupmanni og spurði hann, hvað dýran hann vildi selja vefnað þenna, er eg átti. Á ellefuhundruð drökmur,“ segir hann, „mjer er ómögulegt að selja hann ódýrari.“ „Fáið konunni hann þá,“ sagði eg, „og lofið henni að hafa hann með sjer. Eg skal ábyrgjast yður hundrað drakma ágóða og ávísa yður þær í öðrum varningi, sem eg á í búð yðar.“ Eg gerði svo, fjekk síðan konunni vefn-

aðinn og mælti; „þjer megið hafa hann með yður og getið sent mjer andvirðið á morgun, eða þegar yður lízt; eða, ef þjer leyfið, þá þækti mjer vænst, ef þjer vilduð þiggja hann að gjöf.“ þá mælti hún: „Ekki ætlaðist eg til þess, en svo fer yður vel og kurteislega til mín, að eg mætti fyrirverða mig að koma fyrir nokkurs manns augu, ef eg ekki vottaði yður þakklæti mitt. Guð umbuni yður með eflingu fjármuna yðar, hann láti yður lifa lengi eptir minn dag, og uppljúki dyrum himnanna fyrir yður, þegar þjer deyið, en örlyndi yðar verði kunnugt um alla borgina.“ þegar eg hafði heyrt þessi orð, óx mjer hugur og mælti eg: „Látið mig, þá í launa skyni sjá andlit yðar, því þannig borgið þjer greiða minn margfaldlega. Vjek hún sjer þá að mjer, lypti nettludúks. blæunni, er hún hafði fyrir andlitinu og sýndi mjer frábæra fegurð sína. En svo varð mjer mikið um, að eg kom engu orði upp til að lýsa því, er mjer bjó í brjósti, og gat eg ekki þreytzt á að virða hana fyrir mjer. Hún huldi sig skjótt aptur blæjunni, því hún var hrædd um, að eptir sjer mundi verða tekið, hún ljet og hina ytri blæu falla fyrir andlitið, tók vefnaðinn og gekk útúr búðinni, en eg sat eptir, allt öðruvísi í skapi, enn þegar eg kom þangað. Eg var langan tíma kynlega ringlaður og órór. En áður enn eg skildi við kaupmann, innti eg hann eptir, hvort hann þekkti konuna, kvað hann hana vera dóttur emírs nokkurs, sem hefði látið henni stórmikil auðæfi eptir sig andaðan.

þegar eg var kominn heim til gestaherbergisins Mesrúr, hafði eg enga lyst á kvöldverði þeim, er þjónustufólk mitt bar á borð fyrir mig; alla nóttina kom mjer ekki dúr á auga, og enga nótt þóttist eg muna lengri. En er dagur var kominn, stóð eg upp í þeirri von, að eg mundi sjá hana, sem olli órósemi minni, bjó eg mig að öllu sem vandlegast, til þess henni mætti því betur lítast á mig, og gekk eg þvínæst til búðar Bedreddíns.

# 150. nótt.

„Þar hafði eg skamma stund verið, þegar eg sá konuna, sem eg hafði hitt daginn áður, koma með ambátt sinni. Var hún

enn skrautbúnari enn daginn áður; hún leit ekki við kaupmanninum, heldur vjek sjer að mjer og mælti: „Herra! þjer sjáið, hvað rækilega eg efni það, sem eg lofaði yður í gær. Eg kem beinlínis til þess að færa yður fje það, sem þjer með einstakri ljúfmennsku og stórlyndi trúðuð mjer fyrir, þó þjer þekktuð mig ekki.“ Svaraði eg þá: „Ekki lá svo mikið á. Eg var óhræddur um það, og þykir mjer leitt, að þjer skulið hafa gert yður svo mikið ómak.“ „Það hefði verið rangt,“ sagði hún, „að hagnýta sjer greiðvikni yðar,“ fjekk hún mjer um leið peningana og settist niður hjá mjer. Eg sá mig ekki úr færi að tala við hana, og ljet eg í ljósi, hversu og elskaði hana, en hún stóð upp og gekk frá mjer, einsog hún hefði styggzt við játningu mína. Horfði eg eptir henni svo lengi sem eg gat, síðan kvaddi eg kaupmann og gekk frá búðinni einsog í leiðslu, svo eg vissi ekki, hvert eg fór. Eg gekk þungt hugsandi um æfintýri mitt, og vissi ekki fyrri til, enn tekið var aptan í mig, varð mjer þá litið aptur og var mjer það fagnaðar sjón að sjá þar komna ambátt konunnar, sem eg elskaði. „Hússmóður mína,“ segir hún, „konuna ungu, sem þjer töluðuð við í búðinni kaupmannsins, langar til að tala eitthvað við yður, komið með mjer ef þjer viljið.“ Fylgdi hún mjer þá til hússmóður sinnar, þarsem hún sat í búð víxlara nokkurs og beið mín. Hún ljet mig setjast hjá sjer og mælti: „Kæri herra! látið yður ekki þykja fyrir, að eg gekk frá yður heldur snúðugt, en það kom af því, að eg hugði ekki sæmandi, að svara ástar játningu yðar með vilyrði í viðurvist kaupmannsins. En svo var fjærri, að eg styggðist við, að eg hafði yndi af því, og tel eg mig sæla þess, að slíkur afbragðs maður sem þjer eruð, skuli vera elskhugi minn. Eg veit ekki, hvernig yður hefur brugðið við að sjá mig, en undireins og eg sá yður, fann eg að hugur minn hneigðist til yðar. Síðan í gær hef eg ekki hugsað um annað enn það, sem þjer sögðuð; megið þjer nærri geta, að eg mundi ekki hafa leitað yður upp í morgun, ef þjer ekki yrðuð mjer vel að skapi.“

Eg svaraði henni gagntekinn af elsku og fögnuði, að eg gæti ekkert inndælla heyrt enn það, er hún hafði sagt, „enginn maður getur elskað ákafar enn eg elska yður,“ sagði eg; „allt frá þeirri sælustund þegar eg sá yður fyrst, hafa augu mín verið blinduð af

frábærri fegurð yðvarri, og hjarta mitt gaf sig mótstöðulaust yður á vald.“ Hún greip þá frammí og mælti: „Eyðum ekki tímanum til ónýtis, eg efast ekki um hreinskilni yðar, og einlægni mína munuð þjer bráðum komast að raun um. Viljið þjer gera mjer þá sæmd, að koma til mín, eða á eg að koma til yðar?“ „Göfuga jungfrú!“ ansaði eg, „eg bý einsog annar útlendingur í gestaherbergi, og er það ekki samboðið jafn tíginni og ágætri konu, sem þjer eruð, að eg taki við yður á slíkum stað. Ætti betur við, ef þjer vilduð svo vel gera, að þjer segðuð mjer bústað yðvarn, svo að eg mætti hljóta þá virðingu að koma til yðar.“ Hún tók því vel og mælti: „Komið að einum degi liðnum á Föstudaginn eptir miðdegisbænir. Eg bý í Guðhræðslustræti, og þurfið þjer ekki annað enn að spyrja eptir húsi Abu Sahamma, sáluga, sem kallaður var Berkur, og var yfirmaður emíranna. Þar skuluð þjer hitta mig.“ Skildum við að svo búnu, og rjeði eg mjer ekki fyrir óþolinmæði daginn eptir.

Á Föstudegi stóð eg upp í býtið, fór í hin beztu föt mín, stakk á mig pyngju með fimmtíu gullpeníngum í og fór til Guðhræðslustrætis, ríðandi asna, sem eg hafði leigt handa mjer daginn áður, og fylgdi mjer essrekinn. Varð mjer lítið fyrir að finna hús það, er mjer hafði verið til vísað, fór eg þar af baki, borgaði essrekanum ríkmannlega og beiddi hann að skilnaði, að koma morguninn eptir með asna og sækja mig. Nú drap eg á dyr og komu út tveir litlir þrælar, hvítir sem mjöll og snoturlega búnir og sögðu: „Gerið svo vel og gangið inn, hússmóðir okkar bíður yðar næsta óþolinmóð, og hefur ekki um annað talað enn yður í tvo daga.“ Þegar eg kom inní hallargarðinn, sá eg tjaldbúð eina; uppað henni lágu sjö tröppur, en umhverfis hana var grind og skildi hana frá undurfögrum garði, voru í honum auk þeirra trjáa, sem til prýðis voru eða veittu forsælu, mörg önnur, sem báru allskonar fullþroskuð aldin. Þar kvað við sönglist óteljandi fugla, og þókti mjer unun að heyra, hversu kliður þeirra blandaðist saman við nið eins gjósandi brunns, er var mitt í grasblett einum, blikandi af blómum. Á hinum fjórum hornum brunnskálarinnar voru fjórir gullnir drekar, og spúðu þeir án afláts kristallsskæru vatni, rjeði eg af fegurð staðar þessa, hve mikilsháttar unnusta mín mundi vera. Báðir litlu þrælarnir fylgdu mjer inní skrautlegan sal, fór annar þeirra

inn til hússmóður sinnar til að boða komu mína, en hinn sýndi mjer á meðan allt það, er fegurst var í salnum.

# 151. nótt.

„Eg þurfti ekki að bíða lengi í salnum; unnusta mín kom ríkuglega skreytt perlum og demöntum, og ljómaði hún þó skærar af birtu augna sinna enn bliki gimsteinanna. Nú var hún ekki í neinum utanhafnarbúningi, er leyndi vexti hennar, sem mjer nú virtist vera hinn fegursti og ásjálegasti. Eg vil ekki reyna til að lýsa því, hvað við urðum fegin að finnast, því sú lýsing mundi verða ónóg. þegar við höfðum heilsazt, settumst við í legubekk og skemmtum okkur vel. þvínæst voru framreiddir hinir útvöldustu rjettir, og er við höfðum matazt, skemmtum við okkur frammá nótt. þá var inn borið ágætt vín og þorstsælir ávextir, sátum við og drukkum, en þrælar sungu ámeðan og ljeku á hljóðfæri. Hús-freyan söng líka og með söngnum tendraði hún ást mína, svo að enginn elskhugi getur orðið ákafari enn eg varð þá. Leið nóttin svo að við nutum allskonar unaðsemda, en um morguninn laumaði eg pyngju minni með fimmtíu gullpeningum í undir höfðalag konunnar og kvaddi hana síðan. Spurði hún mig, nær eg mundi koma aptur, og lofaði eg að koma til hennar aptur um kvöldið, og sýndist mjer hún verða sárfegin loforði mínu. Síðan fylgdi hún mjer til dyra og særði mig að skilnaði, að efna orð mín. Essrekinn, sem hafði fylgt mjer þangað, beið mín með asnann og reið eg aptur til gestaherbergis. En er eg skildi við hann þar, sagði eg honum, að eg ekki borgaði honum að sinni, því hann ætti að koma til mín eptir hádegi á tilteknum tíma. þegar eg nú var kominn heim, ljet eg mjer fyrst annt um að kaupa vænt lamb og allskonar sætabrauð og sendi eg konunni þetta með daglaunamanni nokkrum. Eptir það annaðist eg alvarleg störf þangaðtil essrekinn kom og eg reið aptur til konunnar, fagnaði hún mjer og veitti mjer eins vel og í fyrra skiptið. En er eg skildi við hana morguninn eptir, ljet eg aðra pyngju, með fimmtíu gullpeningum í, verða eptir og fór síðan aptur til gestaherbergis. þannig kom eg til hennar á

degi hverjum með sama hætti og atvikum, þangaðtil vörur mínar voru útseldar og eg átti ekkert hjá kaupmönnum, var eg þá með öllu fjelaus og vissi mjer enga fjárvon. Þegar eg var kominn í þetta hryggilega ástand og mjer lá við að örvílnast, gekk eg frá gestaherberginu öldungis ráðalaus. Mjer varð gengið til hallarinnar, og stóð svo á, að þar var mikil mannfjöldi kominn til að horfa á leika, er soldán Egyptalands gekkst fyrir að halda. Eg fór inní mannþyrpinguna og vildi svo til, að eg staðnæmdist hjá manni nokkrum, sem hafði góðan hest og fögur klæði; við söðul hans hjekk taska opin tilhálfs og lafði útúr græn silkisnúra. Þreifaði eg um töskuna og þókti líklegt, að snúran mundi föst við peningapyngju, sem í töskunni væri. Meðan eg var að hugsa um þetta, gekk hinumegin við hinn ríðandi mann karl einn með viðarbyrði, og fór svo nærri honum, að hann varð að víkjast undan á hlið, til þess að trjeð ekki skyldi rífa klæði hans. Í þessu bili freistaði djöfullinn mín; eg greip annari hendi snúrana, með hinni liðkaði eg opið á töskunni og togaði eg pyngjuna út svo enginn sá, mun í henni hafa verið gull eða silfur, því hún var allþung. Nú var karlinn genginn framhjá, og með því riddaranum mun hafa virzt athæfi mitt ískyggilegt, fór hann í töskuna og saknaði pyngjunnar einsog von var, sló hann mig þá til jarðar með exi sinni. Þeir, er sáu ofríkisverk þetta, gengu í lið með mjer, þrifu í tauma riddarans og spurðu, því hann hefði barið mig og hvort hann dirfðist að leika Mahómets mann svo illa? Svaraði hann þeim önugt og mælti: „Því slettið þið ykkur frammí þetta? eg gerði það ekki að ósekju, hann er þjófur.“

Þegar hann sagði þetta, stóð eg upp, og gengu allir í lið með mjer, svo vel leizt þeim á mig. Hann var kallaður lygari og enginn trúði því, að eg, svo ungur, gæti drýgt svo andstyggilegan glæp. Allir stóðu fast á því, að eg væri saklaus, og leituðust við að hjálpa mjer til að flýa, með því að halda í hest riddarans; en til allrar óhamingju kom lögreglustjórinn með þjónum sínum, og spurði, hvað á gengi, sakfelldu allir riddarann í einu hljóði og sögðu, að hann hefði ranglega misþyrmt mjer og borið það fyrir, að eg hefði stolið frá honum. En lögreglustjóranum þókti það ekki einhlýtt, sem lýðurinn sagði, heldur spurði hann riddarann,

hvort hann hefði nokkurn annan grunaðan enn mig, kvað hann nei við, og sagði allt það, er hann hafði til síns máls. Þvínæst skipaði lögreglustjóri þjónum sínum, að taka mig fastan og leita á mjer; tók einn þeirra töskuna af mjer og sýndi hana opinberlega, en eg hnje í öngvit af óvirðingu.

# 152. nótt.

„Nú spurði lögreglustjóri riddarann, hvort hann ætti pyngjuna, og hversu mikið í henni væri. Hann kvaðst eiga hana og sagði tuttugu sekkínur vera í henni. Dómarinn opnaði hana og reyndist þá, að rjett var til sagt, fjekk hann riddaranum pyngjuna aptur. Hann skoraði þá á mig, að segja sannleikann, svo ekki þyrfti að taka til pyndinga. Eg horfði til jarðar og hugsaði með mjer að þó eg segði nei, sannaði þó pyngjan, að eg væri lygari. Eg leit því upp og meðgekk misgjörð mína. Kallaði þá lögreglustjóri jafnskjótt á vitni og skipaði að höggva af mjer hægri höndina. var það gert og kenndu allir, sem viðstaddir voru, í brjóst um mig; sá eg jafnvel að riddaranum sárnaði það, ekki síður enn öðrum. Lögreglustjórinn vildi og láta höggva undan mjer annan fótinn, en þá beiddi eg riddarann að biðja mjer miskunnar, gerði hann það og var honum eigi synjað. En er dómarinn var farinn, kom riddarinn til mín, rjetti mjer pyngjuna og kvaðst um leið vera sannfærður um, að ekkert annað enn neyðin hefði getað komið mjer til að drygja svo óviðurkvæmilegt verk. „Eigið þessa ólánspyngju,“ mælti hann ennfremur, „eg gef yður hana og harma óhamingju þá, er þjer hafið ratað í.“ Að svo mæltu skildi hann við mig og af því eg var orðinn næsta máttfarinn af blóðrás, sáu nokkrir menn aumir á mjer, er bjuggu þar nálægt, fluttu mig til húsa sinna og gáfu mjer staup af víni. Þeir bundu handlegg minn og vöfðu dúk um stúfinn, festi eg hann við belti mitt og fór síðan burt. Í gestaherberginu Mesrúr mundi eg eigi hafa notið þeirrar hjúkrunar, sem var mjer ómissandi, svo aumlega stöddum, en mikil vogun þókti mjer að fara á fund hinnar ungu konu.

Eg hugsaði með mjer, að hún mundi alls ekki vilja kannast við mig, ef hún kæmist að svívirðingu minni, en þó rjeði eg það af að leita til hennar. Hljóp eg ígegnum mörg afvikin stræti, til þess að komast undan mönnum þeim, er eltu mig, þangaðtil eg kom til hennar, svo sjúkur og uppgefinn, að eg undireins varð að fleygja mjer niður í legubekk. Hægri handleggnum hjelt eg undir skikkju minni og varaðist að láta hann sjást.

Þegar konunni var sagt, að eg væri kominn, og að mjer væri illt, flýtti hún sjer til mín; sá hún hversu eg var fölur og hnugginn og mælti: „Elskan mín! hvað gengur að þjer?“ Eg brá á yfirdrepskap og svaraði: „Mjer er dauðillt í höfði.“ Varð hún þá sorgbitin og mælti: „Seztu niður,“ — því eg hafði staðið upp til að heilsa henni — „hvernig stendur á því — þú varst svo brattur, þegar eg sá þig seinast. — Hjer hefur eitthvað gerzt, sem þú leynir mig, segðu mjer hvað það er?“ En er eg þagði og grátur kom upp fyrir mjer, mælti hún ennfremur: „Eg skil ekki, hvað angrar þig, veld eg því óviljandi? eða kemur þú hingað til þess að segja elsku þinni slitið við mig.“ Eg svaraði andvarpandi: „Eigi er svo varið, en heldur þyngir mjer, þarsem þú gerir mjer gersakir.“ Eg gat samt ekki fengið af mjer að segja henni sannleikann. Þegar dymmt var orðið, var kvöldverður á borð borinn og beiddi hún mig að neyta nokkurs, en af því eg hafði ekki nema vinstri höndina til taks, færðist eg undan og sagðist enga lyst hafa á mat. Þá mælti hún: „Lystin mun koma þegar þú hefur látið mjer uppskátt það, sem þú leynir mig svo þrálátlega. Ólyst þín á matnum kemur af því, hvað örðugt þjer veitir að koma þjer að því.“

„Eg mun þá verða að ráðast í það,“ ansaði eg, og óðara enn eg hafði sagt þetta, skenkti hún mjer vín í skál, rjetti mjer hana og mælti: „Drekktu þetta, og mun þjer þá vaxa hugur.“

## 153. nótt.

„Eg tók við skálinni með vinstri hendinni, og kom þá upp fyrir mjer enn meiri grátur eg ekki enn áður. „Af hverju stynur

þú og grætur svo beisklega?“ spurði konan; „og því tekur þú ekki heldur við skálinni með hægri hendinni?“ „Taktu það ekki illa upp, eg hef kýli á henni,“ mælti eg; þá segir hún: „Láttu mig sjá kýlið, eg ætla að stinga á því.“ Bar eg þá það í vænginn, að það væri ekki fullþroskað enn, og tæmdi eg um leið skálina. Rann þá innanskamms á mig einsog ómegin af víninu, máttleysi og hugarvíli og sofnaði eg fast, og lá svo allt til morguns. Meðan á því stóð, hafði konan, sem langaði til að vita, hvað gengi að hægri hendi minni, skoðað undir skikkju mína og sjeð að hönd mín var afhöggin, og að eg hafði borið hana í líni; megið þjer nærri geta, hversu henni hefur brugðið við. Skildi hún þá, hversvegna eg hafði þverskallazt við sárbeiðni hennar, og sat hún alla nóttina harmandi hrakfall mitt, því henni ljek enginn efi á, að eg hefði ratað í ólánið af elsku til hennar. Þegar eg vaknaði, sá eg að vísu á henni, að hún var yfirkomin af ákafri hryggð, en ekki mælti hún orð um það, því hún vildi ekki særa mig. Hún ljet færa mjer styrkjandi fuglakjöts soð, er hún hafði látið sjóða handa mjer, beiddi hún mig að eta og drekka mjer til viðhressingar. Eg ætlaði þá að ganga burt, en hún hjelt í skikkju mína og mælti: „Eg sleppi þjer ekki hjeðan. Eg er sannfærð um, þó þú hafir ekki sagt mjer, að óhamingja sú, er þig hefur hent, hefur hlotizt af mjer. Fellur mjer það svo nær, að skammt mun eptir minnar æfi, en áður enn eg dey, verð eg að koma áformi mínu fram, sem báðum okkur er fyrir beztu.“ Gerði hún þá boð eptir yfirvaldi einu og vitnum og ljet semja skjal þess efnis, að hún gæfi mjer allar eigur sínar; þegar hún hafði borgað yfirvaldinu og vitnunum ómak sitt, og þau voru farin, lauk hún upp stórri kistu, voru í henni gullpyngjur þær, er eg hafði gefið henni frá því við fyrst þekktumst. „Þú átt þetta allt,“ sagði hún, „eg hef ekki snert á því. Hjerna er lykillinn og ertu rjettur eigandi hans.“ Eg þakkaði henni gæzku sína og göfuglyndi. „Það sem eg hef gert fyrir þig,“ mælti hún, „er einskisvert, og mun eg ekki fyrr ánægð enn eg dey og get sýnt þjer með því, hversu eg elska þig.“ Eg særði hana við allt það, sem ástinni er helgast, að láta af svo hræðilegu áformi, en mjer tókst ekki að telja hana af því. Hún

hryggðist svo mjög af því, að vita mig einhentan, að hún tók sótt og andaðist úr henni eptir fimm eða sex vikna legu. Þegar eg hafði harmað dauða hennar einsog skylt var, kastaði eg eigu minni á alla fjármuni hennar, sem eg vissi af, þar á meðal voru sesams baunirnar, sem þjer hafið selt fyrir mig.

## 154. nótt.

„Hinn ungi maður sagði hinum kristna kaupmanni áfram sögu sína þannig: „Nú er eg hef sagt yður þetta, munuð þjer vorkenna mjer, að eg hef snætt með vinstri hendinni: „Eg þakka yður fyrir ómak það, er þjer hafið haft fyrir mína hönd, en trúmennsku yðar fæ eg ekki metið til fulls. Nú með því að eg, sem guði sje lof og þökk fyrir, er nógu ríkur, þó eg hafi sóað miklu út, þá bið eg yður þiggja að gjöf af mjer fje það, er eg á hjá yður. Enn vil eg bjóða yður annan kost. Eptir atburði þá, er eg hef sagt yður frá, get eg ekki lengur verið hjer í Kairó, mun eg því kveðja borgina fyrir fullt og allt. Ef þjer viljið verða mjer samferða, skulum við verzla í fjelagskap og skipta gróða vorum til jafns.“ Þegar hinn ungi maður frá Bagdad hafði lokið sögu sinni, þakkaði eg honum sem bezt eg gat fyrir gjöfina og tók feginshendi kosti þeim, er hann bauð mjer. Við tiltókum daginn, nær við skyldum leggja á stað, og er hann kom að hendi, hófum við ferð okkar og fórum um Sýrland, Mesopotamíu og alla Persíu, dvöldum við um stund í nokkrum borgum, en loksins komum við í höfuðborg yðar hátignar. Ljet hinn ungi maður þá í ljósi við mig, að sjer væri hugur á að fara aptur til Persalands og taka sjer bólfestu þar, skildum við þá fjelagið og skiptum; kvöddumst síðan með vináttu. Eg varð hjer eptir, og varð mjer þeirrar sæmdar auðið að þjóna yðar hátign.

Svona er sagan, sem eg ætlaði að segja. Þykir yður hún ekki miklu undarlegri enn saga krypplingsins?“

Soldáninn í Kaschgar reiddist hinum kristna kaupmanni og svaraði: „Þú ert furðu djarfur, að þora að segja mjer svo ómerkilega sögu og bera hana saman við sögu krypplingsins. Heldur þú að þú getir byrlað mjer inn með þvaðri þínu,

að hin bragðlausu æfintýri þessa saurlífa unga manns sjeu merkari enn æfintýri krypplingsins? Eg skal láta hengja ykkur alla fjóra til þess að hefna dauða fíflsins míns.“ Þegar fleskmangarinn heyrði þetta, varð hann lafhræddur, fleygði sjer fram fyrir fætur soldáns og mælti: „Herra! eg bið yður auðmjúklegast að stilla reiði yðra, þó sakir sjeu til, en hlýða á sögu mína og sýna okkur fjórum líkn, efað saga sú, sem eg ætla að segja yðar hátign, er fallegri enn saga krypplingsins.“ Soldán veitti honum bæn sína og tók þá fleskmangarinn til frásagna.

## Sagan, er fleskmangari soldánsins í Kaschgar sagði.

„Herra! tíginn maður bauð mjer í gær í brúðkaup einna dætra sinna, fór eg í boðið á tiltekinni stund um kvöldið. Kom eg þar í samkvæmi lærðra manna, yfirvalda og annara hinna helztu manna í borginni. Eptir hjónavígsluna var haldin dýrðleg veizla, voru þar margskonar rjettir, en þó var einn, sem var afbragðs ljúffengur og var hvítlaukur í, vildu allir eta af honum. Einn af gestunum, bragðaði hann ekki, þó fullur diskur af honum stæði fyrir framan hann, og vjer beiddum hann hvað eptir annað, að eta hann okkur til samlætis. En hann beiddi oss umfram allt að láta sig sleppa hjá því og mælti: „Eg skal vara mig á því, að eta nokkurn rjett, sem hvítlaukur er í, en hússbóndinn gaf honum engan tíma til að svara oss, tók hann þannig til máls: „Sýnið þjer veizlu minni ekki meiri sóma enn svo? Þessi matur er ágætur og þjer skuluð ekki komast undan að smakka á honum, þjer verðið að láta að mínum orðum og snæða hann einsog hinir.“

Þá svaraði gesturinn, sem var kaupmaður frá Bagdað: „Herra! þjer skuluð eigi ætla, að eg geri þetta af tepruskap, og ef þjer fyrir hvern mun viljið, skal eg gjarna hlýða yður; en þjer verðið að leyfa mjer að þvo hendur mínar á eptir fjörutíusinnum með kalí, fjörutíu sinnum með öskusalti og einsmörgum sinnum með sápu. Þjer megið ekki taka þetta illa upp, því eg hef unnið þess dýran eið, að eta aldrei mat, sem hvítlaukur er í, nema með þessu skilyrði.

# 155. nótt.

„Húsbóndinn, sem ekki vildi láta kaupmanninn frá Bagdad komast hjá að eta hvítlauksrjettinn, skipaði þjónum sínum að koma með vatnsskál og kalí, öskusalt og sápu, til þess að kaupmaður gætið þvegið sjer þegar honum líkaði. Síðan segir hann við kaupmann: „Gerið, nú einsog vjer og snæðið!“ yður skal hvorki vanta kalí, öskusalt nje sápu.“ Kaupmaður varð leiður á nauði þessu, rjetti út höndina, tók einn bita, ljet hann skjálfandi upp í sig og tuggði hann með slíkum viðbjóð, að vjer urðum hlessa. Þó undruðumst vjer enn meir, er vjer sáum, að hann vantaði þumalfingurinn og spurði húsbóndinn hann, hvernig hann hefði misst hann. „Mig vantar hann líka á vinstri hendinni“ ansaði kaupmaður og rjetti hana fram til sannindamerkis; „eins vantar mig stóru tá á báðum fótum. Hef eg orðið fyrir meiðingum þessum fyrir fáheyrt æfintýri, sem eg skal segja yður, ef yður leiðist ekki á að heyra. Mun yður ekki síður virðast það aumkvunar vert enn undrunar, en leyfið mjer samt fyrst að þvo hendur mínar.“ Stóð hann þá upp og þvoði þær stórthundrað sinnum, því næst gekk hann til sætis síns og sagði sögu þessa.

„Eg er frá Bagdad, bjó faðir minn þar á ríkisárum kalífans, Harúns Alraschids, og þókti vera einhver hinn auðugasti verzlunarmaður í borginni. En af því hann var mjög hneigður til eyðslusemi og skemmtana, afrækti hann störf sín, og fór því svo fjærri, að eg erfði nokkra fjármuni eptir hans dag, að eg varð að hrófla öllu saman, sem eg gat, til að láta upp í skuldir hans. Tókst mjer að borga þær og fyrir eljusemi mína snjerist hagur minn mjög til batnaðar. Það bar til einhvern morgun er eg lauk upp sölubúð minni, að kona ein kom ríðandi múlasna, fylgdu henni tvær ambáttir og einn geldingur, stóð hún þar við og hjálpaði hann henni af baki og mælti: „Náðuga jungfrú! mig grunaði þetta að þjer munduð koma of snemma, enn er enginn kaupmaður á ferli. Hefðuð þjer trúað mjer, þá hefðuð þjer ekki þurft að bíða.“ Hún sást um til allra hliða, og með því engin búð var opin nema mín, kom hún nær, heilsaði mjer og beiddi mig að lofa sjer að bíða í búðinni, þangaðtil hinir aðrir kaupmenn kæmu.

# 156. nótt.

„Eg tók kveðju hennar kurteislega og settist hún niður í búð minni. Af því að enginn var á kauptorgi nema eg, geldingurinn og ambáttir hennar, tók hún blæuna frá andliti sínu til þess að draga að sjer hið hressandi morgunlopt, og hef eg aldrei litið fegri sýn. Mjer reyndist það vera hið sama, að sjá hana og elska, og hafði eg ekki auga af henni. Það virtist líka svo, sem henni þækti ekkert að eptirtekt minni, því hún ljet ekki blæuna falla niður fyrr enn hún fór að verða hrædd um, að menn mundu taka eptir sjer. Spurði hún mig eptir ýmsum hinum dýrasta og fegursta vefnaði, og varð eg að svara henni því, að eg, sem væri nýbyrjaður á verzlun, væri ekki nógu ríkur til þess að selja svo dýra vöru. „Þykir mjer leitt," mælti eg, „að geta ekkert sýnt yður af því, er yður leikur hugur á. En til þess að taka af yður ómak, skal eg, ef þjer leyfið mjer, ganga búð úr búð og sækja allt það, sem þjer viljið, undireins og kaupmenn koma. Getið þjer sagt mjer hæzta verð, sem þjer viljið borga og keypt hjer, en komizt hjá að fara lengra." Ljet hún sjer þetta vel líka; teygði eg sem lengst úr tali okkar og bar það fyrir, að kaupmenn þeir væru enn ókomnir, sem hefðu vefnað þann, er hún ætlaði að kaupa. Þó eg væri nú töfraður jafnt af vitsmunum hennar og fegurð, varð eg samt að slíta mig frá skemmtun þeirri, er eg hafði af tali okkar. Sókti eg í flýti vefnaðar tegundir þær, er hún vildi og er hún hafði valið úr, sömdum við svo, að hún skyldi borga fimm þúsund drökmur fyrir það, er hún keypti. Geldingurinn tók vöruna, konan stóð upp, kvaddi mig og gekk burt. Horfði eg á eptir henni allt að hliðum kauptorgsins þangaðtil hún stje á bak múlösnu sinni; en er hún var úr augsýn, datt mjer fyrst í hug, að blindni ástarinnar hafði glapið mig svo, að eg ekki hafði tekið eptir því, að konan hafði ekki borgað mjer, og hafði eg ekki einusinni spurt hana um nafn eða heimili. Hugleiddi eg það og, að eg nú var kominn í töluverðar skuldir til margra kaupmanna, sem ekki voru líklegir til umlíðunar, fór eg því á fund þeirra til þess að rjettlæta mig í augum þeirra, og sagði eg þeim, að eg

þekkti konuna. Gekk eg þá aptur til sölubúðar minnar eins ástfanginn og eg var áhyggjufullur útaf skuldinni.

## 157. nótt.

„Eg hafði beðið skuldheimtumenn mína um átta daga frest, og er þeir voru umliðnir kröfðust þeir borgunar. Eptir beiðni minni veittu þeir mjer átta daga frest enn, en daginn eptir kom konan með sama föruneyti og á sama tíma og áður rakleiðis til búðar minnar. „Eg hef látið standa nokkuð á mjer,“ mælti hún, „en nú kem eg með andvirði vefnaðarins. Farið með það til víxlara til þess hann prófi gjaldið og telji. Geldingurinn, sem bar fjeð, fór með mjer til víxlarans og reyndist allt með skilum, og þegar eg kom aptur, varð mjer á ný þess fagnaðar auðið, að tala við konuna. þangaðtil öllum búðum á kauptorginu var lokið upp. þó að við nú einungis töluðum um marklausa hluti, hafði hún samt lag á að víkja samtali okkar á þá leið, að eg hafði skemmtun af því, sannfærði það mig enn betur um vitsmuni hennar.

þegar hinir aðrir kaupmenn höfðu lokið upp búðum sínum, færði eg þeim fje sitt, er trúað höfðu mjer fyrir varningnum, varð mjer auðsótt að fá lán aptur á vefnaði, er konan vildi kaupa. Tók eg vefnað fyrir þúsund gullpeninga, hafði hún hann á burt með sjer, en borgaði ekki nje sagði, hver hún væri. Hugsaði eg þá með mjer: Hún hefur borgað mjer allmikið fje, en nú hef eg þó hleypt mjer í enn stærri skuld hennar vegna. Skyldi hún vera prettvís og hafa ætlað að ginna mig, til þess að steypa mjer því dýpra í glötunina? Ekki þekkja kaupmennirnir hana, og munu þeir veitast að mjer einum. Gat ástin jafnvel ekki niður þaggað hinar döpru hugleiðingar mínar útaf þessu, og fóru áhyggjur mínar dagvaxandi í heilan mánuð, því allan þann tíma gerði konan ekkert vart við sig. Kom þar loksins að skuldheimtumenn mínir vildu ekki bíða lengur, og var eg reiðubúinn til að selja allt, sem eg átti til þess að geta borgað þeim; þá kom konan allt í einu einn morgun einsog fyrri. „Sækið þjer gullvogina,“ mælti hún, „til þess að vega gullið, sem eg færi yður.“

Við þessi orð hvarf mjer allur kvíði og óx elska mín um helfing. En óðar enn gullið yrði vegið, spurði hún mig að ýmsu, og að því meðal annars, hvort eg væri kvongaður. Kvað eg nei við og sagði henni, að eg aldrei hefði verið kvæntur. Fjekk hún þá geldingnum gullið og mælti: „Hjálpa þú okkur til að afljúka kaupunum.“ Glotti þá geldingurinn, tók mig afsíðis og ljet mig vega gullið. Hvíslaði hann að mjer um leið: „Eg sje glöggt á yður, að þjer hafið ástarhug á hússmóður minni, og furðar mig mest á því, að þjer skulið ekki hafa djörfung til að játa það. Hún elskar yður enn heitar enn þjer elskið hana. Þjer skuluð eigi ætla, að hún þurfi á vefnaði yðar að halda, hingað dregur hana ekkert annað enn ást á yður og því vildi hún vita, hvort þjer væruð kvæntur. Nú er undir yður komið, hvort þjer viljið ganga að eiga hana.“ Svaraði eg þá, að eg hefði fellt ástarhug til hennar undireins og eg sá hana í fyrsta sinni, en hefði aldrei hugsað svo hátt, að eg mundi verða henni að skapi. „Eg er allur á hennar valdi,“ mælti eg, „og skal eg ekki láta góðvilja þinn ólaunaðan.“ Nú var eg loksins búinn að vega gullpeningana og meðan eg hellti þeim í pokann, snjeri geldingurinn sjer að konunni og sagði að „mjer líkaði vel.“ Þau höfðu aftalað sín ímilli að hafa þetta orðatiltæki; stóð konan upp og sagði um leið og hún kvaddi mig, að hún skyldi senda geldinginn til mín, og skyldi eg aðeins gera það, sem hann skilaði til mín frá henni. Eg borgaði kaupmönnum skuldir mínar og beið nokkra daga óþolinmóður eptir geldingnum. Loksins kom hann ....

## 158. nótt.

„Eg fagnaði geldingnum með mestu vinsemd og spurði, hvernig hússmóður hans liði. Þá svaraði hann: „Þjer eruð hinn sælasti unnusti í öllum heimi, hún er sjúk af elsku, og er ómögulegt að nokkur þreyi yður ákafar enn hún. Mætti hún ráða sjer sjálf, mundi hún leita yður upp og lifa með yður allar stundir æfi sinnar.“ Þá sagði eg: „Eg hef ráðið það af göfugri kurteisi og fagurri háttprýði hennar, að hún mundi vera tígin kona. Þar eigið þjer líka kollgátuna,“ mælti geldingurinn, „hún er vildarmær So-

beide, drottningar kalífans, þykir henni því vænna um hana, sem hún hefur uppalið hana frá blautu barnsbeini, og lætur hún hana annast öll kaup fyrir sig. Nú með því hana langar til að giptast, hefur hún látið drottningu konungs rjetttrúaðra manna uppskátt, að hún hafi kosið yður; hefur hún beðið drottningu síns jáyrðis. Sobeide hefur heitið henni því, en vill sjá yður fyrst til þess að vita, hvort hún hefur valið vel, og mun hún halda brúðkaup ef henni lízt svo. Þjer hafið þessvegna lánið í hendi yðar, því úr því þjer hafið orðið vildarmey drottningar að skapi, mun drottningu eigi lítast lakar á yður, því hún reynir á allar lundir að gleðja hana, og mun engin bönd leggja á vilja hennar. Nú ríður á, að þjer komist inn í höllina, og í því skyni er eg hingað kominn.“ „Eg er alráðinn,“ mælti eg, „og reiðubúinn til að fylgja yður hvervetna.“ „Þá er vel,“ ansaði geldingurinn, „en það munuð þjer vita, að karlmenn mega eigi koma í herbergi kvenna í höllinni, og verður yður því ekki inn komið nema með vjelum, og hlýtur slíkt að fara leynt. Vildarmærin annast það, en þjer skuluð gera hvað í yðar valdi stendur. Verið umfram allt þagmælskur því líf yðar liggur við.“

Eg lofaði að gera allt, sem fyrir mig yrði lagt, og sagði hann þá: „Komið í kvöld þegar náttar í musteri það, er Sobeide drottning kalífans hefur látið byggja hjá Tígrisfljótinu, skuluð þjer bíða þar þangaðtil þjer verðið sóktur.“ Þókti mjer langt að bíða til dagseturs, en er það var komið, fór eg á stað. Var eg í musterinu við bænagjörð þá, sem haldin er hálfri annari stundu eptir sólarlag; að henni aflokinni varð eg einn eptir. Leið nú eigi á löngu að bátur kom, rjeru honum tómir geldingar og báru upp úr honum margar stórar kistur inn í musterið, gengu þeir síðan allir á burt nema einn, sá eg að það var hinn sami, sem vanur var að fylgja unnustu minni; hún kom einnig inní musterið, gekk eg á móti henni og kvaðst boðinn og búinn að hlýða skipunum hennar. „Við megum engum tíma eyða til ónýtis,“ mælti hún, lauk upp einni kistunni og beiddi mig að fara niður í hana og hræðast ekki, kvaðst hún ábyrgjast allt. Eg var nú líka kominn of langt á leið til að snúa aptur. Fór eg því ofaní kistuna, en hún ljet hana aptur og læsti henni með lykli. Geldingurinn, trúnaðarmaður hennar, kallaði nú á

hina geldingana, og ljet þá bera allar kisturnar útá bátinn aptur; vildarmærin og hann stigu síðan bæði útí bátinn og ljetu róa honum til hallarinnar. Meðan á þessu stóð var eg næsta hugsjúkur, og er eg hugsaði til hættunnar, sem yfir mjer vofði, ljet eg hvorki skorta bænir nje áheit. Bátnum var lent við hallarhlið kalífans, voru þá kisturnar teknar og bornar í herbergi höfuðsmanns geldinganna. Hann geymir lykilinn að kvennahúsinu, og sleppir hann engu þangað inn, fyrr enn það er ransakað til hlítar. Var hann þá sofnaður og varð því að vekja hann.

## 159. nótt.

„Höfuðsmaður geldinganna ljet vildarmey drottningarinnar kenna á þykkju sinni, útaf því að honum var glapinn svefn, og átaldi hana fyrir það, að hún kæmi svo seint heim. „það skal ekki verða yður svo hægt sem þjer hugsið," mælti hann, „engin af þessum kistum skal hrærð verða hjeðan úr stað, fyrr enn þær eru vandlega ransakaðar." Skipaði hann geldingunum að taka hverja af annari og ljúka þeim upp. Tóku þeir fyrst þá, er eg var í, og kom þá yfir mig svo fjarskaleg angist, að eg hugði mjer ekki lífvænt. Vildarmær drottningar færðist samt undan að skila lyklinum, og vildi fyrir engan mun láta ljúka upp kistunni. „þjer vitið vel," mælti hún, „að eg læt ekkert flytja hingað, sem ekki er ætlað Sobeide, drottningu yðvarri og minni. Í kistu þessari eru einkum dýrmætar vörur, sem nýkomnir kaupmenn hafa trúað mjer fyrir, auk þess eru í henni nokkrar vatnsflöskur frá Sesemslindinni í Mekka og brotni nokkur þeirra eða skemmist varningurinn, þá er það yðar ábyrgðarhluti. Mundi drottning konungs rjetttrúaðra manna láta yður gjalda slíkrar ósvífni." Er stutt þar af að segja, henni fórust svo sköruglega orð, að höfuðsmaður geldinganna þorði ekki að gera henni á móti skapi, og skipaði í reiði að bera kisturnar burt og varð ekki af ransókn. Var farið með þær inní kvennabúrið, en jafnskjótt, sem þær voru komnar þangað, heyrði eg kallað: „Kalífinn kemur!" Kom þá yfir mig slíkt dauðans ofboð, að mjer er óskiljanlegt, að eg skyldi ekki deya á

augabragði. Enda kom kalífinn sjálfur og spurði vildarmeyna, hvað í kistunum væri. Svaraði hún þá: „Drottinn rjetttrúaðra manna! það er nýr vefnaður, sem drottningu yðar hátignar langar til að sjá.“ „Ljúktu þeim upp!“ segir kalífinn, „eg vil sjá hann líka,“ leitaðist hún þá við að telja hann af því og sagði, að allur vefnaðurinn væri einungis hafandi í kvennfatnað, og að hann svipti konu sína þeirri gleði, að skoða varninginn fyrst. Kalífinn skipaði henni á ný að ljúka upp kistunum. þá hafði hún þá mótbáru, að hann kæmi sjer útundan hjá hússmóður sinni, ef hann neyddi sig til að gera á móti boðum hennar, en hann lofaði henni því, að hún skyldi engum átölum sæta fyrir þá sök og sagði: „Ljúktu upp! og láttu mig ekki bíða lengur.“ Hlaut þá vildarmærin að hlýða, og kemur hrollur í mig enn, þegar eg hugsa til hræðslu minnar. Kalífinn settist niður, og var nú ein kistan borin til hans eptir aðra og lokið upp. Til þess að draga tímann sem lengst, var vildarmærin alltaf að telja honum upp kosti hverrar vefnaðar tegundar, og leitaðist hún þannig við að þreyta þolinmæði hans, því henni var ekki síður áríðandi enn mjer, að þeirri kistunni yrði ekki upp lokið, sem eg var í. þar kom samt loksins, að hún var ein eptir og mælti kalífinn þá: „Nú höfum við geymt það, sem bezt er, þangaðtil seinast;“ í þessu vetfangi veit eg valla hvort eg var lífs eða liðinn, en ómögulegt hugði eg, að eg gæti sloppið úr slíkum háska.“

## 160. nótt.

„þegar vildarmær Sobeide sá, að kalífinn vildi einnig láta ljúka upp þessari kistu, mælti hún: „Hvað þessa kistu snertir, ætla eg að biðja yðar hátign þeirrar náðar, að lofa mjer að ljúka henni upp, það er sumt í henni, sem eg ekki má sýna yður, nema kona yðar sje við.“ „Ekkert þykir mjer að því,“ ansaði kalífinn, „berið kisturnar burt.“ Sá hún undireins um, að það væri gert og ljet bera þær inní herbergi sitt, og varð mjer þá ljettara um andardráttinn. þegar geldingarnir, sem báru kisturnar, voru farnir, lauk hún upp fangelsi mínu, beiddi mig að koma upp, og vísaði

mjer til dyra, var innar af þeim stigi, en upp af honum herbergi eitt, og sagði hún mjer að bíða sín þar. En óðara enn hún hafði lokað dyrunum eptir mjer, kom kalífinn og settist á kistuna, sem eg hafði verið í. Var hann kominn fyrir forvitni sakir, og vildi vita, hvað mærin hefði sjeð og heyrt í borginni. En er þau höfðu talazt við góða stund, gekk hann aptur til herbergja sinna, en mærin kom inní herbergið, sem eg var í. Beiddi hún mig að fyrirgefa sjer alla þá angist, sem hún hefði bakað mjer og mælti: „En þjer hafið ekki verið óttaslegnari enn eg var; eg var hrædd um yður af elsku minni og hrædd um sjálfa mig, því eg var í sama háska og þjer. Mundu margar aðrar konur ekki hafa sloppið jafn vel og eg úr slíkum bobba. Þurfti bæði hugprýði og snarræðis, eða öllu heldur svo heitrar ástar, sem eg hef á yður, til þess að geta sloppið úr öðrum eins vandræðum. En nú megið þjer vera ókvíðinn og þurfið ekkert að hræðast,“ Þarna vorum við nokkra stund að tala saman með mestu blíðu þangaðtil hún mælti: „Nú er tími til kominn að þjer hvílist; leggist því niður. Einhverntíma á morgun skal eg leiða yður á fund Sobeide, drottningar minnar, og er það hægðarleikur, því kalífinn kemur aldrei til hennar nema á nóttinni.“ Hughreystist eg við þessi orð hennar og svaf vel, en yrði mjer svefninn stundum órór, þá var það með inndælu móti, því það kom af tilhlökkun minni, að eignast svo gáfaða og fríða konu.

Næsta dag sagði hún mjer, hvernig eg ætti að hegða mjer í viðurvist drottningar, og hvernig eg ætti að svara ýmsu, er hún mundi spyrja mig um; þvínæst fylgði hún mjer í stóran sal, var allt í honum aðdáanlega skrautlegt og ríkmannlegt. Óðara enn eg var kominn þangað, komu tuttugu gamlar ambáttir skrautklæddar og allar í samkyns búningi út úr herbergi Sobeide, og skipuðust með mikilli kurteisi í tvær jafnar raðir beggja megin hásætisins. Á eptir þeim komu tuttugu ungar ambáttir eins búnar og hinar fyrri, nema hvað klæði þeirra fóru betur, og gekk Sobeide fram í miðjum hópnum, hátignarleg í framgöngu. Var hún svo hlaðin gimsteinum og gersemum, að hún valla gat gengið og settist hún í hásæti. Vildarmær hennar kom með henni og stóð hjá henni til hægri handar, en hinar fylgikonurnar skiptu sjer í tvo flokka sinn hverjum megin hásætisins. Þegar drottning kalífans var sezt niður,

bentu mjer ambáttir þær, er fyrst voru komnar inn, að eg skyldi færa mig nær, og gekk eg milli raðanna allt inn að hásætinu, og fleygði mjer niður, svo að enni mitt snerti ábreiðuna undir fótum drottningar. Skipaði hún mjer þá að standa upp, spurði að nafni mínu, ætterni og efnahag, svaraði eg spurningum þessum svo, að henni líkaði vel, og gat eg bæði ráðið það af svip hennar og svari. Hún tók þannig til máls: „það fær mjer fagnaðar, að dóttir mín — því mjer þykir eins vænt um hana og hún væri dóttir mín — hefur valið sjer mann eptir geðþekkni minni, og samþykki eg giptingu ykkar. Skal eg sjálf annast allan viðbúnað til brúðkaupsins, en eg áskil dóttur minni tíu daga frest, svo að eg á þeim tíma geti öðlast samþykki kalífans. Meðan á því stendur skuluð þjer vera hjer og skal verða sjeð fyrir yður.“

# 161. nótt.

„Var eg nú tíu daga í kvennabúri kalífans og sá eigi unnustu mína allan þann tíma, en eptir skipun hennar var svo vel með mig farið, að eg mátti vera ánægður. Kalífinn ljet konu sína hafa fullt frelsi til að ráða giptingu okkar og veitti unnustu minni tölu-vert fje til heimanfylgju. þegar hinir tíu dagar voru liðnir, ljet Sobeide semja kaupmála, og var henni færður hann í fullkomnu lagasniði. Var nú efnað til brúðkaups og fengnir dansmenn og söngmenn, og var í níu daga mikið um dýrðir í höllinni. En á hinum tíunda degi skyldi brúðkaupið vera. Var okkur hjónaefn-unum fylgt til lauga, og um kvöldið settist eg til borðs, voru þar allskonar rjettir, meðal annars kjötrjettur einn með hvítlauki í, gagnlíkur þessum mat, sem eg áðan var neyddur til að snæða. Smakkaðist mjer þessi kjötrjettur svo vel, að eg bragðaði alls ekki aðra rjetti, en er eg stóð upp, ljet eg mjer til allrar óhamingju nægja, að þerra hendur mínar, í stað þess að þvo þær vandlega, hefur mig aldrei hent slíkt gáleysi fyrr nje síðar. Af því nótt var komin, var kvennabúrið dýrðlega lýst mörgum ljósum, svo ekki þurfti að sakna dagsbirtunnar; hljómaði hljóðfærasláttur, og var sleginn dans og tekið til allskonar skemmtana, glumdi undir í allri

höllinni af gleðilátunum. Okkur brúðhjónunum var fylgt inní stóran sal og vorum við látin setjast í tvö öndvegi. Konur þær, er þjónuðu brúðurinni, ljetu hana margsinnis hafa fataskipti og löguðu hár hennar margvíslega, einsog siður er við brúðkaup, var hún leidd fram fyrir mig í hvert skipti, sem hún var komin í nýan búning. En er öllum þessum hátíðlegu skyldusiðum var fullnægt, var okkur fylgt í brúðarhúsið. Jafnskjótt sem við vorum þar ein inni, færði eg mig nær konu minni og ætlaði að faðma hana, en í stað þess að taka ástar atlotum mínum, hratt hún mjer hart frá sjer og hljóðaði hátt upp yfir sig, svo að allar konur þar í húsinu flykktust að, til þess að vita hvernig á því stæði. En eg varð svo sem agndofa af undrun og hafði ekki einusinni rænu á að spyrja konu mína, hvernig á þessu stæði. En konurnar sögðu: „Elsku systir! hvað hefur þjer viljað til síðan við skildum við þig? segðu okkur það, svo að við getum hjálpað þjer.“ „Takið vesalmenni þetta burt,“ æpti hún, „svo eg sjái hann aldrei framar.“ „Elskan mín!“ tók eg þá til máls, „hvernig hef eg reitt þig til reiði?“ „Þú ert siðlaus rusti,“ mælti hún með heipt, „þú hefur etið hvítlauk, og ekki þvegið hendur þínar. Heldur þú að eg vilji koma nærri slíkum óþokka og verða veik af ódaun. Fleygið honum niður!“ sagði hún við konurnar, „og færið mjer nautasvipu!“ Þær vörpuðu mjer undireins til jarðar og hjeldu sumar um handleggi mína, en sumar um fætur, en kona mín lamdi mig miskunarlaust, þangaðtil hún varð máttlaus. Sagði hún þá við konurnar: „Hafið hann á burt með ykkur og færið hann lögreglustjóranum til þess hann láti höggva af honum höndina, sem hann át með hvítlauksrjettinn.“ En er eg heyrði þetta, kallaði eg upp: „Guð minn! eg er lúbarinn og líkt sem hjólbrotinn, á eg þá að missa höndina svo að enn bætist við ofurmegn hörmunganna? og hvað veldur? það að eg át hvítlauk og gleymdi að þvo mjer um hendurnar á eptir. Skárri er það gauragangurinn útaf engu, djöfullinn hafi allan mat, sem hvítlaukur er í, bölfaður sje sá, sem matreiddi hann, og bölfaður sje sá, sem bar hann á borð.“

# 162. nótt.

„Allar konurnar, sem sáu þegar eg var laminn með nautasvipunni, komust við af meðaumkvun, þegar þær heyrðu, að höggva ætti af mjer höndina. Leiddu þær konu minni fyrir sjónir, að hún væri of heiptrækin, og beiddu þær hana að gleyma ávirðingu minni og fyrirgefa mjer, þó eg væri ósiðaður maður og hefði misboðið tign hennar með rustahætti mínum. En hún ansaði: „Eg er ekki ánægð enn, og vil eg að hann læri góða siðu, og beri svo tilfinnanleg merki sóðaskapar síns, að hann aldrei framar á æfi sinni eti hvítlauksrjetti, svo að hann ekki þvoi sjer á eptir.“ En konurnar ítrekuðu árnaðarorð sín, fleygðu sjer fram fyrir fætur hennar og kysstu á hönd henni svo mælandi: „Tignaða frú! fyrir guðs sakir stillið reiði yðar og veitið oss bæn vora.“ Ansaði hún þeim engu, heldur stóð hún upp og ljet verstu illyrði dynja yfir mig, síðan gekk hún út úr herberginu. Fóru allar konurnar með henni, og sat eg eptir aleinn og óumræðilega sorgbitinn. Í tíu daga sá eg engan, nema ambátt nokkra gamla, er færði mjer mat, spurði eg hana, hvernig konu minni liði og svaraði hún: „Hún er veik af hinum eitraða ódaun, sem þjer hafið andað að henni. Því þvoðuð þjer yður líka ekki um hendurnar, þegar þjer höfðuð etið bannsettan laukinn?“ Hugsaði eg þá með mjer: Er þá svo vandgætt til skaps kvenna þessara, og geta þær verið svo hefnigjarnar útúr jafnlítilli yfirsjón? Þó að kona mín væri næsta skaphörð, unni eg henni samt og var mjer mikil raun að veikindum hennar. Loksins sagði ambáttin við mig einn dag: „Kona yðar er nú heilbrigð og er farin til lauga, kvaðst hún mundu vitja yðar á morgun. Hafið því þolinmæði enn og leitist við að laga yður eptir skapferli hennar. Hún er annars skýr kona og vel viti borin og unna henni allar konur þær, er þjóna Sobeide, drottningu vorri: „Kona mín kom daginn eptir og segir við mig: „Vel fer mjer við þig, að eg skuli koma til þín aptur, eptir að þú hefur gert mjer slíka skapraun. En ekki get eg sætzt við þig heilum sáttum fyrr enn eg hef refsað þjer til hlítar fyrir það, að þú ekki þvoðir hendur þínar, þegar þú hafðir etið hvítlaukinn.“ Kallaði hún þá á þjónustukonur sínar, lögðu þær mig niður á gólf og bundu mig, því-

næst tók hún skegghníf og var svo grimmúðug, að hún skar af mjer báða þumalfingur og báðar stóru tær. Ein af konunum lagði jurtarrót nokkra við sárin til að stilla blóðrásina, en blóðmissir minn varð þó svo mikill, að eg bæði af honum og sársaukanum fjell í óvit. En þegar eg raknaði við, fjekk eg vín mjer til styrkingar og sagði eg þá við konu mína: „Ef eg nokkurntíma borða hvítlauksrjett framar þá sver eg, að eg ekki skal þvo mjer einusinni, heldur stórthundraðsinnum með kalí, öskusalti og sápu.“ „Gott og vel,“ ansaði hún, „með því skilyrði skal eg gleyma því, sem gert er, og búa saman við þig einsog eiginmann minn.“ Þetta er orsökin,“ mælti kaupmaðurinn og vjek sjer að samkvæminu, „hversvegna eg ekki vildi eta hvítlauksrjettinn.“

## 163. nótt.

„Auk rótarinnar lögðu konurnar Mekkasmyrsli við sár mitt, sem munu hafa vera ósvikin, því þau voru úr lyfjasafni kalífans. Undrasmyrsli þessi læknuðu mig á fám dögum og voru nú samfarir okkar hjóna svo góðar, sem ekkert hefði á milli borið. En með því eg var vanur frjálsræðinu, leiddist mjer að vera lokaður inni í höll kalífans, en ekki þorði eg að gera konu minni það uppskátt, því eg var hræddur um, að henni mundi þykja fyrir. Allt fyrir það tók hún sjálf eptir því og langaði hana líka til að sleppa úr kreppunni, hjelt henni ekkert hjá Sobeide nema þakklátsemi ein. En með hyggindum sínum tókst henni svo vel að leiða drottningu fyrir sjónir, hversu mjer mætti vera móti skapi að geta ekki haft samblendi við jafningja mína í borginni, einsog eg væri vanur, að hin góða drottning kaus heldur að svipta sjálfa sig gleði þeirri, er hún hafði af konu minni, enn að láta á móti sameginlegri ósk okkar beggja. Mánuði eptir giptingu okkar sá eg því konu mína koma með fjölda geldinga, er báru peningapoka, og er þeir voru farnir mælti hún: „Þú hefur ekki sagt mjer, hvað þjer leiðist að dvelja hjer við hirðina, en eg hef tekið eptir því, og til allrar hamingju fundið ráð til þess að gera við því. Sobeide drottning mín leyfir mjer að fara úr höllinni; þarna

eru fimmtíu þúsund sekkínur, sem hún gefur okkur svo að við getum lifað góðu lífi í borginni; taktu tíu þúsundir sekkína af þeim og kauptu hús handa okkur.“

Eg var ekki lengi að útvega húsið þegar eg hafði svo mikið milli handa, og er eg hafði komið öllu fyrir innanhúss með viðhöfn og prýði, fluttum við í það. Hjeldum við fjölda þræla og ambátta og bárumst allmikið á, en sælulíf okkar varð ekki langgætt, því kona mín sýktist að einu ári liðnu og andaðist að fárra daga fresti. Hefði eg þá að vísu getað tekið annað kvonfang og lifað sæmilega í Bagdad, en með því mig fýsti mjög að skoða mig um í heiminum, brá eg á aðra ætlun. Seldi eg hús mitt, keypti allskonar varning og slóst í lestaferð eina til Persalands, þaðan fór eg til Samarkand og að endingu settist eg um kyrt hjer í borginni.

„Þetta er sagan, herra!“ mælti fleskmangarinn við soldáninn í Kaschgar, „sem kaupmaðurinn frá Bagdad sagði ígær í veizlunni, sem eg var í. Þá mælti soldán: „Að vísu er sumt í henni fáheyrt, en í engan samjöfnuð kemst hún við sögu krypplingsins;“ fleygði þá Gyðingurinn sjer niður fyrir fætur soldáns og mælti, er hann var uppstaðinn: „Ef yðar hátign vill auðsýna mjer þá náð að hlýða á mig, er eg vongóður um, að saga sú muni fullnægja yður, sem eg ætla að segja.“ „Segðu hana þá,“ ansaði soldán, „en ef hún ekki er fágætari enn saga krypplingsins, skaltu ekki vænta þjer lífgjafar.“

# 164. nótt.

„Þegar Gyðingurinn hafði fengið samþykki soldáns tók hann til frásagna og sagði söguna:

## Sagan, er Gyðingurinn sagði.

„Herra! þegar eg stundaði læknislist í Damaskus, og var orðinn nokkuð kunnur fyrir lækningar mínar, fjekk eg einu sinni boð með þræl nokkrum, að koma til manns, er lægi veikur hjá bæarstjóranum. Þegar eg kom þangað, var mjer vísað til herbergis

eins og lá þar ungur maður fríður sýnum og næsta máttfarinn af veikindum, heilsaði eg honum og settist niður hjá honum. Svaraði hann engu, en ljet mig skilja á augnaráði sínu, að hann skildi mig og þakkaði mjer. Beiddi eg hann að rjetta mjer hönd sína til þess eg gæti þreifað á lífæðinni, rjetti hann mjer þá vinstri höndina, og furðaði eg mig á því. Hugsaði eg þá með mjer: það kalla eg fávizku, að vita ekki, að lækni skal rjetta hægri höndina og ekki hina vinstri. Eg þreifaði samt á lífæðinni, skrifaði upp eitthvert læknisráð handa honum og gekk síðan burt.

Eg vitjaði hans í níu daga öðru hverju, og rjetti hann mjer í hvert skipti vinstri höndina þegar eg vildi þreifa á lífæðinni; á hinum tíunda degi leizt mjer hann alhress og sagði eg, að nú þyrfti hann ekki annars enn að taka laugar. Borgartjórinn í Damaskus, sem var nærstaddur, vottaði mjer gleði sína með því að láta færa mig í skrautlega skikkju, gerði hann mig og að lækni borgarspítalans og heimilislækni sínum, sagði hann mjer að eg mætti eta við bord hans, þegar mig lysti. Hinn ungi maður var líka mjög vingjarnlegur við mig og mæltist til, að eg fylgdi honum til lauga. Sá eg þar þegar þjónar hans afklæddu hann, að hann vantaði hægri höndina og var auðsjeð, að hún hafði verið afhöggin fyrir skömmu. Var þetta aðalorsök veikinda hans og var eg þess dulinn, en meðan verið var að græða hann með sára meðölum, var ráða leitað hjá mjer til þess að brunasóttin, er í hann var kominn, ekki skyldi snúast til ills. Þegar eg sá að hinn ungi maður var þannig á sig kominn, varð eg hissa og kenndi í brjóst um hann, sá hann það á mjer og mælti: „Furðið yður ekki á því að sjá mig með afhöggna hönd, eg skal einhverntíma segja yður, hvernig á því stendur og mun yður þykja sú saga undarleg.“ Þegar við vorum farnir frá laugum, gengum við til borðs, og er við höfðum matazt, fórum við að tala saman, spurði hann mig þá, hvort það mundi skaðvænt heilsu sinni, ef hann gengi sjer til skemmtunar í garði borgarstjórans fyrir utan borgina. Leyfði eg honum það og áfýsti hann jafnvel að hreifa sig úti, því það mundi mjög stuðla til heilsubata hans. „Ef svo er,“ mælti hann, „og þjer viljið ganga með mjer, skal eg á meðan segja yður sögu mína.“ Sagði eg honum að eg væri fús til að fylgja honum þann

dag; skipaði hann þá þjónum sínum að koma með ljettan málsverð og gengum við síðan útí garð borgarstjórans. Gengum við þar nokkra stund hingað og þangað og settumst á ábreiðu, sem þjónarnir breiddu undir trje nokkurt; undir því var hin bezta forsæla og sagði hinn ungi maður mjer þar sögu sína.

„Eg er frá Mússúl,“ tók hann til orða, „og er ætt mín einhver hin tignasta í borg þessari. Faðir minn var elztur tíu bræðra, voru þeir allir á lífi og kvæntir þegar afi minn andaðist. En engum af þeim varð barna auðið, nema föður mínum, og var eg einbirni hans. Vandaði hann uppeldi mitt af mestu alúð og ljet kenna mjer allt, sem tíginna manna börn verða að kunna.

## 165. nótt.

„Þegar eg var orðinn fulltíða og farinn að kynnast mönnum, bar svo til að eg einn Föstudag var staddur í hinu stóra musteri í Mússúl við hádegis bænagjörð með föður mínum og föðurbræðrum. Eptir bænagjörð fóru allir útúr musterinu nema faðir minn og bræður hans; þeir settust á gólftjald musterisins og töluðu saman. Eg settist hjá þeim og fóru þeir ósjálfrátt að tala um ferðir. Lofuðu þeir það, sem fagurt og merkilegt er í ýmsum ríkjum og höfuðborgum, en einn af föðurbræðrum mínum stóð fast á því, að eptir sögusögn margra ferðamanna væri ekkert land fegra til enn Egyptaland, og ekkert fljót fegra enn Nílelfin. Gerði eg mjer eptir lýsingu hans svo miklar hugmyndir um það, að eg upp frá þeirri stund hafði mesta hug á að ferðast þangað. Fannst mjer miklu minna um það, er hinir aðrir föðurbræður mínir sögðu, þó þeir nefndu Bagdad, er þeir kölluðu: klett Islams trúar og höfuðborg allra annara borga á jörðu, eða reyndu að halda Tígrisfljótinu fram. Þókti mjer vænt um að faðir minn lofaði Egyptaland og mælti: „Hver, sem ekki hefur sjeð Egyptaland, á það eptir ósjeð, sem merkast er á jörðinni. Þar er jarðvegurinn skírt gull, því frjófsemi hans auðgar landsbúa. Allar konur töfra með fegurð sinni eða yndislegu látbragði, og hvar er dásamlegra vatnsfall til enn Nílfljótið? jafnvel leðjan, sem það flytur með sjer í vatnavöxtum,

frjófgar akrana, svoað þeir þrautalaust veita þúsundfalt meiri uppskeru enn þeir akrar, sem annarstaðar eru ræktaðir með mestu fyrirhöfn? Heyrið það, sem skáld eitt kvað til Egyptalands manna, þegar hann varð að skilja við laudið:

Auðsæl Nílelfur
Yður veitir
Dag hvern dýrar gjafir.
Frjófgandi fljót
Úr fjöllum hinnig
Yðar vegna veltur.

Hrynja tár míń,
Er eg hjeðan sný,
Þung sem elfar unnir,
Því eg sorgbitinn
Við sveitir fagrar
Skil að skapa dómi.

Ef litið er til eyar þeirrar, er myndast af tveimur hinum stærstu ósum Nílfljótsins, hversu iðgræn er hún, hversu fjöllit af ótal glitrandi blómum, hvílíkt ógrynni er þar að sjá, bæði borga, þorpa vatnsskurða og ótal annara farsællegra hluta! En ef litið er á hinn veginn til Eþíópíu, hversu mart er þar aðdáanlegt! Hinum skrúðgrænu engjateigum, sem eru umflotnir af svo mörgum vatnsrennum, get eg ekki líkt við annað betur, enn skínandi smaragðsteina í silfurumgjörðum. Og er ekki Kairó hin mesta, fjölmennasta og auðugasta borg í heimi? Hversu skrautleg eru húsin, bæði þau, sem stjórnin og einstakir menn eiga! En ef þið komið til grafstöplanna, þá verðið þið gagnteknir af undrun og standið einsog dæmdir, þegar þið sjáið þessar feiknahrúgur, hlaðnar upp úr heljarbjörgum, nema við skýin. Hljótið þið að játa, að Faraónar þeir, er höfðu svo mikinn mann og fjárafla til að reisa þá, báru langt af öllum hinum seinni konungum jarðarinnar bæði að stórmennsku og hugviti, þarsem þeir ljetu eptir sig slíka varða til minningar um sig. Þessi minnismerki, sem eru svo gömul, að fróðum mönnum ber ekki saman um, nær þau hafi verið reist, eru ennþá til

og munu haldast um eylífð. Að eg ekki nefni sæborgir Egyptalands, Damiette, Rosette og Alexandríu, því þangað sækir mesti grúi manna óteljandi korntegundir, ljerept og aðra hluti, sem eru til gagns eða skemmtunar. Eg segi þetta af eigin reynslu, því eg hef dvalið þar mörg ár æsku minnar og mun sá tími sælastur æfi minnar.

## 166. nótt.

„Föðurbræður mínir voru því samdóma, er faðir minn sagði um Nílfljótið Kairó og Egyptaland, en mjer stóð það svo lifandi fyrir hugskots sjónum, að eg fjekk ekki sofið um nóttina. Skömmu síðar ljetu föðurbræður mínir í ljósi við föður minn, hve mikið þeim hefði fundizt til lýsingar hans á Egyptalandi, og stungu þeir uppá, að þeir skyldu allir takast þangað ferð á hendur. Tók hann vel undir það, og með því þeir bræður voru auðugir kaupmenn, rjeðust þeir í að hafa með sjer varning til sölu. Jafnskjótt sem eg varð þess áskynja, að þeir bjuggust til ferðar, fór eg til föður míns og beiddi hann grátandi, að lofa mjer með sjer, og fá mjer í hendur nokkurn varning, sem eg mætti sjálfur selja. Svaraði hann því, að eg væri of ungur til svo erfiðrar ferðar, kvaðst hann þar að auki vera sannfærður um, að eg mundi illt af hljóta. Allt fyrir það rjenaði ferðahugur minn hvergi, og fyrir milligöngu föðurbræðra minna hafði eg út leyfi, til að fara með þeim til Damaskus, og vera þar meðan þeir færu leiðar sinnar til Egyptalands. Faðir minn kvað margt fagurt vera að sjá í Damaskus, og skyldi eg láta mjer lynda að fara svo langt. Ljet eg hann ráða þessu, svo ákaft sem mig langaði til Egyptalands. Vjer lögðum á stað frá Mússúl, fórum gegnum Mesopotamiu yfir Euphrat og komum til Aleppó, og vorum þar tvo daga. Þvínæst hjeldum vjer til Damaskusborgar og brá mjer vel við að sjá hana; fórum vjer þar allir til gestaherbergis nokkurs. Nú var eg kominn í stóra, fjölbyggða og glæsilega borg; vorum vjer þar nokkra daga og skoðuðum hina inndælu aldingarða er liggja kringum hana, og bar oss saman um, að það væri rjetthermt, er sagt er: að Damaskus liggi

mitt í paradís. Loksins fóru föðurbræður mínir að hugsa til ferða, en fyrst seldu þeir varning þann, er eg átti, mjer til svo mikils ábata, að eg græddi fimm hundruð á einu hundraði, og varð eg stórglaður við svo mikið fje. Föðurbræður mínir og faðir minn skildu mig þvínæst eptir í Damaskus og fóru leiðar sinnar. En er þeir voru farnir, gætti eg þess vandlega, að eyða fje mínu ekki til óþarfa. Að vísu leigði eg mjer skrautlegt hús hjá gimsteina kaupmanni nokkrum, var það allt gert af marmara, og voru á það dregnar laufmyndir með gullnum og himinbláum lit, fylgdi því og aldingarður með hinum fegursta lystihver. En ekki vandaði eg svo búnað þess að innan, sem jafn skrautlegu húsi hæfði, en þó svo að í minni stöðu mátti fullvel sæma. Eg lifði í öllu hófi, hjelt allmarga þjóna, veitti kunningjum mínum hjá mjer eða þeir veittu mjer, og gekk á því meðan eg beið apturkomu föður míns til Damaskus. Engin ástríða glapti rósemi mína og viðkynning góðra manna var öll mín skemmtun.

Einn dag sat eg fyrir utan dyrnar á húsi mínu til þess að draga að mjer hressandi lopt, þá kom til mín kona vel búin og fríð að því er mjer virtist, spurði hún mig, hvort eg hefði ekki vefnað til sölu, og gekk inn í hús mitt.

# 167. nótt.

„Þegar eg sá hana fara inn í hús mitt, gekk eg undireins á eptir henni, lokaði dyrunum og leiddi hana inn í sal einn og bauð henni sæti: „Göfuga frú!“ tók eg til máls, „eg átti vefnað, sem vert hefði verið að sýna yður, en því er verr, að eg hef ekkert af honum sem stendur.“ Þá tók hún blæuna frá andliti sínu og var það svo afbragðs frítt, að í brjósti mínu tóku að hreifa sjer tilfinningar, er eg aldrei fyrr hafði þekkt. „Eg þarf einskis vefnaðar,“ mælti hún, „eg kom ekki hingað vegna annars enn yðar sjálfs, til þess, að vera hjá yður í kvöld, ef þjer eruð ekki vant við látinn, og læt eg mjer lynda ljettan kvöldverð.“ Þetta æfintýri fjekk mjer mesta fagnaðar og skipaði eg þjónum mínum að bera vín og ýmskonar aldin á borð. Snæddum við og drukkum

og gömnuðum okkur frammá miðnætti, og hef eg enga sælli nótt lifað, það sem af er æfinnar. Morguninn eptir ætlaði eg að stinga tíu sekkínum í hönd hinnar fögru konu, en hún hnykkti aptur hendinni og mælti: „Eg kom ekki hingað af ágirnd, og styggið þjer mig með þessu. Er mjer svo fjærri skapi að þiggja fje af yður, að eg vil heldur að þjer þiggið af mjer, ella mun eg ekki optar koma á yðar fund.“ Tróð hún þá upp á mig tólf sekkínum og kvaddi mig svo mælandi: „Bíðið mín í þrjá daga og mun eg á þriðja degi koma eptir sólarlag.“ Eg fann vel á mjer, að hún hafði hjarta mitt á burt með sjer. Hún kom aptur á tilteknum tíma og fagnaði eg henni svo vel, sem vænta má af þeim, er þráir af óðfúsri ást. Leið kvöldið og nóttin allteins og í fyrra skiptið, og lofaði hún morguninn eptir að koma innan þriggja daga, en ekki fór hún fyrr enn eg hafði þegið af henni tíu sekkínur. En er hún kom í þriðja sinn og vínið var tekið að svífa á hana mælti hún: „Hvernig lízt yðar á mig? er eg ekki falleg og skemmtileg?“ Svaraði eg þá: „Þetta þykir mjer óþarfa spurning, þarsem eg hef sýnt yður svo margfaldan vott elsku minnar. Eg er frá mjer numinn af því að vera unnusti yðar, þjer eruð drottning mín, þjer eruð öll sæla lífs míns.“ Þá mælti hún: „Eg veit fyrir víst, að þjer munduð ekki tala slíkt ef þjer hefðuð sjeð eina af vinkonum mínum, sem bæði er yngri og og fríðari enn eg, og svo glaðlynd, að hún getur komið hinum þunglyndasta manni til að hlægja. Eg verð að koma með hana; eg hef sagt henni frá yður og brennur hún af löngun eptir að sjá yður. Hefur hún beðið mig að gera sjer það til eptirlætis, en eg hef ekki þorað að gera henni að skapi fyrr, enn eg talaði við yður.“ „Gerið sem þjer viljið,“ ansaði eg, „en hversu mjög sem þjer lofið vinkonu yðar, þá er hjarta mitt yður áhangandi þrátt fyrir alla fegurð hennar, og það svo fast, að ómögulegt er að slíta það frá yður!“ „Hafið gætur á yður,“ mælti hún, „eg mun leiða elsku yðar í þunga freistni.“ Þegar við kvöddumst um morguninn fjekk hún mjer fimmtíu sekkínur. „Munið það!“ mælti hún, „að innan tveggja daga kemur til yðar nýr gestur og búizt til að fagna honum vel. Við munum koma um sama leyti og eg er vön að koma, eptir sólarlag.“ Ljet eg á hinum ákveðna degi prýða salinn og efna til góðrar máltíðar.

# 168. nótt.

„Eg kvaldist af óþolinmæði meðan eg beið eptir konunum, en um dagsetur komu þær og tóku blæurnar frá andliti sínu. Svo sem eg hafði orðið frá mjer numinn af fegurð hinnar fyrri, varð eg þó enn hugfangnari af vinkonu hennar. Andlit hennar var allt við sig og fullkomið, með fegurstu litaskiptum, og voru augu hennar svo skær, að eg þoldi valla ljóma þeirra. Eg þakkaði henni sóma þann, er hún sýndi mjer með því að koma á minn fund, og beiddi hana að virða á betra veg, ef viðtökurnar færu ekki eptir verðleikum hennar. Svaraði hún þá: „Sleppið allri óþarfa hæversku, og ætti betur við, að eg talaði svo til yðar, þarsem þjer leyfðuð vinkonu minni að hafa mig með sjer. En fyrst þjer leyfið mjer að vera hjer, skulum við ekki um annað hugsa enn að skemmta okkur.“ Eg hafði áður skipað, að jafnskjótt sem konurnar kæmu, skyldi reiða fram mat og vín, og settumst við því til borðs. Hin nýi gestur minn sat andspænis mjer, og horfði án afláts á mig, síbrosandi. Eg fjekk eigi staðizt þessi sigrandi augu og tók hún hjarta mitt, svo eg kom engri vörn fyrir. En jafnframt sem hún innbljes mjer ástinni, glæddist hún og hjá sjálfri henni, og sagði hún mörg blíðmæli við mig hispurslaust. Konan, sem eg hafði kynnzt fyrr við, hafði auga með okkur, hló í fyrstunni og mælti: „Eg sagði yður alltjend, að yður mundi lítast vel á vinkonu mína og hafið þjer nú þegar rofið trúnaðareidinn, sem þjer unnuð mjer.“ Eg svaraði líka hlæjandi: „Elskan mín! þá mættuð þjer kvarta undan mjer, ef eg ekki sýndi kurteisi tíginni konu, sem þjer hafið komið með í hús mitt, og mættuð þið þá báðar ámæla mjer fyrir, að eg ekki kynni að fagna gestum mínum.“ Hjeldum við nú áfram að drekka og jafnframt því sem vínið sveif á okkur, fórum við hin nýkomna kona og eg að gera okkur svo dælt hvert við annað, að vinkona hennar fylltist brennandi afbrýði. Hún stóð upp og sagði um leið og hún gekk út, að hún mundi undireins koma aptur; en rjett á eptir bliknaði hin fagra kona í framan, sem eptir var inni hjá mjer, og fjekk óstjórnlegann sinadrátt, kallaði eg á menn til hjálpar henni, en hún andaðist samstundis í faðmi mínum. Gekk eg undireins út og sögðu þjónar mínir að

hin konan væri farin burt. Grunaði mig því, að hún mundi valda hinum sviplega dauða vinkonu sinnar. Enda var svo og hafði hana ekki skort illsku nje lagkænsku til að byrla henni eitur í síðustu skálinni, sem hún rjetti henni. Fjellzt mjer mikið um atburð þenna og vissi eigi hvað úr skyldi ráða, eða hvað um mig mundi verða. Hugsaði eg, að eg mætti engum tíma eyða til ónýtis, ljet eg því við tunglsskin næsta hljóðlega taka upp eina af marmarahellum þeim, er lagðar voru yfir húsgarðinn, ljet eg greptra líkið þar, og leggja helluna í samt lag. Þvínæst klæddist eg ferðafötum, tók alla peninga mína, lokaði dyrunum, innsiglaði þær og galt gimsteinakaupmanninum fyrirfram eins árs húsaleigu; beiddi eg hann að geyma lyklana og sagði honum, að eg yrði í skyndingu að fara til föðurbræðra minna í Kairó. Síðan kvaddi eg hann og lagði á stað með fylgdarmönnum mínum.

## 169. nótt.

„Eg náði farsællega til Kairó og bar það fyrir við föðurbræður mína, sem furðuðu sig á komu minni, að eg hefði ráðizt í ferð þessa af leiðindum og áhyggjum, af því eg ekkert hefði frjett til þeirra. Fögnuðu þeir mjer vel og lofuðu að sjá svo um, að faðir minn skyldi fyrirgefa mjer ferð þessa, er eg hafði farið í óleyfi hans. Eg bjó í sama gestaherbergi og þeir og varð skjótt kunnugur öllu því, sem vert er að sjá í Kairó. Eptir að þeir höfðu selt varning sinn, bjuggust þeir til heimferðar, en af því mig langaði til að sjá meira af Egyptalandi, fór eg á laun til gestaherbergis nokkurs, er lá langt frá því, sem þeir bjuggu í, og varð þeim ekki samferða. Leituðu þeir mín vandlega og fundu hvergi, hjeldu þeir því, að eg mundi hafa yðrast eptir að hafa farið til Kairó gegn vilja föður míns, og þessvegna horfið aptur til Damaskus; fóru þeir á stað í þeirri von, að þeir mundu hitta mig þar. Eg dvaldi nú þrjú ár í Kairó til þess að seðja forvitni mína á því, að sjá öll furðuverk Egyptalands. Um þenna tíma sendi eg gimsteina kaupmanninum í Damaskus húsaleigu, og fór þangað loksins með þeim ásetningi, að dvelja þar nokkur ár.

Gimsteinakaupmaðurinn tók mjer vingjarnlega og fylgdi mjer til húss míns og var innsiglið fyrir því óskert. Fór eg inn og var þar allt einsog þegar eg skildi við það. Þegar salurinn var sópaður og þveginn, sem eg hafði snætt í með konunum, fann einn af þjónum mínum hálsmen úr gulli með tíu stórum og fögrum perlum, fjekk hann mjer það, og kannaðist eg við, að það var hið sama, sem hin unga kona hafði borið, er drepin var með eitrinu. Skildi eg, að það mundi hafa dottið af hálsi hennar svo að eg tók ekki eptir. Eg gat ekki horft á það ógrátandi, því eg minntist hinnar elskulegu konu, er eg hafði sjeð deya svo hryggilegum dauða, braut eg menið saman og stakk því í barm minn. Þegar eg hafði hvílt mig nokkra daga eptir hina erfiðu ferð, fór eg að leita upp fornvini mína, hugsaði eg ekki um annað enn skemmtanir, og var allt fje mitt uppgengið fyrr enn eg vissi af. Í vandræðum þessum rjeði eg af, að selja heldur menið enn nokkuð af húsgögnum mínum, fór eg því með það, til kauptorgs, tók kallara einn afsíðis, sýndi honum dýrgrip minn og beiddi hann að sýna gimsteinakaupmönnum. Maðurinn varð hlessa á fegurð hálsmensins, virti það lengi fyrir sjer og mælti: „Enn hafa kaupmenn vorir aldrei sjeð neitt svo dýrmætt? þeir munu verða stórglaðir og bjóða hver í kapp við annan.“ Að svo mæltu fylgdi hann mjer til sölubúðar einnar, vildi svo til, að það var búð hússbónda míns; þar beiddi hann mig að bíða sín, Meðan hann með mestu íbyggni gekk úr einni búðinni í aðra og bauð hálsmenið til sölu, settist eg á tal við gimsteinakaupmanninn, sem varð feginn að finna mig. Þegar kallarinn kom aptur tók hann mig afsíðis, en í stað þess að bjóða í minnsta lagi tvö þúsund sekkínur fyrir menið, sór hann mjer, að enginn vildi gefa meira enn fimmtíu, því perlurnar væru sviknar. Eg hafði ekkert vit á perlum og trúði því manninum kvaðst eg treysta honum og öðrum, sem betra skynbragð hefðu á þeim, og skyldi hann færa mjer peningana undireins. En kallarinn hafði boðið mjer fimmtíu sekkínur fyrir hönd einhvers hins ríkasta gimsteinakaupmanns á kauptorginu, til þess að komast eptir, hvort eg vissi hið sanna verð mensins. Óðara enn kallarinn hafði sagt honum, hverju eg svaraði, fór hann með honum til lögreglustjóra, sýndi honum menið og mælti:

„Herra! meni þessu hefur verið stolið frá mjer og þjófurinn, sem hefur tekið á sig kaupmanns gerfi, er svo ósvífinn, að hann býður það hjer til sölu og er sjálfur á torginu. Hann lætur sjer nægja fimmtíu sekkínur fyrir þá gersemi, sem er tvö þúsund sekkína virði; sýnir það ljóslega að hann er þjófur að meninu.“ Lögreglustjórinn ljet jafnskjótt taka mig fastan og leiða mig fyrir sig, spurði hann mig, hvort eg hefði ætlað að selja menið á kauptorginu, kvað eg já við og spurði hann þá, hvort eg hefði ætlað að láta það á fimmtíu sekkínur. En er eg hafði játað því, mælti hann í háði: „Gefið honum iljabarning, hann mun fljótt játa, að hann er ekki annað enn falsari, þó hann sje í fallegum kaupmanns fötum. Lemjið hann þangaðtil hann meðgengur.“ Hin hörðu slög knúðu mig loksins til að segja ósannindi, og játaði eg því þvert á móti sannleikanum, að eg hefði stolið meninu, ljet þá lögreglustjórinn óðara höggva af mjer höndina. Varð mikill þyss af þessu á kauptorginu og jafnskjótt sem eg var kominn heim, kom húseigandinn og mælti: „Sonur! þú virðist vera skynsamur og vel uppalinn unglingur, hvernig gaztu þá fengið af þjer að drýgja svo auðvirðilegt verk, sem eg heyri um talað? þú hefur sjálfur sagt mjer af efnahag þínum og efast eg ekki um, að svo muni vera, sem þú sagðir, en því beiddirðu mig ekki um fje? eg mundi fúslega hafa lánað þjer. En einsog nú er komið, get eg ekki lengur þolað þig í húsum mínum, vertu þjer því úti um annað herbergi.“ Mjer var mesta skapraun að orðum hans og beiddi eg hann grátandi að lofa mjer að vera hjá sjer í þrjá daga. „Æ! hvílíkt ólán! hvílík svívírðing!“ kallaði eg upp, „á eg að hætta á það að koma aptur til Mússúl? mun eg geta sannfært föður minn um sakleysi mitt með öllu því, er eg færi mjer til rjettlætingar.

# 170. nótt.

„Þremur dögum eptir að þessi óhamingja hafði hent mig, brá mjer illa við er húseigandinn og flokkur lögregluþjóna komu með kaupmanni þeim, er ranglega hafði ákært mig fyrir stuld á

hálsmeninu. Eg spurði, hvert erindi þeirra væri, en í stað þess að svara mjer, bundu þeir mig, kefluðu mig og hundskömmuðu mig; sögðu þeir að borgarstjórinn í Damaskus ætti menið, hefði hann misst það fyrir þremur árum og ein af dætrum hans horfið um sama leyti. Nú megið þið nærri geta, hvernig mjer varð við þessa sögu. Allt fyrir það einsetti eg mjer, að segja borgarstjóranum sannleikann og láta undir því vera komið, hvort hann fyrirgæfi mjer eða fyrirdæmdi mig. það þókti mjer góðs viti, er eg var leiddur fram fyrir hann, að hann horfði vorkunsamlega til mín og ljet leysa mig úr böndum. þegar hann hafði spurt mig, hvort eg væri sá, sem bauð perlumenið til sölu, og eg hafði játað því, tók hann þannig til máls: „Eg er viss um, að hann hefur ekki stolið því, og fær mjer undrunar að honum hefur verið slíkur órjettur gjör.“ Við þetta óx mjer hugur og mælti eg: „Herra! eg sver yður, að eg er með öllu saklaus, og það er sannfæring mín að hálsmenið hafi aldrei verið eign ákærandans, hef eg aldrei sjeð hann fyrr, og er það illmennsku hans að kenna, að eg hef orðið fyrir svo óviðurkvæmilegri meðferð. Að vísu hef eg játað stuldinum á hendur mjer, en það var fyrir eintómar pyndingar og af ástæðu einni, sem eg skal segja yður ef þjer viljið hlýða á.“ þá mælti borgarstjóri: „Nú veit eg svo mikið, að yður skal ekki verða synjað alls þess rjettar, sem þjer eigið heimting á. Dragið hinn lýgna sakarábera burt og skal hann að vörmu spori þola hina sömu refsingu, og hann hefur bakað unglingi þessum, sem eg veit að er saklaus.“ Skipun þessari var undireins fullnægt. Eptir það ljet borgarstjóri alla, sem viðstaddir voru, ganga út og mælti við mig: „Sonur! seg mjer án ótta og undandráttar, hvernig kom hálsmenið í þínar hendur?“ Sagði eg honum það og gat þess, að eg hefði heldur viljað heita þjófur, en segja frá hinum hryggilega atburði. þegar eg var þagnaður kallaði borgarstjórinn upp: „Mikli drottinn! þínar ráðsályktanir eru óskiljanlegar og oss ber að taka þeim möglunarlaust; með djúpri auðmýkt tek eg mótlæti því, sem þjer hefur þóknast að leggja mjer á herðar.“ þvínæst vjek hann sjer að mjer og mælti: „Sonur! fyrst þú hefur sagt mjer tildrög óhamingju þinnar, sem fær mjer mikillar hryggðar, skal eg segja

þjer frá mínu óláni. Vita skaltu að báðar konurnar, sem þú sagðir mjer frá, voru dætur mínar.

# 171. nótt.

„Sú konan, sem fyrst var svo ósvífin að leita á fund þinn, var elzt allra dætra minna. Eg hafði gipt hana bróðursyni mínum í Kairó, en hann andaðist og kom hún aptur til mín, spillt af allskonar ósiðum, er hún hafði numið á Egyptalandi. Áðurenn hún kom, hafði yngri systirin, sem dó svo hörmulega í faðmi þínum, verið skynsöm og hegðað sjer svo, að eg gat ekkert að fundið. En hin eldri leiddi hana smámsaman afvega, þangaðtil þær voru báðar orðnar jafnspilltar. Þegar eg saknaði hennar daginn eptir um leið og eg settist til borðs, og eg spurði eptir henni, tók hin eldri að gráta beisklega, svo að eg bjóst ekki við góðu. Lagði eg fast að henni, að hún skyldi segja mjer sannleikann og svaraði hún þá grátandi: „Faðir minn! eg veit ekki annað enn að hún systir mín gekk út í gær í beztu fötunum með perlumenið og er ekki komin enn.“ Ljet eg þá leita að dóttur minni um alla borgina og kom fyrir ekki, en hin eldri harmaði og grjet óaflátanlega dauða systur sinnar og yðraðist hún vafalaust eptir hina óstjórnlegu afbrýðisemi; smakkaði hún ekki mat og leiddi þannig hina hryggilegu æfi sína til lykta. Þetta er hlutskipti manna, svona er ólánið, sem yfir þeim vofir,“ mælti borgarstjórinn ennfremur, en úr því við erum báðir jafn ólánsamir, þá látum okkur bera harma okkar sameginlega og aldrei skiljast. Eg gef þjer til eiginkonu hina þriðju dóttur mína, sem er yngri og fríðari enn systur hennar og ólík þeim í dagfari sínu, munuð þið eiga skap saman; uppfrá þessu er hús mitt þín eign og eptir mig látinn takið þið bæði allan arf.“ „Herra!“ svaraði eg, „eg er einsog forviða af allri góðsemi yðvarri og mun eg aldrei til fulls fá vottað yður þakklátsemi mína.“ „Sleppum því!“ mælti hann, „við skulum ekki eyða tímanum með fánýtu hjali.“ Þvínæst ljet hann sækja vitni og fór giptingin fram viðhafnarlaust. Hann gerði og mjer í hag upptækar eigur gimsteinakaupmannsins,

er ranglega hafði ákært mig, voru þær töluverðar. Vitið þjer, sem eruð hjer einsog heimamaður, hvert álit borgarstjórinn hefur á mjer. Vona eg nú að þjer fyrirgefið mjer ókurteisi mína, að eg í sjúkleika mínum rjetti yður vinstri höndina í stað hinnar hægri. Svona var sagan, sem hinn ungi maður frá Mússul sagði mjer," mælti Júðalæknirinn við soldáninn í Kaschgar. „Eg var í Damaskus þangaðtil borgarstjórinn dó, og með því eg var ungur er það gerðist, rjeðist eg í ferðalag, fór í gegnum Persaland og kom til Indíalands; loksins tók eg mjer bólfestu í höfuðborg ríkis yðvars og leik eg hjer læknislist mína við góðan orðstír."

Soldáninum í Kaschgar þókti saga þessi að vísu merkileg, en ekki eins undrunarverð og krypplingsins, gaf hann því ekki heldur Júðalækninum líf, heldur vildi hann láta hengja þá alla fjóra. Þá fjell skraddarinn fram fyrir hann, beiddi hann um frest og mælti: „Úr því yðar hátign hlýðir fúslega á skemmtilegar sögur, þá mun yður ekki líka illa sú, er eg nú ætla að segja." „Eg skal að vísu hlýða á hana," ansaði soldán, en vonastu ekki eptir lífgjöf, nema þú segir sögu, sem er skemmtilegri enn krypplingsins." Tók þá skraddarinn óhræddur til frásagna.

## Sagan, er skraddarinn sagði.

„Herra! maður nokkur hjer í borginni bauð mjer fyrir tveimur dögum til veizlu einnar, er hann hjelt vinum sínum í gær; fór eg þangað á tilteknum tíma og var þar nær tuttugu manns fyrir. Vjer biðum eptir hússbóndanum, sem var genginn út erinda sinna, en hann kom skjótt og fylgdi honum ungur maður útlendur, vel búinn og fríður sýnum, en haltur. Stóðum vjer þá allir upp hússbóndanum til virðingar, buðum vjer útlendingnum að setjast hjá oss í legubekkinn. Þáði hann það, en í því hann var að setjast niður, varð honum litið til rakara eins, sem var í boðinu, hrökk hann þá aptur snúðugt og ætlaði að fara út. Hússbóndinn undraðist þetta, aptraði honum og mælti: „Hvert ætlið þjer? eg kom með yður hingað, til þess þjer skylduð vera í veizlu, er eg held vinum mínum, en jafnskjótt, sem þjer eruð kominn inn, viljið þjer fara burt." Hinn ungi útlendingur mælti þá: „Fyrir guðs sakir, haldið mjer ekki aptur, lofið mjer að fara. Það fer um mig

hryllingur, þegar eg horfi á rakarann þarna, viðurstyggðina þá. Þó hann sje fæddur á því landi, þarsem allir menn eru hvítir, er hann samt líkur blökkumanni; en sálin í honum er þó enn svartari enn andlitið.“

# 172. nótt.

„Þegar vjer heyrðum þetta, urðum vjer forviða og fengum illan hug til rakarans þó vjer ekki vissum, hvort hinn ungi útlendingur hefði rjett að mæla. Kváðum vjer uppúr og sögðumst engan mann þola við borð vort, sem svo viðbjóðslega væri lýst. Hússbóndinn beiddi þá útlendinginn að segja, hvað honum gengi til að hata rakarann og svaraði þá hinn ungi maður: „Herra! Þjer skuluð vita, að þessum bölfaða rakara er um það að kenna, að eg er haltur, og af hans völdum hefur mig hent hið grimmasta ólán, sem hugsast getur. Hef eg því svarið, að flýa alla staði, þarsem hann er, og dvelja í engri borg, sem hann býr í. Þessvegna fór eg frá Bagdad og skildi hann þar eptir, og fór eg hina löngu leið hingað til þess að taka mjer bólfestu mitt í hinu stóra Tattaralandi, því eg vonaði, að hann aldrei mundi koma fyrir augu mín þar. Þvert á móti von minni hitti eg hann hjer og verð eg því, þó mjer sje nauðugt, að synja mjer þeirrar sæmdar að sitja í gleðiboði yðar. Eg ætla að fara úr borginni þegar í dag, og reyna til að fela mig einhversstaðar, þar sem hann ekki verður á vegi mínum.“ Að svo mæltu ætlaði hann að fara, en hússbóndinn og vjer gestirnir lögðum fast að honum og beiddum hann að vera kyrran og segja oss, af hverju andstyggð hans á rakaranum væri sprottin. Hinn ungi maður ljet til leiðast, settist í legubekkinn og snjeri bakinu að rakaranum til þess, að sjá hann ekki; þvínæst sagði hann oss sögu sína á þessa leið:

„Faðir minn var göfugur maður í Bagdad og borinn til hinna æðstu embætta, en þrátt fyrir það kaus hann heldur að lifa í kyrð enn að njóta allra þeirra virðinga, er hann átti kost á. Eg var einbirni hans og er hann andaðist, skorti mig eigi aldur nje þroska til að ráða hinum miklu fjármunum, er hann ljet mjer eptir sig.

Fór eg svo vel með auð minn, að allir menn virtu mig. Engar ástríður höfðu enn hreift sjer hjá mjer, og fór því svo fjærri, að eg væri gjarn til ásta, að eg, þó skömm sje frá að segja, forðaðist alla viðkynning við konur. Einn dag er eg var úti á stræti, sá eg koma á móti mjer fjölda kvenna, beygði eg þá útaf leið minni inn í annað stræti til þess að verða ekki á vegi þeirra; settist eg þar á bekk einn fyrir utan hússdyr. Andspænis mjer var gluggi og stóð fyrir neðan hann ker með fegurstu blómum í, og varð mjer starsýnt á. Í sama vetfangi var lokið upp glugganum og sá eg þá unga mey, sem þvínær blindaði augu mín, og um leið og hún döggvaði blómin með hendi sinni, sem var hvítari enn alabastur, horfði hún á mig brosandi, og leizt mjer nú þeim mun betur á hana, sem eg áður hafði haft óbeit á kvennfólki. En er hún hafði vökvað blómin, renndi hún töfrandi ástar augum til mín, svo að hjarta mitt varð gagntekið, þvínæst lokaði hún glugganum og skildi við mig í svo ringluðu og órósömu hugar ástandi að því verður eigi með orðum lýst. Í sama bili heyrði eg háreysti í strætinu, og kom eg við það til sjálfs mín; stóð eg þá upp og litaðist um. Sá eg hinn æðsta dómara borgarinnar koma ríðandi múlasna og fylgdu honum fimm eða sex þjónar; fór hann af baki hjá húsinu, þarsem yngismærin hafði lokið upp glugganum, og gekk þar inn, rjeði eg af því að hann mundi vera faðir hennar. Þegar eg kom heim til mín voru skapsmunir mínir harla frábrugðnir því, sem þeir voru þegar eg gekk út; eg var nú í uppnámi af ástríðu, sem var því ákafari, sem eg aldrei hafði orðið var við hana fyrr. Eg lagðist til hvíldar og var ólga í blóði mínu. Olli það mikilli hryggð á heimili mínu og margir ástvinir mínir, sem urðu áhyggjufullir útaf þessum snögglegu veikindum, komu til mín og spurðu mig, hvernig á þeim stæði, en eg var svo hygginn, að eg þagði yfir því. Urðu þeir því hræddari um mig og fengu læknarnir alls ekki hughreyst þá, því þeir þekktu ekki sjúkleika minn, og vesnaði mjer af meðölum þeirra. Tóku menn að örvænta mjer lífs, en þá vildi svo til að gömul kona, sem vinir mínir þekktu, heyrði talað um veikindi mín og kom hún til mín. Hún virti mig grandgæfilega fyrir sjer og spurði mig úr spjörunum; sá hún hvað sjúkleika mínum mundi valda. Eptir tilmælum hennar gengu

allir útúr herberginu, sem viðstaddir voru, og þegar við vorum tvö ein, settist hún við höfðalagið og mælti: „Þjer hafið til þessa þverskallast við að segja orsakir sjúkleika yðar; nú þurfið þjer ekki að segja mjer þær, því eg er svo reynd, að eg þekki þær, þó þjer ekki segið mjer, og ekki munuð þjer bera á móti því, að þjer eruð sjúkur af elsku. Eg skal gera yður alheilan af meini þessu, ef þjer segið mjer, hver sú er, sem bar gæfu til að sigra svo harðsnúið hjarta, sem yðar er, því þjer eruð enginn kvenna vinur kallaður, og hafa fleiri tekið eptir því enn eg. En nú er það fram komið, er eg sá fyrirfram og þykir mjer vænt um, að mjer gefst tækifæri til að hjálpa yður úr vandræðum þessum með mínu fulltingi.“

## 173. nótt.

„Þegar hin gamla kona hafði talið þannig um fyrir mjer þagnaði hún, en þó mjer finndist mikið um orð hennar, þorði eg ekki að birta henni hugskot mitt, svaraði eg því engu, en varpaði öndinni mæðilega og snjeri mjer að henni. „Komið þjer yður ekki að því að tala,“ mælti hún, „fyrir uppburðaleysi eða tortryggni? efist þjer um, að eg geti staðið við orð mín? eg gæti nefnt ótal unga menn af kunningjum yðar, sem eg hef hjálpað úr samkyns vandræðum.“ Hin góða kona hjelt þannig áfram að tala til mín og kom mjer loksins til að ljúka munni sundur, og sagði eg henni, hvað að mjer gengi og hvernig æfintýri mitt hefði atvikast. Lofaði eg henni öllu fögru ef hún gæti komið mjer í mjúkinn hjá hinni fögru mey. Svaraði hún þá: „Sonur! eg þekki þá, er þjer talið um, og eigið þjer kollgátuna, að hún er dóttir hins æðsta dómara í borginni. Mjer þykir ekki kyn, þó þjer elskið hana, því hún er hin fegursta og elskulegasta mær í Bagdad, en hitt fær mjer áhyggju, að hún er næsta stórlát og er örðugt að fá hana í tal. Auk þessa vitið þjer, hversu ríkt dómarar vorir ganga eptir, að hinna hörðu laga sje gætt, er halda konum í þungbæru ófrelsi, og þeim mun strangari eru þeir á heimilinu, en dómari sá, er þjer sáuð, tekur öllum öðrum fram í þessu. Með því þeir ávallt innræta dætrum sínum, að það sje stórglæpur að láta karlmann sjá

sig, þá trúa þær því svo fastlega, að ef þær einhverntíma ganga út, hafa þær ekki augun af veginum, sem þær ganga á. Að vísu hygg eg að dóttir hins æðsta dómara sje ef til vill ekki svo skapi farin, en samt er eg hrædd um, að ekki verði minni örðugleikar af hennar hálfu enn föður hennar. Hefði drottni þóknast að láta yður elska einhverja aðra, mundi mjer hafa veitt allt hægra. Eg skal samt hafa alla kænsku mína við, en engu mun eg koma áleiðis nema eg hafi tímann fyrir mjer; meðan á því stendur skuluð þjer ekki láta hugfallast, heldur treysta mjer.“ Hin gamla kona skildi þá við mig, þungt hugsandi útaf örðugleikum þeim, er hún ræddi um og vonlausan um, að hún mundi nokkru til vegar koma. Kom hún daginn eptir og sá eg á henni, að hún ekki færði mjer góð tíðindi. „Sonur!“ mælti hún, „eg hef getið rjett til, og á eg við meira að stríða enn aðgætni föður hennar. Þjer elskið kaldgeðjaða mey, og hefur hún gaman af að blása brennandi ást í brjóst hverjum, sem lætur töfrast af henni, Hún hlýddi ljúflega á mig meðan eg var að segja henni frá kvölum þeim, er þjer þolið hennar vegna, en jafnskjótt, sem eg ympraði á því, að þjer skylduð lofa honum að koma til yðar og tala við yður, hvessti hún augun á mig hræðilega og mælti: „Þú ert furðu djörf, að ætla mjer slíkt, eg banna þjer að koma nokkurntíma fyrir mín augu, ef þú minnist á það framar.“ En þjer skuluð ekki verða hugsjúkur útaf því, það er ekki svo hægt að bola mig frá, og ef yður ekki brestur þolinmæði, hygg eg að eg innanskamms komi öllu mínu fram.“ Er þar stutt frá að segja, hin gamla kona fór marga ónýtisferð til hinnar stórlátu meyjar, fjekk það mjer mikillar hryggðar og vesnaði mjer svo, að eg varð dauðvona. En þá kom hún og gaf mjer líf mitt. „Hugsið nú til mín með góða gjöf,“ hvíslaði hún að mjer,“ því eg færi yður gleðifregn.“ Orð þessi höfðu undrunarverð áhrif. Eg reis upp í rúminu og svaraði frá mjer numinn af fögnuði: „Gjöfina skuluð þjer fá. Hvað segið þjer mjer?“ „Ekki verður þetta dauðamein yðar, góði herra!“ ansaði hún, „mun sá fögnuður veitast mjer bráðum að sjá yður alheilan og ánægðan. Eg var í gærdag hjá jungfrúnni, sem þjer elskið og hitti eg á hana í góðu skapi? „Tignaða, elskulega jungfrú!“ mælti eg þá, „eg kem núna frá unglingnum, sem eg sagði yður frá fyrir

skemmstu. Honum er ekki lífvænt, og hlýtur hann að deya af elsku til yðar, það er mikill skaði að honum, það segi eg yður satt, og þjer eruð enn svo harðbrjósta.“ Þá svaraði hún: „Eg veit ekki, hvernig eg ætti að valda dauða hans? hvernig hef eg stuðlað til þess?“ „Hvernig!“ mælti eg, „sagði eg yður ekki rjett í þessu bili, að hann sat andspænis glugga yðar, þegar þjer lukuð honum upp til þess að döggva blómin yðar? Hann sá furðuverk fegurðarinnar, er spegill yðar sýnir yður á degi hverjum; uppfrá þeirri stund hefur hann verið sjúkur og nú er hann aumkvunarlega á sig kominn.“

# 174. nótt.

„Þjer munið víst,“ mælti eg ennfremur, „hversu þjer átölduð mig, þegar eg sagði yður frá sjúkleika hans og stakk upp á meðali nokkru honum til frelsis. Eg fór frá yður til hans og vesnaði honum um helfing er hann sá á mjer, að eg ekki mundi færa góð tíðindi. Síðan hefur hann verið að fram kominn og veit eg ekki, hvort þjer gætuð einusinni bjargað honum, þó þjer vilduð miskuna honum.“ Svo mælti eg og mýktist hjarta hennar af hræðslunni, að þjer munduð deya; hún skipti litum og mælti: „Er saga þín sönn? og er hann svo veikur af eintómri elsku til mín?“ Sagði eg víst svo vera og mælti hún þá: „Er það ætlun þín, að vonin um að finna mig og tala við mig, muni frelsa hann úr háska þeim, sem hann nú er í?“ „Það er sízt fyrir að synja,“ svaraði eg, „eg skal gera tilraun ef yður þóknast.“ „Gott og vel!“ mælti hún og stundi þungt við, „seg þú honum, að hann skuli fá að sjá mig, en ekki má hann ætlast til frekara eptirlætis, nema hann vilji ganga að eiga mig og faðir minn samþykki.“ „Tignaða jungfrú!“ mælti eg, „mikil er hjartagæzka yðar. Nú mun eg færa hinum unga manni þau gleðitíðindi, að hann skuli fá að tala við yður.“ „Eg veit engan hentugri tíma,“ mælti hún, „til þess að veita honum þetta enn næsta Föstudag meðan á hádegis bænagjörð stendur. Skal hann hafa gætur á, nær faðir minn gengur frá húsi sínu til musterisins, og skal hann þá koma til húsdyr-

anna. Eg mun sjá úr glugga mínum þegar hann kemur, og undireins hleypa honum inn, en þegar faðir minn kemur heim verður hann að fara.“ Í dag er þriðjudagur og á Föstudaginn munuð þjer verða svo heilbrigður, að þjer getið farið á fund hennar.“

Meðan hin gamla kona talaði þannig fann eg að mjer batnaði með hverju orði og var eg alheill er hún þagnaði. „Takið við þessu,“ mælti eg við hana og rjetti henni troðfulla pyngju mína, „eg á yður einni að þakka heilsubata minn og er fje þessu betur varið enn því, er eg hef goldið læknirunum, sem ekkert hafa gert annað enn að kvelja mig í veikindum mínum.“ Þegar kerling var farin út, var eg svo styrkur, að eg gat staðið upp, og á Föstudegi kom hún að mjer þarsem eg var að velja úr hinn fegursta klæðnað minn. „Eg þarf ekki,“ tók hún til máls, „að spyrja, hvernig yður líði, eg sje það, en ætlið þjer ekki að taka laugar áðurenn þjer farið til hins æðsta dómara, eða rjettara sagt, til dóttur hans? Svaraði eg því að það tæki oflangan tíma og að eg ætlaði einungis að gera boð eptir rakara til að skera hár mitt og raka af mjer skeggið. Sendi eg þá að vörmu spori einn af þrælum mínum og skipaði honum að sækja dugandis rakara, er gerði verk sitt bæði fljótt og vel. Þrællinn kom aptur með ólukku rakarann þarna, heilsaði hann mjer og mælti: „Þjer lítið út fyrir að vera lasinn, herra!“ Svaraði eg þá að eg væri nýstaðinn upp úr sótt. Þá segir hann: „Guð varðveiti yður frá öllu illu og hans miskunn fylgi yður æfinlega.“ Þá svaraði eg: „Eg vona, að guð bænheyri yður og kann eg yður þökk fyrir óskir yðar mjer til handa.“ „Fyrst yður er batnaður krankleiki yðar,“ mælti hann, „bið eg drottinn að varðveita heilbrigði yðar? En segið mjer nú: hvað skal gera? Eg kom bæði með skegghnífana og bíldana; á eg að raka yður, eða á eg taka yður blóð?“ „Eg sagði yður í þessu bili,“ mælti eg, „að eg væri nýstaðinn upp úr sótt, og megið þjer því skilja, að eg einungis vil láta raka mig. Flýtið yður því og höfum ekki tímann af okkur með óþarfa masi, því það er á mjer mesti asi og eg á að vera kominn á einn stað um hádegið.“

# 175. nótt.

„Rakarinn var eylífðar tíma að tína tækin upp úr poka sínum og að hvessa hnífinn. En í stað þess að hella vatni í skálina tók hann upp lítinn og laglegan hæðarmælir og gekk næsta seinstígur út í garðinn til að mæla sólarhæðina. Kom hann aptur með viðhafnarlegri alvörugefni og mælti: „Herra! eg get glatt yður með þeirri frjett, að í dag er Föstudagur, hinn átjándi dagur í mánuðinum Safar á sexhundrað fimmtugasta og þriðja ári frá því að vor mikli spámaður flýði úr Mekka til Medína, og á sjöþúsundasta og tuttugasta ári í tímabili hins mikla tvíhyrnda Ískanders (Alexanders mikla), og að sólstefna Mars og Merkúriusar táknar það, að þjer gátuð ekki valið hentugri tíma enn daginn í dag og stundina, sem yfir stendur, til að láta raka yður. En þessi hin sama staða stjarnanna er yður ills viti, því hún boðar, að þjer munið í dag rata í mikinn háska. Að vísu mun yður verða lífs auðið, en yfir yður vofir ólán, sem ekki mun skilja við yður æfilangt. Yður ber að taka því þakklátlega, að eg vara yður við óhamingjunni og mundi mjer þykja illt ef þjer yrðuð fyrir henni.“ Nú megið þið nærri geta, hvað mjer varð gramt í geði útaf því, að vera kominn í hendur svo þvoglsams og málóðs rakara og svaraði eg í reiði: „Eg hirði hvorki um spár yðar nje varnaðarorð, eg hef ekki sent eptir yður til þess að spyrja yður um stjörnuþýðingar. Þjer eruð hingað kominn tll að raka mig, gerið því annaðhvort að raka mig eða snáfa burt, svo eg geti látið sækja annan rakara.“ Svaraði hann mjer þá með mestu stillingu, sem reyndi þolinmæði mína til þrautar: „Því stökkvið þjer upp á nef yður? Þjer skuluð vita, að enginn rakari jafnast við mig og að þjer finnið engan slíkan, þó þjer gerið boð eptir honum. Þjer hafið ekki beðið nema um einn rakara og þarsem eg er, hafið þjer sannkallaðan þúsund vjela smið, hinn bezta rakara í Bagdad, margreyndan lækni, skarpvitran efnafræðing, óbrigðulan stjörnuspámann, fullkominn málfræðing, glöggsýnan hugsunarfræðing, stærðafræðing, sem er heima í mælingafræði, talnafræði, bókstafareikningi og stjörnufræði, sagnafræðing, sem veit sögu allra ríkja í veröldinni uppá sína tíu fingur. Auk þessa þekki eg allar greinir heim-

spekinnar út í hörgul, kann utanbókar öll landslög og lagavenjur. Eg er skáld, húsasmiður, hvað er það til, sem eg ekki kann? Í allri náttúrunni er mjer ekkert hulið, og hann faðir yðar sæli, sem eg ætíð minnist á með tárugum trega, vissi til hlítar, hvílíkur maður eg er. Hann elskaði mig, hældi mjer og lofaði mig í hvers manns eyrum, einsog hinn mesta mann heimsins. Eg ætla nú að taka ástfóstri við yður af vinsemd og þakklátsemi við hann, eg ætla að taka yður að mjer og vernda yður fyrir allri óhamingju, sem himintunglin ógna yður með.“ Svo reiður, sem eg var, gat eg samt ekki að mjer gert að hlægja að þvættingi þessum og sagði: „Hafið þjer nú ekki bráðum úttalað, bannsett skrafskjóðan? ætlið þjer þá ekki að raka mig?“

## 176. nótt.

„Þjer misbjóðið mjer, herra!“ ansaði rakarinn, „með því að kalla mig skrafskjóðu; allur heimur breytir gagnstætt og kallar mig í heiðurs skyni: „hinn þögula.“ Eg átti sex bræður, þá hefðuð þjer með öllum rjetti mátt kalla skrafskjóður. Hinu elzti hjet Bakbúk, annar Bakbarah, þriðji Bakhak, fjórði Alkus, fimmti Alnaschar, sjötti Skakabak — það voru ljótu hljóðabelgirnir. En eg, sem er yngstur okkar bræðra, er ráðsettur og orðfár.“ Ímyndið ykkur nú að þið hefðuð verið í mínum sporum! hvað átti eg að taka til bragðs í slíkum vandræðum? Eg kallaði til gjaldkyra míns og sagði: „Gefðu honum þrjá gullpeninga! svo hann fari og láti mig í friði, eg læt ekki raka mig í dag hjeðan af.“ „Hvað á þetta að þýða,“ segir rakarinn, „eg hef ekki leitað yður upp, heldur hafið þjer látið sækja mig, og fyrst svo er, fer eg ekki eitt fet hjeðan fyrr enn eg er búinn að raka yður, það sver eg svo sannarlega, sem eg er rjetttrúaður maður. Eg get ekki gert að því, að þjer ekki kannist við verðleika mína, og hvað það snerti, ljet hann faðir yðar sæli mig njóta meira sannmælis enn þjer. Í hvert skipti, sem hann gerði boð eptir mjer til að taka sjer blóð, ljet hann mig setjast hjá sjer og þá var sannarlegt yndi að heyra alla þá vizku, sem rann upp úr mjer. Hann sat orðlaus og

agndofa ámeðan eg talaði, svo var hann hrifinn, en þegar eg þagnaði, kallaði hann upp: „Ó! þú óþrjótandi vizku brunnur! við yðar djúpvitru þekkingu fær enginn jafnast.“ þá svaraði eg: „Góði herra! þjer heiðrið mig fram yfir verðleik minn. Ef eitthvað gott dettur upp úr mjer, þá þakka eg það hinni náðugu áheyrn, sem þjer veitið mjer af góðsemi yðar. Yðar örlæti blæs mjer í brjóst öllum þeim háleitu hugsunum, sem yður til allrar hamingju geðjast vel að.“ Einusinni varð hann svo frá sjer numinn af einni aðdáanlegri ræðu, sem eg hjelt, að hann sagði: „Gefið honum hundrað gullpeninga og færið hann í eina af hinum dýrustu skikkjum mínum!“ Fjekk eg gjöf þessa] samstundis, stillti eg þá stjörnumátið og sá, að hann var hinn sælasti maður í heimi. þaráofan vottaði eg honum þakklátsemi mína með því, að setja honum blóðhorn.“ Rakarinn ljet ekki sitja við þetta, heldur byrjaði hann nýa þvættings runu, er stóð í rúma hálfa stund. Var eg þá bæði orðinn þreyttur að hlýða á hann og örvænti, þegar eg sá, hversu tíminn leið og eg var engu nær, vissi eg ekki hvað segja skyldi: „Nei!“ sagði eg, „það er ómögulegt, að þjer eigið nokkurstaðar í heimi yðar jafningja, sem hefur gaman af að erta menn, þangaðtil þeir verða frá sjer af heipt og örvæntingu.

# 177. nótt.

„Nú hjelt eg að mjer mundi verða mest ágengt, ef eg færi með góðu að þessum djöfullega rakara og mælti: „Hættið nú fyrir guðs sakir þessari viðhafnarlegu orðmælgi og afgreiðið mig í flýti. Eg þarf að fara út í áríðandi erindi einsog eg sagði yður fyrr.“ Að þessum orðum mínum fór hann að hlæja og mælti: „það væri lofsvert, ef andi vor væri jafnan eins, ef vjer ætíð værum hyggnir og skynsamir; nú ef þjer eruð mjer reiður, þá ætla eg að kenna um það veikindum yðar, sem breytt hafa skaplyndi yðar. Í þessu efni er yður ekki vanþörf á heilræðum, og mun yður ekki reynast annað betra enn að feta í fótspor föður yðar og afa; þeir kvöddu mig til ráða um allt, og það þori eg að segja, án alls oflofs, að þeir voru ánægðir með ráðleggingar mínar. Gætið þess herra! að

sjaldan verður nokkru áformi framgengt, nema vitrir menn sjeu til ráða kvaddir. Máltækið segir: „að enginn verði dugandis maður, nema hann leiti ráða hjá dugandis mönnum“, og eg er boðinn og búinn til að gera yðar vilja, bæði í orði og verki, segið þjer bara til!“ Þá greip eg frammí og mælti: „Get eg þá ekki fengið yður til að hætta þessu óþolandi bulli, sem gerir mig ringlaðann og tefur mig í erindagjörðum mínum? rakið mig annaðhvort eða farið!“ Stóð eg þá upp í reiði og stappaði fætinum í gólfið. En er hann sá, að eg var reiður að marki, tók hann þannig til máls: „Reiðist mjer ekki, herra! nú skal eg taka til verka.“ Enda þvoði hann þá höfuð mitt og fór að raka mig, en er hann hafði tæplega tekið fjórar sköfur með hnífnum, hætti hann aptur og mælti: „Herra! þjer eruð bráðlyndur og ættuð að varast slík uppþot, því þau koma frá djöflinum. Auk þess ber yður að sýna mjer lotningu sakir aldurs míns, lærdóms míns og frábærra mannkosta.“ „Haldið áfram að raka mig og þvaðrið ekki,“ sagði eg. „Það er þá svo að skilja,“ mælti hann, „að áríðandi störf kalla hart að yður; eg þori að veðja um það, að eg get rjett til.“ „Það sagði eg yður fyrir tveimur stundum síðan,“ svaraði eg, „og ættuð þjer að vera búnir að raka mig.“ „Stillið yður,“ segir hann, „það er vísast, að þjer hafið ekki íhugað áform yðar vandlega; þeir, sem flana að gjörðum sínum, yðrast opt síðar meir. Eg vildi þjer segðuð mjer, hvað það er, sem rekur svo hart eptir yður, eg skyldi þá segja yður minn dóm um það. Annars hafið þjer nógan tímann, fyrst menn ekki búast við yður fyrr enn um hádegi, því þangað til eru þrjár stundir.“ „Það skiptir mig engu ansaði eg „orðheldnir menn, sem gæta sóma síns, koma fyrr enn ákveðið er. En það er satt, eg gæti þess ekki, að með þessu verð eg undir sömu syndina seldur og hinir þvoglsömu rakarar; ljúkið yður nú af að raka mig!“ Því meira flýtisæði, sem á mjer var, því tregari var hann að hlýða mjer. Hann lagði skegghnífinn frá sjer og tók hæðarmælirinn í hönd sjer; þvínæst tók hann hnífinn aptur og svo hæðarmælirinn, til þess að vita hvað framorðið væri.

# 178. nótt.

„Herra!“ mælti rakarinn, er hann kom aptur úr garðinum, „eg vissi það, að eg gat ekki skakkt til. Ennþá eru þrjár stundir til hádegis, nema allar reglur stjörnufræðinnar ljúgi.“ „Guð á himnum!“ kallaði eg upp, „þolinmæði mín er nú á förum, eg þoli það ekki lengur, þinn bölfaður rakari! óhræsis rakari! það er rjett komið að mjer að fljúga á þig og kyrkja þig.“ „Látið yður hægt herra!“ svaraði hann með mestu hægð og brá sjer alls ekki við reiði mína, „eruð þjer ekki hræddur um að yður slái niður? verið fyrir alla muni ekki reiður, eg skal undireins gera yður skil.“ þvínæst ljet hann hæðarmælirinn niður og tók aptur skegghnífinn, slípaði hann á ól, er hjekk við belti hans og fór aptur að raka mig. En meðan hann var að því, gat hann ekki á sjer setið að þvaðra. „Ef þjer nú vilduð trúa mjer fyrir því,“ segir hann, „hvaða erindi þjer eigið fyrir höndum um hádegið, þá mundi eg geta gefið yður heilræði þar að lútandi.“ Til þess að þagga niður forvitni hans, sagði eg honum, að vinir mínir biðu eptir mjer, og að þeir ætluðu að halda mjer gleðiveizlu í minningu þess, að eg væri staðinn upp úr veikindum mínum. þegar rakarinn heyrði mig nefna veizlu, kallaði hann upp: „Guð varðveiti yður bæði í dag og endrarnær! þjer minnið mig á það, að eg í gær bauð fjórum eða fimm vinum mínum til borðs hjá mjer í dag, en eg hef síðan gleymt því, og hef því alls engan viðbúnað haft.“ „Verið ekki hugsjúkur útúr því,“ ansaði eg, „því þó eg ætli að snæða utanhúss, er matarbúrið mitt vel byrgt. þjer megið eiga allt, sem í því er. Eg skal líka gefa yður svo mikið vín, sem þjer viljið, því eg á afbragðs vín í kjallara mínum; en þjer verðið að ljúka við að raka mig í mesta flýti, og skuluð þjer gæta þess, að þarsem faðir minn gaf yður gjafir til að tala, þá gef eg yður gjafir til að þegja.“ En hann ljet sjer ekki nægja loforð mitt, heldur segir hann: „Guð umbuni yður gæzku yðar mjer til handa! en lofið mjer nú þegar að sjá vistir þessar, svo eg megi ganga úr skugga um, að þær hrökkvi til að veita vinum mínum stórmannlega, því eg vil að þeir verði ánægðir með gildið.“ Svaraði eg þá: „Eg á eitt lamb, sex gelta hana, tólf hænur og nóg í fernskonar spóna

mat.“ Skipaði eg jafnskjótt einum af þrælum mínum að bera allt þetta inn ásamt fjórum stórum kerum víns. „Það er gott og blessað,“ mælti rakarinn, „en það þarf líka aldina og krydds til kjötrjettanna.“ Ljet eg þá fá honum það, er hann beiddi um, og hætti hann við raksturinn til að skoða hvað um sig og var nærri hálfa stund að því. Bölfaði eg þá og hamaðist, en þrællinn flýtti sjer ekki að heldur. Loksins tók hann skegghnífinn aptur í hönd sjer, rakaði mig, en hætti allt í einu aptur og mælti: „Eg hefði aldrei trúað því, herra! að þjer væruð slíkur rausnarmaður, nú sje eg, að hann faðir yðar sæli er endurborinn í yður. Eg er í sannleika ómaklegur velgjörða þeirra, er þjer veitið mjer svo ríkuglega og sver eg yður, að eg skal muna yður það að eylífu — því yður að segja, góði herra! á eg ekkert til annað enn það, sem mjer gefst af stórlyndi manna, sem eru eins drenglundaðir og þjer eruð; í þeirri grein er eg líkur honum Santút, sem nýr menn og þerrar í baði og honum Saly, sem selur þurkaðar fuglabaunir á strætunum og honum Salus, sem selur baunir og honum Akerscha, sem hefur akurmeti á boðstólum, honum Abú Mekares, sem stökkvir vatni um strætin til að eyða rykinu og honum Kassem í lífverði kalífans. Enginn þessara manna setur neitt ógeð í sig, þeir eru hvorki fúllyndir nje þrætugjarnir, heldur eru þeir ánægðir með hlutskipti sitt einsog kalífinn í hirð sinni, ætíð glaðlyndir og reiðu búnir til söngs og dansleika, hefur hver þeirra sína uppáhalds vísu og sinn dans og gleður með því alla borgina Bagdad. En það virði eg mest við þá, að þeir eru engir málskapsmenn, heldur eru þeir eins lausir við mælgi og þræll yðar, sem nú veitist sú sæmd að tala við yður. Svona er nú t. a. m. kvæðið hans Santúts, sem þjónar mönnum til lauga, takið nú eptir, hvort eg ekki kveð líkt honum. . . . . . .

## 179. nótt.

„Rakarinn fór með kvæði Santúts og dansaði eptir því og hvað, sem eg sagði til þess að þagga niður fíblalæti hans, hætti hann ekki fyrr enn hann hafði hermt eptir öllum þeim, sem hann

hafði nefnt. Þvínæst mælti hann: „Herra! eg ætla að bjóða öllum þessum góðu mönnum, og ef þjer viljið gera mjer að skapi, þá komið þjer með mjer og yfirgefið vini yðar, sem munu vera hinir mestu skraffinnar; hver veit nema yður verði illt í höfði af endalausum þvættingi þeirra, og slái síðan niður, svo sjúkleiki yðar verði hálfu verri enn áður. En hjá mjer er ekki nema glaumur og gleði.“ Svo reiður, sem eg var, gat eg ekki að mjer gert að hlægja að bulli hans og mælti: „Eg vildi eg hefði engar annir, því þá skyldi eg gjarna þiggja boð yðar, en eg ætla að biðja yður að afsaka mig í dag, úr því eg hef lofað mjer annarstaðar. Í annað skipti, þegar eg hef betra tóm, mun þessa verða kostur; en ljúkið nú við að raka mig og flýtið yður heim, því vinir yðar munu þegar hafa beðið eptir yður góða stund.“ „Herra!“ ansaði hann, „synjið mjer ekki um bæn mína, komið og skemmtið yður í hinu glaðlynda samkvæmi, sem hjá mjer er. Ef þjer aðeins einu sinni hefðuð verið saman við menn þessa, mundu þeir verða yður svo vel að skapi, að þjer skeyttuð alls ekki um vini yðar.“ „Höfum engin orð framar um þetta“, sagði eg, „eg get ekki verið í boði yðar;“ en eg kom engu áleiðis með hógværð minni. Þá mælti rakarinn: „Ef þjer ekki viljið koma til mín, þá er ekki annars kostur enn að eg fylgi yður. Eg ætla að láta bera heim til mín það, sem þjer hafið gefið mjer, og mega þá vinir mínir eta sem þeim leikur lyst til; eg kem undireins aptur, því eg er ekki sá durtur, að láta yður fara einsamlan; ekki má minna vera enn eg geri yður þann greiða að fylgja yður.“ „Guð minn!“ sagði eg, „á eg þá ekki að losast við þenna leiðinda þrjót í dag. Í nafni guðs almáttugs, hættið þessu óþarfa þvaðri. Farið til vina yðar, drekkið, etið og skemmtið yður, en unnið mjer þess frelsis, að vera með mínum vinum. Eg vil fara einsamall, eg þarf ekki fylgdarmanns, þaraðauki skuluð þjer vita, að yður er ekki heimilt að koma þangað, sem eg fer! Menn vonast þar eptir mjer einum.“ „Nú gerið þjer að gamni yðar, herra!“ svaraði hann, „hafi vinir yðar boðið yður til veizlu, þá skil eg ekki, hvað yður getur gengið til, að synja mjer samfylgdarinnar. Eg er sannfærður um, að þeim mun vera hin mesta gleði að því, að þjer komið með mann, sem örfar fjör og skemmtun í samkvæminu. En hvað sem þjer segið, þá hef eg

nú tekið það í mig, og skal fylgja yður móti vilja yðar.“ Nú varð eg öldungis ráðalaus og sagði við sjálfan mig: Hvernig á eg að losast við bölfaðan rakarann? Ef eg held áfram að þræta við hann, kem eg aldrei ætlun minni fram. Nú heyrði eg og að kallað var til hádegis bænagjörðar frá turnum musteranna, og var því tími tilkominn, að eg færi. Eg þagnaði þá og ljet sem mjer líkaði, að hann færi með mjer. Þvínæst lauk hann við að raka mig, og er hann var búinn að því, mælti eg: „Látið nokkra af þjónum mínum bera matvæli þessi heim til yðar og komið svo aptur, eg skal bíða eptir yður.“ Fór hann þá loksins, en eg klæddist í snatri og flýtti mjer á stað; heyrði eg þá, að kallað var til bænagjörðar í seinasta sinni. En bannsettan rakarann hafði grunað, hvað mjer bjó í skapi, og hafði hann því ekki farið lengra með þjónum mínum enn svo, að hann sá hús mitt, og gat um leið sjeð sjálfs síns hús, og haft gætur á, að þjónarnir færu þangað inn. Faldi hann sig við strætishornið til þess að sjá, hvað af mjer yrði. Þegar eg var kominn að dyrunum á húsi hins æðsta dómara leit eg við, og sá eg þá, mjer til sárustu skapraunar, að rakarinn var á leiðinni inní strætið. Dyrnar á húsi dómarans voru opnar til hálfs, gekk eg þar inn og hitti kerlinguna, sem beið eptir mjer; lokaði hún dyrunum og fylgdi mjer inn í herbergi unnustu minnar. En rjett þegar við vorum farin að tala saman, heyrðum við háreysti á strætinu, leit þá mærin út um gluggagrindurnar og sá föður sinn koma frá musterinu. Leit eg þá líka út, og sá eg rakarann sitja þar andspænis á sama stað, og eg hafði setið fyrrum, fjekk það mjer ekki minni kvíða enn heimkoma dómarans. En dóttir hans hughreysti mig með því, að faðir sinn kæmi mjög sjaldan í herbergi sitt, en skyldi svo fara, þá hefði hún hugsað sjer ráð, til að koma mjer óhultum burt úr húsinu. Allt fyrir það var eg mjög hræddur og áhyggjufullur vegna framhleypni rakarans, enda mun yður nú bráðum skiljast, að það var ekki um skör fram. Því þegar dómarinn var kominn heim, refsaði hann sjálfur einum af þrælum sínum, er til þess hafði unnið, með iljastroku, æpti þrællinn þá svo hátt, að heyra mátti út á stræti. Rakarinn hjelt undireins, að það mundi vera eg, sem æpti og væri illa útleikinn, rak hann því upp hræðilegt

óp, reif sundur klæði sín, jós moldarryki yfir höfuð sjer og kallaði alla þar í nágrenninu til hjálpar. Þustu allir til og spurðu hvar hjálpar væri vant, og svaraði hann þá: „Þeir eru að drepa herra minn, blessaðan!“ Meira sagði hann ekki, heldur hljóp hann grenjandi heim til mín, og kom aptur með alla þjóna mína, höfðu þeir lurka í höndum og börðu á dyr dómarans með geysilegum ofsa. Ljet dómarinn þræl einn gá að, hvað á gengi, kom hann aptur lafhræddur og segir: „Herra! hjer ryðjast inn í húsið meira enn tíu þúsundir manna, og eru þeir farnir að mölva upp dyrnar.“ Dómarinn hljóp þá til, lauk dyrunum upp og spurði, hvað þeir vildu honum. En svo æruverður, sem hann var í yfirbragði, þá fjekk það alls ekki á þjóna mína, og æptu þeir að honum með ósvífni: „Bölfaður dómari! hundurinn þinn! því viltu drepa hússbónda okkar? hvað hefur hann gert þjer?“ „Góðir menn,“ ansaði dómarinn, „því skyldi eg drepa herra yðar? eg þekki hann ekki og hann hefur ekki styggt mig. Hús mitt er opið; komið, sjáist um og leitið.“ „Þjer hafið veitt honum iljastroku,“ mælti rakarinn, „eg heyrði hann hljóða rjett í þessu.“ Þá tók dómarinn til máls: „Hvað hefði herra yðar þá átt að misgera við mig, að eg skyldi fara svo með hann; er hann þá hjer í húsum mínum? og sje hann hjer, hvernig ætti hann að vera kominn hingað, og hver hefði átt að hleypa honum inn?“ „Eg trúi yður ekki,“ sagði rakarinn, „óhræsis dómari! hvað sítt sem skeggið er á yður. Dóttir yðar hefur ást á herra vorum, og leyfði hún honum að koma til sín í hús yðar, meðan á hádegis bænagjörðinni stóð. Þjer hafið komið að honum, og látið þræla yðar misþyrma honum með iljastroku, en sá níðingsskapur yðar skal ekki verða ólaunaður; kalífinn skal verða þessa vís og mun hann dæma bæði fljótt og vel. Hleypið oss inn og framseljið oss hann að vörmu spori, eða við sækjum hann sjálfir yður til svívirðingar.“ „Það er óþarfi að hafa svo mörg orð, og gera slíkan skarkala,“ mælti dómarinn, „ef þjer segið satt, þá komið inn og leitið; eg leyfi ykkur það.“ Óðara enn dómarinn hafði úttalað, ruddist rakarinn inn í húsið með þjónum mínum, ljetu þeir einsog þeir væru bandóðir, skygndust um og leituðu mín alstaðar.

# 180. nótt.

„Eg hafði heyrt öll orðaskipti þeirra, og leitaði mjer því fylgsnis, fann eg ekki annað enn stóra, tóma kistu, stökk niður í hana og skelldi lokinu yfir. Rakarinn, sem leitaði alstaðar, kom líka að kistunni og lauk henni upp, en er hann sá að eg var í henni, tók hann hana uppá höfuð sjer og gekk ofan háan stiga niður í garðinn, hljóp yfir hann og svo út um dyrnar. En meðan á því stóð, hrökk kistulokið upp, til allrar óhamingju, og með því eg gat ekki þolað svívirðingu þá, að skríllinn, sem hljóp á eptir okkur, skyldi glápa á mig og spotta mig, þá stökk eg svo gapalega niður á strætið og meiddist svo illa á fætinum, að eg hef verið haltur síðan. Fann eg í fyrstunni ekki til meiðslanna, og stóð upp til að flýa sem skjótast undan athlátri skrílsins. Eg fleygði því fullum höndum gull og silfurpeningum úr pyngju minni, sem var troðfull, og slapp eg burt á meðan hinir voru að tína upp fjeð. En bölfaður rakarinn missti ekki sjónar á mjer, heldur kallaði hann til mín af öllum lífs og sálar kröptum: „Standið við herra! því hlaupið þjer svo geyst! Ó! að þjer vissuð hvað mjer sárnaði, að dómarinn skyldi fara svo illa með yður, yður, sem eruð svo göfuglyndur, sem eg og vinir mínir eigum svo mikið gott upp að unna! Sagði eg þetta ekki alltjend, að þjer munduð rata í lífsháska af því þjer þverneituðuð fylgd minni. Sjáið nú, hvað yður hefur hent fyrir þessa glæpsku, og hvar hefðuð þjer þá verið kominn, hefði eg ekki verið svo einbeittur að fylgja yður? En hvert ætlið þjer? bíðið þjer mín!“ þannig ljet ólukku rakarinn sjer ekki nægja, að vekja óspektir í þeim hluta borgarinnar, sem dómarinn bjó í, heldur vildi hann koma gjörvallri borginni í uppnám. Eg var svo bálreiður, að það var rjett komið að mjer að bíða eptir honum og drepa hann, en af því mundi hafa risið enn meiri rósta. Eg tók annað ráð, sem var betra; eg sá að af ópi hans og óhljóðum þusti mesti manngrúi útí glugga og húsdyr til að glápa á mig; en þeir, sem gengu á strætinu, stóðu við, hljóp eg þá til gestaherbergis eins. Eg þekkti dyravörðinn og hitti hann við dyrnar. „Í guðs nafni,“ sagði eg við hann, „varnið þessum sjónvitlausa manni að fara á eptir mjer;“ lofaði hann

því og enti það, þó örðugt veitti, því rakarinn vildi fyrir hvern mun ryðjast inn, og fór ekki fyrr enn hinn hafði látið hinar örgustu skammir dynja yfir hann. Á heimleiðinni hældi hann sjer við hvern mann, sem hann mætti, af hinni miklu hjálp, sem hann hefði veitt mjer.

Þannig losaðist eg við þenna hvimleiða mann. Spurði dyravörður mig, hvað mjer hefði viljað til; sagði eg honum það, og beiddi hann að leigja mjer herbergi, þangaðtil mjer væri batnað, því eg var svo hræddur við rakarann, að eg þorði ekki heim til mín. Hugði eg mjer fyrir beztu, að dvelja ekki lengur í borginni, þarsem mig hafði hent slíkt. Þegar eg var alheill, tók eg allt það fje, sem eg þóktist þurfa til ferðarinnar, en gaf frændum mínum hitt, og fór eg síðan frá Bagdad. Þannig stendur á því, að mig einnig bar hingað, og kom mjer sízt til hugar, að eg mundi hitta rakarann, frumkvöðul ógæfu minnar, hjer svo fjærri ættjörðu minni. Allt fyrir það sje eg hann á meðal yðar. Ykkur skal því ekki þykja kyn, þó eg vilji skilja við ykkur sem fljótast. Megið þjer nærri geta, hvílík hugraun mjer er, að sjá þann mann, sem veldur örkumlum mínum, og hefur neytt mig til þess hörmulega hlutskiptis, að lifa fjærri ættingjum, vinum og föðurlandi.“ Að svo mæltu stóð hinn halti útlendingur upp og gekk burt. Fylgdi hússbóndinn honum til dyra og kvað sjer vera raun að því, að hann í grandleysi hefði gert honum svo mikla skapraun. Við hinir gestirnir sátum eptir og undruðumst sögu hins unga manns. Við litum til rakarans og sögðum, að hans mál væri illt, ef saga þessi væri sönn. Þá lypti rakarinn höfðinu, því allt til þessa hafði hann hengt það niður, og horft í gaupnir sjer; tók hann þannig til máls: „Herrar mínir! að saga þessi sje sönn, megið þjer ráða af því að eg hef alltaf þagað meðan hinn ungi maður sagði hana. En hvað sem hann segir, þá stend eg fast á því, að eg hafi gert það, sem rjett var, og skírskota eg því til yðar dóms. Steypti hann sjer ekki sjálfur í háskann, og mundi hann hafa sloppið svo vel án míns fulltingis? Hann má vera feginn, að hann komst undan með sár á öðrum fæti. Hafði eg mig ekki í meiri hættu, þegar eg bjargaði honum út úr húsinu, þarsem eg hjelt, að honum væri misþyrmt? Hvern rjett hefur hann til að bera sig upp undan mjer og bríxla mjer með smánar-

yrðum? Svona er að þjóna þeim, sem vanþakklátir eru. Hann kallaði mig skrafskjóðu, en það er einbert mannlast. Við vorum sjö bræður og var eg þeirra fálátastur og hyggnastur. Eg þarf ekki annað enn að segja sögu mína og þeirra, til þess að þjer verðið mjer samdóma; veitið mjer þá sæmd að hlýða á hana.

## Saga rakarans.

Á ríkisárum kalífans Mostanser Billa, sem var frægur af örlæti sínu við fátæklinga, sátu tíu stigamenn um vegina kríngum Bagdad, og þókti háski að fara um þá vegna gripdeilda og fáheyrðra grimmdarverka ræningjanna. Þá skipaði kalífinn, nokkrum dögum áundan Bairamshátíð, lögregludómaranum að taka hina tíu ræningja fasta, ella skyldi hann sjálfur líflátinn.

# 181. nótt.

„Lögregludómarinn hafði sig allan við og sendi svo marga menn, að hinir tíu ræningjar urðu teknir á Bairams hátíðinni. Eg var að ganga mjer til skemmtunar á bökkum Tígrisfljótsins og sá eg tíu skrautbúna menn stíga útí bát. Hefði eg tekið eptir varðmönnum þeim, er fylgdu þeim, mundi eg fljótt hafa sjeð, að það voru ræningjar, en eg horfði einungis á hina og hjelt þeir ætluðu að skemmta sjer og halda gleðilega hátíð, fór eg þá útí bátinn með þeim, en sagði ekki orð og hjelt eg þeir mundu líða mig í flokki sínum. Var bátnum róið ofan eptir Tígrisfljótinu og lentum við fyrir utan höll kalífans, kom þar nýr flokkur lögregluþjóna og sló hring um oss; eptir það vorum vjer bundnir og leiddir fyrir kalífann. Meðan á þessu stóð, hafði eg sjeð mig um hönd og skildi eg nú, hversu mjer hafði skjátlazt. Ljet eg binda mig með hinum, því hvað mundi mig hafa stoðað að verjast varðmönnunum eða afsaka mig? þeir mundu hafa misþyrmt mjer, því slíkir menn gangast ekki fyrir skynsamlegum fortölum. Eg var líka á meðal ræningja, og það var þeim nóg ástæða til þess að halda, að eg sjálfur væri ræningi. þegar vjer vorum komnir á fund kalífans mælti hann: „Höggvið höfuðið af þessum tíu ræn-

ingjum.“ Böðullinn skipaði oss í röð eptir hugþótta sínum, og stóð eg til allrar hamingju aptastur i röðinni; hjó hann höfuðin af hinum tíu ræningjum og hætti síðan. En er kalífinn sá, að mjer var vægt, kallaði hann í reiði til böðulsins: „Skipaði eg þjer ekki að hálshöggva hina tíu ræningja? því högguröu þá ekki nema níu?“ Þá svaraði böðullinn: „Drottinn rjetttrúaðra manna! guð varðveiti mig frá því að undanfella skipanir yðar hátignar; þarna liggja tíu líkin og hin tíu höfuð, sem eg hef höggvið af þeim. En er kalífinn sá, að hann sagði satt, virti hann mig fyrir sjer með undrun, þóttist ekki sjá neinn ræningjabrag á mjer og mælti: „Góði, gamli maður! hvernig ertu kominn í hóp þessara óaldarmanna, sem hafa verðskuldað þúsundfaldan dauða.“ Þá svaraði eg: „Drottinn rjetttrúaðra manna! hina tíu menn, sem yðar hátign hefur refsað rjettlæti sínu til vegs og dýrðar, sá eg í morgun fara út í bát og slóst eg í hópinn, af því eg hjelt að þeir ætluðu að halda þessa stórhátíð með bróðurlegri veizlu.“ Kalífinn gat ekki að sjer gert að hlægja að æfintýri mínu, fór honum öðruvísi enn hinum halta manni, sem kallar mig skrafskjóðu, því hann dáðist að þagmælsku minni og staðfestu. „Drottinn rjetttrúaðra manna!“ tók eg til máls, „þjer skuluð eigi furða yður á því, þó eg þegði, þarsem aðrir í mínum sporum mundu hafa talað. Eg hef sjerílagi lagt stund á þagmælsku, og fyrir dyggð þessa hafa menn í heiðurs skyni kallað mig hinn „þagmælska,“ og með því nafni er eg greindur frá hinum sex bræðrum mínum.“ Svaraði þá kalífinu brosandi: „Mjer þykir vænt um að yður hlotnaðist svo heiðarlegt auknafn. En segið mjer, hverskonar menn voru bræður yðar? voru þeir líkir yður?“ „Það var öðru nær,“ ansaði eg, „hver þeirra var öðrum málugri, eins voru þeir og furðu ólíkir mjer í sjón, einn var krypplingur, annar var svíntenntur, þriðji eineygður, fjórði blindur, á hinum fimmta voru eyrun stýfð og hinn sjötti hafði skarð í vör. Mun yðar hátign auðveldlega geta dæmt um skapferli þeirra af æfintýrum þeim, er þeir rötuðu í, ef mjer mætti verða þeirrar sæmdar auðið, að segja frá þeim.“ Og með því mjer virtist kalífinn fús til að hlýða á þau, beið eg ekki einusinni svars, heldur tók eg undireins til frásagna.

## Sagan af hinum elzta bróður rakarans.

„Elzti bróðir minn var kallaður Bakbúk kroppinbakur, og var skraddari. Þegar hann var fullnuma í iðn sinni, leigði hann sjer sölubúð gagnvart myllu einni. Hafði hann fáa kaupunauta, litla vinnu, og veitti erfitt að hafa ofanaf fyrir sjer, en malarinn var uppgangs maður og átti fríðustu konu. Einusinni þegar bróðir minn sat við vinnu í búð sinni, varð honum litið upp og sá hann þá hina fögru malarakonu, þarsem hún stóð út í glugga upp í myllunni og horfði útá stræti. Leizt honum konan svo fríð, að hann varð gagntekinn af ást til hennar, en hún leit ekki við honum, heldur lauk hún upp glugganum og ljet ekki sjá sig það, sem eptir var dagsins. Veslings skraddarinn var alltaf að líta upp í mylluna frá vinnu sinni, hann stakk sig hvað eptir annað í fingurgómana og varð verk hans ekki vandað þann dag. Um kvöldið gat hann ekki fengið af sjer að loka búðinni, því hann vonaði að malara konan mundi birtast sjer einusinni enn. Loksins varð hann samt að ganga heim til kofa síns, og átti hann þar illa nótt. Var hann því fyrr á ferli og hljóp til búðar sinnar, og sá ekki malara konuna allan daginn nema í svip, en þessi svipsjón fjekk honum svo mikils, að hann varð hinn óðasti af ástaróstríðu. Á hinum þriðja degi varð hann ánægðari, en báðum fyrri dögunum, því malara konan leit yfrum til hans af tilviljun, í því hann blíndi á hana, kom það flatt uppá hann, en hún skildi fljótt, hvað um var að vera.

# 182. nótt.

„Malarakonan styggðist ekki þegar hún sá, að bróðir minn leit hana ástaraugum, heldur horfði hún til hans brosandi. Bróðir minn gerði eins, en honum fór það svo skringilega, að malarakonan varð að hlaupa frá glugganum, svo að hún ekki skellihlægi framan í hann, því þá mundi hann hafa sjeð, að hún gerði háð að honum. Bakbúk færði þetta á bezta veg í einfeldni sinni, en malarakonan hugsaði ekki um annað enn að henda gaman að honum. Nú stóð svo á, að hún átti fagran vefnað, er hún lengi hafði ætlað að hafa til fatnaðar. Vafði hún hann í fallegan klút

útsaumaðan með silki, og sendi til hans með ungri ambátt, er hún átti. Kom ambáttin til hans og mælti: Hússmóðir mín sendir yður kveðju sína og biður yður að sauma sjer fatnað úr vefnaðinum, sem eg hef með mjer, eptir þessu sniði. Hún breytir opt um klæðnað og munuð þjer ekki hafa skaða á, að eiga kaup við hana." Nú gekk bróðir minn öldungis úr skugga um, að malara konan mundi elska sig. Hjelt hann, að hún sendi sjer verkefni þetta einsog elsku merki rjett á eptir, að þau höfðu horft svo blíðlega hvert til annars. Í þeirri trú beiddi hann ambáttina að segja hússmóður sinni, að hennar vegna, skyldi hann ekki snerta á neinni annari vinnu og að klæðnaðurinn skyldi verða tilbúinn að næsta morgni. Enda var hann svo iðinn, að hann varð búinn samdægris. En er ambáttin kom daginn eptir að sækja klæðnaðinn, fjekk hann henni hann, fallega samanbrotinn, og mælti: „Mjer ríður svo mikið á því, að hússmóður þinni líki vel, að mjer hefði ekki hentað að gleyma fatnaði hennar. Eg vildi feginn vanda mig, svo að hún eptirleiðis ljeti mig sauma fyrir sig." Ambáttin gekk síðan nokkur spor einsog hún ætlaði að fara, en snjeri allt í einu aptur og hvíslaði að bróður mínum: „Eg var nærri búin að gleyma nokkru, sem eg átti að skila. Hússmóðir mín biður að heilsa yður og spyr, hvernig yður hafi sofnazt. Hún er svo yfirkomin af elsku til yðar, vesalingur, að henni kemur ekki dúr á auga." „Seg þú henni," mælti einfeldningurinn Bakbúk, „að eg hafi slíkan ástarhug til hennar, að augu mín hafi ekki lokist aptur í fjórar nætur." þegar hann nú hafði fengið þessa kveðju frá konu malarans hjelt hann, að hann mundi ekki lengi þurfa að þreya blíðlæti hennar. Að stundarkorni liðnu sá hann, hvar ambáttin kom aptur með þjettsilkis stykki. Hússmóðir mín," segir hún, „er prýðilega ánægð með klæðnaðinn, hann fer henni afbragðs vel. En af því hann er svo fallegnr og hún ekki vill ganga í honum nema við nýar brækur, þá biður hún yður að sauma sjer einar brækur úr silkistykki þessu. „Gott og vel," segir Bakbúk, „þær skulu vera tilbúnar í dag áður enn eg geng frá búðinni. þú getur sókt þær í kvöld." Malarakonan kom opt útí gluggann, og tók á öllum blíðu töfrum sínum til þess, að bróðir minn skyldi verða einarðari. það var mesta yndi að sjá, hvað honum gekk vel

vínnan; brækurnar voru undireins alsaumaðar og kom ambáttin að sækja þær, en hvorki færði hún honum borgun fyrir það, er hann lagði til nje heldur vinnulaunin. Veslings skraddarinn, sem var svo illa á tálar dreginn, hafði ekki smakkað mat allan daginn og varð að fá sjer nokkra skildinga til láns fyrir kvöldmat. En er hann lauk upp búðinni morguninn eptir, kom hin unga ambátt og sagði að malarinn vildi finna hann að máli. „Hússmóðir mín!“ segir hún, „hefur hælt handbragði yðar svo mjög, að hann vill líka að þjer saumið eitthvað handa sjer. Þetta hefur hún gert með ásettu ráði, svo að kunningsskapur þessi geti stuðlað til, að vilja ykkar beggja verði framgengt.“ Bróðir minn ljet koma þessari flugu í munn sjer og fór með ambáttinni til malarans. Fagnaði hann honum vel, fjekk honum ljerepts stranga og mælti: „Mjer liggur á skyrtum; saumið þjer mjer tuttugu. Verði nokkuð afgangs, þá skilið þjer mjer því aptur.“

## 183. nótt.

„Bróðir minn var í fimm eða sex daga að sauma hinar tuttugu skyrtur handa malaranum. Þvínæst fjekk malarinn honum annan ljereptsstrangann til að sauma úr jafn margar nærbuxur. Þegar hann var búinn með þær, færði hann þær malaranum, spurði hann þá, hvað mikið hann ætti að borga. Sagðist bróðir minn vera ánægður með tuttugu silfurdrökmur; skipaði malarinn þá ambáttinni að koma með gullvogina til að sjá, hvort peningarnir, sem hann ætlaði að gjalda, hefðu rjetta vikt. En ambáttin, sem gerði nú allt eptir undirlögðu ráði, leit með þykkjusvip til bróður míns, til þess að láta hann skilja, að hann spillti öllu fyrir sjer, ef hann tæki við fjenu. Þó honum nú dauðlægi á því, og hann hefði jafnvel tekið til láns tvinnann, sem hann hafði haft í skyrturnar og nærbrækurnar, þá drap hann samt hendi við því; kom hann frá malaranum til mín og beiddi mig að lána sjer fje til viðurværis, af því menn borguðu honum ekki vinnu sína. Eg ljet hann fá nokkra eirskildinga, sem eg hafði í pyngju minni og komst hann af með þá í nokkra daga. Hann nærðist ekki á öðru en graut og át sig ekki einusinni saddan af honum. Nú fór

hann einusinni aptur til malarans og hitti hann, í því hann var að setja mylluna í gang; bauð malarinn honum þá fje, því hann hjelt hann kæmi til að krefjast þess. En ambáttin, sem var viðstödd, leit þeim augum til hans, að hann þáði það ekki, og kvaðst hann ekki hafa komið til annars enn að vita, hvernig honum liði. Malarinn sagðist kunna honum þökk fyrir, og fjekk honum efni í kápu, og beiddi hann að sauma. Kom Bakbúk með hana daginn eptir. Malarinn tók upp pyngju sína, en ambáttin leit undireins til bróður míns og mælti hann þá: „Nábúi góður! ekki liggur á, við skulum gera upp reikningana í annað skipti.“ Svona kom veslings flónið heim aptur í búðina sína, kvalinn af þremur stórmeinum: ást, sulti og örbyrgð. En hin ágjarna og illfúsa kona malarans ljet sjer ekki nægja, að svíkja bróður minn um verkkaup sitt, heldur eggjaði hún mann sinn til að hefnast á honum fyrir ást þá, er hann bar til hennar, og gerðu þau það á þessa leið. Malarinn bauð bróður mínum til kvöldverðar og er hann hafði veitt honum illa, mælti hann: „Bróðir! það er of frammorðið til þess þjer farið heim, verið hjá mjer í nótt!“ þvínæst vísaði hann honum til rúms, en fór sjálfur með konu sinni í svefnhús þeirra. Um miðnætti kom hann aptur til hans og mælti: „Nábúi góður! sofið þjer? asnan mín er veik og eg á mikið korn ómalað; mjer þækti vænt um, ef þjer vilduð snúa kvörninni í hennar stað.“ Bakbúk var búinn til þess, því hann vildi láta sjá góðan vilja og beiddi hinn að sýna sjer, hvernig hann ætti að fara að. Brá þá malarinn gjörð um hann miðjan, einsog um asna, lamdi keyrinu á lendar honum og mælti: „Áfram, nábúi góður!“ „því lemjið þjer mig þá,“ segir bróðir minn. „Til þess að örfa yður,“ svaraði malarinn, „án þess hreifist asninn minn aldrei úr sporunum.“ Bakbúk skildi ekkert i þessari meðferð, en þorði ekki að hljóða hátt; þegar hann hafði gengið fimm eða sex sinnum í kringum kvörnina, vildi hann hvíla sig, en malarinn gaf honum þá tólf keyrishögg vel útilátin og mælti: „Verið röskur, nábúi góður! og standið ekki við fyrir alla muni; gangið áfram og lítið ekki í kringum yður, annars skemmið þjer fyrir mjer mjölið.“

# 184. nótt.

„Bróðir minn varð að snúa kvörninni það sem eptir var nætur, og er dagaði, gekk malarinn til konu sinnar, en leysti hann ekki. Loksins kom hin unga ambátt og leysti hann: „Æ hvað við höfum aumkvað yður, hún hússmóðir mín og eg!“ sagði hin óhreinlynda dækja, „við eigum engan þátt í þessum illa grikk, sem hann hefur gert yður.“ Bakbúk vesalingur svaraði engu, svo var hann örmagnaður og lúinn, og fór hann heim með þeim staðfasta ásetningi, að hugsa aldrei framar um konu malarans.

„Kalífinn hló að sögu þessari,“ mælti rakarinn ennfremur, „og tók þannig til máls: „Nú skaltu fara heim til þín og skal þjer nokkuð áskotnast af minni hálfu í hugnunar skyni, fyrst þjer brást veizlan, sem þú hlakkaðir til.“ „Drottinn rjetttrúaðra manna,“ svaraði eg, „yðar hátign virði mjer það á hægra veg, að eg ekkert þigg fyrr, enn eg haf sagt sögur hinna annara bræðra minna.“ Þagði kalífinn við því og skildi eg þá, að hann mundi vilja veita mjer áheyrn, og hjelt þannig áfram frásögu minni.

## Sagan af hinum öðrum bróður rakarans.

Hinn annar bróðir minn, Bakbarah hinn svíntennti mætti einusinni kerlingu á afviknu stræti, yrti hún á hann og kvaðst þurfa að segja honum nokkuð. Stóð hann þá við og spurði, hvað það væri. Þá mælti kerling: „Ef þjer hafið tíma til að koma með mjer, skal eg fylgja yður í dýrðlega höll, og skuluð þjer sjá þar konu, sem er eins fögur og dagurinn er bjartur. Hún mun fagna yður með mesta dálæti og bera mat á borð fyrir yður með dýrasta víni; eg mun ekki þurfa að segja yður frekara.“ „Nei! er það satt?“ segir bróðir minn. „Ekki er eg lýgin,“ ansaði kerling: „og með engin ósannindi fer eg; en takið nú eptir því, sem eg heimta af yður. Þjer verðið að hegða yður skynsamlega, tala fátt og vera frábærlega kurteis og stimamjúkur.“ Bakbúk þáði boð þetta, og gekk hún á undan honum, enn hann fylgdi á eptir. Komu þau þá að hliði stórrar hallar og stóð þar fjöldi þjóna, ætluðu nokkrir þeirra að varna bróður mínum inngöngu, en jafnskjótt, sem kerling hafði talað við þá, leyfðu þeir honum að fara

inn. „Gætið þess nú,“ segir hún við Bakbúk, „að hin unga kona, sem eg fylgi yður til, ann mest hógværð og stillingu, en þolir engin mótmæli. Ef þjer, hvað þetta snertir, gerið henni að skapi, þá mun hún einskis synja yður.“ Bakbúk þakkaði henni heilræðið og lofaði að hlýðnast því. Þvínæst fylgdi hún honum inní dýrðlegt herbergi í ferhyrndu húsi, sem var skrautlegt einsog konungshöll, var í því miðju fagur lystigarður og loptsvalir allt umhverfis. Beiddi kerling hann, að setjast í fagran legubekk og bíða stundarkorn, þangaðtil hún væri búin að segja hinni ungu konu komu hans. Hafði bróðir minn aldrei komið á svo glæsilegan stað, og dáðist að allri þeirri prýði, er þar var að sjá; rjeði hann af því hvílíkur lánsmaður hann mundi vera, og kom yfir hann óstjórnleg kæti. Þá heyrði hann allt í einu glaum mikinn, og kom til hans hópur ambátta, lá vel á þeim og veltust þær um af hlátri. Í miðjum hópnum gekk fögur jungfrú, var það auðsjeð á virðingu þeirri, er henni var sýnd, að hún var yfir hinum. Bakbarah hafði vonazt eptir, að þau mundu talast við undir fjögur augu og furðaði sig á fjölmenni þessu. Þegar ambáttirnar komu nær honum, gerðu þær sig alvarlegri á svipinn, og er jungfrúin kom að legubekknum, stóð bróðir minn upp og hneigði sig djúpt fyrir henni. Þvínæst settist hún í tignarsæti, beiddi bróður minn að setjast niður aptur og mælti brosandi: „Mjer fær mikils fagnaðar að sjá yður og óska eg yður alls góðs, sem yður leikur hugur á.“ „Heiðraða jungfrú!“ ansaði Bakbarah, „eg get ekki óskað mjer neins æðra enn sæmdar þeirrar, að koma á yðar fund.“ „Eg held það liggi vel á yður,“ svaraði hún, „og mundi yður ekki fjærri skapi, að við styttum okkur stundir saman.“ Skipaði hún þá að bera inn mat og var borðið hlaðið körfum, fullum af aldinum og sætindum, settist hún við það með ambáttunum og bróður mínum. Af því að hún sat andspænis honum, sá hún svíntennurnar í munni honum, þegar hann át, vakti hún eptirtekt ambáttanna á því og hlóu þær dátt með henni. Bakbarah leit öðru hverju upp, og er hann sá jungfrúna hlægja, hjelt hann að henni væri svo óumræðileg gleði að sjer, að hún rjeði sjer ekki, vonaðist hann eptir að hún þá og þegar mundi senda ambáttirnar burt, svo þau gætu talast við vottalaust. Hún sá glöggt á honum, hvað hann hugsaði og

hafði gaman af að ala á þessari sætu tálvon, sagði hún við hann mörg blíðmæli og rjetti honum sjálf allt það, sem ljúffengast var á borði. Eptir máltíðina var staðið upp frá borðum og tóku þá tíu ambáttir að leika á hljóðfæri og syngja, en hinar dönsuðu. Til þess að koma sjer því betur, dansaði bróðir minn líka og var yngismærin í dansleiknum. En er dansað var um hríð, varð hvíld á; ljet hin unga kona færa sjer vínstaup, leit brosandi til bróður míns, til þess að gefa honum í skyn, að hún drykki honum til. Reis hann þá úr sæti og stóð ámeðan hún drakk; þvínæst ljet hún hella á staupið aptur og rjetti Bakbarah, til þess hann gerði sjer sömu skil.

## 185. nótt.

„Bróðir minn tók við staupinu kyssti á hönd hennar um leið og tæmdi það standandi í þakklætis skyni fyrir náð þá, er honum var auðsýnd. Ljet hin fagra jungfrú hann þá setjast hjá sjer, og kjassaði hann með ástar atlæti, tók hönd hans og lagði bakvið höfuð sjer, og gaf honum smá snoppunga. Af eptirlæti þessu varð bróðir minn svo frá sjer numinn, að hann þóktist vera hinn sælasti maður undir sólinni, og langaði hann líka til að gera sjer dátt við hina töfrandi mey, en hafði ekki áræði til þess, þarsem svo margar ambáttir horfðu á hann og hlóu án afláts. Yngismærin var alltaf að reka honum smá kinnhesta, en loksins rak hún honum slíkan rokna löðrung, að kinnin varð dreyrrauð og stökk hann þá upp úr sætinu til þess að flýa svo grátt gaman, sem þetta var. Kerlingin, sem hafði fylgt honum þangað, ljet hann skilja á augnatilliti sínn, að þetta væri rangt gert af honum, og að hann ætti að sýna kurteisi, einsog hún hafði ráðið honum til. Kannaðist hann og við ávirðingu sína og vildi gera gott úr, færði hann sig því aptur nær jungfrúnni og ljet sem hann hefði ekki staðið upp í fússi. Tók hún þá í hönd honum, ljet hann setjast hjá sjer og byrjaði aptur á hinni dutlungasömu ástar glettni. Ambáttirnar, sem ekki hugsuðu um annað enn að skemmta henni, tóku nú í sama strenginn, ein þeirra rak hnefann á nasir Bak-

barah, vesaling, önnur reif í eyru honum, einsog hún ætlaði að slíta þau af honum, og aðrar ráku honum utanundir, svo að gamanið fór af. Þoldi bróðir minn allt þetta með einstöku langlundar geði, gerði sig enda glaðlegan á svipinn og sagði við kerlinguna með uppgerðar brosi: „Það var orð og að sönnu, að þjer sögðuð mjer að eg kæmi í hendur góðlyndrar, fríðrar og yndislegrar konu. Mikið á eg yður að þakka.“ „Þetta er nú minnst,“ svaraði kerling, „bíðið bara við, þá mun koma allt annað.“ Jungfrúin segir þá við bróður minn: „Þjer eruð laglegur maður og þykir mjer undur vænt um, þegar eg sje slíka kurteisi koma í móti duttlungasemi minni, og hitti mann, sem eg á skap saman við.“ Bakbarah rjeði sjer ekki fyrir gleði útaf orðum þessum og svaraði: „Náðuga jungfrú! eg er allur á yðar valdi, og megið þjer fara með mig, sem yður líkar.“ „En hvað þjer gleðjið mig,“ mælti jungfrúin, „þarsem þjer sýnið mjer slíka undirgefni, mjer líkar við yður í alla staði og þjer skuluð verða ánægður með mig. Sækið honum,“ sagði hún, „reykelsi og rósavatn.“ Sóktu þá tvær ambáttir undireins reykelsisker úr silfri með hinum dýrasta viðsmjörsviði í, og ljet önnur ilminn leggja um Bakbarah, en hin stökkti rósavatninu um andlit hans og hendur. Varð bróðir minn stórglaður af þessari virðingarfullu meðferð. Skipaði jungfrúin ambáttunum þvínæst að syngja og leika á hljóðfæri; sagði hún einni ambáttinni að fara út með Bakbarah, og gera nokkuð við hann, sem þær báðar vissu, og koma síðan inn með hann aptur. Bakbarah heyrði á skipun þessa, stóð jafnskjótt upp, gekk til kerlingar, sem líka var staðinn upp, til að fylgja honum og ambáttinni,og spurði hana, hvað þær ætluðu að gera við sig. Sagði hún honum þá í hljóði: „Hússmóðir okkar er forvitin og langar hana til að vita, hvernig yður fer kvennbúningur. Ambáttin þarna á að lita á yður augabrýrnar, skera af yður kampinn og færa yður í kvennmanns föt.“ „Brýrnar á mjer megið þið lita,“ ansaði bróðir minn, „því þær get eg þvegið á eptir, en hvernig á eg að koma fyrir nokkurs manns augu kampalaus? Þjer sjáið það sjálfar, að eg get ekki leyft það.“ Þá mælti kerling: „Varist þjer að mæla ímóti því, sem heimtað er af yður, því þá spillið þjer yðar máli, sem nú er á svo góðum vegi. Hún elskar yður og mun unna

yður allrar sælu, viljið þjer þá fyrir bannsetta kampana hafa af yður það mesta yndi, sem nokkrum manni getur hlotnast.“ Fór þá Bakbarah með ambáttinni, þegjandi inn í herbergi eitt, voru augabrýr hans þar litaðar rauðar og kamparnir skornir af honum, en þegar átti að skella af honum hitt skeggið, tók hann þvert fyrir, og sagðist með engu móti leyfa það. En ambáttin leiddi honum fyrir sjónir, að þá hefði hann til einskis lagt kampana í sölurnar, og kvaðst vera hissa á því, að nokkur maður skyldi geta horft í skegg sitt, þarsem hann ætti kost á ástum hinnar fegurstu konu í Bagdad. Lagði og kerling að honum með sköruglegum fortölum og hótaði honum reiði jungfrúarinnar fögru, svo að bróðir minn ljet sjer segjast. Var loksins farið með hann í kvennbúningnum til jungfrúarinnar, og setti að henni slíkan ofsahlátur, að hún veltist um í legubekknum, sem hún sat í. Ambáttirnar tóku undir með henni og skelltu saman lófunum svo að bróðir minn vissi ekki, hvaðan á hann stóð veðrið. Þá stóð yngismærin upp hlæjandi og mælti einsog fyrr: „Eg mundi gera yður rangt til, ef eg ekki elskaði yður af öllu hjarta, þarsem þjer hafið verið mjer svo eptirlátur, en vinnið einn hlut enn til elsku minnar og dansið í þessum búníngi.“ Hlýddi hann því og dönsuðu bæði yngismærin og ambáttirnar við hann, og hlóu einsog þær væru orðnar trylltar. En er á því hafði gengið um stund, rjeðust þær allar á veslings manninn, lömdu hann með hnefunum og tróðu hann með fótunum svo að hann datt niður, nær því meðvitundarlaus. Hjálpaði kerling honum þá á fætur, og fyrr enn hann gæti komið upp orði til að kvarta yfir hrakningi þessum hvíslaði hún þessum orðum að honum: „Huggist, og verið glaður, því nú eru hörmungarnar á enda, og nú munuð þjer taka laun fyrir.

## 186. nótt.

„Eitt er samt eptir,“ mælti kerling, „og þó lítilræði, því yður að segja þegar hússmóðir okkar hefur drukkið nokkuð, einsog hún hefir gert í dag, lætur hún engan, sem hún elskar, koma nálægt sjer, nema hann sje í tómri skyrtunni; mun hún þá skopa skeið á undan og hlaupa eptir loptsvölunum frá einu herberginu

til annars, þangað til þjer náið henni. Þetta er líka ein af hinum kynlegu fyrirtektum hennar, en þjer eruð svo sprækur og ljettur á fæti, að þjer munuð undireins ná henni.“ Bróðir minn var nú kominn oflangt út í þetta til þess að snúa aptur. Fór hann því úr öllum fötunum; eins gerði yngismærin og tók af sjer hverja spjör nema nærskjólið, svo að hún væri því ljettari til hlaups. En er þau voru bæði búin til veðhlaupsins, tók hún eitthvað tuttugu skrefa forskot, og hljóp síðan með geysi flýti. Rann bróðir minn á eptir henni svo hart sem hann gat, hlóu ambáttirnar dátt að því og klöppuðu saman höndunum. En yngismærin fór lengra og lengra frammúr honum, og er hún hafði hlaupið nokkrum sinnum eptir loptsvölunum hringinn í kring, hljóp hún inní trjágang nokkurn langan og dymman og skaust þar út um hlið, er hún vissi af. Varð þá Bakbarah að fara hægra vegna myrkursins og missti sjónar á henni, kom hann loksins auga á ljós eitt, rann á það og komst útum dyr nokkrar, sem var skellt aptur á hæl honum. Skimaði hann þá íkringum sig, og undraðist er hann sá, að hann var kominn út á stræti, er sútarar bjuggu í, undruðust þeir ekki síður enn hann, er þeir sáu mann með háranðar augabrýr, skegglausan í skyrtu einni. Skelltu þeir saman höndunum, æptu og tóku að gera spott að honum; sumir hlupu á eptir honum og lömdu hann með skinnum. Þeir lögðu hendur á hann og settu hann upp á asna, sem af tilviljun varð á vegi þeirra, þvínæst fóru þeir með hann gegnum strætin, og ljetu hann verða skrílnum til athlægis. En er þeir fóru framhjá húsi lögregludómarans bættist nýtt ólán við, því hann vildi vita, hvernig á upphlaupi þessu stæði. Sögðu þá sútararnir honum, að þeir hefðu sjeð bróður minn, einsog hann var til reika, koma út um dyr nokkrar á kvennabúri stórvezírsins, er vissu útað stræti þeirra. Ljet því lögregludómarinn lemja vesalinginn Bakbarah hundrað slög á iljarnar og flytja hann útúr borginni, var honum um leið bannað að stíga nokkrusinni fæti sínum í hana framar.

Svona er sagan af hinum öðrum bróður mínum; hann vissi ekki, að konur höfðingja vorra gera ungum mönnum stundum þesskonar brellur, þegar þeir af einfeldni láta veiða sig í slíkum snörum.

# 187. nótt.

## Sagan af hinum þriðja bróður rakarans.

„Bakbak, hinn þriðji bróðir minn var blindur, og hin þungbæru forlög hans höfðu gert hann að hússgangi, gekk hann hús úr húsi og beiddist ölmusu. Var hann orðinn svo alvanur að ganga á strætunum, að hann þurfti engrar fylgdar, og var það siður hans, er hann drap á dyr, að svara ekki fyrr enn upp var lokið. Einusinni barði hann að dyrum á húsi einu; hússráðandinn var einn heima og kallaði: „Hver er þar?“ Svaraði bróðir minn engu og barði á ný, og spurði hússráðandinn aptur, en þar var steinshljóð. Fór hann þá ofan, lauk upp og spurði bróður minn erindis. „Gefið mjer fyrir guðs sakir eitthvað,“ ansaði Bakbak. „Þjer eruð blindur ef mjer sýnist rjett,“ segir hinn, „Því er nú verr,“ ansaði Bakbak. „Rjettið mjer þá höndina,“ mælti hússráðandinn. Bróðir minn gerði svo, en hinn greip um hana og dró hann með sjer upp stigann, og inn í herbergi sitt; hjelt Bakbak að hann mundi ætla að láta hann snæða með sjer, því slíkt hafði fyrr viljað honum til. En þegar þeir voru komnir upp, sleppti hússráðandinn hendi bróður míns, settist niður og spurði á ný, hvað hann vildi. Beiddist Bakbak þá ölmusu upp á nýtt, en hinn svaraði: „Góðurinn minn! mjer er ómögulegt að gera yður neitt annað gott enn að biðja guð að gefa yður sjónina aptur.“ „Það gátuð þjer sagt, þegar eg stóð við dyrnar,“ ansaði bróðir minn, „og hefðuð þjer ekki þurft að ómaka mig hingað.“ „Því eruð þjer þá sá einfeldningur,“ ansaði hinn, „að svara ekki undireins, þegar þjer fyrst drepið á dyr og þjer eruð spurdir um, hver þjer sjeuð?“ „Hvað viljið þjer mjer þá?“ spurði bróðir minn, og er hinn enga úrlausn kvaðst geta gert honum, mælti hann: „Hjálpið þjer mjer þá ofan stigann einsog þjer hjálpuðuð mjer upp.“ „Gerið svo vel og farið einn!“ mælti hinn, „stiginn er rjett fyrir tánum á yður.“ Staulaðist þá bróðir minn niður, en í miðjum stiganum skriðnaði honum fótur og hrapaði hann ofan á gólf, en höfuð hans og lendar meiddust til muna. Samt dróst hann á fætur aptur og gekk frá húsinu kveinandi, kvartaði hann sáran undan hússráðandanum, en hann gerði ekki annað enn hlægja að biltu hans. Í því bróðir minn

gekk út úr húsinu, gengu tveir blindir menn framhjá og þekktu hann á málrómi, spurðu þeir, hvað að honum gengi Sagði hann þeim af óförum sínum og kvaðst ekkert hafa fengið þann dag, beiddi hann þá fyrir alla muni að fylgja sjer heim til sín, svo að hann gæti í viðurvist þeirra tekið sjer fje til kvöldverðar af sameginlegri eign þeirra allra. Þeir játtu því og fóru með honum; en hinn harðbrjóstaði hússráðandi hafði staðið við glugga og heyrt hvert orð, sem þeir sögðu. Hann var lymskur þjófur og hinn hrekkvísasti, veitti hann þeim því eptirför og gekk með þeim inní hinn hrörlega kofa, er bróðir minn bjó í. Þegar hinir blindu voru seztir niður, mælti bróðir minn: „Nú skulum við loka dyrunum og grennzlast eptir, hvort enginn ókunnugur er á meðal vor.“ Þá komst þjófurinn í bobba, en svo vildi til að kaðall hjekk ofan úr rjáfrinu, vóg hann sig þá upp á honum og hjelt sjer á lopti meðan hinir blindu læstu dyrunum og þreifuðust alstaðar fyrir í herberginu með stafprikum sínum. En er þeir voru búnir að því og seztir niður aptur, ljet hann sígast niður og settist með varkárni hjá bróður mínum, sem ekki vissi annað enn að hann væri einn með báðum hinum blindu mönnum. Tók Bakbak þannig til máls: „Bræður! þjer hafið gert mig að fjehirði peninga þeirra, er vjer allir þrír höfum nælt saman í langan tíma, nú vil eg sýna ykkur, að eg á það traust skilið, sem þjer hafið haft á mjer. Þegar við töldum seinast saman, áttum við, einsog þið munið, tíu þúsund drökmur og ljetum við fje þetta í tíu poka. Þarna eru þeir ósnertir!“ Að svo mæltu greip hann hendinni milli gamallra leppa, er lágu afsíðis, og tók fram pokana einn í einu, fjekk lagsbræðrum sínum og mælti: „Þið getið fundið á þyngslunum, að ekki hefur verið tekið á þeim; en við getum talið ef þið viljið.“ Sögðu þá báðir hinir blindu menn, að þeir tryðu bróður mínum, fór hann þvínæst í einn pokann og tók uppúr honum tíu drökmur; eins gerðu báðir fjelagar hans. En er bróðir minn hafði látið pokana á sinn stað, sagði einn af hinum blindu, að þeir mundu ekki þurfa að kosta neinu til kvöldverðar, því sjer hefði gefizt svo mikið af góðum mönnum, að þeim þremur mundi nægja. Tók hann þá brauð, ost og nokkur aldin upp úr malpoka sínum, bar þetta á borð og tóku þeir síðan til matar. Sat þjófurinn á hægri hönd bróður mínum,

tók allt, sem bezt var, og át með þeim. Þó hann nú færi að öllu sem hljóðlegast, heyrði Bakbak samt til hans, er hann tuggði og kallaði undireins upp: „Við erum frá! hjer er maður inni!“ Þreif hann þá undireins til þjófsins, greip um handlegg honum og grenjaði: „Þjófur! þjófur!“ Eins gerðu hinir blindingjarnir, en hann varðist, sem bezt hann gat. Var hann stór og sterkur og hafði sjónina fram yfir hina, lamdi hann þá ákaft og kallaði enn hærra enn hinir: „Þjófar! þjófar!“ Komu þá allir nábúarnir hlaupandi og brutu upp dyrnar, veitti þeim örðugt að skilja þá; en er þeir höfðu gert það, spurðu þeir, útaf hverju áflogin hefðu risið. Bróðir minn hjelt enn í þjófinn og gaf honum að sök, að hann hefði læðst inn með þeim til þess, að stela frá þeim því litla, sem þeir ættu. En undireins og þjófurinn sá menn koma, ljet hann aptur augun, og þóktist vera blindur, tók hann bæði Mahómet og kalífann til vitnis, að hinir þrír væru fjelagar sínir, og hjeldu fyrir sjer rjettum hlut, þeir hefðu lagzt á sig, og krafðist hann því rjettingar á máli sínu. Nábúarnir vildu ekki skipta sjer af þessu og fóru með þá alla fjóra til lögreglustjórans. Þar tók þjófurinn ótilkvaddur til máls, og ljezt alltaf vera blindur: „Herra! með því þjer eruð settur af kalífanum til að gæta rjettvísinnar, — guð láti hans vald fara vaxandi — þá játa eg yður því, að vjer erum allir jafnsekir. En af því vjer höfum svarið, að meðganga ekkert fyrr enn vjer yrðum kvaldir með iljastrokum, þá þurfið þjer ekki annað, enn að skipa að svo verði gert, og er þá bezt þjer byrjið á mjer.“ Bróðir minn ætlaði líka að tala, en honum var skipað að þegja, var nú þjófnum gefin iljastroka.

# 188. nótt.

„Þjófurinn þoldi með stöðuglyndi tuttugu, eða þrjátíu högg, því næst ljet hann, sem sársaukinn bæri sig ofurliða, lauk augunum upp til skiptis, beiddist miskunnar og vægðar á höggunum. Þegar dómarinn sá, að þjófurinn horfði á hann með opnum augunum, spurði hann forviða: „Þorparinn þinn! hvað á þetta að þýða?“ „Herra!“ svaraði hann, „eg ætla, að segja yður mikilvægt laun-

ungarmál ef þjer viljið unna mjer miskunnar og fáið mjer innsiglis hring yðar að veði.“ Ljet þá dómarinn hætta að berja hann, fjekk honum hringinn og lofaði honum vægð; tók þá þjófurinn til máls: „Herra! við fjelagar höfum gert okkur upp sjónleysi til þess vjer hindrunarlaust gætum komizt inn í hús og farið inn í herbergi kvenna, höfum vjer þar neytt aflsmunar. Eg játa því og, að vjer með brögðum þessum höfum dregið saman tíu þúsund drökmur, og heimtaði eg í dag fjórða partinn, er eg átti, en fjelagar mínir synjuðu mjer þessa, af því eg hafði sagt, að eg vildi slíta við þá fjelagsskapnum, og voru þeir hræddir um, að eg mundi koma upp um þá. En er eg stóð fast á kröfu minni, rjeðust þeir á mig og misþyrmdu mjer, einsog þeir menn geta borið vitni um, sem fóru með oss hingað. Vænti eg þess, herra! sakir rjettlætis yður, að þjer fáið mjer hinar tvö þúsund og fimmhundruð drökmur, sem eg á heimting á. En eigi fjelagar mínir að votta sannindi orða minna, verðið þjer að láta lemja þá þrefalt fleiri stafshögg enn mig, og munu þá augu þeirra uppljúkast,“ Bróðir minn og báðir hinir blindu menn ætluðu að hrinda af sjer þessum svívirðilegu álygum, en dómarinn veitti þeim enga áheyrn, og mælti: „Þjer illvirkjar! svona látið þið einsog þið sjeuð blindir, notið það einsog yfirskyn og vekið meðaumkvun manna til þess þjer getið drýgt hina verstu glæpi.“ Ljet hann síðan lemja þá hundrað stafshögg. Vonaði hann alltaf, meðan á því stóð, að þeir mundu opna augun, og er ómögulegt reyndist að koma þeim til þess, kenndi hann þvermóðsku þeirra um. Þjófurinn sagði við þá: „Aumir menn! ljúkið upp augunum og látið ekki lemja ykkur til dauða.“ Þvínæst vjek hann sjer að dómaranum og mælti: „Herra! eg sje glöggt, að þeir illskast til þrautar og eru þeir ef til vill hræddir við svívirðingu þá, er fyrir þeim liggur. Það er bezt þjer látið þá sleppa hjá refsingu og fáið mjer einn af þjónum yðar til fylgdar til þess að sækja hinar tíu þúsund drökmur: „Dómarinn fjellzt á uppástungu þessa, ljet telja þjófnum tvö þúsund og fimmhundruð drökmur, og stakk hinu í sjálfs sín sjóð, en bróður minn og hina blindu menn rak hann í útlegð úr borginni. En undireins og eg spurði ófarir bróður míns flýtti eg mjer á hans fund og kom honum inní borgina aptur á laun. En

ekki þorði eg að leita til dómarans til þess að málið yrði leiðrjett og þjófnum refsað að maklegleikum, því eg var hræddur um að eg sjálfur mundi rata í eitthvert ólánið útúr því.

## Sagan af hinum fjórða bróður rakarans.

Hinn fjórði bróðir minn hjet Alkus og var slátrari. Honum var frábærlega vel gefið að ala hrúta og temja þá til hrúta ats, hafði hann fyrir þá sök orðið vinveittur mörgum höfðingjum, sem hafa gaman af þesskonar ati og ala hrúta til þess. Margir verzluðu við hann og hafði hann jafnan hið bezta kjöt, því hann var vellríkur og sparði ekki fje til að hafa það sem bezt. Einusinni kom til hans karl með langt og sítt skegg, keypti hann sex pund af kjöti, borgaði þau, og gekk síðan á burt. Bróður mínum litust peningar þeir, er hann hafði greitt fyrir kjötið, svo fríðir, skírir og vel slegnir, að hann geymdi þá í kistli á afviknum stað. Sami karlinn kom í fimm mánuði á degi hverjum og keypti jafnmikið, og borgaði ávallt með samkyns peningum, lagði bróðir minn þá ætíð afsíðis. Nokkru eptir þetta ætlaði hann að kaupa sjer nokkra sauði og borga þá með hinum fögru peningum, en honum brá í brún, er hann lauk upp kistlinum og fann í stað peninganna ekki annað enn kringlótta pappírsmiða. Hann lamdi höfuð sitt, og æpti upp yfir sig svo hátt, að nábúar hans komu til hans og þókti þeim þetta ekki síður kynlegt enn sjálfum honum, er þeir heyrðu hvernig á stóð. „Guð gæfi,“ sagði bróðir minn grátandi, „að þessi hræsnisfulli karl kæmi hingað í stað!“ Jafnskjótt, sem hann hafði talað þessi orð, sá hann karlinn koma álengdar. Hljóp hann þá ámóti honum, þreif í hann og æpti hástöfum: „Hjálpið! góðir menn!“ og sagði hann lýðnum, er allt í einu þusti saman, allt hið sama og hann hafði sagt nábúum sínum. En er hann hafði úttalað mælti karlinn stillt og kuldalega: „Þjer gerðuð vel, ef þjer ljetuð mig fara og bættuð með því svívirðingu þá, er þjer hafið gert mjer í návist svo margra manna, því vísast væri, að eg gæti gert yður meiri smán, og þækti mjer illt ef eg neyddist til þess.“ „Hvað getur þú brugðið mjer um,“ mælti bróðir minn, „eg stunda atvinnu mína einsog ráðvandur maður og ekki hræðist eg þig.“

„Þjer viljið þá,“ mælti karlinn með sömu stillingu og fyrr, „að eg geri það uppskátt; skuluð þjer þá vita, góðir menn! að maður þessi selur mannakjöt fyrir sauðakjöt.“ „Þú lygari!“ æpti bróðir minn. „Nei! nei!“ sagði karlinn, „hann hefur nýlega slátrað manni og hangir hann fyrir utan búðina, einsog sauðkind; farið og vitið, hvort eg lýg.“ Nú hafði bróðir minn slátrað sauð þenna dag og hengt kroppinn fyrir utan búðina, einsog hann var vanur. Hann sór og sárt við lagði, að karlinn lýgi, en skríllinn, sem var auðtrúa, neyddi hann til að sleppa karlinum, og fór með hann til sölubúðar hans, sáu menn þá kropp slátraðs manns hanga þar, einsog karlinn hafði sagt. En karl þessi var galdramaður og hafði gert lýðnum sjónhverfingar, einsog hann áður hafði töfrað augu bróður míns, svo að honum sýndust pappírs miðarnir vera peningar. Einn af þeim, er hjelt í bróður minn, rak honum stóreflis hnefahögg eg mælti: „Mannfýlan þín! þú lætur okkur þá eta mannakjöt. En karlinn, sem ekki hafði yfirgefið hann, sló annað augað úr höfði honum og hver, sem gat komizt að, svalaði heipt sinni á honum. Þvínæst fóru þeir með hann til lögregludómarans, og höfðu líkið með sjer og sýndu honum það, ákærunni til sönnunar, og krafðist karlinn þess, að fádæmis hegning yrði lögð á hinn grimma slátrara. Dómarinn hlýddi að vísu með þolinmæði á bróður minn, en honum þókti svo ótrúleg sagan um peningana, sem urðu að pappírsmiðum, að hann fór með hann, einsog falsara, eptir vitni sinnar egin sjónar, og ljet lemja hann hundrað stafshögg. Hann kvaldi hann og til að segja, hvar peningar hans væru geymdir, tók hann af honum allt það, er hann átti, setti hann uppá úlfalda og ljet hann vera öllum borgarlýðnum til sýnis í þrjá daga, og rak hann úr borginni í æfilanga útlegð.

## 189. nótt.

„Eg var ekki í Bagdad, þegar ólán þetta henti bróður minn. Fór hann á afskekkta staði og var þar á laun, þangaðtil sárin voru gróin, er hann hafði á bakinu eptir stafshöggin; þvínæst fór hann eptir hliðvegum á næturþeli til borgar einnar, þar sem hann

þekkti engan mann, og leigði sjer hús; fór hann þvínær aldrei út. Loksins leiddist honum kyrseta þessi og fór hann því einusinni að ganga sjer til skemmtunar í forstaðnum. Þá heyrði hann allt í einu koma á eptir sjer marga riddara með miklu háreysti. Nú vildi svo, til að hann var staddur nálægt hliði stórhúss nokkurs, og með því hann, eptir það, sem honum hafði viljað til, var hræddur við allt, þá lauk hann upp hliðinu, og fór inn til að fela sig. Þegar hann hafði lokað því á eptir sjer, kom hann inn í stóran garð, en í sama bili hlupu tveir þjónar til, og tóku hann fastan. „Guði sje lof!" sögðu þeir, „að þú sjálfkrafa hleypur okkur í greipar. Þú hefur kvalið okkur hinar þrjár síðustu nætur svo, að okkur hefir ekki komið svefn á augu, og því aðeins hefurðu þyrmt lífi okkar, að við sjálfir gátum varist illmennsku þinni." Megið þjer nærri geta, hvort bróður mínum hefur ekki brugðið við slíka kveðju. „Góðir menn," mælti hann, „eg skil ykkur ekki, þið haldið víst eg sje annar enn eg er." Svöruðu þeir þá: „Nei! ónei! við þekkjum þig og stallbræður þína, þið eruð erkifantar. Ykkur þykir ekki nóg, að þið hafið rænt og ruplað hússbónda okkar, svo hann er kominn á verðgang, heldur viljið þið í tilbót drepa hann. Við skulum skoða, hvort þú hefur ekki hjá þjer hnífinn, sem þú hjelzt á í nótt eð var, þegar þú eltir okkur." Leituðu þeir þá í vösum hans og fundu hníf. „Þorirðu nú." sögðu þeir, „að þræta fyrir, að þú sjert þjófur?" Reyndi bróðir minn, að leiða þeim fyrir sjónir, að margur gæti borið hníf í vasa sínum, sem ekki væri þjófur, beiddi hann þá, að hlýða á sögu sína, og sagði þeir mundu þá öllu heldur aumkva sig, enn tortryggja. Þeir gáfu því engan gaum, heldur flugu þeir á hann, tróðu hann fótum, rifu utanaf honum fötin og misþyrmdu honum hálfu meira enn áður, þegar þeir sáu örin á baki hans, því þeim þókti það vottur um, að hann ekki mundi vera ráðvandur maður. Kallaði þá bróðir minn upp hljóðandi: „Miklar hljóta syndir mínir að vera, þarsem mjer áður hefur verið misþyrmt saklausum, og þarsem það nú hendir mig í annað sinn fyrir jafnlitlar sakir." Þjónarnir skeyttu alls ekki kveinstöfum hans, heldur fóru þeir með hann til lögregludómarans, og spurði hann bróður minn: „Hvernig dirfðist þú að koma í hús til þeirra og elta þá með

reiddan hnífinn?“ „Herra!“ ansaði vesalingurinn Alkus, „eg er öldungis saklaus, en mjer er ógæfan vís, ef þjer ekki viljið heyra á mig með þolinmæði.“ Greip þá annar þjónanna frammí og sagði við dómarann: „Ætlið þjer að hlýða á ræningja, sem brýzt inn til dráps og gripdeilda? Ef þjer ekki trúið okkur, þá skoðið þjer á honum bakið.“ þvínæst fletti hann klæðum af baki bróður míns, og ljet þá dómarinn án frekari ransóknar lemja hann hundrað högg á herðarnar. Síðan ljet hann setja hann uppá úlfalda og fara með hann um borgina; skyldi hrópa þessi orð um leið: „Svona er þeim refsað, sem brjótast inní hús!“ Að því búnu rak hann Alkus í æfilanga útlegð þaðan. Sögðu mjer menn, er höfðu mætt honum, hvar hann hafðist við eptir þetta annað slys, fór eg þá til hans, kom honum á laun til Bagdad og hjálpaði honum sem eg bezt gat.

## 190. nótt.

„Kalífinn Mostanser Billah hló ekki að sögu þessari einsog hinum fyrri, heldur aumkvaði hann lánleysingjann Alkus. Ætlaði hann þá að gefa mjer eitthvað og láta mig fara, en eg ljet menn engan tíma fá til þess, að fullnægja skipun hans, heldur tók eg undireins aptur til frásagna:

## Sagan af hinum fimmta bróður rakarans,

Hinn fimmti bróðir minn, er Alnaschar hjet, var fjarska latur meðan faðir minn lifði. Ístað þess að vinna, var hann svo ósvífinn, að hann sníkti á kvöldin og lifði hinn næsta dag af ölmusum þeim, er honum gáfust. þegar faðir okkar var andaður, skiptum við jafnt hinum eptirlátnu fjármunum hans, og fenguin við sjö bræður hundrað drökmur hver. Svo mikið fje hafði Alnaschar aldrei haft ámilli handa og vissi hann ekki, hvernig hann ætti að verja því. Eptir langa umhugsun, keypti hann hjá stórkaupmanni nokkrum flöskur og ýmsan glervarning, ljet rusl þetta í gagnsæra körf og leigði sjer dálitla búðarkitru; þar sat hann upp við þilið

með körfina fyrir framan sig og beið kaupenda. Hann starblíndi á körfina og talaði sem nú segir svo hátt, að skraddari nokkur heyrði, sem var nábúi hans: „Fyrir þessa körf hef eg gefið hundrað drökmur, og það var aleiga mín. Þegar eg sel eitt og eitt glerílát, mun eg hafa uppúr henni tvö hundruð drökmur; þessum tveimur hundruð drökmum ver eg til nýrra glerkaupa og græði fjögur hundruð drökmur. Þannig munu mjer með tímanum áskotnast fjögur þúsund drökmur, og er hægt að tvöfalda þær. Þegar eg hef eignast tíu þúsund drökmur, hætti eg að verzla með glervöru og verð gimsteinakaupmaður, og verzla með demanta, perlur og allskonar dýrmæta steina. Þegar eg hef efni til, mun eg kaupa fagurt hús, stórar fasteignir, þræla, geldinga og hesta. Eg mun hafa dýrðlegt borðhald með mestu stórmennsku; alla söngmenn, dansmenn og dansmeyar læt eg koma til mín. En ekki mun eg una við svo búið, eg mun auka eigur mínar, þangaðtil eg á hundrað þúsund drökmur. Þegar eg er orðinn svo ríkur, þykist eg ekki minni, enn eg væri konungborinn; eg bið mjer dóttur stórvezírsins til eiginkonu og læt segja honum, að eg hafi frjett af frábærri fegurð hennar, vitsmunum, orðheppni og öðrum kostum, og vilji gefa honum þúsund gullpeninga fyrir fyrstu nóttina, sem við dóttir hans liggjum í hvílu saman. Skyldi nú vezírinn, hvað ekki til kemur, vera svo ókurteis að synja mjer um dóttur sína, þá tek eg hana með valdi uppí opið geðið á honum, og fer heim með hana, hvað sem hann segir. Þegar eg nú er kvongaður dóttur stórvezírsins, kaupi eg handa henni tíu hina yngstu og fríðustu geldinga, sjálfan mig bý eg einsog konungborinn maður, og læt þræla ganga á undan mjer og eptir; eg ríð fríðum fáki við söðul úr skíru gulli, og söðulklæði úr gullfjölluðu rósasilki, alsett demöntum og perlum, fer eg þannig um borgina til hallar stórvezírsins, og allir hneigja sig djúpt fyrir mjer, bæði æðri og lægri stjettar. Þegar eg er farinn af baki hjá vezírnum, skipast menn mínir í tvær raðir til hægri og vinstri handar, geng eg á milli þeirra upp tröppurnar, og fagnar þá vezírinn mjer, einsog tengdasyni sínum, víkur úr sæti sínu og sezt neðar mjer til að sýna mjer sem mesta virðingu. Ef nú þetta fer að vonum, þá koma tveir af þjónum mínum sinn með hvern pokann fullan af þúsund

gullpeningum, gef eg vezírnum annan einsog gjöf þá, er eg hjet honum fyrir brúðkaupsnóttina, hinn gef eg honum til merkis um, að eg sje orðheldinn maður og efni meira enn eg lofa. Eptir slíka stórmennsku mun hvert mannsbarn lofa örlæti mitt. Með sömu viðhöfn mun eg heim ríða; mun þá kona mín senda mjer kveðju með þjónum nokkrum í þakklætis skyni fyrir, að eg sókti föður hennar heim. Þjóninum mun eg gefa fagra skikkju og láta hann fara af mínum fundi sæmdan virðulegum gjöfum. En skyldi hún senda mjer skikkju, þá þigg eg hana ekki, og vísa sendimanni burt. Aldrei skal hún fara úr herbergi sínu án minnar vitundar, hvað sem hún ber fyrir, og þegar eg kem inn til hennar, skal eg ætíð sjá svo um, að henni aukist lotning fyrir mjer. Á engu heimili skal vera betra skipulag enn mínu. Eg mun ætíð ganga í skrautlegum klæðum, og þegar eg er hjá konu minni um kvöldtíma, mun eg setjast í öndvegi og hvorki líta til hægri handar nje vinstri. Eg mun vera fálátur og meðan kona mín, fögur einsog máni í fyllingu, stendur frammi fyrir mjer í öllu skarti sínu, mun eg láta sem eg ekki sjái hana. Þá munu þjónustumeyar hennar segja: „Drottinn vor og herra! hjer stendur kona yðar, auðmjúk ambátt yðar, og bíður þess, að þjer sýnið henni nokkur ástaratlot. Henni er mesta skapraun, að þjer skulið ekki virða hana viðlits og hún er þreytt af því, að standa svo lengi; bjóðið henni að minnzta kosti sæti.“ Svara eg þá engu og mun það fá þeim enn meiri undrunar og hryggðar. Þá munu þær fleygja sjer fram fyrir fætur mína, og þegar eg hef látið þær sárbæna mig góða stund, mun eg líta upp, horfa til þeirra einsog i þaunkum og þvínæst hengja niður höfuðið einsog fyrri. Munu þær þá halda, að mjer þyki ekki kona mín full góð eða nógu skrautbúin og munu þær fara með henni í annað herbergi og færa hana í enn glæsilegri búning. Mun eg, meðan á því stendur, fara í skrautlegri klæði og er hún kemur aptur, mun eg fara eins að og í fyrsta sinn. Skal kona mín undireins á hinum fyrsta degi sjá, hvernig hún á að haga sjer við mig.

# 191. nótt.

„Þegar brúðkaupið er á enda mun eg taka af þjóni nokkrum, sem verður nálægt mjer, pyngju með fimmhundruð gullpeningum í, mun eg gefa hana konum þeim, er prýða hár konu minnar, til þess að þær láti okkur tvö ein. En er þær eru farnar, mun kona mín fyrst leggjast niður í rúm; svo geri eg líka, en sný bakinu að henni alla nóttina og tala ekki orð. Mun hún fortakslaust daginn eptir kvarta undan drambi mínu og fyrirlitningu við móður sína, konu stórvezírsins, og mun mjer þá verða dillað. Kemur þá kona stórvezírsins og segir við mig: „Herra!“ — hún þorir ekki að kalla mig tengdason, því hún er hrædd um, að svo kompánlegt ávarp styggi mig — „eg bið yður að lítilsvirða ekki dóttur mína, heldur verða henni dálítið nærgöngulli. Eg þori að fullyrða, að hún elskar yður af öllu hjarta og hefur ekki hugann á öðru, enn að gera yður allt að vilja.“ En hvað sem tengdamóðir mín segir, mun eg engu svara og vera jafn alvarlegur sem fyrri. Mun hún þá fleygja sjer fram fyrir fætur mína, kyssa hendur mínar hvað eptir annað og segja: „Herra! gátuð þjer efast um skírleika dóttur minnar? eg sver yður það, að eg ætíð hef haft gætur á henni og hefur enginn karlmaður annar enn þjer sjeð andlit hennar. Særið hana því ekki framar, einsog þjer hafið gert, sýnið henni þá virðingu að líta á hana og styrkið hana í hinu góða áformi, sem er í því innifalið, að láta allt eptir yður.“ En eg mun alls ekki láta það á mig fá. Mun þá tengdamóðir mín rjetta konu minni vínstaup og segja: „Far þú og byrla honum það sjálf; það er vísast hann verði ekki svo harðbrjósta að drepa hendi við því, þegar svo fögur hönd rjettir honum það.“ Þá mun kona mín koma með staupið og nema staðar frammi fyrir mjer skjálfandi, en eg lít þá hvorki á hana nje tala orð; mun hún þá segja grátandi: „Hjartað mitt! elskan mín! blessaður maður minn! eg sárbæni yður fyrir miskunsemi drottins að sýna mjer þá náð, að taka við staupi þessu af hinni auðmjúkustu ambátt yðvarri.“ En eg mun hvorki líta til hennar, nje svara henni; mun þá grátur hennar vaxa um helfing og mun hún segja: „Gæzkan mín góða! eg hef ekki frið

fyrr enn þjer drekkið það,“ og halda staupinu að vörum mínum. Verð eg þá leiður á bænum hennar, horfi til hennar ógurlegum augum, rek henni rokna löðrung og spyrni henni svo hart frá mjer með fætinum. að hún mun detta niður á gólfið langt frá legubekknum.“

Bróðir minn var svo sokkinn niðrí hugarburði þessa, að hann ósjálfrátt spyrndi fætinum, um leið og hann talaði orð þessi, í glerkörfina, hrökk hún úr búðinni útá stræti, en allt sem í henni var, hraut í þúsund mola. Skraddarinn nábúi hans, sem hafði heyrt þetta heimskulega eintal, rak upp skellihlátur og sagði við bróður minn: „Vesæll maður! skammastu þín ekki, að fara svo illa með svo unga konu, sem ekkert hefur gert þjer á móti skapi. Þú hlýtur að vera furðu skapharður, þarsem þú fyrirlítur tár og töfrandi fegurð svo yndislegrar konu. Væri eg í sporum stórvezírsins, tengdaföður þíns, mundi eg láta lemja þig hundrað högg með nautasvipu og láta fara með þig um alla borgina þjer til maklegrar minnkunar.“ En hið hörmulega slys, að glerið brotnaði, kom bróður mínum skjótt til sjálfs sín, sá hann, að hann hafði bakað sjer það með óhóflegu stórlæti, lamdi því andlit sitt og reif sundur klæði sín. Volaði hann og veinaði svo gífurlega, að nábúar hans þustu saman og menn stóðu kyrrir á strætinu, sem voru á leið til hádegis bænagerðar. Voru þeir í fleira lagi, því helgur dagur var, og hlóu margir að Alnaschar, en sumir kenndu i brjóst um hann. Grjet hann sífellt þangaðtil tígin kona ein kom þangað ríðandi veltygjuðum múlasna, spurði hún góðlátlega, hvað að honum gengi. En er hún hafði heyrt, að hann hefði keypt glervörur fyrir aleigu sína og misst allt sitt, um leið og þær brotnuðu, skipaði hún geldingi þeim, er fylgdi henni, að gefa Alnaschar allt það fje, sem hann hefði hjá sjer. Fjekk geldingurinn bróður mínum pyngju með fimmhundruð gullpeningum í, og ætlaði hann þá að deya af fögnuði. Hann óskaði hinni veglyndu konu allrar blessunar, þvínæst lokaði hann búðinni, því hann hafði ekkert að gera þar og fór heim. Sat hann þar íhugafullur af láni sínu og var drepið á dyr hans; spurði hann, hver þar væri og rjeði hann af svarinu, að það mundi vera kona. Lauk hann upp, og var það gömul kerling; heiddi hún hann, að ljá sjer vatnsskál og leyfa sjer

að fara inn og þvo sjer, af því tími væri kominn til bænagjörðar. Ljet hann þetta eptir henni, þó hann ekki þekkti hana, settist þvínæst aptur í sæti sitt og var að hugsa um hið síðasta æfintýri sitt; hann ljet gullpeninga sína í mjóan og langan sjóð til þess hann gæti borið þá við belti sjer. Meðan hann var að því, gerði kerling bæn sína, síðan fór hún til bróður míns og fleygði sjer fram fyrir fætur honum, svo að enni hennar kom við gólfið, rjett einsog hún ætlaði að biðja til guðs; síðan stóð hún upp, óskaði honum alls góðs og þakkaði honum fyrir greiðann.

## 192. nótt.

„Afþví nú kerling var svo auðmjúk og vesællega búin, hjelt Alnaschar, að hún beiddist ölmusu, og bauð henni tvo gullpeninga. En hún færðist undan, einsog hún undraðist og styggðist af því, að hann ætlaði sig vera eina af hinum áfjáðu förukerlingum, sem fara inní hús til manna, kvaðst hún ekki heldur vera fjár þurfandi, því hún væri í vist hjá ungri konu í borginni, sem væri jafnauðug og hún væri fríð og ljeti hún sig ekkert skorta. Bróðir minn hafði alls engan grun á því, að hún drap hendi við fjenu af einberri slægð, til þess að hafa því meira út úr honum, spurði hann hana því, hvort hún gæti ekki veitt sjer þá sæmd, að sjá konu þessa. Svaraði hún þá: „Það er velkomið, og mun hún fús til að gerast kona yðar, og fá yður í hendur allar eigur sínar. Takið því fje yðar og fylgið mjer!“ Varð Alnaschar svo afarglaður af því, að eignast í einu fríða og auðuga konu, að hann sleppti öllum athuga og varð samferða kerlingu með hina fimmhundruð gullpeninga, sem hann átti. Gekk hún á undan honum og komu þau að veglegu húsi, drap hún þar á dyr og lauk upp ung grísk ambátt. Ljet kerling Alnaschar fara inn á undan sjer og fylgði honum yfir garð fagurlega steinlagðan inní sal, var þar vel um gengið og styrkti það hann í hinni góðu trú á húsfreyunni. Meðan kerling fór inn til þess að segja henni komu hans, settist hann niður og tók ofan, því hann var dasaður af hita. Rjett á eptir kom hin unga kvennsnipt, og fannst honum

enn meira um fegurð hennar, enn hinn glæsilega búning; stóð hann þá undireins upp. Hún beiddi hann kurteislega, að sitja kyrran, settist hjá honum, og sagðist vera stórfegin komu hans, og er hún hafði skjallað hann með mörgum blíðmælum, tók hún þannig til orða: „Hjer er ekki skemmtilegt; rjettið mjer höndina og komið með mjer.“ Að svo mæltu, leiddi hún hann við hönd sjer inní afvikið herbergi, og sat þar á tali við hann um hríð, þvínæst gekk hún burt og mælti: „Bíðið mín hjer, eg kem undireins aptur.“ Alnaschar beið þá, en í stað konunnar kom inn stór svartur þræll með brugðið sverð, leit til hans ógurlegum augum og mælti: „Hvað viltu hjer?“ Gat bróðir minn ekki svarað fyrir hræðslu, tók þá þrællinn af honum fjeð, og veitti honum mörg sár með sverðinu, en allt voru það svöðusár. Steyptist hann þá til jarðar og lá hreifingarlaus, þó hann hefði fulla rænu, en svertinginn hugði hann dauðan og kallaði eptir salti, kom hin gríska ambátt með salt á stórum diski og njeru þau sár bróður míns með því; varð henum eigi ráðafátt í háska þessum og ljet hann ekkert lífsmark á sjer finna, þó hann kenndi logandi sviða. En er svertinginn og ambáttin voru gengin burt, kom kerlingin, sem hafði ginnt hann þangað, dró hann á fótunum að hlemm einum, er hún lauk upp, og fleygði honum þar niður. Rann á hann ómegin af biltunni, og leið góð stund þangaðtil hann kom til sjálfs sín; sá hann þá lík margra myrtra manna kringum sig. Var það saltinu einu að þakka, að hann hjelt lífinu. Hresstist hann smámsaman svo að hann fjekk staðið upp og lokið hlemmnum upp í náttmyrkrinu. Fann hann allgott fylgsni í garðinum og faldi sig þar til morguns, sá hann þá hina svívirðilegu kerlingu koma, ljúka dyrunum upp og ganga út, líklega til þess að leita nýrrar veiði. En svo að hún ekki skyldi verða neins áskynja gekk hann rjett á eptir henni úr ræningja bæli þessu og flýði hann þá til mín. Eptir mánaðar tíma voru sár hans gróin og ásetti hann sjer að hefna sín. Hann fyllti því sjóð, er tók fimmhundruð gullpeninga, með glerbrotum, batt hann við belti sjer, bjó sig einsog gömul kerling og hafði sverð á sjer innanklæða.

# 193. nótt.

„Í þessum búningi mætti hann kerlingunni einn morgun og spurði hana með annarlegum málrómi, hvort hún gæti ekki lánað sjer gullvog, og brá því á, að hann væri nýkominn fra Persalandi með fimmhundruð gullpeninga og vildi vita hvort þeir hefðu rjetta vikt. „Já! já! frúin góð!“ svaraði kerling, „þá hittist vel á, Eg skal fylgja yður til sonar míns, sem er víxlari og mun hann gjarna vega fjeð fyrir yður. Komið því fljótt með mjer, svo að við finnum hann heima.“ En kerling fylgdi bróður mínum aptur í sama húsið og inní sama sal og fyrri, skildi hún þar við hann til að kalla á þann, er hún hafði nefnt son sinn, og kom hann undireins í líki svarta þrælsins og æpti að bróður mínum: „þín bölfaða kerling! stattu upp og komdu með mjer!“ Stóð bróðir minn þá upp og fylgdi á eptir svertingjanum, brá sverðinu undan klæðum sínum og hjó aptanað honum, svo að af tók höfuðið. Tók hann höfuðið í aðra hönd sjer, en dró skrokkinn með hinni að hlemmnum og fleygði honum þar niður. Gríska ambáttin, sem var þessu alvön, kom nú með disk kúfaðan af salti, en er hún sá bróður minn, er kastað hafði kvennbúningnum missti hún niður saltið og flýði, en hann náði henni og hjó af henni höfuðið. Hin svikráða kerling kom nú, er hún heyrði háreystið, fjekk Alnaschar tekið hana höndum áður enn hún gat flúið, og mælti: „Óhræsið þitt! þekkirðu mig ekki?“ Svaraði hún þá skjálfandi: „Herra! hver eruð þjer? eg man ekki til eg hafi sjeð yður.“ Svaraði hann þá: „Eg er sá, sem þú þvoðir þjer hjá, þegar þú last hræsnisbænirnar, „Manstu það?“ Fjell hún þá fram fyrir fætur honum og beiddist miskunar, en hann hjó hana sundur í fjögur stykki. Var nú eptir yngiskonan, sem ekkert vissi af því, er gerðist í húsi hennar. Leitaði hann og fann hana í herbergi einu, hnje hún í ómegin er hún sá hann. Hún beiddi hann, að gefa sjer líf og gerði hann það af drengskap sínum, spurði hann síðan, hvernig hún hefði getað átt sambúð við illþýði það, sem hann nú hefði hefnt sín á einsog maklegt var. Svaraði hún þá: „Eg var kona ráðvands kaupmanns og kom stundum til mín bannsett kerlingin, var mjer þá öldungis grunlaust um vonzku hennar. Einusinni sagði hún

við mig: „Göfuga frú! í dag höldum vjer dýrðlegt brúðkaup og mundi oss vera mikil gleði, ef þjer sæmduð það með návist yðvarri.“ Ljet eg á þetta teljast, fór í bezta búning minn, tók pyngju með hundrað gullpeningum í og fylgdi henni. Fór hún með mig hingað og var svertinginn hjer fyrir, hjelt hann mjer með valdi og hef eg orðið að þola miklar ógnir í þrjú ár.“ Þá mælti bróðir minn: „Hann hlýtur að hafa dregið saman ógrynni auðæfa með illvirkjum sínum;“ kvað hún svo vera og mælti: „Yður mundi aldrei bresta fje, ef þjer gætuð flutt það burt; komið með mjer og mun raun bera vitni.“ Fylgði hún honum þá inní herbergi eitt og sýndi honum margar kistur fullar af gulli, fjekk það honum svo mikillar undrunar, að hann varð frá sjer numinn. „Farið,“ sagdi hún við Alnaschar, „og sækið nógu marga menn til þess, að flytja allt þetta burt.“ Ljet bróðir minn ekki segja sjer það tvisvar, heldur hljóp hann í skyndi og kom aptur með tíu menn. En þá sá hann með undrun, að dyrnar á húsinu stóðu opnar, en yngismærin alveg horfin með öll auðæfin, og hafði þar orðið slægðar munur. Vildi hann nú ekki fara tómhentur heim, þó gullkisturnar væru horfnar, og ljet því flytja það burt, sem fyrir var af húsbúnaði og búsgögnum, og var það meira enn svaraði hinum fimmhundruð gullpeningum. En er hann skildi við húsið, láðst honum eptir að loka dyrunum, tóku þeir, sem næst bjuggu eptir því og ljetu lögreglustjórann vita af flutningi þessum, er þeim virtist ískyggilegur. Alnaschar svaf nú vært meðan á þessu stóð, en er hann ætlaði að ganga út morguninn eptir, stóðu tuttugu lögregluþjónar við dyr hans, tóku hann fastan og mæltu: „Komdu með okkur, herra okkar vill tala við þig.“ Hann bauð þeim fje til þess að sleppa sjer lausum, en þeir ljetu, einsog þeir heyrðu það ekki, heldur bundu þeir hann og neyddu hann til að fara með sjer.

# 194. nótt.

„Lögregludómarinn spurði bróður minn, hvar hann hefði tekið alla búshluti þá, er fluttir voru til hans daginn áður. Alnaschar

sagði honum hreinskilnislega frá æfintýri sínu og öllu, er hann hafði gert, frá því kerling beiddist fyrir heima hjá honum, og allt þangaðtil yngismærin hvarf með gullkisturnar. Beiddi hann og dómarann, að láta sig halda búshlutunum, er hann hafði flutt burt, einsog skaðabót fyrir hina fimmhundruð gullpeninga, sem rænt var frá honum. Dómarinn lofaði honum engu um það, heldur sendi nokkra af þjónum sínum heim til hans og ljet þá taka allt, sem þar var fyrir. En er honum var sagt, að því væri nú öllu komið í hans varðveizlu, skipaði hann bróður mínum að fara úr borginni og lagði dauðahegning við, ef hann kæmi í hana aptur. En í þessu lá þannig, að hann var hræddur um að ella mundi hann ganga á fund kalífans og bera sig upp undan rangsleitni hans. Alnaschar hlýddi honum mótmælalaust og lagði á stað til að leita sjer hælis í annari borg. Á leiðinni komst hann í ræningja hendur, rændu þeir hann öllu og flettu hann klæðum. Þegar mjer barst harmasaga þessi, tók eg föt með mjer, leitaði hann upp og huggaði sem bezt eg gat. Þvínæst hafði eg hann með mjer til borgarinnar á laun og ljet mjer eins annt um hann og hina aðra bræður mína.

## Sagan af hinum sjötta bróður rakarans.

Nú á eg ekki eptir nema sögu hins sjötta bróður míns,“ mælti rakarinn; „hann hjet Skakabak með skarð í vör. Hann tók hundrað silfurdrökmur í arf, einsog við hinir bræðurnir, varði hann þeim svo vel, að hann varð vel megandi maður. En allt í einu komu forlögin honum í slík bágindi, að hann varð að lifa á bónbjörgum og hafði hann bezta lag á því. Einkum lagði hann stund á að koma sjer við þjóna, svo að hann fyrir milligöngu þeirra fengi að koma á fund höfðingja og gæti hrært þá til meðaumkvunar. Einhverju sinni varð honum gengið framhjá skrautlegri höll með hárcistu porti, sá hann gegnum það inní víðan garð og úði þar og grúði af þjónum. Spurði hann einn þeirra, hver yfir höllinni ætti að segja, og var honum svarað: „Hvaðan kemur þú vinur, að þú skulir spyrja þannig? sjer þú ekki á öllu, að einhver Barmekíði hlýtur að eiga höllina.;‘ Bróðir minn þekkti vel örlæti og stórlyndi Barmekíða, og beiddi dyraverðina, — því

þar voru fleiri enn einn — að gefa sjer ölmusu. „Far þú inn,‘ svöruðu þeir,“ enginn meinar þjer það og getur þú sjálfur borið upp bæn þína, þú munt fara ánægður frá honum.“ Bróður mínum kom kurteisi þessi óvænt, þakkaði hann þeim vel og gekk inní höllina, sem var svo afarvíð, að hann varð að ganga langan veg áður enn hann náði til híbýla Barmekíða. Loksins kom hann að stóru ferstrendu húsi með fögru byggingarlagi, og gekk inn í forsalinn, sá hann þaðan í fagran aldingarð; voru trjágöngin í honum lögð marglitum tinnusteinum, svo fagurt var á að horfa. Herbergin, sem lágu allt umhverfis á jafnsljettu, voru nærri því öllsaman opin og horfðu við sól, hjengu því fortjöld fyrir, en þegar hinum megnasta dagshita linnti, voru þau tekin frá. Hefði betur legið á bróður mínum, mundi hann hafa dázt að svo fögrum stað. Þegar hann hafði gengið lengra, kom hann í sal með ríkmannlegum húsbúnaði, prýddan gullnum og heiðbláum laufamyndum. Sat þar í tignarsæti öldurmannlegur maður með sítt skegg, og hugði hann að þar mundi hússbóndinn vera. Enda var það Barmekíði sjálfur, bað hann bróður minn velkominn með blíðu, og spurði, hvers hann óskaði. Svaraði hann þá með aumkvunarlegum svip: „Herra! eg er aumingi og kominn uppá liðsinni voldugra og göfuglyndra manna, einsog þjer eruð.“ Það var ómögulegt, að bróðir minn gæti hitt á betra mann, enn þessi var, því hann hafði ótal mannkosti til að bera. Það var einsog hann yrði forviða á svari hans, hann þreif höndum fyrir brjóst sjer, einsog hann ætlaði að rífa af sjer fötin og sýna þannig hryggð sína. „Getur slíkt átt sjer stað,“ mælti hann, „að eg sje í Bagdad, og að annars eins maður og þú skulir eiga í bágindum? Það þoli eg ekki.“ Bróðir minn bjóst nú við, að hann mundi sýna eitthvert stórmerki örlætis síns og beiddi honum því margfaldrar blessunar. Sagði þá Barmekíði: „Enginn skal segja, að eg hafi yfirgefið þig og eg ætlast ekki heldur til að þú yfirgefir mig.“ „Herra!“ svaraði bróðir minn, „mjer er eiður sær, að eg hef ekki mat smakkað í dag.“ „Er það satt,“ mælti Barmekíði, „hefur þú fastað allt frammá þessa stund. Veslings maður! hann deyr af sulti. Heyrið þið sveinar! komið fljótt með vatn og vatnsskál, svoað við getum þvegið okkur um hendurnar.“ Þó að

nú enginn þjónn kæmi, hvorki með vatn nje vatnsskál, njeri Barmekíði saman höndunum, rjett einsog einhver hellti vatni á hendur honum, segir hann þá við bróður minn: „Færðu þig nær, þvoðu þjer mjer til samlætis.“ Skakabak rjeði af því að Barmekíði mundi vera smáskrítinn, og með því hann sjálfur kunni að taka gamni, og vissi, hvað aumingjar verða að vera höfðingjum eptirlátir, ef þeir eiga að hafa gagn af þeim, þá kom hann nær og ljet öldungis einsog hann. „Heyrið þið sveinar!“ kallaði Barmekíði, „berið þið undireins mat á borð.“ Þó nú enginn kæmi með neitt, ljet hann samt einsog hann tæki mat uppaf disk og stingi uppí sig, og segir við bróður minn tyggjandi: „Borða þú gestur minn! gerðu það fyrir mig og láttu rjett einsog þú sjert heima hjá þjer. Mjer sýnist þú, glorhungraður maðurinn, taka svo litla bita.“ „Fyrirgefið herra!“ svaraði Skakabak, og ljet einsog hans borðaði, „eg ber mig eptir björginni, einsog þjer sjáið, og dreg ekki af mjer.“ „Hvernig þykir þjer brauðið?“ spurði Barmekíði, „er það ekki afbragðs brauð.“ „Æ! herra,“ ansaði bróðir minn, þó hann hvergi sæi brauð nje neitt matarkyns, „eg hef aldrei smakkað svo hvítt og ljúffengt brauð.“ „Borðaðu þig þá fyrir alla muni saddan,“ segir Barmekíði, „eg segi þjer satt, eg hef borgað fimmhundruð gullpeninga fyrir ambáttina, sem hefur bakað þetta dýrindis brauð.“

# 195. nótt.

„Heyrið sveinar! komið með aðra diska,“ skipaði Barmekíði, og þó enginn kæmi nú heldur enn áður, segir hann við bróður minn: „Kæri gestur minn! smakkaðu á þessu og segðu mjer svo, hvort þú hefur nokkurntíma borðað betra sauðakjöt,“ „það er afbragðs gott,“ svaraði bróðir minn, „enda hef eg sæmilega að mjer.“ Þá mælti hinn: „Með því gleður þú mig ómræðilega og fyrst þú veizt hvílíkt yndi mjer er að sjá þig eta svo lystugt, þá særi eg þig, að leifa engu af þessum mat, úr því þjer þykir hann svo góður.“ Þvínæst heimtaði hann einsog fyrri gás með sætri ídýfu úr ölvínan, hunangi rúsínum, fuglabaunum

og þurkuðum fíkjum, og rjeði bróður mínum til að borða ekki meira enn einn væng og eitt lær af hinni bráðfeitu steik, og ætla sjer ofurlitla matarlyst til hinna rjettanna, sem eptir væru. Enda heimtaði hann ýmsa rjetti og ljet bróðir minn einsog hann æti í gríð, þó hann kveldist af sárum sulti. Mest ljet Barmekíði yfir lambi einu, sem hann kvað hafa verið alið á hnetum, nú sagði hann það væri á borðinu og beiddi bróður minn að eta óspart af því. Ljet hann þá einsog hann vildi stinga bita upp í hann, en Skakabak ljet einsog hann tæki við og snæddi með mestu ánægju og segir: „Ágætari matur er ekki til, eg segi það ekki af smjaðri, þjer hafið afbragðs matborð.“ „Komið nú með kryddspaðið!“ kallaði Barmekíði, „eg vona að þjer þyki það ekki lakara enn lambið. Nú nú! hvernig líkar þjer það?“ „Það er undur ljúffengt!“ svaraði Skakabak, „það finnst í einu bragðið að negulnöglunum, muskatinu, engiferinu, piparnum og hinum megnustu kryddjurtum og er þessu svo vel saman blandað, að bragðið er auðfundið að hverju um sig. Hvílíkt sælgæti!“ „Haltu þjer þá við spaðið,“ mælti hússbóndinn, „borðaðu fyrir alla muni. Heyrið sveinar! komið með meira af spaðinu.“ Þá sagði bróðir minn: „Nei! nei! ekki meira með yðar leyfi, eg kem ekki meiru niður, mjer er það lífs ómögulegt.“ „Ryðjið þá borðið, og komið með ávexti,“ kallaði Barmekíði og beið stundarkorn, einsog hann gæfi skutilsveinum tíma til að bera af borðinu, þvínæst tók hann til máls: „Smakkaðu á möndlunum þeim arna, þeir eru nýlesnir af trjánum.“ Ljetu þeir nú báðir, einsog þeir flysjuðu möndlana og ætu. Eptir það beiddi Barmekíði bróður minn að neyta annara hluta. „Sjáðu!“ sagði hann, „þarna eru allskonar ávextir, kökur, sætindi og sikruð ber. Taktu einsog þú hefur lyst á.“ Sjálfur rjetti hann honum margan bita af þessu ósýnilega sælgæti og nauðaði án afláts á honum að borða. Bróðir minn ljet líka einsog hann snæddi, en þegar honum loksins var orðið illt í kjálkunum af því, að tyggja svo lengi tómum munni, sór hann og sárt við lagði, að sjer væri ómögulegt að eta meira. Þá mælti hússbóndinn: „Gestur góður! úr því við höfum nú borðað svo mikinn og góðan mat, verðum við að drekka dálítið. Drekkur þú ekki vín?“ Svaraði bróðir minn, að sjer væri það bannað, en

Barmekíði sagði að hann væri of samvizkusamur og að hann yrði að drekka sjer til samlætis. „Eg ætla þá að drekka fyrir kurteisi sakir,“ mælti Skakabak; „eg sje, að þjer látið einskis vera ávant við borðhald yðar. En með því eg er óvanur allri víndrykkju, er eg hræddur um, að eg breyti á móti góðum siðum og skerði virðingu þá, er mjer ber að sýna yður. Eg er ánægður með að drekka vatn,“ „Nei, nei!“ ansaði Barmekíði, „þú verður að drekka vín;“ skipaði hann þá undireins að koma með það, og skenkti síðan ósýnilegt vín úr ósýnilegum flöskum, einsog hann áður hafði veitt ósýnilegt kjöt og ávexti. Fyrst drakk hann sjálfur, síðan ljet hann einsog hann hellti á staupið og rjetti bróður mínum það. „Drekktu nú minni mitt,“ sagði hann, „mjer þykir gaman að vita, hvert þjer þykir vínið gott.“ Bróðir minn ljet einsog hann tæki við staupinu og ræki nef og augu ofaní það, til að prófa lit og ilm vínsins, síðan hneigði hann sig djúpt fyrir hússbóndanum til merkis um, að hann leyfði sjer að drekka minni hans og í því hann ljezt drekka, setti hann upp hýru svip, einsog hann hefði hina mestu munaðarnautn af víninu. „Vínið er ágætt,“ sagði hann, „en mjer finnst það ekki vera sjerlega áfengt.“ „Ef þú vilt fá það áfengara,“ ansaði Barmekíði, „getur þú sagt til, eg hef ýmsar víntegundir í kjallara mínum. Smakkaðu á víninu því arna!“ Ljet hann þá einsog hann skenkti sjer og bróður mínum annarskonar vín, og var að þessu, þangaðtil Skakabak loksins ljet einsog hann væri orðinn blindfullur, reiddi hnefann og rak Barmekíða svo stórkostlegt höfuðhögg, að hann rauk um koll. Skakabak ætlaði nú að gera honum betri skil, en hinn bar höggið af sjer með hendinni og æpti upp yfir sig: „Ertu óður!“ Bróðir minn sleppti honum þá og mælti: „Herra, þjer voruð svo góðsamur að halda þræl yðar stórkostlegt matargildi og hefðuð átt að að láta sitja við það; eg sagði yður áður að vínið kynni að æsa mig til að fara óvirðulega með yður. Mjer þykir það illa farið, og bið eg yður því auðmjúklega fyrirgefningar.“ Þegar hann hafði mælt þetta, fór því svo fjærri að Barmekíði reiddist, heldur kom yfir hann óstjórnlegur hlátur, og tók hann þannig til máls: „Eg hef lengi leitað að slíkum manni, sem þú ert.“

# 196. nótt.

„Eg fyrirgef þjer hnefahöggið,“ mælti Barmekíði og var hinn blíðasti við bróður minn, „og vil eg að við hjeðan í frá sjeum vinir, og að þú skoðir hús mitt einsog heimili þitt. Auk þess, að þú varst svo góður að taka öllum duttlungum mínum, hafðir þú líka þolinmæði til að þreyta gamanið svo langt sem unnt var. En nú skulum við matast í raun og veru.“ Þvínæst klappaði hann saman höndunum og skipaði mörgum þjónum, sem inn komu, að bera inn borð og framreiða matinn. Var honum hlýtt að vörmu spori og voru nú sömu rjettirnir veittir bróður mínum, sem hann áður hafði etið í ímyndun sinni. Eptir matinn var sókt vín og kom inn fjöldi fríðra og skrautbúinna ambátta, sungu þær fögur kvæði og ljeku um leið á hljóðfæri. Er þar stutt frá að segja, Skakabak gat ekki annað enn verið ánægður með ljúfmennsku og góðsemi Barmekíða. Honum varð Skakabak vel að skapi, fór hann með hann einsog vin sinn og ljet gefa honum klæði úr fatabúri sjálfs sín. Enda komst hann að raun um, að bróðir minn var vel viti borinn og hafði gott skynbragð á mörgum hlutum, fjekk hann honum því fám dögum síðar í hendur alla búsýslu og umönnun starfa sinna. Fór bróður mínum þetta vel úr hendi í tuttugu ár, en þá dó Barmekíði ellidauða, og með því hann átti engan erfingja, kastaði konungurinn þar í landi eigu sinni á alla fjármuni hans. Missti bróðir minn þannig allt það, er hann hafði dregið saman, og varð nú eins örsnauður og hann hafði verið áður, slóst hann þá í lestaferð með pílagrímum nokkrum og ætlaði að komast með þeim til Mekka og lifa á ölmusum þeim, er þeir kynnu að gefa honum. En á leiðinni rjeðust Beduínar á þá og höfðu þeir ofurefli liðs, rændu þeir þá og hafði einn þeirra Skakabak á burt með sjer í þrældóm. Hann lamdi lurkum í iljar honum nokkra daga samfleytt til þess að kvelja hann til útgreiðslu mikils lausnargjalds, og viknaði hann ekkert, þó Skakabak bæri sig aumlega, og hvað eptir annað ynni þess dýran eið, að hann væri bláfátækur. En er Beduíni sá, að ekkert var af honum að hafa, skar hann skarð í vör honum, til þess að hefna sín fyrir missi lausnargjaldsins. Bedúíni þessi átti fríða konu og skildi

hann bróður minn opt einan eptir hjá henni, þegar hann fór í ránsferðir sínar. Hún leitaðist við að hughreysta hann í bágindum ánauðarinnar og ljet hann jafnvel skilja, að hún hefði ást á honum. Þorði hann ekki að láta sína ást koma ímóti, því hann var hræddur um, að slíkt mundi hafa ill eptirköst, sneyddi hann eins vandlega hjá henni og hún elti hann ákaft. En hún var búin að venja sig svo á glens og glettni við Skakabak, hvenær sem hún sá hann, að hún ljek hið sama einusinni, þegar maður hennar var viðstaddur. Til allrar óhamingju glettist bróðir minn við hana aptur, og hugði Bedúíni þá undireins, að þau mundu eiga vingott saman. Varð hann þá sem óður, flaug á bróður minn, limlesti hann með mestu grimmd, og flutti hann síðan á úlfalda uppá hátt fjall og skildi þar við hann. En með því fjallið lá í leið til Bagdad, spurði eg þessi tíðindi af mönnum, sem um veginn fóru, flýtti eg mjer þángað, og hitti veslings Skakabak hörmulega útleikinn. Veitti eg honum alla hjálp, er hann þurfti og flutti hann með mjer til borgarinnar.

Þetta sagði eg kalífanum Mostanser Billah," mælti rakarinn ennfremur, „vottaði hann mjer ánægju sína með skellihlátri og mælti: „Nú liggur í augum uppi, að þú ert með rjettu kallaður hinn þagmælski; en af ónefndum ástæðum skipa eg þjer að fara úr borginni hið skjótasta. Farðu og láttu mig aldrei frjetta neitt af þjer."

Eg hlýddi, því nauðsyn dró til, og ferðaðist í mörg ár um fjærlæg lönd, en er eg loksins spurði dauða kalífans, fór eg aptur til Bagdad, en þá voru allir bræður mínir látnir. Eg var nýkominn þangað, þegar eg gerði unga manninum halta hinn mikla greiða, sem þjer hafið heyrt. Þjer eruð og vitni að vanþakklæti hans, og skapraun þeirri, er hann gerði mjer. Í stað þess að auðsýna mjer þakklátsemi, flýr hann mig og fer úr átthögum sínum. Þegar eg frjetti, að hann væri farinn úr Bagdad, tók eg mig upp til þess að leita að honum, þó enginn gæti sagt mjer, hvert hann hefði haldið. Hef eg í langan tíma elt hann sveit úr sveit, og hitti eg hann í dag þegar mig sízt grunaði. En sízt átti eg von á, að hann skyldi vera svo fokreiður við mig."

# 197. nótt.

„Þegar rakarinn hafði lokið sögu sinni," mælti ennfremur skraddarinn, sem sagði soldáninum í Kaschgar allt þetta, „hlutum við að vera hinum unga manni samdóma, sem hafði kallað hann skrafskjóðu. Allt fyrir það langaði okkur til að hafa hann hjá okkur, og að hann sæti með oss í gildi því, er hússbóndinn ætlaði að halda. Settumst við þá til borðs og vorum saman þangaðtil komið var að bænatíma eptir miðdegið, því þá fór hver heim til sín. Eg gekk til sölubúðar minnar, settist við vinnu og beið heimferðar tímans. Þá kom krypplingurinn til mín hálffullur og sló bjöllubumbu syngjandi. Hafði eg hann heim með mjer til að skemmta konu minni. Bar hún fiskimat á borð fyrir oss og ljet eg eitt stykki á diskinn krypplingsins; hann kingdi því, enn fann ekki, að bein var í því, og datt allt í einu niður miðvitundarlaus. Þegar við höfðum á allar lundir reynt að hjálpa honum árangurslaust, urðum við dauðhrædd og ráðalaus af slysi þessu, og víluðum því ekki fyrir okkur að flytja krypplinginn úr húsi okkar og koma honum með kænsku í hendur þessa Júðalæknis. Hann kom honum í hús fleskmangarans, fleskmangarinn bar hann útá stræti og þar var haldið, að hinn kristni kaupmaður hefði drepið hann. Þetta er nú það, sem eg get frekast sagt til að fullnægja yðar hátign. Nú er undir yður komið, hvort vjer erum maklegir mildi yðvarrar eða reiði, lífs eða dauða."

Soldáninn í Kaschgar setti upp ánægju svip, sem boðaði skraddaranum, og þeim fjelögum lífgjöf. „Eg get ekki borið á móti því," mælti hann, „að saga hins halta manns, rakarans og bræðra hans, fær mjer meiri undrunar, enn saga fífl-ins míns. En áðurenn eg sleppi ykkur og læt greptra lík fíflsins míns þækti mjer gaman að sjá rakarann, sem þið eigið líf ykkar að þakka. Fyrst hann er hjer í aðsetursborg minni, mun það vera auðvelt, að seðja forvitni mína." Sendi hann þá undireins einn af þjónum sínum á stað með skraddaranum, til þess að sækja rakarann, en skraddarinn vissi, hvar hans var að leita. Þeir komu báðir fljótt aptur með rakarann, og leiddu hann fram fyrir soldán. Rakarinn var fjörgamall karl, á að geta á níræðis

aldri. Hann hafði snjóhvítt skegg og augabrýr, hann var langnefjaður og löfðu niður eyrun. Þegar soldán sá hann, gat hann ekki að sjer gert að hlægja. „Þú hinn þöguli maður,“ mælti hann, „eg hef heyrt, að þú kunnir fallegustu sögur; viltu segja mjer eina?“ „Það er bezt,“ svaraði rakarinn, „ef yðar hátign leyfir, að eg sleppi því í þetta sinn að segja sögurnar, sem eg kann. Aptur bið eg yðar hátign auðmjúklegast leyfa mjer að spyrja, hvernig á því stendur, að kristni maðurinn þarna, Gyðingurinn sá arna, Mahómets maðurinn og dauði krypplingurinn eru hjer frammi fyrir yður.“ Soldán hló að dirfsku rakarans og svaraði: „Hvað varðar þig um það?“ „Herra!“ svaraði rakarinn, „mjer er áríðandi að spyrja þessa, til þess yðar hátign komist að raun um, að eg er enginn skraffinnur, þó margir segi svo, heldur að eg með rjettu er kallaður hinn þögli.“

# 198. nótt.

„Soldáninn í Kaschgar var svo náðugur, að hann leysti úr spurningu rakarans, og skipaði mönnum, að segja honum sögu litla krypplingsins. Þegar rakarinn hafði heyrt hana, kinkaði hann kolli, hvað eptir annað, einsog hann hugsaði með sjer, að þetta væri eitthvað ekki með felldu. „Þetta er sannarlega undarleg saga,“ mælti hann, „en gaman þækti mjer að skoða krypling þenna vandlegar.“ Að svo mæltu færði hann sig nær honum, settist á gólfið hjá honum, lagði höfuð hans í knje sjer, og virti hann grandgæfilega fyrir sjer um stund, þvínæst rak hann upp skellihlátur svo fjarskalegan, að hann valt aptur á bak, og gaf hann því engan gaum, að soldán var viðstaddur. Síðan reis hann upp aptur án þess lát yrði á hlátrinum og mælti: „Ekki lýgur orðtækið, sem segir: „Enginn deyr af engu.“ Sje nokkur saga þess verð, að hún sje uppskrifuð með gullnu letri, þá er það saga krypplingsins.“ Öllum, sem viðstaddir voru, virtist rakarinn vera fífl eða vitskertur karl, og mælti soldán: „Þöguli maður! því hlær þú svo gríðarlega?“ „Herra!“ ansaði rakarinn, „eg sver það við hið náðuga hjarta yður hátignar, krypplingurinn er ekki dauður. Það er líf í honum enn og geti eg ekki sannfært

yður um það, þá skal eg heita raupari.“ Að svo mæltu, tók hann uppúr meðala öskju, er hann bar á sjer, dálítið glas með balsami í, og njeri hann því góða stund á háls krypplingsins. Þvínæst tók hann lítið járnverkfæri úr hylki sínu, kom því inn á milli tannanna og gat opnað munninn, renndi hann þá lítilli töng niðrí kokið, náði upp fiskbeininu og hjelt því upp til sýnis. Í sama vetfangi hnerraði krypplingurinn, hrærði fætur og handleggi, lauk upp augunum og sýndi öll lífsmörk. Soldáninn í Kaschgar og allir, sem voru sjónarvottar að þessu fagra læknisverki, furðuðu sig ekki svo mjög á endurlífgun krypplingsins, sem ekkert lífsmark hafði verið með eina nótt og mestan hluta dagsins, einsog á lagkænsku rakarans, og virtist þeim hann nú vera afbragðsmaður þó hann hefði sína bresti. Soldán var frá sjer numinn af fögnuði og undrun, og skipaði að skrifa upp sögu krypplingsins ásamt sögu rakarans. En til þess að skraddarinn, Júðalæknirinn, fleskmangarinn og hinn kristni kaupmaður skyldu ætíð minnast með gleði æfintýra þeirra, er þeir höfðu ratað í fyrir slys krypplingsins, þá ljet hann færa þá í dýrindis skikkjur, að sjer áhorfanda. Rakaranum veitti hann góð laun árlega og ljet hann vera við hirð sína.

Þannig lauk hinum mörgu æfintýrum, er risu út af því, að menn hugðu krypplinginn dauðan. Nú með því dagur var á lopti, ljet Scheherasade drottning sjer nægja, að lofa Schahrjar að segja honum næstu nótt nýa sögu, sem ekki væri þess síður verð, að hann tæki vel eptir henni.

# Frá 199. til 205. nætur.

## Sagan af Alí Schach eða falskalífanum.

„Eitt kvöld hafði Harún Alraschið kalífi í Bagdad í boði hjá sjer tuttugu og fjóra hina ágætustu hirðmenn sína. Þar voru þeir Ybrahym Isak-el Nedym ráðgjafi, skáldið Abul Newas, Gíafar Barmekíði stórvezír, og Mesrúr, sem framkvæmdi allar skipanir hans, var þar talað bæði um bundna og óbundna ræðu, og málsnild, þar voru sagðar sögur, lesin upp kvæði, bornar upp gátur og sungið.

Vissu menn ekki fyrri til enn miðnætti var komið og beiddu gestirnir kalífann, að lofa sjer heim, og leyfði hann þeim það. Gíafar og Mesrúr, sem seinastir urðu eptir, beiddu þess líka, en kalífinn vildi ekki sleppa þeim; skipaði hann stórvezírnum, að setjast hjá sjer og spurði hann, hvort hann vissi, hversvegna hann ljeti hann vera hjá sjer á þessari nótt. Þá svaraði Gíafar: „Guð einn veit það, sem hulið er.“ Gerði þá kalífinn uppskátt, að sjer hefði dottið uppátæki það í hug, að þeir skyldu allir þrír fara í dularbúning, og róa sjer til skemmtunar útá Tígrisfljótið. „Leiðindin ætla að gera útaf við mig,“ mælti hann, „það er einsog þung byrði liggi á hjarta mínu. Svo mart skrítið og skemmtilegt, sem borið hefur á góma í samsæti okkar, hef eg ekki haft neitt gaman af því, hver veit nema eg nú geti haft af fyrir mjer með þessu móti? Nú er hinn rjetti árstími til að fara skemmtiferðir um Tígrisfljótið á náttarþeli og veiztu, að það gera jafnt ríkir, sem fátækir.“ Stórvezírinn svaraði: „Voldugi drottinn! þú hefur skipað, og nær sem þú vilt fara skemmtiferð um Tígrisfljótið, hvort heldur á nótt eða degi, getur þá nokkur tálmað því?“ Förum þá á stað,“ mælti kalífinn; fór hann síðan með Gíafar og Mesrúr útum leynidyr á höllinni, sem vissu að fljótinu, voru þeir allir í kaupmanna búningi. Þegar þeir komu að fljótinu, brá þeim i brún, því þeir sáu ekki svo mikið sem einn af hinum óteljandi lystibátum, sem fljótið var vant að vera alþakið af um þetta leyti sumars. Kalífinn rjeði sjer ekki fyrir undrun og spurði stórvezírinn, því fljótið væri svo eyðilegt, og hversvegna innbúar Bagdads skemmtu sjer ekki á fljótinu. Svaraði þá Mesrúr: „Það eru ekki allir glaðir og vel fyrirkallaðir, hvenær sem vera skal, og sannast að segja, hæfir skemmtun þessi bezt þeim, sem velmegandi eru og geta sofið á daginn, störfum sínum að skaðlausu, eptir að þeir hafa vakað alla nóttina. En fátæklingurinn, sem hlýtur að vinna til að hafa ofanaf fyrir sjer og aldrei er iðjulaus allan daginn, hann er þreyttur að kvöldi og honum kemur valla til hugar að róa útá Tígrisfljótið. Ef hann gerði það, mundi hann þá að komandi morgni geta gengið til dagsverka sinna, til þess að afla sjer og heimili sínu viðurværis? Þetta veldur vafalaust því, að við sjáum hjer engan mann.“ Kalífinn sagði, að þetta væri satt, hvað verkmenn snerti,

en kvaðst ekki skilja í því, að kaupmenn og ríkismenn væru þar ekki og sagði Gíafar líka, að sjer væri það óskiljanlegt. Nú vildu þeir að minnsta kosti fá sjer bát og gengu fram með fljótsbakkanum, hittu þeir þar loksins karl einn, er svaf í ferju sinni. Mesrúr vakti hann og fór með hann til kalífans, skipaði kalífinn honum að rjetta fram hönd sína, ljet í hana tuttugu gullpeninga og mælti: „Taktu við þessu! en þú verður að róa með okkur tvær stundir á Tígrisfljótinu.“ Svaraði karlinn: „Farið þá útí bátinn; guð varðveiti okkur frá allri óhamingju.“ Stigu þeir nú í bátinn, en ekki skildu þeir hin síðustu orð ferjumannsins. Þá bar skjótt útá mitt fljótið, en þá sáu þeir koma á móti sjer lystiskip upplýst með gullnum kyndlum, sem loguðu af kvoðurikum viði, og hjeldu á þeim tveir menn í silkiklæðum. Þegar ferjukarl sá þá, æpti hann felmtraður: „Mikli drottinn! frelsa oss frá háska þeim, er yfir oss vofir; dauðastund okkar er komin. Bölfuð sje ágirndin, hún veldur ein óförum mínum, því hún ginnti mig til að þiggja af yður hina tuttugu gullpeninga.“ Slík orð mælti hann grátandi til kalífans og förunauta hans, því hann vissi ekki betur, enn að þeir væru allir kaupmenn. Kalífinn hló dátt að honum og mælti: „Ferjukarl minn! því ertu að smána okkur?“ „Er það ekki von,“ svaraði hinn, „fyrst þið steypið mjer í hina mestu ógæfu?“ „Vertu ókvíðinn,“ mælti kalífinn, „það mun ekki fara verr fyrir þjer enn okkur,“ veit eg það,“ ansaði ferjukarlinn, „að vörmu spori verðið þið hálshöggnir og förum við allir eina leiðina.“ „Hver lætur þá höggva af okkur höfuðið?“ spurði kalífinn. „Hver annar enn sá, sem stýrir lystiskipinu þarna,“ svaraði ferjumaður. „Hver er sá?“ spurði kalífinn; „það er kalífinn hann Harún Alraschyd,“ svaraði ferjukarlinn, „hann hefur látið kunngjöra, að hann höggi höfuð af hverjum manni, sem fari skemmtiferðir um Tígrisfljótið, og ekki mun hann sýna okkur neina vægð.“

Kalífinn átaldi nú ferjukarlinn fyrir það, að hann hefði stofnað þeim í slíka hættu, fyrst hann vissi af forboði þessu, en karlinn afsakaði sig með fátæktinni, sem hefði komið honum til að leyna því, þegar gullpeningarnir buðust. „En nú er öll von úti, nema guð miskuni okkur,“ mælti hann ennfremur grátandi og las margar bænir til þess að búa sig undir dauða sinn. Kalífinn komst við af ör-

væntingu aumingja þessa, gaf honum aðra tuttugu gullpeninga og skipaði honum að róa inná dymman vog einn þar nálægt, svo að þeir ekki skyldu sjást af lystiskútu kalífans. Karlinn tók við fjenu og með því svo vildi til að skammt frá þeim var lystihús eitt, byggt á háum staurum, þá slapp hann inní fylgsni þetta með bát sinn, svo að hann sást ekki af lystiskútunni. Meðan hún renndi framhjá, horfðu þeir kalífinn, Gíafar og Mesrúr vandlega á hana. Var hún dýrðleg á að sjá og ljómaði öll utan af gulli og fögrum litmyndum. Blikuðu allskonar vopn við birtu kyndlanna, sverð og kesjur og skínandi spangabrynjur. Í apturstafni sáust dýrindis fortjöld og legubekkur með flossilkiskoddum útsaumuðum með gulli, perlum og kóröllum. Uppaf honum miðjum reis gullegur hástóll, fagurlega skreyttur perlum og gimsteinum og sat á honum ungur maður fríður sýnum og skrautbúinn. Hann hafði hlað um enni einsog konungar bera, alsett dýrum gimsteinum; til hægri handar honum stóð maður líkur stórvezírnum Gíafar, en til vinstri handar honum annar, er ljek ráðgjafann Isak el Nedym. Mesrúr stóð frammi fyrir honum, en að baki hans stóðu tuttugu ungir þrælir þrif-legir og ásjálegir, Yfir þenna hluta skútunnar var breiddur flos-silkisdúkur, alsettur gulli og gimsteinum, fagur sem hinn fjölstirndi himin. Fyrir framan hinn unga mann var borð, sem prýtt var blómum, stóðu á því tvö ljós í gullnum kertistikum furðu þykkum. Við fætur hans rauk uppúr fjórum litlum reykelsiskerum af ágætu reykelsi. Tuttugu gjörfulegir og skrautklæddir ræðarar hertu skrið hinnar gangfljótu skútu á straumi fljótsins.

Kalífinn sjálfur varð frá sjer numinn af þessari dýrðlegu sjón, og fjekk eigi skilið, hvernig á þessu stæði, en þó undraðist hann enn meir, er hann heyrði kallað hárri rödd úr stafni skútunnar: „Heyri það allur lýður, ríkur og fátækur, frjálsir menn og ánauð-ugir, eðlibornir og útlendir, hlýðið háleitum vilja drottins rjett-trúaðra manna, skugga guðs á jarðríki, konunganna konungs, upp-sprettu miskunarinnar, máttarstólpa hinna voluðu, lofshetju fræði-manna og skálda, hinnar óþrjótandi máttarlindar, hins háleita anda kalífans Harúns Alraschiðs. Hann bannar yður að fara skemmti-ferðir um Tígrisfljótið og að ljúka upp gluggum yðar.“ Kalífinn

hafði ekki haft augun af hinum unga manni, og því lengur sem hann virti hann fyrir sjer, því höfðinglegri fríðari, og þekkilegri þókti honum hann vera. Gíafar gat ekki frætt hann á, hver maður þessi væri og ljet kalífinn sjer farast þannig orð um hann: „Hann kann afbragðsvel hirðsiðu, því hann hefur engu gleymt, sem við á, þegar kalífi birtist mönnum. En það fær mjer mestrar undrunar, hvað maðurinn, sem stendur til hægri handar honum, er líkur þjer, og hvað sá, sem stendur fyrir framan hann, er líkur honum Mesrúr. Hirðmenn hans leika og vel hirðmenn mína og er eg sem utan við mig af undrun.“ Þvínæst sáu þeir falskalífann lenda spottakorn frá þeim; hann stje á bak glæsilegum hesti, og gengu á undan honum margir þjónar með kyndla og fjöldi þræla, en í fararbroddi fór kallari og kunngjörði vegsemd drottins síns.

Þegar Harún Alraschid sá, að enginn maður var eptir á fljótsbakkanum, skipaði hann ferjukarli að róa til lands til þess að veita hinum unga höfðingja eptirför. En með því hann ekki vissi, hverja leið hann hafði farið, hvarf hann aptur til hallarinnar með fylgdarmönnum sínum, gaf hann ferjukarlinum tuttugu sekkínur að skilnaði og mælti: „Bíddu okkar á sama stað annað kvöld. Við erum útlendingar og búum í sama gestaherbergi, langar okkar að róa nokkrar stundir á fljótinu okkur til skemmtunar. Þú mátt reiða þig uppá, að við munum borga þjer stórmannlega.“

Þessi kynlegu tilbrigði um nóttina gerðu kalífanum svo órótt, að honum kom ekki svefn á auga, og hafði hann ekki eyrð á að bíða ráðningar gátu þessarar. Undireins og ljómaði af degi, gerði hann bæn sína, ákallaði spámanninn og ljet koma með morgunverð sinn. Leið þá ekki á löngu, að Mesrúr kom og mælti: „Fulltrúi drottins! nú er fögur sjón að líta samsöfnuð öldunga og ráðgjafa í ráðstefnusalnum og vantar ekki annað á, enn að þú prýðir hann með návist þinni. Kom því og lát hermennina sjá þig, sem unna þjer hugástum, settu niður deilur með þegnum þínum, sem tilbiðja þig, blessa þú skepnur drottins með velgjörðum þínum.“ Kalífinn spratt upp, tók yfir sig skikkju sína með öllu því skarti, sem táknar hið æðsta stjórnarvald og veitir þeim tignarbragð, er bera, gekk hann síðan á ráðstefnu og settist í hásæti.

Skipuðust menn þá jafnskjótt í raðir umhverfis hann eptir virðingu sinni, höfðingjar, herforingjar, ráðgjafar, fræðimenn, skáld og aðrir, sem áttu sæti í ríkisráðinu. Bar einn upp farsældaróskir kalífanum til handa einsog siður var til, tóku allir hinir upp orð hans í einu hljóði. Þvínæst vjek annar sjer að kalífanum og mælti: „Þú, sem ert kominn upp á tind veldis og frægðar, forðast þú glaum oflætisins, því á morgun lýkur ríki þínu. Guðs ríki einungis varir eylíflega. Hversu optlega breytist veröldin og hefur drottna skipti? Tak þú undir með mjer: Dýrð sje þeim, sem ræður hinu óbrigðilega ríki.“ Þvínæst tók fyrirlesari að þylja fram trúargreinir og siðafræði, en þagnaði skjótt eptir bendingu kalífans, því hann fór nú að gera útum stjórnarmál sín, en ekki minntist hann á nætur æfintýri sitt við neinn. Á vanalegum tíma gengu öldungar ráðsins af fundi og hermennirnir sömuleiðis, en Harún fór inní áheyrnar salinn og var þar það, sem eptir var dagsins; beið hann næturinnar með mestu óþolinmæði. En er stjörnur voru á lopt komnar, kallaði hann stórvezírinn til fylgdar við sig, til að leita að hinum nýa kalífa, og fóru þeir báðir á laun úr höllinni í kaupmannsbúningi. Beið ferjumaður þeirra við Tígrisfljótið og launaði Harún undireins orðheldni hans með tuttugu sekkínum. Þvínæst stigu þeir útí bátinn og höfðu eigi langt farið, er þeir sáu lystiskútu falskalífans. Ferjumaður komst heppilega inní sama fylgsnið og þeir leyndust í fyrri nóttina, og sáu þeir nú þaðan í náðum, er skútan renndi framhjá. Stóðu frammi fyrir falskalífanum sextíu mamelúkar fríðari og skrautbúnari, enn þeir, sem þeir höfðu sjeð nóttina áður. Skammt frá fylgsni þeirra lenti lystiskútan og ljet þá kalífinn skjótt róa að fljótsbakkanum, svo að hann ekki missti sjónar á falskalífanum. Þeir Gíafar og Harún komust fljótt svo nálægt flokknum, að þeir gátu sjeð allt við birtu hinna óteljandi kyndla, en sjálfir sáust þeir ekki í náttmyrkrinu. Falskalífinn reið glæsilegum hesti arabiskum; var söðull og beizli einsog tíðkast með Abassíðum. Mamelúkar gengu á undan honum með góðri skipun, og fór fyrirliði í broddi fylkingar og kallaði: „Hver, sem gengur frá húsi sínu eða lítur útum glugga, fyrirgjörir lífi sínu og verða eigur hans gerðar upptækar. Guð varðveiti oss frá reiði

konunganna!“ Harún Alraschid gat ekki að sjer gert að hlægja að hótunum þessum og skopaðist að þeim við Gíafar, kvaðst hann mundu elta falskalífann hvervetna til þess að komast eptir, hvernig á öllu þessu stæði.

Nú var flokkurinn eptir langa göngu kominn allt að hinum yztu aldingörðum Bagdads; kalífinn og Gíafar færðu sig alltaf nær og nær og loksins voru þeir komnir inní sjálfan hópinn. En ekki leið á löngu, að menn tækju eptir þeim, voru þeir þá teknir og leiddir til falskalífans, því enginn vissi annað, enn þeir væru kaupmenn. Hann veitti þeim harðar átölur og mælti: „Hverjir eruð þið þorpararnir? hvað viljið þið hingað? hafið þið ekki heyrt auglýsinguna? Eg sver við mína hágöfugu forfeður, að eg skal láta höggva af ykkur hendur og fætur, ef þið ljúgið að mjer! eruð þið svo djarfir að ætla að standa upp í hárinu á mjer og virða skipanir mínar að vettugi?“ Harún svaraði: „Stilltu þig kalífi! þangaðtil við getum talað máli okkar. Ef þú tekur afsökun vora gilda muntu sýna vott gæzku þinnar, og ef þú lætur drepa oss, munum vjer ekki geta lastað rjettlæti þitt.“ „Hvað hafið þið ykkur þá til málsbóta?“ spurði hann. Þá svarar Harún: „Við erum ókunnugir og höfum aldrei komið í Bagdad fyrr enn í dag, höfum við ráfað um stræti og torg og með því oss þókti undarlegt, að þau voru auð af mönnum, spurðum vjer, hvað orðið væri af innbúum þessarar blómlegu borgar. Var okkur þá svarað þessu: „Allt sem vetlingi getur valdið, er að skemmta sjer á Tígrisfljótinu eða á gangi á bökkum fljótsins, því það er helzt haft til skemmtunar á þessum tíma árs. Gengum vjer þá ofaná bakka fljótsins og var þar fjarskalegur manngrúi, voru þar allir glaðir og í góðu skapi. Var þar etið og drukkið og svo gerðum vjer. Þvínæst ljetum vjer róa oss yfir fljótið og gengum á land, höfum vjer nú lengi haft góða skemmtun. Ferjumaður okkar var þreyttur og lagðist til svefns í ferju sinni, en rjeði oss til að vekja sig fyrir kvöldið, svo að hann gæti flutt okkur aptur til borgarinnar. Nú gengum vjer lengi okkur til gamans og urðum líka lúnir, sofnuðum vjer því og vöknuðum ekki fyrr enn dymmt var orðið. En er vjer vöktum ferjumann, ámælti hann oss fyrir, að vjer hefðum vakið

sig ofseint. Sögðum við honum þá, að við hefðum sofið yfir okkur einsog hann og gætum vel verið nætursakir þarsem við vorum. Svaraði hann þá, að þar væri ótryggilegt vegna stigamanna, og rjeri hann okkur að þessum bakka. En er hann sá birtuna, er stóð af kyndlum yðar, mælti hann: „Sjáið! þarna fer nýkvæntur maður til húsa sinna. Sláist í för með honum og munuð þið þar komast í brúðkaupsveizluna. Þrælar hans leika forkunnar vel á hljóðfæri og munuð þið þar hafa góða skemmtun allt til morguns; mun yður þá verða veittur ágætur morgunverður, og getið þið síðan farið hvert sem ykkur líkar, því hjer á landi er friðsamt og með öllu hættulaust, þurfið þið því engu að kvíða.“ Af þessum orðum hans ljetum við til leiðast, að veita yður eptirför og slóumst vjer í föruneyti yðar, í voninni um að verða veizlunnar njótandi; en auglýsingu þá, er þjer minntuzt á, höfum vjer ekki heyrt nefnda á nafn.“

Þá mælti falskalífinn: „Ykkur vill það til hamingju, að þið eruð ekki frá Bagdad, „því væri svo munduð þið ekki umflýa maklega refsingu. En fyrst þið eruð aðkomnir, býð eg ykkur að vera gestir mínir það sem eptir er nætur.“ „Mikinn sóma gerið þjer oss,“ ansaði Harún, „og biðjum vjer yður, drottinn rjetttrúaðra manna! að taka við þakklæti voru.“ Þá laut Gíafar að kalífanum og hvíslaði að honum: „Vitur maður ert þú, fulltrúi drottins!“ Skipaði þá kalífinn honum að þegja. Þvínæst fóru þeir með hinum til hallar falskalífans, stóð hún hjá hinum yztu aldingörðum borgarinnar og hvíldi loptið á súlum, var það dýrðlegt á að sjá. Aðalhliðið var úr svartviði, slegið gulli og skínandi fágað.

Falskalífinn fór af baki og bauð Harúni að koma inn með fylgdarmönnum sínum, Gíafar og Mesrúr. Var þeim fylgt inní stóran sal; stóð í honum miðjum víð skál og reis uppúr henni gjósandi vatnsstafur. Allt umhverfis voru legubekkir með fagurlega útsaumuðum ábreiðum og hægindum, en þetta var skrifað yfir salardyrunum: „Heill og friður ríki í þessum stað, sem hamingjan hefur blessað með auðlegð sinni. Hann er líkur undrum þeim, sem hin mesta orðsnild fær ei lýst.“ Falskalífinn settist í gullið hásæti, alsett perlum og gimsteinum, undir grænum tjaldhimni með

gullnu kögri, svo að slíkt hefur eigi sjezt í höllum hinna voldugustu konunga; studdu hásætið stólpar úr sandelsviði og lagði af þeim sætan ilm. Hirðmenn hans skipuðust með lotningu í kringum hann og var Harúni og fylgdarmönnum hans leyft að setjast niður. Falskalífinn benti nú hirðstjóra sínum og byrlara; voru þá óðar borin inn borð og hlaðin dýrindis krásum og kostulegum vínum. Hellti ung ambátt á skál og söng vísu þessu:

Lát þú hræsnara
Í hofi sitja,
En sit með oss at sumbli,
Hatar hræsnara
Heilög ritning,
En þeigi vínglaðan ver.

Þvínæst rjetti byrlarinn falskalífanum skálina og tæmdi hann hana að vörmu spori; gekk hún síðan hrínginn í kring, þangaðtil kom að þeim Harúni; færðust þeir undan víndrykkjunni og kváðust við eitt hræðilegt atvik æfi sinnar hafa strengt þess heit, að drekka aldrei vín. Þá mælti falskalífinn: „Guð veit, að eg ekki skal áfella ykkur fyrir það,“ og ljet hann undireins byrla þeim kostulegan svaladrykk. Máltíðin stóð lengi yfir og sagði kalífinn við stórvezírinn yfir borðum, að hann væri hlessa á öllu, er hann sæi þar og að hann hefði aldrei etið betri mat, enn þar var veittur. „Mig dauðlangar,“ sagði hann, „til að vita, hver hinn ungi maður er.“ Falskalífinn tók eptir pískri þeirra og spurði, hver launungarmál þeir ræddu saman. Svaraði þá Harún: „Fyrirgef, drottinn rjetttrúaðra manna! fjærri fór því, að vjer vildum styggja þig. Fylgdarmaður minn, sem er gamall og víðförull, ljet í ljósi, hversu hann undraðist viðhöfn þá og dýrð, sem hjer er, kvaðst hann aldrei hafa sjeð slíkt, og mundi sjer einskis á vant þykja, ef sönglist væri hinu samfara; því veizla án söngs, er einsog trje án ávaxta. Getur kalífi verið án söngs í hátíðlegu gildi? Um þetta töluðum við lauslega og veiztu nú launungarmál okkar.“ Vínið var nú tekið að svífa á gestina og falskalífinn var einnig orðinn ör. Hann hló að játningu Harúns og klappaði saman höndunum,

kom þá inn lítill svartur þræll með gullinn stól. Á eptir honum kom ung ambátt, töfrandi eins og sú er skáldið lýsir:

Munstærandi, mæra
Menhlín sjer þú skína?
Alabastri brjóstin,
Bjartari drósar skarta,
Sigrar hold og huga,
Hlýtur sá, er lítur
(Ein veldur margra meinum)
Mey, af elsku deya.

Hún fleygði sjer fram fyrir fætur kalífans, en er Harún leit hina yndislegu mey mælti hann: „Dýrð sje skapara svo fullkominnar fegurðar!“ og fann hann undireins að ástarþokki kviknaði í hjarta hans til hennar. Herra hennar skipaði henni þvínæst að setjast niður og settist hún á hinn gullna stól, en svertinginn rjetti henni haglega gjörva fiðlu. Hún hjelt henni við brjóst sjer og stillti hana; þvínæst hafði hún yfir öll hljóð-raddarstigans og söng síðan ýms kvæði og var hvert öðru tilfinningarmeira. Allir, sem á hana hlýddu, urðu frá sjer numdir af undrun og enginn gat með köldu blóði og stilltu geði heyrt söng hennar.

En jafnskjótt, sem hún þagnaði æpti falskalífinn uppyfir sig, reif sundur skikkju sína og hnje í ómegin. Þjónar hans hlupu undireins til hans, dróu fyrir ársal tjaldhiminsins og færðu hann í önnur klæði. En er honum var batnað, rjetti ungur byrlari honum vínskál og gekk hún síðan hringinn í kring. Hann spurði ekki eptir ambàttinni, sem var gengin burt, en eptir bendingu hans kom önnur, sem var ennþá yndislegri enn hin og söng hún einnig raunalegt ástarkvæði. En er hún hafði lokið því, reif falskalífinn aptur klæði sín í sundur og hnje æpandi í öngvit. Stumruðu þjónar hans yfir honum einsog fyrr, en á sömu leið fór í þriðja sinn eptir að af honum bráði og hin þriðja ambátt, sem var ennþá fríðari enn báðar hinar, hafði sungið hjartnæmt kvæði. En meðan verið var að færa falskalífann í ný klæði vildi svo til, að ársalurinn blakti til hliðar og sá þá Harún, að líkami hans var allur skemmdur af nýfengnum meiðslum og leit svo út sem

honum hefði verið misþyrmt. Mælti hann þá í hljóði við Gíafar: „Þó maður þessi sje ungur og fríður, er eg hræddur um, að hann sje ræningi.“ Þjónar falskalífans drógu ársalinn fyrir og klæddu herra sinn, settist hann þvínæst til borðs. Var þá aptur tekið til drykkju, en Harún hjelt áfram hljóðskrafinu við Gíafar. Þegar falskalífinn sá það, mælti hann: „Heiðruðu gestir! sagði eg ykkur ekki áðan, hversu ósæmandi slíkt launtal er.“ Var þá Harún fyrir svörum og mælti: „Herra! maður sá, sem hjá mjer situr, er málsmetandi kaupmaður, hefur farið um allar heimsálfur, verið í hirð með konungum og umgengist bæði tigna menn og ótigna, en það fullyrti hann, að hann hefði aldrei sjeð slíkt, sem hjer gerist í húsum þínum. Þú hefur rifið mörg skrautleg klæði í sundur, sem hljóta að kosta ærna peninga. Slíkt ber ekki til á degi hverjum, og þækti oss gaman að vita, hvernig á því stendur. Þegar við erum komnir heim og förum að segja frá vegsemd þinni og dýrð og öllu því, er við höfum sjeð í hirð þinni, getum við ekki svarað, ef spurt verður, hversvegna þú hafir rifið sundur svo dýran klæðnað, nema því að eins að þú gerir okkur það uppskátt.“

Þá svaraði falskalífinn: „Góðir menn! eg á öll þessi auðæfi og sömuleiðis klæðnað minn, en þjónum mínum og þrælum kynni að bregða illa við spurningu yðar, því þeir fá öll klæði, sem eg ríf í sundur, og þar á ofan fimmhundruð sekkínur með hverju fati.“ Harún svaraði með vísu þessari:

Kaus sjer örlæti
Að aðalbóli
Gramur gjöflasti!
Greipar þínar,
Skírist gnll þitt
Af göfgri eyðslu.

Ljeti lokað
Hin ljúfa Rausn
Helgum hofdyrum
Hjer á jörðu,
Mundir þú aptur
Þeim upp ljúka.

Að lofi þessu geðjaðist falskalífanum svo vel, að hann skipaði að fá honum þúsund sekkínur. Brosti þá Harún við og beiddi stórvezírinn Gíafar að þiggja fjeð og gerði hann svo og mælti: „Við erum orðnir skáld og þiggjum gjafir af konungum.“ Gekk nú bikarinn á ný, og gerðist glatt í samkvæminn, svo að menn höfðu engin bönd á sjer. Sætti Harún þá lagi og spurði hvernig á sárunum stæði, sem sýndust vera á líkama kalífans; var honum engu svarað og skipaði hann því Gíafar að spyrja að því á ný. Kvað hann sjer ekki virðast hentugur tími til þess, en kalífinn hvíslaði að honum, að hann skyldi láta drepa hann, ef hann ekki hlýddi. Falskalífinn hafði tekið eptir hljóðskrafi þeirra og mælti: „Hversu opt á eg að minna ykkur á það, hvað hljóðskraf er ósæmandi á mannfundum? en nú vil eg vita, hvað þið voruð að þinga um og varið ykkur á að segja mjer ósannindi. Svaraði Gíafar þá, að þeir hefðu verið tala um sárin, sem þeir hefðu sjeð á honum; brosti falskalífinn og kvaðst albúinn að seðja forvitni þeirra og segja þeim sögu sína, sem væri frábærlega merkileg og full af fáheyrðum æfintýrum. Hann andvarpaði og mælti þannig: „Þar sem eg er, sjáið þjer grátlegan píslarvott elskunnar; en ef eg sje rjett, þá segi eg nú harmasögu mína kalífa heimsins, sem hjer er kominn með Gíafar, stórvezír sínum og Mesrúr, sem framkvæmir hans háleitu boð. Hafi eg getið rjett til, þá eru hörmungar mínar á enda og stjarna hamingjunnar rennur upp fyrir mjer; hjarta mitt treystir þessari fagnaðarsælu von.“ Þá segir Gíafar til þess að glepja honum sjónir: „Fulltrúi drottins! enginn þeirra, sem þú nefndir, er á meðal vor.“ Falskalífinn beiddist samt undan nafnbótinni: „fulltrúi drottins og konungur rjetttrúaðra manna,“ því hann kvaðst eigi vera það, en hafa tekið sjer nafnbót þessa til þess, að sem mest skyldi bera á sjer, svo að Harún Alraschíd boðaði hann á sinn fund. Kvaðst hann þá ætla að segja honum sögu sína, sem eflaust mundi hræra hann til meðaumkvunar. Þá tók Harún til orða: „Hreinskilni þín er þess verð, að hreinskilni komi ímóti. Skaltu því vita að við erum ekki kaupmenn, heldur erum vjer hirðmenn kalífans, erum vjer í nokkrum metum hjá honum og skulum vjer nota oss það þjer til góðs. Seg oss því æfintýri þín svo að vjer getum aptur sagt

kalífanum og þannig útvegað þjer áheyrn hans. Vertu óhræddur um það, að allt mun snúast þjer til góðs.“

Eptir þetta sagði falskalífinn frásögu þessa: „Faðir minn hjet Móhammed, en eg heiti Alí Schach. Hann ljet mjer eptir sig látinn eina þúsund þúsunda sekkína í reiðupeningum, tuttugu aldingarða, tíu baðstaði, tuttugu veitingahús, fjörutíu hús, fimmtán myllur, tólf torg, hvert með áttatíu sölubúðum, og auk alls þessa ógrynni allskonar gimsteina, þegar eg hafði veitt honum nábjargir, borgað skuldir hans og gefið fátæklingum ölmusur, hjelt eg verzlun hans áfram og keypti bæði og seldi gimsteina. Einusinni þegar eg sat í makindum í sölubúð minni innanum þræla mína og þjóna, sá eg allt í einu koma forkunnar fagra jungfrú, reið hún fallegri múlösnu og fylgdu henni þrír afbragðs fríðir þrælar. Hún var fegri enn máninn, þegar hann ljómar á miðjum næturhimninum, blakti blæa hennar til hliðar og sást á hina fögru lokka hennar. Því nær, sem hún kom, því betur leizt mjer á hana og gat eg ekki haft augun af henni. Fór hún af baki fyrir utan sölubúð mína, gekk inn og settist niður, en þrælar mínir stóðu hjá með lotningu. Heilsaði hún mjer blíðlega og þókti mjer koma hennar góðs viti, spurði eg hana, hvort eg gæti verið henni til þægðar í nokkru. „Já!“ ansaði hún, „og liggur mjer mikið á, mun eg kunna yður mikla þökk fyrir, ef þjer getið útvegað mjer það, sem mjer leikur hugur á, en það er demanta men.“ Sýndi eg henni þá eitt, er kostaði tvö hundruð sekkínur, þvínæst annað, er kostaði fjögur hundruð, og síðan hvert öðru dýrara. Loksins sýndi eg henni eitt, er kostaði sjötíu þúsundir sekkína og mælti hún þá: „Þetta hef eg lengi þráð, hvað á það að kosta?“ Sagði eg henni þá, að eg hefði gefið sjötíu þúsundir sekkína fyrir það, og kvaðst hún þá mundu borga mjer einni þúsund meira. Færðist eg undan og sagðist ekki kæra mig um neinn ágóða, en hún ámælti mjer fyrir það, og sagði, að eg yrði að lifa á verzluninni, úr því eg væri kaupmaður. Fór hún nú á bak múlösnu sinni og beiddi mig að koma með sjer til þess að taka við fjenu. Lokaði eg því búð minni og komum við að stóru húsi; stóðu þessi orð yfir hliðinu skrifuð gullnu letri: „Friðsæla heimkynni! hryggð og dymmar sorgir komist aldrei inn fyrir múra þína og eigandi þinn

lifi jafnan óhultur fyrir áföllum mótlætisins. það hús er allra húsa fegurst, sem stendur ávallt opið hverjum manni og veitir gestum þæga hvíld.“ þegar eg var kominn inn, undraðist eg stórum viðhöfn þá, er lýsti sjer þar í öllu. þegar eg var að hugleiða þetta, kom ambáttin inn og mælti: „Húsfreya mín skipaði mjer að segja þjer, að ekki sæmi þjer að standa hjer, heldur skulir þú koma inní salinn og hvíla þig þar, þangaðtil gjaldkyri greiðir þjer borgun þá, er þið urðuð ásátt um.“ Gekk eg þá með henni og bauð hún mjer að setjast í glæsilegan legubekk. Varð eg frá mjer numinn er eg sá hin dýrðlegu veggjatjöld, hinar fögru litmyndir og letrið í salnum, og var eg valla seztur í legubekkinn, þegar önnur ambátt kom og beiddi mig, að koma inní annað herbergi. þókti mjer þá, sem eg kæmi í höll einhverrar álfkonu; fannst mjer þar mest um gullinn hástól, er stóð undir tjaldhimni úr silki og var fortjöldunum slegið til hliðar. En yngismær ein sat á stólnum og kenndi eg að þar var sú, er keypt hafði af mjer demantsmenið, enda tindraði það á hálsi hennar einsog hinar blikandi stjörnur á næturhimninum. Ásjóna hennar var blæulans og ljómaði einsog máni í fyllingu, og af sjón svo töfrandi fegurðar þókti mjer, sem eldur færi um mig, og varð eg svo gagntekinn, að eg valla vissi af mjer. Stóð hún undireins upp, gekk á móti mjer og mælti: „Hinn fegursti elskhugi flýgur optastnær í fang hinnar fríðustu unnustu, en eg sný þessu við.“ þá svaraði eg: „þú hin eina fullkomna ímynd fegurðarinnar, þjer færi eg alla hylli mína; hið minnsta, sem prýðir þig, mundi veita hverri dauðlegri konu fullkominn fríðleik.“ þá tók hún þannig til máls: „Alí Schach, eg fæ ekki lengur dulið elsku mína til þín. Hef eg lengi þráð þá fagnaðar stund að tala við þig.“ Svo mælti hún og vafði mig örmum sínum og þrýsti mjer með ákafri blíðu að hjarta sínu, varð eg þá svo frá mjer numinn af þessari himnesku sælu, að eg gerðist heldur frekur í tilraunum mínum, en hún snjeri mjer aptur með orðum þessum: „Ætlarðu að neyta þess, að hjarta mitt er á þínu valdi? skaltu vita, að eg er dóttir Barmekíða og veit, að mjer ber að varðveita sæmd og heiður ættar minnar óskertan. þekkir þú mig ekki?“ Kvað eg nei við og sagði hún mjer þá, að hún hjeti Syttaddunya og væri systir Gíafars stórvezírs. Varð

eg þá óttasleginn, leit til jarðar og mælti skjálfandi munni: „Tignaða jungfrú! mjer verður ekki gefin sök á því, heldur almætti fegurðar yðvarrar.“ Bað hún mig þá að kvíða engu, og sagði, að við mundum bráðum ná saman með fullu laga leyfi, því hún hefði vald til að fastna sig sjálf. Kvað hún dómarann í Bagdad vera fjárhaldsmann sinn, og mætti eg þegar kalla hana eiginkonu mína. Sendi hún undireins eptir dómaranum og vitnum, sagði honum, að hjer væri kominn Alí Schach, gimsteinakaupmaður og beiddi sín til eiginkonu, kvað hún hann hafa gefið sjer demantamenið, einsog brúðgjöf; „eg hef lofazt honum,“ mælti hún, „og ætla að giptast honum. Dómarinn samdi þá kaupmálann ummælalaust; fjekk hann og vottarnir stórgjafir fyrir, en er þeir voru farnir, skipaði Syttaddunya þrælum sínum, að reiða fram brúðkaups máltíðina. Voru þá bornar á borð hinar dýrustu krásir og ágætustu vín; fleiri enn tíu söngmeyar sungu fegurstu kvæði, og loksins tók Syttaddunya sjálf fiðlu eina, ljek á hana og söng undir elskhuga sínum til lofs, og ljet henni það betur enn öllum hinum. Eg var þá einsog utan við mig af undrun og fögnuði og særði hana, að syngja kvæðið aptur og gerði hún það með því skilyrði, að eg syngi á eptir. En er hún var þögnuð, söng eg kvæði henni til vegsemdar og var þetta niðurlagið:

Þó ljúf sjeu
Ljóð, er kveður
Snjöllum unaðs ómi,
Mun eg sætleik samt
Sjúga meiri,
Þjer af munni, mær!

Brosti hún að þessu, og mælti: „Eg skal varast, að mótmæla þjer, enda mun tími til kominn, að við tökum á okkur náðir. Farið þið út, þrælar! ykkur mun ekki heldur vera vanþörf á að hvíla ykkur.“

En er við vorum eptir tvö ein, leiddi hún mig við hönd sjer inní brúðarhúsið, var þar hjónarúm úr fílabeini, gullbúið. Hún hjálpaði mjer sjálf úr fötunum, en alla ást og hylli hennar varð eg að kaupa með svardaga þeim, að eg aldrei skyldi eiga lag við

aðra konu. þá ljet hún fyrst eptir ákafri löngun minni og lifðum við nú hina gleðiríkustu og inndælustu nótt, óhult fyrir óvild og óskammfeilni allra manna. En þjer, sem forvitnir eruð, varist að skygnast inní leyndardóma ástarinnar! Morgunroðinn kom að okkur, þarsem við lágum í ástríkum faðmlögum, og þá fyrst lagðist eg til svefns, dasaður af vöku og munaðar nautn. En eg vaknaði aptur af værum blundi við það, að eg var kitlaður undir iljunum með ljettri hönd. Lauk eg þá upp augunum hálfsofandi og sá unga ambátt, freistaði djöfullinn mín auðsjáanlega í líki hennar, því hún var yndis fögur. „Hver ertu?“ spurði eg, „og hvaðan kemurðu?“ og felldi eg undireins girndarhug til hennar. Svaraði hún þá: „þjer sjáið hjer eina af ambáttum yðar, mundi hún telja sig fullsæla, ef hún mætti verða yður að skapi, og mundi það vera yndi hennar að gera skyldu sína.“ þá mælti eg: „Hvað er orðið af Syttaddunyu?“ sagði þá ambáttin mjer, að hún væri gengin til lauga og hefði sent sig til þess, að vekja mig, svo að eg skyldi koma á eptir. „Æ!“ mælti hún, „þjer eruð allra manna elskulegastur, ætli eg gæti snúið huga yðar frá henni eitt augnablik?“ „Má eg þá leiga undir því að þú þegir,“ sagði eg. „þess hins sama bið eg yður,“ svaraði hún. Varð eg þá gagntekinn af ástarjátningu hennar og ætlaði að svipta henni uppí rúmið, en hún stritaðist á móti og þókti mjer kynlegt, spurði eg hana, hvað slíkt ætti að þýða, en í sama bili kom Syttaddunya með svipu í hendi og brann heiptin úr augum hennar. „Svikarinn þinn?“ kallaði hún hátt, „hvar eru nú eiðarnir þínir? þú svíkur óðar enn þú sver. Eg sendi sjálf ambátt þessa hingað, og hef eg heyrt allt viðurtal ykkar. Slíkum illmennum, sem þjer, er ekki líf gefandi.“ Kallaði hún þá undireins á ambáttir sínar, tóku þær mig höndum og bundu mig. þvínæst var eg ofurseldur lögreglustjóra og var sagt, að eg hefði verið staðinn að þjófnaði og tekinn fastur, skyldi hann lemja mig þangaðtil eg meðgengi og ekki sleppa mjer. Jafnskjótt sem eg var kominn í hús lögreglustjórans, var eg afklæddur, laminn á bakið með lurk, og spurður um leið, hvar eg geymdi það, sem eg hefði stolið. Sór eg og sárt við lagði, að eg hefði engu stolið, en allt fyrir það var eg lam-

inn þangaðtil eg varð rænulans, og var mjer þannig útleiknum varpað í myrkvastofu.

Nú tók að nátta og stundi eg þungan, því mjer logsveið í sárunum; þá laukst veggurinn allt í einu upp og kom inn til mín ung kona, ljómandi einsog sól eptir illviðri. Hún tók þannig til máls: „Eg hef dvalið hjer lengi, en af svo mörgum mönnum, sem verið hafa í fangelsi þessu, hefur enginn kveinað svo beisklega og gert mjer eins mikið ónæði, og þú í nótt.“ Þá svaraði eg: „Ef að þjer vissuð, hvað veldur kveinstöfum mínum, munduð þjer heldur aumkva mig enn átelja. Sjáið hversu grimmlega eg er útleikinn.“ Sýndi eg henni líkama minn, sem var alþakinn sárum, kenndi hún þá í brjóst um mig og mælti: „Á eg að trúa því, að þú sjert þjófur? „Það er eg ekki,“ svaraði eg, „og tek eg guð almáttugan til vitnis um það, eg hef aldrei tekið neitt frá öðrum eða gert þeim rangt til, heldur valda harðráð forlög hörmungum mínum.“ Af hinu einarðlega svari mínu sannfærðist hún um sakleysi mitt og leizt henni svo vel á mig, að hún beiddi mig að segja sjer sögu mína og sagði eg hana hreinskilnislega. En er eg hafði lokið henni mælti hún: „Viljir þú hefna þín, þá skal eg senda einn af þjónum mínum til hinnar grimmúðugu Syttaddunyu, skal hann kvelja hana og jafnvel varna henni að neyta nokkurs.“ Svaraði eg þá: „Guð varðveiti mig frá því, að baka henni hið minnsta mein vísvitandi. Hún er enn sem áður unnusta hjarta míns, og er það á hennar valdi, svo að eg mun jafnvel virða rangsleitni hennar.“ Hin ókunna kona skildi ekki í því, að eg skyldi sleppa tækifærinu til að hefna mín. Minnti eg hana þá á málsháttt þenna: „Högg af hendi unnustunnar eru sæt einsog vínber og steinar þeir, er hún kastar í oss, eru sem eplakjarnar,“ kvað eg og vísu þessa tárfellandi:

Far vel heitmey!
En heittelskaða,
Sem eg tilbið
Og trega í leyni.
Harðdrægni þín
Mjer hugljúf þykir,
Allt er mjer þægt
Af þinni hendi.

þá mælti hún brosandi: „Að slíku hugarfari geðjast mjer og lýsir það óspilltu hjarta. Ef þú beiddist þess, skyldir þú á augabragði sleppa úr fangelsi þessu og skyldi eg láta þig hverfa til unnustu þinnar í skrautlega höll, en hana skyldi eg láta vakna af svefni í faðmi þínum. En þá er eg hrædd um, að hún ekki virði hreinskilni þína, heldur spyrji þig í sama heiptarhug og áður, hver hafi frelsað þig úr fangelsinu. Þá mundir þú svara, að það hefði gert kona, sem þú þekktir ekki. Nú þekkir hún mig ekki nje veit, hversu það er hættulegt að gera mjer ámóti skapi, kynni hún því að ofurselja þig lögreglustjóranum á ný, og mundi hann vafalaust láta hálshöggva þig fyrr enn og vissi af. En eg mundi þá kvelja hana til dauða, svo að hún tæki maklega hefnd fyrir rangsleitni sína. Hef eg nú tekið meira ástfóstri við þig enn svo, að eg vilji stofna þjer í slíka hættu. Eg veit örugt meðal, það er verndargripur einn, er eg mun fá þjer; þegar þú hefur hann, þarftu ekki að hræðast neitt vald á jörðu og er þjer ekkert ómögulegt. Hann gefur þjer aptur í vald unnustu þína og ræður þú sjálfur, hvort þú tortínir henni eða fyrirgefur henni. Þú hefur óbundið vald yfir borginni Bagdad, og getur ef þjer svo lízt, steypt kalífanum, fyrirkomið honum og eytt borgina giörsamlega.“ Að svo mæltu ljet hún hring uppá fingur mjer og sagði ennfremur: „Undireins og þú snýr eski hringsins mun trúlyndur þjónn minn birtast þjer, og er vald hans þvínær takmarkalaust. Hann er í tölu þeirra anda, sem hófu uppreisn gegn Salómon, og mun hann hlýða boðum þínum rækilega. Reyndu nú hringinn meðan eg er við.“

Eg snjeri eski hringsins og fór allt sem bjargvættur mín hafði sagt, því allt í einu birtist mjer þjónustusamur andi og spurði, hvers eg beiddist. „Hvert er nafn þitt?“ spurði eg. „Snarfari heiti eg,“ svaraði hann. Hann var ógurlegur ásýndum og úr skolti hans sköguðu fram tvær geysi stórar tennur, líkar kvernsteinum. Spurði eg hann ennfremur: „Getur þú reist handa mjer höll með háum sal?“ „Það er velkomið,“ svaraði hann, „og er eg reiðubúinn til að prýða hana að innan með mestu viðhöfn og skipa hann öllum þeim þrælum og þjónum, sem þjer er þörf á; en þegar þú ert fluttur í höllna, þarftu ekki annað enn að nefna ósk þína og skal hún samstundis uppfyllast.“ „Hvað marga mán-

uði verðurðu að gera höllina," spurði eg. „Því nefnirðu mánuði," mælti hann, „þarsem eg hvorki þarf vikna nje daga; höllin skal vera fullgerð áður enn þessari nótt lýkur. En seg mjer, hvar þú vilt að hún standi, og ef á þeim grundvelli eru hús nokkur, þá skal eg fyrirkoma þeim, er í þeim búa. Höll þín skal vera alger fyrir sólaruppkomu og er það ætlun mín, að hún verði enn fegri enn þú vonast eptir. Á eg að byggja hana á rústum hallar kalífans eða Gíafars stórvezírs? seg þú til!"

„Fjærri fer því," svaraði eg, „að eg vilji að nokkur hljóti ónæði eða skaða af mjer; eg á engar sakir við kalífann eða Gíafar, og engan hagnað mun eg þiggja, sem þeim er til meins. En ef þú getur reist mjer höll, þá gerðu það fyrir utan borgina, þarsem enginn maður hefur baga af því." Fór þá Snarfari með mig út úr borginni, sló tjaldi upp á hól nokkrum og útvegaði ágætasta mat og drykk til hressingar. Þegar eg hafði etið og drukkið, lagðist eg til svefns. Eg vaknaði í því að morgunroðinn ljómaði, og sá eg, þegar eg lauk upp augum mínum, að eg var kominn í þessa skrautlegu höll. Stóð fjöldi þræla og ambátta kringum mig og spurði eg Snarfara, hver höllina ætti, en hann svaraði: „Þú átt hana og allir þessir þrælar bíða eptir skipunum þínum." „Hvernig stendur á þessu öllu?" spurði eg, og sagði hann mjer þá, að slíkum öndum, sem honum væri ekkert ómögulegt, og hefði hann ekki látið meira enn tíunda part þjóna sinna starfa að hallarsmíðinni og þó hefði enginn borið meira enn einn stein eða eitt húsgagn. En er eg var orðinn eigandi hallarinnar, beiddi eg andann um skip, og gaf hann mjer að vörmu spori skútuna, sem þið sáuð mig róa á um Tígrisfljótið. Ljet eg þá kunngjöra forboð gegn öllum skemmtiferðum á fljótinu og bannaði öllum að koma fram í í glugga; tók eg mjer og kalífa nafnbót til þess að Harún Alraschíd skyldi heyra um það getið og kalla mig á sinn fund og var það aðaltilgangur minn. Eg ætla að segja honum sögu mína, mun hann vafalaust hrærast til meðaumkvunar, og ef þið eruð nokkurs megnandi hjá konungi þessum, sem er eins rjettlátur og hann er voldugur, þá komið því til leiðar, að hann skipi Gíafar bróður Syttaddunyu, að koma mjer í sátt við hana, því ást mín hefur alls ekki rjenað fyrir grimmd hennar og rangsleitni. En

allir þessir viðburðir munu vafalaust vera skráðir í bók forlaganna, og getur allt snúist til góðs ef það er guðs vilji.“

Kalífinn hafði hlýtt með mestu undrun á æfintýri Alí Schachs og var ekki trútt um, að hann yrði smeikur, þegar hann hugsaði til hins takmarkalausa valds, sem honum var veitt. En með því það lýsti sjer í samræðu þeirra, að Alí Schach var góður maður, og hafði lotningu fyrir kalífanum, þá fór allur kvíði af Harún Alraschið. Þvínæst kvaddi hann Alí Schach með förunautum sínum og lofaði að bera upp mál hans fyrir kalífann. En ekki vildi hann fyrir nokkurn mun taka við tveimur demants menjum, er Alí Schach beiddi hann að færa kalífanum að gjöf; varð þá Alí Schach að fá Gíafar þau. Þegar þeir komu til hallar kalífans var dagur á lopti; skipaði kalífinn Gíafar á laun, að sætta systur sína við mann hennar og mælti ennfremur: „Ef hún færist undan, þá er ykkur báðum ógæfan vís.“ Þá svaraði Gíafar; „Eg skal flýta mjer að hlýðnast þinni háleitu skipun,“ og gekk skjálfandi burt úr höll kalífans til þess að leita upp systur sína. Hafði hún skjótt iðrazt eptir grimmd sína við Alí Sehach, er hún í raun og veru unni hugástum, og ætlaði næsta dag að frelsa hann úr fangelsinu, en þá frjetti hún, að hann væri horfinn. Varð hún óhuggandi útaf því, örvílnaðist, grjet og andvarpaði dag og nótt, og kom Gíafar að henni í þessu hryggilega ástandi. Játaði hún ást sinni á Alí Schach, þegar Gíafar gekk á hana, kvaðst hún hafa leynt henni af því hún hefði verið hrædd um, að honum mundi mislíka; sagði hún honum upp alla söguna. Kvaðst Gíafar þá hafa verið orðinn alls þessa vísari áður og sagði henni síðan frá æfintýrum þeim, er maður hennar hafði ratað í; „og vita skaltu,“ mælti hann, „að hefði kalífinn ekki skipað mjer að sætta ykkur, þá mundi eg hafa rekið þig ígegn. En vertu nú óhrædd, og þegar eiginmaður þinn vitjar þín aptur, þá reyndu að uppræta hjá honum endurminninguna um hina illu meðferð, sem þú hefir látið hann verða fyrir.“ Þegar stórvezírinn var aptur kominn til kalífsfans, gekk Alí Schach rjett á eptir inn í höllina, og höfðu þá nokkrir embættismenn í hirðinni afhent honum tignarklæði. Harún Alraschíd gekk nokkur spor á móti honum, ljet hann setjast hjá hásæti sínu og mælti: „Í gær sátu við borð þitt þrír gestir, sem

unnu þjer hugástum, og voru þeir: eg, Gíafar stórvezír og hann Mesrúr. En nú mun eg ekki tefja tímann fyrir þjer lengur. Eg hef falið vezír mínum á hendur að fylgja þjer til konu þinnar, og skora eg á þig að taka afsökun hennar gilda og snúa ást þinni til hennar aptur. Hún mun nú ekki vera svo hörð í horn að taka og mun hún varast að misbjóða slíkum manni, sem þú ert.“ Fór Gíafar með hann til hallar sinnar oh sættist hann þar heilum sáttum við Syttadunyu; skildi Alí Schach ekki við hana fyrr enn að morgni næsta dags, er hann gekk til kalífans í ríkisráðið. Ljet hann Alí Schach setjast hjá sjer og sýndi honum virðing á virðing ofan, en hann beitti hinu yfirnáttúrlega valdi, sem honum var veitt, einungis til að greiða fyrir áformum Harún Alraschíds og til þess að auka vegsemd hans. Leið svo eitt ár og voru þeir mestu alúðar vinir, en þá missti hann Syttaddunyu konu sína eptir stutta legu. Varð hann þá svo harmþrunginn, að hann tók engri huggun og dó skömmu síðar. En er lík þeirra voru vandlega lauguð, voru þau bæði lögð í sömu kistu og sömu gröf, fylgdi kalífinn líki ástvinar síns til grafar og tregaði hann lengi. En með því konungar missa aldrei sjónar á eigin gagni sínu, skipaði hann Gíafar að leita upp töfra hringinn, en hann fannst aldrei síðan.

Afþví nóttin ekki var á enda, leyfði soldán, sem hafði haft gaman af sögu falskalífans, Scheherasade að segja eina sögu enn.

## Kvennaslægð.

Einusinni var í Bagdad ungur maður, fríður sýnum, fallega vaxinn og elskulegur, og bar langt af öllum kaupmanna sonum. Einn dag gekk framhjá sölubúð hans yndisleg stúlka, varð henni litið uppá húsið og sá hún þetta skrifað uppyfir dyrunum með fögru letri: „Engin slægð er til nema karlmanna slægð, því hún er máttugri enn kvennaslægð.“ Þókti henni þetta leitt og segir hún eptir nokkra umhugsun: „Eg sver það við blæu mína, að hann skal verða kvennaslægð að leikfangi og breyta letri þessu.“

Hún kom aptur næsta dag í hinum skrautlegasta búningi og hlaðin dýrasta skarti; hafði hún litað hendur sínar í hinna og hrundu hárfljetturnar ofan á herðar henni. Brunaði hún áfram

með tignar þótta og fylgdu henni ambáttir hennar, en er hún kom í búð hins unga kaupmanns settist hún niður og ljet sem hún mundi kaupa nokkuð. Heilsaði hún honum, gaf sig á tal við hann og mælti: „Lítið nú á, hvað eg er falleg í vexti og hvað eg er rjettvaxin. Ætli nokkur mundi fetta fingur útí það og kalla mig kryppling." Ljet hún um leið sjá á beran hálsinn og brjóstin, og varð kaupmaður frá sjer numinn er hann sá, hve skínandi björt þau voru, og mælti: „Guð láti blæuna hylja yður!" En mærin ljet dæluna ganga og mælti: „Getur nokkur sagt, að eg hafi klunnalegt vaxtarlag?" og sýndi beran framhandlegginn, var hann skær einsog kristall, þvínæst lypti hún blæunni frá andlitinu og var það fagurt sem máni í fyllingu. Segir hún þá: „Hver ætli nú segi, að eg sje bólugrafin í framan eða blind á öðru auga?" Kaupmaður var henni samdóma og mælti: „því hafið þjer sýnt mjer það, sem síður er að hylja með blæunni?" þá svaraði hún: „Herra! þjer skuluð vita, að eg er aumlega stödd vegna harðdrægni föður míns, er hann svo svívirðilega nízkur, að hann horfir í hinn lítilfjörlegasta kostnað og vill ekkert til leggja mjer til framfærslu, þó guð hafi veitt honum blessun auðæfanna. Hann er og einhver hinn voldugasti þeirra manna, sem nú eru uppi og gæddur öllum farsællegum hlutum þessa heims." „Hver er faðir yðar?" spurði kaupmaðurinn, „og hvert er embætti hans?" „Hann er æðsti dómari í borginni, og allir aðrir dómarar í henni eru hans undirmenn." Að svo mæltu gekk hún burt, en kaupmaðurinn sat eptir svo gagntekinn af ást og undrun, sem hann væri milli heims og helju. Hann lokaði búðinni undireins og flýtti sjer til dómarans, sem hún hafði nefnt, sagði honum, að hann hefði brennandi ástarhug á dóttur hans og beiddi hennar. Svaraði þá dómarinn: „Vinur! dóttir mín er ekki samboðin yður nje nokkrum manni, sem jafnast við yður að fríðleik, og er hún þess ómakleg, að eiga slíkan öðlíng, sem þjer eruð." Kaupmaður kvað þetta vera ósæmilega talað, þarsem hann væri faðir stúlkunnar; hann sagði, að sjer litist vel á dóttur hans og væri sjer óskiljanlegt, því hann stæði ámóti vilja sínum. Fjekk hann hana loksins, þó dómarinn mælti ímóti og varð kaupmáli saminn með þeim skilmála, að brúðguminn skyldi greiða fimm peningapoka áundan brúðkaupinu og síðan

fimmtán í heimanfylgju, og var þetta áskilið til þess, að hann ekki skyldi skilja við hana. Brúðguminn, sem brann af ástar tilhlökkun, heimtaði brúðurina samdægris, og var honum fylgt til hennar eptir að hann hafði lesið kvöldbænir sínar, en er hann tók blæuna frá andliti hennar, sá hann, að hún var svo afskræmislega ljót, að ófrýnilegra gat ekki hugsast. Var hann hjá henni um nóttina, einsog í myrkvastofu og þreyði morguninn óðfús, svo hann mætti komast frá henni og ganga til lauga. Svaf hann þar dálitla stund, tók laugar, gekk til sölubúðar sinnar og drakk þar kaffe eptir vanda. Voru þar ýmsir komnir frá höfninni bæði kaupmenn og aðrir tignir menn og töluðu saman í gamni. „Þú virðir okkur ekki svo mikils,“ sögðu þeir, „að þú veitir okkur kaffebolla með þjer. Yndisleikur hinnar ungu konu þinnar hefur gert þig vitstola; guð láti hjónabandið verða farsællegt.“ Nokkru seinna um daginn kom stúlkan, sem var frumkvöðull alls þessa, ennþá skrautlegar búin enn daginn áður, yndisleg og fögur í framgöngu, svo að þeir, sem framhjá henni gengu staðnæmdust til að virða hana fyrir sjer. Hún settist niður í búðinni og bauð brúðguma góðan daginn. „Guð láti þenna dag,“ segir hún, „verða yður hamingju dag, Ola-eddín minn! guð varðveiti yður og gefi yður svo glaða lund, að þjer leikið við hvern yðar fingur.“ Kaupmaður var hryggur í yfirbragði og ljet brýrnar síga, tók hann þannig til orða: „Segið mjer, hvers á eg að gjalda, að þjer farið svona með mig?“ „Þjer hafið ekkert gert mjer til meins,“ ansaði hún, „en mjer gramdist yfirskriftin yfir búðar dyrunum yðar. Ef þjer snúið henni á gagnstæða leið skal eg hjálpa yður úr vandræðum yðar.“ Þá fjekk kaupmaðurinn undireins einum af þrælum sínum gullpening og mælti: „Far þú til skrifarans og bið hann, að skrifa þetta með hinu fegursta letri, bláu og gullnu: „Engin slægð tekur kvenna-slægð fram, því hún sigrar slægð karlmanna og ber langt af henni.“ Stúlkan beiddi þrælinn að flýta sjer, enda kom hann skjótt aptur með yfirskriftina og festi hússbóndinn hana upp yfir búðardyrunum. Þá segir stúlkan við kaupmanninn: „Farið nú á stað og gangið til hallarinnar, munuð þjer nálægt henni hitta bjarndýra og apa trúða, og aðra leikara; skuluð þjer leggja svo undir við þá, að þeir leiti yður upp í fyrra málið í höll dómarans, þegar þjer sitjið hjá

tengdaföður yður og drekkið kaffe. Skulu þeir þá samfagna yður einsog jafningja sínum og frænda og segja, að sjer þyki sæmd að yður, þó yður þyki skömm til þeirra koma. Skuluð þjer fleygja peningum á milli þeirra og þegar dómarinn spyr, hvernig á slíku standi, skuluð þjer segja, að faðir yðar hafi að vísu verið apatrúður og að ættmenn yðar hafi aldrei haft aðra atvinnu, en þjer hafið til allrar hamingju orðið vel metnir og meðteknir af umsjónarmanni hafnarinnar, einsog kaupmaður.“ Allt þetta fór einsog stúlkan sagði fyrir: „Ertu þá einn úr flokki skrípaloddaranna?“ spurði dómarinn og svaraði hinn þá, að svo heita ást, sem hann hefði á dóttur hans, gæti hann ekki afneitað frændum sínum. Sagði dómarinn þá, að það sæmdi alls ekki, að gefa honum dóttur fræðimanns, er kominn væri af ættingjum spámannsins. En kaupmaður beiddi hann, að athuga, að nú væri hún sín lögmæt eiginkona og mælti: „Hvert hár á höfði hennar er mjer margfalt dýrmætara enn líf mitt, og eg sleppi henni ekki, þó öll ríki veraldarinnar sjeu í boði.“ Loksins gátu þeir samt komið sjer saman um skilnað og var skilnaðar dómur upp kveðinn; renndi nú kaupmaður augum sínum til hinnar slægvitru meyar, sem var frumkvöðull alls þessa. Hún var dóttir forstjóra járnsmiða fjelagsins og jafnskjótt sem hann hafði fengið hans samþykki, gekk hann að eiga hana; bjuggu þau saman í velgengni, frið og fögnuði allt til æfiloka.

## Sagan af Abúlhassan Alí Ebn Bekar og Schemselníhar.

Á ríkisárum kalífans Harún Alraschíds bjó í Bagdad sætinda kaupmaður Abúlhassan Ebn Thaher að nafni, var hann ríkur, fríður sýnum og ljúfmenni. Auk þess, að hann var hyggnari og kurteisari enn flestir í hans stjett, var hann ráðvandur, hreinskilinn og glaðlyndur, svo að hann var hvers manns hugljúfi. Kalífinn þekkti hann líka og hafði óbilandi traust á honum; hann hafði hann svo mjög í hávegum, að hann ljet hann útvega allt það, er hjákonur hans þurftu, og velja handa þeim klæðnað, húsgögn og skartgripi; fórst honum það snildarlega, því hann var smekkmaðar. Nú með því hann var slíkur afbragðsmaður og uppáhald kalífans, komu synir

emíra og annara höfðingja heim til hans, því þar hittust allir göfugir hirðmenn. Í tölu hinna ungu manna, er til hans komu á degi hverjum, var einn, sem hann mat umfram aðra, og gjörðist með þeim mikið ástríki; hann hjet Abúl Hassan Alí Ebn Bekar og var kominn af hinni fyrri konungaætt Persalands, er haldizt hafði í Bagdad eptir að Tyrkir brutu undir sig Persaland. Í þessum unga kóngssyni þókti sem náttúran hefði sameinað alla yfirburði sálar og líkama, Yfirbragð hans var ímynd fegurðarinnar og svipur hans svo þokkasæll, að hver maður, sem sá hann, hlaut að unna honum; hann var og rjettvaxinn og bar sig hvatlega. Þegar hann talaði valdi hann orðatiltæki sín snoturt og heppilega og kunni að víkja máli sína á marga vegu, svo að snild var á; málrómur hans var sætur og ástsæll þeim, er heyrðu. Auk þessa var hann andríkur, skarpvitur og rjettdæmur um allt, en þó svo hógvær og þóttalaus um leið, að hann varaðist grandgæfilega að koma svo fram, sem honum þækti sinn dómur rjettari enn annara. Það var því engin furða, þó að Ebn Thaher virti hann umfram hina aðra hirðmenn, því þeir voru flestir furðu ólíkir honum.

Það bar til einn dag þegar kóngsson var hjá honum, að jungfrú nokkur kom ríðandi brúnskjóttum múlasna, fylgdu henni tíu ambáttir fótgangandi og virtust þær vera afbragðs fríðar, að því er ráða mátti af líkama burði þeirra og sjá mátti gegnum blæurnar. Sú, sem fyrir þeim var, hafði um sig breitt rósrautt belti, alsett óvenju stórum perlum og demöntum, var auðfundið á henni, að hún mundi bera svo langt af fylgikonum sínum, sem tungl í fyllingu ber af nýu tungli. Hún kom til þess að kaupa eitthvað og vildi finna Ebn Thaher að máli, og gekk hún því inní búð hans. Hann tók við henni með dýpstu lotningu, beiddi hana að setjast niður og benti um leið á hið tignasta sæti. Hinn persneski kóngsson sá sig nú ekki úr færi að sýna kurteisi sína; hann tók hinn gullofna svæfil, sem ætlaður var til hægindis jungfrúnni, lagði hann í legubekkinn og vjek sjer síðan til hliðar svo að hún gæti sezt niður. Heilsaði hann henni með því að kyssa ábreiðuna undir fótum hennar, og er hann var risinn á fætur, stóð hann kyr frammi fyrir henni.

Með því nú jungfrúinljet sem hún væri heima hjá sjer í húsum

Ebn Thahers, brá hún blæunni upp og ljet svo frábæra fegurð sína skína kóngssyni fyrir augum, að hjarta hans varð gagntekið. Eins brá jungfrúnni við að sjá kóngsson og sagði hún vinalega við hana: „Herra! setjist niður.“ Kóngsson tyllti sjer niður á jaðarinn á legubekknum; hafði hann aldrei augun af henni og teigaði þannig hið sæta eitur ástarinnar. Tók hún skjótt eptir, hvað um var að vera, og kviknaði þannig brennandi ást í brjósti hennar. Stóð hún upp að stundarkorni liðnu, gekk til Ebn Thahers og sagði honum í hljóði erindi sitt, þvínæst spurði hún, hver hinn ungi maður væri. En er hún heyrði, að hann væri af persneskum konungum kominn, varð hún stórglöð og mælti: „Þjer gerðuð mjer mikla gleði, ef þjer kæmuð mjer í kunningskap við þenna unga mann. Þegar eg sendi ambáttina þarna,“ segir hún og bendir á eina af ambáttunum — „með þau boð, að þjer skulið koma til mín, þá bið eg yður, að hafa hann með yður. Eg vildi fegin sýna honum prýði hallar minnar, svo hann mætti sjá það, að höfðingjar Bagdads eru ekki fjesárir. Þjer skiljið mig og hugsið til mín um þetta, ella styggið þjer mig og skal eg þá aldrei framar koma hingað.“

Ebn Thaher var glöggskygnari enn svo, að hann mætti ekki af þessu ráða, hvað henni bjó í skapi og svaraði hann: „Drottning mín! guð varðveiti mig frá því að gera nokkurn hlut til styggðar við yður. Skal eg láta það vera mjer heilaga skyldu að hlýðnast boðum yðar.“ Jungfrúin gekk á burt og hneigði Ebn Thaher sig fyrir henni, hún renndi vinaraugum til kóngssonar, stje á bak múlasna sínum og reið burt.

Hinn persneski kóngssonur, sem var gagntekinn af ást, horfði á eptir henni svo langt sem augað eygði, og er hún var úr augsýn einblíndi hann á veginn, sem hún hafði farið. Ebn Thaher varaði hann loksins við og sagði, að menn horfðu á hann og væru farnir að hlægja að honum. Þá segir kóngsson: „Þjer munduð sjá aumur á mjer, ef þjer vissuð, að hin fagra kona hefur tekíð með sjer betri helft sjálfs mín, og hin sem eptir er vill fara sömu leið. Fyrir alla muni segið mjer, hver er þessi kona, sem neyðir hvern mann til að unna sjer?“ „Herra!“ ansaði Ebn Thaher, „það er hin tignaða Schemselníhar (þ. e. dagssól), æðsta hjákona kalífans.

herra vors, ann hann henni mjög eða öllu fremur tilbiður hana. Hann hefur með berum orðum skipað mjer, að láta hana fá allt það, er hún biður um, og gera henni allt það að skapi, sem eg gæti.“ Þetta sagði Ebn Thaher til þess að snúa huga hans frá elsku þeirri, sem hlaut að leiða til óheillavænlegra afdrifa, en það varð ekki til annars enn að æsa ást hans ennþá frekar. „Mjer sagði svo hugur um, töfrandi Schemselníhar!“ mælti hann, „að mjer mundi þess varnað, að hefja von mína til þín. En þó eg sje með öllu vonlaus um elsku þína, finn eg að mjer er ómögulegt að hætta að elska þig. Eg skal því unna þjer og blessa forlögin, sem hafa gert mig að þræl hinnar fegurstu veru undir sólinni.“

Meðan kóngssonur þannig helgaði hinni fögru Schemselníhar hjarta sitt, var hún á leiðinni heim, að hugsa um. hver ráð hún ætti að hafa til þess að fá að sjá kóngsson og tala við hann í góðu tómi. Óðara enn hún var komin ttl hallarinnar, sendi hún ambáttina, er hún hafði áður til nefnt, og sem hún trúði fyrir öllu, á fund Ebn Thahers og ljet hana skila því, að hann skyldi tafarlaust koma til hennar með hinn persneska kóngsson. Ambáttin bar upp erindi sitt og var þá Ebn Thaher með gildum rökum að telja kóngsson af því að elska hjákonuna. Hann svaraði ambáttinni engu, en stóð upp og fór með henni til þess að sýna hlýðni sína, og var honum það þó nauðugt. Fór kóngssonur með þeim og kom honum ekki til hugar, í hvern háska hann stofnaði sjer; var hann áhyggjulaus vegna þess hann var með Ebn Thaher, því honum var heimilt að koma til hjákonunnar.

Ambáttin var spölkorn áundan þeim. En er þeir voru komnir í höll kalífans náðu þeir henni við hlið hinnar litlu hallar, sem Schemselníhar bjó í; var henni þegar upp lokið og var þeim fylgt inní stóran sal og boðið sæti. Hafði kóngssonur aldrei komið á svo glæsilegan stað og þókti honum sem hann væri horfinn í eina af undrahöllum þeim, sem eru oss fyrirheitnar í öðru lífi. Höfðu þeir eigi lengi setið þar, þegar lagleg svört ambátt setti fram borð fyrir þá með allskonar dýrindis rjettum, er sendu frá sjer ljúfan ilm. Ambáttin, sem hafði fylgt þeim þangað, var hjá þeim meðan þeir snæddu og bauð þeim hvað eptir annað rjetti þá, er ljúffengastir voru; en er þeir höfðu matazt, skenktu aðrar ambáttir þeim

dýrindis vín. Eptir það var hverjum þeirra um sig færð fögur mundlaug úr gulli til handaþvottar, þvínæst var innborið gulllegt reykelsisker, og gerðu þeir við það skegg sitt og föt sín ilmandi með viðsmjöri. Eigi skorti þar heldur ilmandi vatn, var því hellt á báðar hendur þeim úr gullinni könnu alsettri demöntum og roðasteinum, sem eigi var til annars höfð; struku þeir sjer þá um andlitið og skeggið einsog siður er til. Óðara enn þeir voru seztir niður aptur, beiddi ambáttin þá að koma með sjer og fylgdi hún þeim gegnum dyr nokkrar inn í stærri sal, aðdáanlega fagran. Í honum var glæsileg stöpulkúpa, sem hvíldi á hundrað hvítum marmarasúlum, líkum alabastri, voru bæði höfuð og öklun súlnanna prýdd gullnum myndum allskonar ferfættra dýra og fugla. Gólftjaldið í þessum dýrðlega sal var úr gullfjölluðum vefnaði, og voru saumaðir á það rósaknappar með rauðu og hvítu silki, en á stöpulkúpuna voru skrifaðar litmyndir, og var yndi á að horfa. Milli hverra tveggja súlna stóð lítill legubekkur með samsvarandi skrauti og mörg ker úr postulíni, kristalli, jaspis, eldsteini og öðrum dýrmætum efnum, búin gulli og gimsteinum. Á milli súlnanna voru stórir gluggar með stórum framstandandi svölum, er skreyttar voru líkt legubekkjunum, var þaðan útsjón í hinn dýrðlegasta aldingarð. Trjágöngin í honum voru lögð marglitum steinum, samlitum gólftjaldinu í salnum, svo að ætla mátti, að bæði salurinn og garðurinn með allri sinni prýði, stæðu á sama gólftjaldi. Að sínu leyti einsog salurinn var kringlóttur, runnu tvær vatnsrennur hrínginn í kríng, og lá ein hærri enn önnur, og steypti hinum kristallskæra straumi niðrí þá, sem lægri var. Fögrum eirkerum, logagylltum með blómum og fögrum jurtum í var skipulega niðurraðað með jöfnu bili allt umhverfis fagra skógarteiga, er þaktir voru hávöxnum og skuggamiklum trjám, sungu þar þúsundir fugla með sætthljómandi klið og flögruðu hingað og þangað; sumir ljeku sjer í loptinu, sumir hjuggust í illu og var gaman á að horfa.

Kóngssonur og Ebn Thaher dáðust lengi að dýrð þessari og í hvert skipti, sem þeim fannst mikið um eitthvað, urðu þeir næsta hátalaðir, einkum kóngssonur, því hann hafði aldrei sjeð neitt, sem gat komist í samjöfnuð við þetta. Ebn Thaher hafði opt komið þangað áður, en í hvert skipti sá hann eitthvað nýtt, sem fagurt var.

Meðan þeir voru nú að dázt að stað þessum, sáu þeir nokkrar skrautbúnar konur, spotta korn fra salnum; sátu þær allar á silfurrósuðum stólum úr indverskum platansviði, með hljóðfæri í höndum, og biðu þess einungis, að þeim væri skipað að syngja. Þeir kóngssonur og Ebn Thaher gengu nú lengra fram svo að þeir gætu sjeð framan í ambáttir þessar. En er þeir litu til hægri hliðar sjer, sáu þeir stóran hallargarð, og voru fögur herbergi allt umhverfis, en ofanúr honum gekk tröppustigi niður í aldingarðinn. Ambáttin var skilin við þá og sagði nú kóngssonur við Ebn Thaher: „Eg veit að þjer, svo vitur maður, hafið gaman af að horfa á þessi merki maktar og veldis. Það er og ætlun mín, að ekkert undursamlegra sje til í heimi, en þegar eg hugleiði að þetta er hinn ljómandi bústaður Schemselníhars, sem er helzt til fögur, og að hinn voldugasti konungur í veröld heldur henni hjer í valdi sínu, þá hlýt eg að segja, að eg sje allra manna ófarsælastur. Mjer virðist ekki hryggilegra hlutskipti geta verið til, enn mitt, þarsem eg elska konu, sem er á valdi annars elskhuga, og það á slíkum stað, þarsem hann er svo voldugur, að líf mitt er í háska.“ Ebn Thaher svaraði því, að sjer skyldi þykja vænt um, ef hann gæti með jafnmikilli vissu ábyrgzt það, að ást hans yrði framgengt, einsog hitt að líf hans væri óhult. Sagði hann honum, að þóað kalífinn ætti höll þessa og hefði reist hana handa Schemselníhar einni, einsog part úr höll sjálfs sín og kallað hana: „Höll eylífs fagnaðar,“ þá hefði hún fullt frelsi; væru engir geldingar settir til að gæta hennar og hefði hún þjónustufólk útaf fyrir sig, sem væri háð hennar vilja; hún gengi út og inn og beiddi ekki leyfis, og kæmi kalífinn aldrei á hennar fund, nema hann ljeti Mesrúr boða henni það áður. „Megið þjer því,“ mælti hann, „vera öldungis óhræddur og skuluð þjer nú hlýða með athygli á hljóðfæraleik þann, er eg sje að Schemselníhar ætlar að skemmta yður með.“ Í sama bili kom trúnaðarambátt Schemselníhars og færði ambáttunum, sem í garðinum sátu, þau boð að þær skyldu hefja söng og hljóðfæraslátt. Fyrst slóu þær allar hljóðfærin í einu einsog til undirbúnings, en síðan söng ein þeirra undir með fiðlu, er hún ljek forkunnar vel á. Hafði henni verið sagt, hvað syngja skyldi og samsvöruðu orðin svo vel tilfinningum kóngssonar, að

hann mælti: „Er þjer þá veitt sú gáfa, að lesa í hjörtu manna, og ljeztu okkur heyra þína ununarsætu söngrödd fara með þessi ljóð, af því þú vissir, hvað mjer bjó í skapi? sjálfur mundi eg velja hin sömu orð til að lýsa því.“ Söngmærin svaraði engu, en söng ýmsar aðrar vísur, sem fengu svo mjög á kóngsson, að hann hafði þær upp grátandi og var á því auðsjeð, að hann tók þær til sín; en er hún hafði sungið þær til enda, stóð hún upp með stallsystrum sínum og sungu þær allar í einu hljóði, að nú mundi máninn birtast í öllum ljóma sínum og nálgast sólina. Átti það að merkja, að nú kæmi Schemselníhar, og að kóngssonur hlyti þá sælu að sjá hana. Þeir Ebn Thaher sáu nú, að trúnaðar ambáttin kom frá hallargarðinum með tíu svörtum konum, sem báru haglega gjörfan silfurstól, settu þær hann niður spölkorn fyrir framan þá. Hinar svörtu ambáttir gengu síðan á bak við eikur nokkrar framantil í trjágangi einum; þvínæst komu í tveimur röðum tuttugu fríðar konur skrautlega búnar og allar eins, sungu þær undir með hljóðfærum, er þær ljeku á og skipuðust báðum megin við hásætið. Á eptir þeim komu tíu aðrar konur skrautbúnar útum sömu dyr og hinar, staðnæmdust þær stundarkorn og biðu eptir Schemselníhar.

Schemselníhar gekk loksins inn mitt á milli hinna tíu kvenna, sem biðu hennar við dyrnar. Var hún auðþekkt frá þeim bæði á vaxtarlagi sínu og tignarlegum limaburði, og á skikkju einni ljettri úr himinbláum vefnaði, gullstöfuðum, sem hún bar utanyfir búningi sínum, er var hinn skrautlegasti og skartmesti. Hún var eigi prýdd mörgum demöntum, perlum eða roðasteinum, en þeir fáu gimsteinar, sem hún bar, voru hinir fágætustu og ómræðilega dýrmætir. Hún brunaði fram í hátign sinni einsog sólin, þegar ský fer á eptir henni og tekur við geislum hennar, en fær eigi byrgt ljóma þeirra. Settist hún niður á hinn silfurlega hástól, sem sóktur hafði verið handa henni. Hafði kóngssonur ekki haft af henni augun frá því hún kom, og segir hann við Ebn Thaher: „Enginn spyr um það, er hann leitar að, þegar hann sjer það og alla efasemdir hverfa, þegar sannleikurinn kemur í ljós. Sjáið þjer þessa yndislegu fegurð? hún veldur hörmum mínum, hörmum þeim, er eg blessa og mun blessa æfinlega, hversu þúngbærir og lang-

vinnir, sem þeir verða. Slík sjón sviptir mig öllu valdi yfir sjálfum mjer. Sál mín fer á flótta og æsist, hún ætlar að skilja við mig; farðu þá sál mín! eg leyfi þjer það, en verði það þessum veika líkama til góðs. Þetta hlýzt af yður Ebn Thaher! og var það grimmlega gert af yður. Þjer ætluðuð að veita mjer mikla gleði með því að leiða mig hingað og nú sje eg, að eg er hingað kominn mjer til mestu ógæfu. Fyrirgefið mjer, eg fór hingað með fúsum vilja og get ekki gefið öðrum enn sjálfum mjer sök á því.“ Þannig mælti hann tárfellandi. Svaraði þá Ebn Thaher: „Það er vel, að þjer látið mig njóta sannmælis. Eg hafði þann tilgang með öllu, er eg sagði um Schemselníhar, að snúa huga yðar frá hinni ófarsælu ást, er þjer óluð á í hjarta yðar. Allt, sem þjer sjáið hjer, hlýtur og að stuðla til þess, og þakklætis tilfinning ein má hreifa sjer í hjarta yðar fyrir þá sæmd, að Schemselníhar skipaði mjer að koma með yður hingað. Stillið yður því og búist til að koma henni fyrir sjónir einsog kurteisi býður. Sjáið! þarna kemur hún. Ef við enn ættum kost á að snúa aptur, mundi eg taka upp annað ráð, en nú bið eg drottinn, fyrst útí það er komið, að við ekki á síðan þurfum að yðrast. En á það vil eg minna yður, að ástin er svikul og getur hrundið yður í það undirdjúp glötunarinnar, sem þjer aldrei fáið risið upp úr.“ Þegar Schemselníhar kom, þagnaði Ebn Thaher. Settist hún í hásæti og hneigði sig fyrir þeim báðum, en augu hennar staðnæmdust á kóngssyni og töluðust þau við þegjandi með augunum og sögðu þannig hvert öðru meira á fám augnablikum enn þau hefðu getað með orðum á löngum tíma. Sannfærðist Schemselníhar betur og betur um það, að kóngssyni litizt vel á sig og þóktist því vera ómræðilega sæl. Skipaði hún ambáttum þeim, er áður höfðu leikið á hljóðfæri og sungið, að koma nær. Stóðu þær þá upp og gengu nær og um leið komu hinar svörtu konur úr trjáganginum og báru stólana á eptir hinum. Settu þær þá nálægt glugganum, þarsem þeir Ebn Thaher og kóngsson stóðu, í hálfhring frammi fyrir hásæti Schemselníhars og konum þeim, er stóðu á báðar hlíðar hennar. En er ambáttir þessar voru seztar niður eptir bendingu hennar, söng ein þeirra þegar hún skipaði. Var hún nokkra stund að stilla hljóðfærið, síðan söng hún vísur þessar:

Unnustinn til unnustunnar snýr,
Hjörtun tvö fær ástin gert að einu,
Ástar koma þau að lækjum hreinu
Sæta veitir svölun lindin skír.

Þar þau segja: „Því er hjer í heim
Fagnaðar oss fyrirmunað báðum?
Forlögin, en við því ekki ráðum,
Þeigi grand við megnum móti þeim.

Ljet Schemselníhar svo ljóslega skilja á augnaráði sínu og bendingum, að orð þessi ættu að heimfærast uppá hana og köngsson, að hann rjeði sjer ekki lengur; gekk hann fram í glugga að brjóstriðinu og beiddi eina af konum þeim, er sungu að leika undir á hljóðfærið, meðan hann syngi. Þvínæst söng hann kvæði, sem með hjartnæmum og tilfinningarríkum orðum lýsti ákefð ástar hans, svaraði Schemselníhar honum með öðru kvæði og æsti það enn meira ástina í hjarta hans. Kvað hann þá enn eitt kvæði ennþá ástríkara enn hið fyrra, og þegar þau höfðu þannig lýst tilfinningum sínum, hvert nm sig, ljet Schemselníhar sigrast af viðkvæmri ástar nauðsyn hjarta síns, stóð upp úr hásætinu einsog utan við sig og gekk til salardyranna; hljóp kóngssonur á móti henni og hittust þau bæði í hliðinu, tókust í hendur og föðmuðust svo innilega, að þau hnigu í ómegin. Mundu þau hafa fallið til jarðar, hefðu ekki þjónustumeyar Schemselníhars tekið þau í fang sjer og lagt þau í legubekk. Var ilmandi vatni dreypt í andlit þeirra og reykelsi haldið fyrir vit þeim, og röknuðu þau þá við. Schemselníhar sást um til allra hliða, og er hún saknaði Ebn Thahers, spurði hún ákaft eptir honum. Hafði hann gengið burt fyrir lotningar sakir, meðan þjónustumeyarnar voru að stumra yfir henni, og var hann hræddur um, að ekki mundi gott af slíku leiða, sem von var. Undireins og hann heyrði að spurt var eptir honum, kom hann aptur.

Schemselníhar þakkaði honum með blíðustu orðum fyrir það, að hann hefði komið sjer í kunningsskap við hinn persneska kóngsson, sem væri hinn elskuverðasti maður í heimi, og lofaði hún að sjá það við hann síðan. Hneigði þá Ebn Thaber sig djúpt fyrir

henni og óskaði að henni mætti verða að ósk sinni. Hún vjek sjer þvínæst að kóngssyni, er sat hjá henni, og var hún þá feimin, sem ætla mátti eptir að slíkt hafði farið ámilli þeirra. Tók hún þannig til orða: „Eg er sannfærð um, að þjer elskið mig, en hversu heit sem ást yðar er, þá er mín eins heit. En við skulum ekki draga okkur á tálar, því þó tilfinningum okkar beri saman, þá sje eg, að fyrir mjer og yður liggja þrautir einar, hugsýki og dauðans hörmungar. Gefst okkur ekki á öðru kostur enn að elska hvert annað eylíflega, gefa okkur undir guðs vilja og bíða þess, sem fyrir okkur liggur.“ Svaraði kóngssonur því, að hún mætti öruggt treysta stöðuglyndi sínu og gætu hvorki píslir, harmkvæli nje hindranir skert elsku sína. Að svo mæltu feldi hann tár af augum og fjekk Schemselníhar ekki heldur tára bundizt. Þá sætti Ebn Thaher lagi og mælti: „Tignaða jungfrú! mjer virðist þjer ættuð að fagna í stað þess að gráta, þarsem þið nú eruð bæði saman. Eg skil ekki í hryggð ykkar, og hvernig ætli þá fari, þegar þið neyðist til að skilja. En það er satt, við höfum verið hjer mikils til of lengi, og þjer vitið, að nú er tími til kominn, að við höfum okkur á burt.“ Eruð þjer svo harðbrjósta,“ ansaði Schemselníhar; „þjer, sem þekkið orsök harma minna, hafið þjer ekki meðaumkvun með mjer?“ En með því hún vissi, að Ebn Thaher gekk ekki nema gott til, þykktist hún ekki af orðum hans. Stóð hún þá upp og gerði trúnaðar ambátt sinni bendingu um leið, fór ambáttin út og kom aptur með lítið silfurborð, hlaðið aldinum, og setti það á milli Schemselníhars og kóngssonar. Tók vildarmærin allt það, sem bezt var og rjetti kóngssyni, og eins gerði hann og bauð henni það, sem ljúffengast var. Hún neyddi Ebn Thaher til að borða með þeim, og gerði hann það af tómri kurteisi, því hann þóktist eigi vera óhultur, þarsem hann var og mundi hann heldur hafa kosið, að vera kominn heim til sín. En er búið var að bera af borðinu, var borin inn silfurskál og vatn í gullkönnu til handa þvottar. Þvínæst settust þau öll aptur í sæti sín og báru þrjár af hinum svörtu konum, hver um sig, eina kristallsskál á gulldiski, fulla af hinu ágætasta víni, og settu fram fyrir Schemselníhar, kóngsson og Ebn Thaher. Sendi Schemselníhar þá allar konurnar burt, nema hinar tíu svörtu og hinar tíu, er

sungu og ljeku á hljóðfæri; síðan tók hún eina af vínskálunum og söng ástarvísur áðurenn hún drakk, en ein af ambáttunum ljek undir á fiðlu. Rjetti hún kóngssyni aðra skálina, sem eptir var og beiddi hann að drekka af elsku til sín. Tók hann við skálinni gagntekinn af fögnuði og söng einnig ástarvísur, og ljek ein af ambáttunum undir á fiðlu. Loksins rjetti Schemselníhar Ebn Thaher þriðju skálina og söng ein af ambáttunum vísur, sem við áttu, en þann þakkaði fyrir góðsemd þá og virðingu, sem honum var sýnd. Tók nú Schemselníhar sjálf fiðlu í hönd sjer og söng með ákafri geðshræringu, einsog hún væri utan við sig, en kóngssonur sat einsog töfraður og hafði ekki af henni augun. Í sama bili kom trúnaðarambáttin inn óttaslegin og sagði Schemselníhar, að Mesrúr væri komin með fjölda geldinga og beiddist inngöngu í nafni kalífans. Þeir kóngssonur og Ebn Thaher bliknuðu upp við sögu þessa, og skulfu af hræðslu einsog þeim væri glötunin vís.

Schemselníhar hughreysti gesti sína, og skipaði trúnaðarambátt sinni, að tala við Mesrúr og förunauta hans og tefja fyrir þeim, þangaðtil hún væri kominn svo í lag, að hún gæti tekið á móti þeim; kvaðst hún skyldu segja henni til, nær þeir mættu koma inn. Skipaði hún, að loka öllum salargluggunum og hleypa fortjöldunum fyrir þeim megin, sem vissi út að garðinum. Sagði hún kóngssyni og Ebn Thaher á ný, að þeir gætu verið þar óhræddir, fór síðan með fylgikonum sínum gegnum hliðið inní garðinn og lokaði því á eptir sjer. Ljet hún bera úr garðinum alla stóla, sem söngmeyarnar höfðu setið á, settist sjálf í hásæti sitt og þegar öllu var í lag komið, skipaði hún að leiða Mesrúr inn. Kom hann með tveimur öðrum embættismönnum við hirðina og tuttugu geldingum þokkalega búnum, er báru sverð við hlið og höfðu um sig gullbelti fjóra þumlunga á breidd. Jafnskjótt og þeir sáu vildarmeyna álengdar, hneigðu þeir sig djúpt og tók hún kveðju þeirra, sitjandi í hásætinu. En er þeir komu nær, stóð hún upp og gekk á móti Mesrúr, sem fór áundan hinum; spurði hún, hvert erindi hans væri. Svaraði hann, að drottinn rjetttrúaðra manna hefði sent sig og skipað sjer að segja henni, að hann gæti eigi lengur lifað án þess að sjá hana, og mundi hann vitja hennar næstu nótt;

en hann gerði henni þessi boð til þess, að hún gæti búist við honum, „og vonar hann.“ mælti Mesrúr ennfremur, „að þjer hlakkið ekki síður til að finna hann, enn hann hlakkar til að koma á yðvarn fund.“ Schemselníhar fleygði sjer til jarðar til þess að votta undirgefni sína undir vilja kalífans, og er hún var uppstaðin, mælti hún: „Eg bið yður skila því frá mjer til drottins rjetttrúaðra manna, að mjer skuli þykja hin mesta sæmd, að hlýðnast boðum hans hátignar, og að ambátt hans skuli leggja alúð á, að fagna honum með tilhlýðilegri lotningu.“ Skipaði hún trúnaðarambátt sinni um leið, að láta hinar svörtu ambáttir, sem til þess voru settar, búa höllina undir komu kalífans; en er hún kvaddi höfuðsmann geldinganna mælti hún: „þjer sjáið, að vjer þurfum ennþá nokkurs undirbúningstíma; eg bið yður því, að sjá svo um, að kalífinn ekki komi að okkur óvörum.“ þegar Mesrúr var farinn með fylgdarmönnum sínum, gekk Schemselníhar aptur inn í salinn, sorgbitin, því hún varð að láta kóngsson fara frá sjer fyrr enn hún hafði búizt við. Hörmuðu þau bæði forlög sín, að þau hlutu að skilja, þóktist Schemselníhar þó þeim mun aumlegar stödd enn hann, sem hún bæði hlaut að sjá honum á bak og þaráofan varð að horfa á annan mann, sem hún hafði óbeit á, því nú var henni aðeins kvöl að ástar atlotum kalífans. Komu þau loksins engu orði upp fyrir tárum, andvörpum og harmi; leitaðist Ebn Thaher, sem hafði mestan hug á að komast burt úr höllinni, á allar lundir við að hugga þau. Meðan hann var að því, kom trúnaðar ambátt Schemselníhars og sagði, að kalífinn væri rjett að segja kominn: kóngssonur faðmaði Schemselníhar að sjer einusinni enn, því næst skipaði hún ambáttinni að fylgja þeim kóngssyni og Ebn Thaher uppá loptsvalirnar, sem öðrumegin vissu útað Tígrisfljótinu en hinumegin að aldingarðinum, og sleppa þeim burt þaðan í náttmyrkrinu útum bakdyr. Fylgdi ambáttin þeim þangað, sagði þeim, að þeir mættu vera óhræddir og lokaði þá þar inni; lofaði hún þeim fyrir víst, að koma til þeirra á rjettum tíma og hleypa þeim út.

þeim Ebn Thaher og kóngssyni varð litið ofaní aldingardinn, því þar laust upp miklum bjarma, sáu þeir í gegnum hinar þjettu gluggagrindur, að birtan stóð af hundrað hvítum vaxkyndlum, sem

bornir voru af jafnmörgum svörtum geldingum. Á eptir þeim kom annar hundraðsflokkur eldri geldinga, sem voru kvennaverðir í höll kalífans, þvínæst kom kalífinn með Mesrúr, höfuðsmanni þeirra og Wassif, sem var honum næstnr að völdum. Schemselníhar beið kalífans frammí skógargangi einum og stóðu kringum hana tuttugu forkunnar fríðar konur. Voru þær prýddar hálsmenjum og eyrnagullum með stórum og smáum demöntum í, og voru höfuð þeirra alsett gimsteinum. Sungu þær undir með hljóðfærum sínum og var yndi á að hlýða. Jafnskjótt sem vildarmærin sá kalífann gekk hún á móti honum og fjell fram fyrir hann: Hugsaði hún þá í hjarta sínu: „Kóngssonur! ef þú sjer harmþrungnum augum, hvað eg nú geri, þá skaltu af því ráða grimmd forlaga minna. Eg vildi fegin lúta þjer svona lágt og hjarta mitt mundi enga óbeit hafa á því.“

Kalífinn varð frá sjer numinn af fögnuði þegar hann sá Schemselníhar og mælti: „Stattu upp! og komdu nær. Eg álasa mjer sjálfum, að eg svo lengi hef svipt mig þeirri unun að sjá þig.“ Að svo mæltu, tók hann hana við hönd sjer og talaði blíðlega til hennar, settist hann síðan í hið silfurlega hásæti, sem þangað hafði verið borið handa honum. Schemselníhar settist á stól fyrir framan hann, og tuttugu konur í hring umhverfis hana, en hinir ungu geldingar með kyndlana skipuðust í garðinum og ljetu vera jafnt bil á milli sín. Garðurinn var lýstur ótal ljósum og þókti kalífanum vænt um það, hitt þókti honum kynlegt, að salnum var lokað. En jafnskjótt, sem hann spurði, hvernig á því stæði, lukust allir gluggarnir upp á augabragði og sást þá, að salurinn var bjartar og dýrðlegar uppljómaður enn nokkurn tíma fyrri. Þegar kalífinn sá það, mælti hann: „Yndislega Schemselníhar! þú vilt minna mig á það, að til sjeu fagrar nætur ekki síður enn fagrir dagar. Hlýt eg að játa að svo er, eptir því, sem hjer ber fyrir augu mín.“

Ebn Thaher dáðist mjög að þessari dýrðlegu sjón, er hann sá af svölunum, og kóngssonur stóð einnig grafkyr og starblíndi útí garðinn. Hann sá ekki annað enn Schemselníhar og var næsta áhyggjufullur útaf nærveru kalífans. Lýsti hann hinum angurblíðu og sorglegu tilfinningum fyrir Ebn Thaher með hjartnæmum orðum, en þagnaði skjótt við atburð einn, er varð í garðinum, og varð

hann þá eigi öðru sinnandi. Kalífinn hafði skipað einni af ambáttunum að leika á fiðlu og syngja; söng hún kvæði nokkurt er lýsti ákafri geðshræringu. Hjelt kalífinn að hún gerði það eptir skipun Schemselníhars, sem hafði nú sýnt honum svo mikla kurteisi, og tók hann allt til sín. Schemselníhar hugsaði einungis um Alí Ebn Bekar og ljet svo mjög bugast af sorginni útaf því, að hafa annan mann fyrir augum sjer, sem hún gat ekki fellt sig við, að hún hnje í ómegin. Hún hnje aptur á bak af stólnum og mundi hafa dottið til jarðar, hefðu ekki nokkrar af þjónustukonum hennar hlaupið til í skyndi og borið hana inní salinn. Varð Ebn Thaher hverft við atvik þetta og vjek sjer að kóngssyni, sá hann þá hvar hann lá meðvitundarlaus, og brá honum mjög við það. Skildi hann að þessu mundi olla hin ákafa ást, er hann hafði á Schemselníhar, og furðaði sig á, hversu geðshræringum þeirra bar saman. En er hann hugsaði til þess, hvar þeir voru staddir, kom yfir hann dauðans angist; hann hafði sig allan við að koma kóngssyni til sjálfs sín aptur, en tókst það eigi; kom trúnaðar ambáttin þar að þeim uppá svalirnar, með öndina í hálsinum einsog utan við sig og kallaði: „Komið fljótt, svo eg geti hleypt ykkur út; hjer er allt á tjá og tundri og eg held þetta sje hinn síðasti dagur æfi okkar.“ „Hvernig eigum við að komast burt?“ ansaði Ebn Thaher, og var auðheyrt á honum, að hann var mjög áhyggjufullur, „þarna sjáið þjer, hvernig kóngssonur er á sig kominn.“ Undireins og ambáttin sá, að hann lá í öngviti, hljóp hún undireins út og kom í sama svip aptur með vatn; stökkti hún því í andlit kóngssonar, og raknaði hann svo við, að Ebn Thaher og ambáttin gátu leitt hann úr höllinni útum járndyr nokkrar, komu þau síðan að síki einu, sem lá útí Tígrisfljótið. Klappaði ambáttin þar saman höndunum og kom jafnskjótt bátur, sem einn maður rjeri; fóru þeir Ebn Thaher og kóngssonur útí bátinn. Þegar kóngssonur var seztur niður, rjetti hann út aðra höndina og benti henni til hallarinnar, en hinni þrýsti hann á hjarta sitt og mælti með veikri raust: „Elskulegi dýrgripur sálar minnar! meðtaktu heit mitt af hendi þessari, með hinni sver eg þjer, að hin brennandi ást, sem eg ber til þín í hjarta mínu, skal aldrei slökkna.“

Ræðarinn rjeri hvað af tók til þess að komast útá fljótið, sem

var þar skammt frá; gekk ambáttin á bakkanum og fylgdi bátnum allt ofan að fljótinu; þar kvaddi hún þá og snjeri við. Meðan á því stóð hughreysti Ebn Thaher kóngsson og beiddi hann, að herða upp hugann, því þeir ættu alllanga leið fyrir höndum til húsa sinna; beiddi hann kóngsson, að vera hjá sjer um nóttina, því bústaður hans var ennþá lengra burtu. En er þeir gengu frá bátnum, var kóngssonur svo sjúkur, að hann gat ekki gengið. Í þessum vandræðum kom Ebn Thaher til hugar, að einn vinur hans bjó skammt þaðan og dró hann kóngsson með sjer heim í hús hans, var þeim þar vel fagnað. Var þeim boðið sæti, og spurði vinurinn, hvaðan þeir kæmu svo seint; bar þá Ebn Thaher það fyrir, að hann hefði heyrt um kvöldið, að maður nokkur, sem hann átti töluverða peninga hjá, ætlaði í langferð. Kvaðst hann þá tafarlaust hafa farið ástað að finna hann, og hefði þá mætt hinum unga manni, sem hefði gert sjer þann greiða að fylgja sjer til skuldunautar síns, afþví hann var honum kunnugur. Hefði þeim veitt örðugt að fá hjá honum skuldina, og hefðu því ekki komizt á stað heim til sín fyrr enn svo seint. En á leiðinni hefði fylgdarmanni sínum snögglega orðið illt skammt frá húsi vinarins, og hefði hann drepið þar á dyr í von um, að þeir gætu verið hjá honum um nóttina.

Vinur Ebn Thahers ljet það gott heita, sagði þá velkomna og bauð kóngssyninum, sem hann ekki þekkti, alla þá hjálp, er hann þyrfti. Var Ebn Thaher fyrir svörum, og sagði, að hann þyrfti hvíldar umfram allt; var þeim þá báðum fylgt til svefnhúss. Næsta morgun reis Ebn Thaher snemma úr rekkju og fór með kóngsson heim til sín, var hann þá svo magnþrota, að hann undireins fleygði sjer niður í legubekk. Og með því hann ekki var fær um að ganga heim til sín, ljeði Ebn Thaher honum herbergi heima hjá sjer, og ljet segja þjónum hans, hvar hann væri. Hann hughreysti kóngsson og beiddi hann, að segja fyrir, einsog honum líkaði. Þáði kóngssonur feginshendi boð hans, en beiddi hann að gera sjer ekkert ómak sín vegna og láta einsog hann væri ekki í húsum hans, kvaðst hann ekki mundu verða þar stundu lengur ef hann yrði honum til nokkurrar byrði. Hinir helztu þjónar kóngssonar komu skjótt til þess að vita, hvað hann skipaði þeim, komu einnig

nokkrir af vinum hans og voru hjá honum mestallan daginn; hafði það nokkuð af fyrir honum. Um kvöldið ætlaði hann að kveðja Ebn Thaher, en honum virtist kóngssonur svo máttfarinn, að hann beiddi hann að bíða hjá sjer til næsta morguns. Ljet hann um kvöldið syngja og leika á hljóðfæri honum til afþreyingar, en það minnti kóngsson svo glögglega á hljóðfæraleikinn hjá Schemselníhar, að hann morguninn eptir var veikari enn áður. Var nú Ebn Thaher ekki lengur mótfallinn því, að hann færi heim, ljet hann bera hann heim til sín og fylgði honum sjálfur. En er hann var einn með kóngssyni í herbergi hans, leiddi hann honum ennþá einusinni fyrir sjónir allt það, er mátti knýa hann til að þagga niður með karlmennsku ástríðu þessa, sem hvorki gat snúizt honum nje Schemselníhar til hamingju, Kóngssonur svaraði, að Ebn Thaher hefðu farizt vel orð, en þó hann sæi, að þetta væri heilræði, kvaðst hann ekki vilja hlýða því, heldur fylgja Schemselníhar í gröfina með elsku sinni. En þegar Ebn Thaher sá, að fortölur hans máttu sín einskis, ætlaði hann að kveðja kóngsson; en hann hjelt honum aptur og mælti: „Vinur! þykkist eigi útaf því, að eg sagði, að eg gæti ekki farið eptir ráðum yðar, og verið vinur minn einsog áður. En með því sýnið þjer mjer mestan vott vináttu yðvarrar, ef þjer látið mig vita, hvernig Schemselníhar líður, undireins og þjer fáið vitneskju um það. Hugleysi það, er þjer ámælið mjer fyrir, kemur mest af því, að eg er svo áhyggjufullur útaf öngviti Schemselníhars.“ Ebn Thaher leitaðist við að hughreysta hann og sagði, að trúnaðarambátt Schemselníhars mundi bráðum segja sjer, hvernig farið hefði og skyldi hann þá tafarlaust aptur segja honum. Þvínæst fór hann heim og leið svo bæði þess dagur og hinn næsti, að ekki kom ambáttin. Varð hann þá hræddur um kóngsson, og fór til hans; lá hann í rúmi sínu og var eins sjúkur og áður. Voru þar hjá honum margir vinir hans og læknar, sem neyttu allrar kunnáttu sinnar til að komast fyrir undirrót veikandanna. Allir, sem viðstaddir voru tíndust smámsaman burt, þangaðtil þeir voru tveir einir, Ebn Thaher og kóngssonur; sagði kóngssonur honum, að elska sín og veikindi færu í vöxt, vegna þess hann væri hræddur um Schemselníhar og vissi ekki hvernig henni liði; spurði hann Ebn Thaher,

hvort hann hefði sjeð trúnaðarambáttina eða haft tal af henni. En er hann heyrði, að Ebn Thaher hefði eigi sjeð hana, kom upp fyrir honum grátur og fjekk hann eigi mælt fyrir harmi. Leitaðist Ebn Thaher á allar lundir við að hugga hann og hughreysta, og sagði honum að skilnaði, að hann hefði þess örugga von, að hann mundi samdægris frjetta, hvernig Schemselníhar liði. Undireins og Ebn Thaher var kominn heim til sín, kom trúnaðarambátt Schemselníhars. Hún var hnuggin í yfirbragði og spurði ítarlega eptir kóngssyni. Sagði Ebn Thaher henni allt hið sanna, og mælti þá ambáttin: „Ef að kóngssonur tekur mikið út vegna hennar, þá kvelst hún eigi síður hans vegna. Þegar þið voruð farnir, gekk eg aptur inní salinn og var Schemselníhar ennþá meðvitundarlaus, þó allra ráða hefði verið leitað. Sat kalífinn hjá henni og var auðsjeð, að hann var sárhryggur, spurði hann allar konurnar og mig sjer í lagi, hvort við vissum, hvað að henni gengi. En við þögðum yfir leyndarmáli þessu. Um miðnæturskeið raknaði Schemselníhar við; hafði kalífinn verið svo þolinmóður, að sitja hjá henni allt þangað til; spurði hann hana, hvað henni hefði viljað til. En er hún heyrði rödd hans, settist hún niður, og flýtti sjer að kyssa fætur hans, áðurenn hann gat varnað henni þess. Sagði hún þá: „Herra! eg tel mig þess vesæla, að guð ljet mjer eigi hlotnast, að deya við fætur yðar hátignar, til þess að sýna, hversu eg er gagntekin af náð og mildi yðar.“ „Vissi eg það fyrir löngu,“ ansaði kalífinn „að þú elskaðir mig, en eg skipa þjer að gæta heilbrigði þinnar af elsku til mín. Mjer þykir vænt um, að þjer batnar og er það mitt ráð, að þú verðir hjer í nótt, en farir eigi til herbergja þinna því þjer kynni að vesna af hreifingunni.“ Ljet hann þvínæst sækja vín henni til hressingar, fór hann við svo búið heim til hallar sinnar. Óðara enn hann var farinn spurði Schemselníhar eptir ykkur og var hún næsta órósöm. Eg sagði henni, að þið hefðuð komizt heilir á burt, og minntist alls ekki á sjúkleika kóngssonar, svo að henni ekki skyldi slá niðnr. Hún tók þá þannig til orða: „Kóngssonur! Þegar eg ekki sje þig, hverfur mjer öll gleði. Mjer ber að gráta blóðugum tárum, af því eg eigi má horfa á þig, afþví augu þín munu eigi þorna fyrr enn þau sjá mig aptur.“ Að svo mæltu, hnje hún meðvitundarlaus í fang mjer.

Eptir langan tíma gátum við með naumindum komið henni til sjálfrar sín; beiddi eg hana innilega að varðveita líf sitt vegna kóngssonar. Svaraði hún mjer þá: „Eg kann þjer þökk fyrir góðvilja þinn og ráð þín, en eg get eigi farið eptir þeim, hvað stoða þau? við getum eigi glaðst í neinni von, og gröfin ein getur leitt hörmungar okkar til lykta.“ Til þess að útrýma þessum raunalegu hugsunum, fór ein af oss að leika á fiðlu og söng vísur, en Schemselníhar skipaði henni að þegja, og öllum, sem þar voru, skipaði hún að fara út, nema mjer. Hlaut eg að vera hjá henni um nóttina. Hvílík nótt! hún sat tárfellandi og andvarpandi og nefndi óaflátanlega nafn kóngssonar og barmaði sjer útaf forlögum sínum, sem hefðu selt sig í hendur kalífans, en ekki þess manns, sem hún unni meira enn sjálfri sjer. En er hún morguninn eptir var borin inní herbergi sitt, komu læknar kalífans, og leið ekki á löngu, að hann kom sjálfur. Læknismeðöl þau, er þeir ráðlögðn, dugðu því síður, sem læknarnir eigi vissu, hvernig á sjúkleika þessum stóð; þyngdi henni enn meir þegar kalífinn kom, því hún varð að leggja á sig þvingun í viðurvist hans. Í nótt eð var hafði hún nokkurn svefn, en jafnskjótt og hún vaknaði, sendi hún mig til yðar til þess, að spyrja eptir kóngssyni.“ Þá svaraði Ebn Thaher: „Þjer vitið nú þegar, hvernig hann er á sig kominn, en segið Schemselníhar, að hann þreyi eins ákaft frjettir frá henni einsog hún frá honum, hvetjið hana umfam allt til að stilla skap sitt og varið hana við, að láta sjer nokkuð það um munn fara, sem getur steypt okkur í glötun.“ Ambáttin sagði ást Schemselníhars vera svo ákafa, að við öllu mætti búast, kvaðst hún eigi hafa sparað fortölur við hana, en hjet þó að ítreka þær í nafni Ebn Thahers. Hann var þá nýkominn frá kóngssyni og fór ekki til hans aptur fyrr enn um kvöldið, því hann þurfti að annast áríðandi störf. Hitti hann kóngsson einsamlan og engu hressari, enn hann hafði verið um morguninn, lofaði hann mikillega vináttu og greiðasemi Ebn Thahers. Ebn Thaher beiddi hann að eyða engum orðum að því og mælti: „Eg mundi fúslega láta líf mitt yðar vegna. En sleppum því — eg ætlaði að láta yður vita að trúnaðarambátt Schemselníhars kom til mín, spurði hún, hvernig yður liði og sagði mjer af ástandi hennar,“ Þvínæst sagði hann honum

upp öll orð ambáttarinnar og dvaldist honum svo langt fram á nótt, að kóngssonur neyddi hann til að vera hjá sjer. Þegar Ebn Thaher næsta morgun gekk heim til sín, mætti hann trúnaðarambátt Schemselníhars; fjekk hún honum brjef til kóngssonar og gengu þau þá bæði saman til hans.

Ebn Thaher ljet ambáttina bíða í forsal kóngssonar, en fór sjálfur inn til hans. Spurði kóngssonur undireins, hver tíðindi hann segði og svaraði hann þá: „Hin beztu tíðindi, sem þjer getið óskað. Hún hefur eins ákafa elsku á yður og þjer hafið á henni, og bíður ambátt hennar í forsalnum þess, að þeir skipið henni að koma inn og takið við brjefi frá hússmóður hennar.“ „Komi hún þá undireins!“ mælti kóngssonur gagntekinn af gleði og reis upp til að fagna henni. En afþví allir þjónar hans höfðu gengið burt, þegar Ebn Thaher kom, hlaut hann að ljúka upp fyrir ambáttinni. Fjekk hún kóngssyni brjefið og mælti: „Herra! eg veit, hvað þjer hafið tekið út síðan mjer veittist sú sæmd, að fylgja yður til bátsins, en eg vona að heilsa yðar hressist við af brjefi þessu.“ Kóngssonur kyssti það, braut það upp og las:

„Brjefberinn mun færa yður tíðindi frá mjer; látið það vera yður nóg, þarsem þjer ekki megið sjá mig. Þjer skilduð við unnustu yðar, hugsjúka, og hefur henni ekki komið dúr á auga. Eg er þannig á mig komin: Svefninn lykur aldrei augum mínum, sorgir og harmkvæli hjarta míns þverra aldrei. Mjer finnst einsog eg aldrei hafi vitað, hvað ánægja og heilbrigði er, einsog eg aldrei hafi sjeð vingjarnlegt andlit, eða sjálf verið glöð. Mjer þykir sem ástríða, óumræðileg ástarlöngun, og eptirþrá hafi upptendrað mig, sjúkleikur hefur tekið sjer stöðuga bólfestu hjá mjer, og þrá mín og kvíði fara í vöxt. Eg bið til guðs, að hann bráðum láti okkur finnast svo að órósemi sálar minnar megi linna; Guð veri með yður!“

Kóngssonur las brjef þetta hvað eptir annað grátandi og andvarpandi og gat ekki þreytzt á að horfa á stafi þá, er unnusta hans hafði skrifað. Ebn Thaher sagði honum þá, að hann ljeti ambáttina oflengi bíða svars og tók þá kóngssonur þannig til máls: „Hvernig á eg að svara svo ástríku brjefi, og hvernig get eg lýst tilfinningum mínum, þarsem slík geðshræring ríkir í hjarta mínu?“ Að svo mæltu, settist hann upp í rúminu, tók pappír og penna

og skrifaði svolátandi brjef: „Í nafni guðs hins miskunsama, líknar fulla. Eg hef meðtekið brjef yðar, og hefur það dreypt balsami í sál mína, sem var kvalin af löngun og órósemi. Eg var yfirkominn af dauðans hryggð, en þegar eg fjekk brjefið, varð eg gagntekinn af óumræðilegri gleði. Einsog ljómandi geislar hafa orðin, sem yðar fagra hönd hefur skrifað, hrakið burt dymmu þá, er myrkvaði sálu mína. Eg sje, hvað þjer þolið vegna elsku yðar til mín, eg sje, að þjer vitið líka, hvað eg þoli yðar vegna, og er það mjer huggun. Síðan við skildum hef eg aldrei notið augnabliks hvíldar; brjef yðar er það eina, sem er mjer til huggunar. Eg elska yður og alla æfi mína skal mjer þykja það hin mesta sæla, að brenna af eldi þeim, sem þjer hafið glætt í hjarta mínu. Hversu þungbært, sem mjer er að sakna návistar yðar, skal eg bera þá sorg með þolinmæði, í voninni um að við einhverntíma munum finnast. Guð gæfi, að það yrði í dag, og að eg í stað þess að senda yður brjef þetta, mætti sjálfur segja yður, að eg dey af elsku til yðar. Eg get ekki skrifað meira fyrir tárum. Guð veri með yður!" Þegar kóngssonur hafði lokið við brjefið, fjekk hann það Ebn Thaher og beiddi hann að lesa og gæta að, hvort ekkert þyrfti að leiðrjetta. Hann gerði svo og kvaðst ekkert geta lagfært í brjefinu. Þvínæst innsiglaði kóngssonur það og fjekk trúnaðar ambátt Schemselníhars, svo mælandi: „Fyrir guðs sakir færið Schemselníhar brjef þetta og kveðju mína."

Ebn Thaher og ambáttin urðu bæði samferða; skildi hann við hana á leiðinni og gekk heim til sín. Gerðist hann hugsandi útaf ástaræfintýri þessu, sem hann nú til allrar óhamingju var bendlaður við. Hann sá í hendi sjer, að þó kóngssyni og Schemselníhar riði lífið á að leyna ástum sínum, þá mundi samt ákefð ástarinnar koma upp um þau, og jafnskjótt sem kalífinn yrði þess áskynja, mundi reiði hans fyrst lenda á Schemselníhar, þvínæst mundi hann láta taka kóngsson af lífi, og sjálfur mundi hann rata í ólánið með þeim. Nú með því honum var annt um sóma sinn, konu og börn og fjármuni sína, þá rjeði hann af að umflýja hættu þessa. Fór hann næsta morgun til kóngssonar og rjeði honum fastlega til að kæfa niður ástríðu þá, er hlaut að steypa honum í glötun, færði hann til þessa allar ástæður, sem hann gat til fundið.

Svaraði kóngssonur þá: „Haldið þjer, Ebn Thaher! að eg geti látið af elsku minni til Schemselníhars, hún sem elskar mig svo einlæglega. Hún leggur sig í hættu mín vegna, og hvað skyldi eg þá hirða um líf sjálfs mín? Hver óhamingja, sem mig hendir, þá skal eg elska hana til hins síðasta andartaks.“ Ebn Thaher styggðist við þrályndi kóngssonar og kvaddi hann heldur fálega. Þegar hann var kominn heim, fór hann að hugsa um, hvað hann ætti að taka til bragðs, og meðan hann var að hugleiða þetta kom til hans gimsteinakaupmaður nokkur, sem var vinur hans. Hafði hann einatt furðað sig á því, að trúnaðarambátt Schemselníhars kom svo opt til Ebn Thahers og eins þókti honum kynlegt, að hann sva margsinnis vitjaði hins persneska kóngssonar í veikindum hans. Hann sá nú undireins á honum, að honum mundi liggja eitthvað þungt á hjarta og spurði hann því blátt áfram, hverssvegna trúnaðar ambáttin kæmi svo opt til hans. Kom spurning þessi flatt upp á Ebn Thaher og færðist hann fyrst undan að leysa úr henni, en hinn gekk svo fast á hann, að hann loksins gerði honum allt uppskátt. „Þjer vitið,“ mælti Ebn Thaher, „hversu vel eg er metinn við hirðina, í borginni og hjá hinum göfugustu mönnum og hinum tignustu konum, hvílík svívirða væri það fyrir mig ef ástaræfintýri þetta kæmist upp; mundi það ekki steypa mjer og mínum í ógæfu? Þetta fær mjer mestrar áhyggju, en eg hef hugsað mjer ráð. Eg ætla tafarlaust að borga skuldir mínar og heimta saman það, sem eg á hjá öðrum; þegar eg er búinn að koma eigum mínum á óhultan stað, mun eg fara til Balsóra og vera þar, þangaðtil óveður þetta, sem yfir vofir, er framhjá liðið. Mjer er vel við kóngsson og Schemselníhar og tekur mig sárt til þeirra ef þau hendir nokkurt ólán, bið eg því drottinn, að uppljúka augum þeirra, svo að þau sjái í hvílíkan háska þau stofna sjer, og hafi gætur á sjer. Ef svo illa á að fara fyrir þeim, að kalífinn komist eptir ástum þeirra, þá er eg að minnsta kosti óhultur fyrir reiði hans, því ekki verða þau svo illgjörn og vanþakklát, þarsem eg hef verið þeim til svo mikils liðs, að draga mig í sömu ógæfuna, úr því þau á annað borð hafa daufheyrzt við heilræðum mínum.“ Gimsteinakaupmaðurinn furðaði sig mjög á þessu og kvaðst ekki skilja í því að kóngssonur og Schemsel-

níhar hefðu getað látið hrífast af svo ákafri ástríðu. Hann fjellst á fyrirætlun Ebn Thahers og sagði, að hann gæti á engan annan hátt umflúið óhamingju þá, sem hann óttaðist. Þvínæst skildu þeir og lagði Ebn Thaher ríkt á við hann að þegja yfir leyndarmáli þessu.

Tveimur dögum eptir þetta gekk gimsteinakaupmaðurinn framhjá sölubúð Ebn Thahers og sá hann þá, að hún var lokuð; rjeði hann af því, að hann mundi hafa gert það, er hann hafði í hyggju. Nábúarnir sögðu honum, að Ebn Thaher væri farinn burt og þurfti hann þá ekki frekar að spyrja. Hugleiddi hann nú, hversu hinn persneski kóngssonur mundi hryggjast, þegar hann frjetti að Ebn Thaher væri farinn og hugsaði hann þá með sjálfum sjer: „Eg skal reyna að ganga í stað trúnaðarmanns þess, sem var helzt til huglítill.“ Erindi það, er hann hafði ætlað sjer, þegar hann gekk út, var ekki mjög áríðandi og sló hann því þessvegna á frest, eg fór rakleiðis til kóngssonar, þó öll viðkynning hans við hann væri einungis sú, að hann hafði selt honum nokkra gimsteina. Hann ljet skila til kóngssonar, að hann beiddist áheyrnar, og þyrfti að tala við hann um mikilsvarðandi mál; var honum leyft inn að ganga og hitti hann kóngsson liggjandi í legubekk, og hafði hann svæfil undir höfði. Kóngsson rankaði við, að hann hefði einhverntíma sjeð gimsteinakaupmanninn, reis hann upp til að fagna honum og bauð honum sæti; þvínæst spurði hann, hvort hann gæti gert honum nokkurn greiða, eða hvort hann færði sjer tíðindi, sem sig skipti nokkru. Gimsteinakaupmaður svaraði: „Kóngsson! þó mjer eigi sje þeirrar sæmdar auðið, að vera yður nákunnugur þá langaði mig til að votta yður hollustu mína, og því dirfðist eg að koma á yðvarn fund til þess, að segja yður tíðindi, sem yður varða miklu. Eg vona að þjer fyrirgefið dirfsku mína af því mjer gekk ekki nema gott til. Skal eg þá fyrst geta þess, að við Ebn Thaher erum alúðarvinir, og höfum lengi verið. Eg veit, að hann þekkti yður og gerði allt fyrir yður, sem í hans valdi stóð, sagði hann mjer það sjálfur, því við leyndum hver annan engu. Þegar eg áðan gekk framhjá sölubúð hans, sá eg, að hún var lokuð og sagði mjer einn af nábúum hans, að hann hefði tekið sig upp fyrir tveimur dögum síðan, hefði hann boðizt til

að reka erindi þeirra í Balsóra, því þangað kvaðst hann ætla í áríðandi erindagjörðum. þessi úrlausn þókti mjer ekki nóg, og af vináttu til hans, rjeðist eg í að spyrja yður, hvort þjer vissuð nokkuð, hvernig stendur á þessari skyndilegu burtferð hans.“ þegar kóngssonur heyrði þetta, skipti hann litum og leit til hans með slíkum svip, að auðsjeð var, hversu honum brá við þessi tíðindi. þvínæst mælti hann: „Saga yðar kemur mjer óvart, og mjer gat ekki viljað verra ólán til. Ef þjer segið satt, þá er fokið í öll skjól.“ Að svo mæltu kom upp fyrir honum grátur. „Eg byggði alla von mína á Ebn Thaher,“ mælti hann enn fremur, „og hann yfirgefur mig. Eptir slíkt ólán get eg ekki lifað.“ Nú gat gimsteinakaupmaðurinn gengið úr skugga um, að Ebn Thaher hafði ekki sagt ofsögum af ástarákefð kóngssonar. Vináttan kemst ekki þannig að orði, elskan ein getur vakið svo næmar tilfinningar.

Kóngssonur stóð stundarkorn þungt hugsandi, þvínæst skipaði hann einum af þjónum sínum, að fara sem skjótast til húsa Ebn Thahers og spyrja, hvort það væri satt, að hann væri farinn til Balsóra; beiddi hann þjóninn að flýta sjer. Ámeðan leitaðist gimsteinakaupmaðurinn við að hafa af fyrir kóngssyni með því að tala um hitt og þetta, en kóngssonur sinnti því alls ekki, því hann rjeði sjer ekki fyrir órósemi. Kom nú sendimaður aptur og sagði satt vera, að Ebn Thaher væri farinn til Balsóra. „þegar eg gekk burt frá húsinu,“ mælti hann ennfremur, „kom til mín vel búin ambátt og spurði, hvort eg ekki væri yður áhangandi, kvaðst hún þurfa að tala við yður og beiddi mig, að lofa sjer að verða samferða hingað. Hún bíður í forsalnum og held eg hún eigi að afhenda brjef frá einhverjum tignum manni.“ Nú var ambáttin látin koma inn og var þar sem vænta mátti komin trúnaðarambátt Schemselníhars. Hún heilsaði kóngssyni og gat hún ekki komið á hentugri tíma til að sefa örvæntingu hans.

Kóngssonur tók kveðju hennar og gekk gimsteinakaupmaðurinn afsíðis til þess að þau gætu frjálslega talast við. þegar ambáttin fór var kóngssonur í allt öðru skapi enn þegar hún kom. Augu hans voru hýrlegri og svipurinn glaðlegri, og rjeði gimsteinakaupmaðurinn af því, að ambáttin mundi hafa sagt einhver þau tíðindi, sem voru elsku hans í vil. þegar hann var seztur aptur hjá

kóngssyni, mælti hann: „Eg sje, að þjer hafið eitthvað mikið fyrir stafni í höll kalífans.“ Varð kóngssonur óttasleginn af orðum þessum og spurði, því hann hjeldi það. Svaraði hann þá, að hann rjeði það af ambáttinni, sem var nýfarin. „Hver haldið þjer eigi hana?“ spurði kóngssonur. „Vildarmey kalífans,“ svaraði gimsteinakaupmaðurinn, „eg þekki ambáttina og þá, sem hún þjónar, því hún hefur stundum gert mjer þá sæmd, að kaupa hjá mjer gimsteina. Eg veit líka, að hún leynir ambáttina engu. Mig minnir eg sæi ambáttina fyrir tveimur dögum síðan, hún hljóp um strætin og var á henni mesti asi, geri eg mjer í hugarlund, að eitthvað hafi búið undir, sem hússmóður hennar ríður mikið á að koma fram.“ Kóngssonur varð hugsjúkur útaf orðum þessum og hugsaði með sjer, að gimsteinakaupmanninum myndu ekki farast svo orð, nema hann grunaði eitthvað um leyndarmál sitt. Hann þagði stundarkorn og tók síðan þannig til máls: „Af því, sem þjer hafið sagt, ræð eg, að þjer munið vita meira. Eg hef engan frið, nema þjer gerið mjer það uppskátt og bið eg yður umfram allt að dylja mig einskis.“ Nú fór einsog gimsteinakaupmaðurinn hafði ætlazt til, og sagði hann allt, sem Ebn Thaher hafði sagt honum. Hann sagði honum einnig, að Ebn Thaher hefði farið til Balsóra af eintómri hræðslu, kvað hann sjer þykja undarlegt, að hann skyldi skilja við kóngsson, einsog nú stóð á, „Játa eg það kóngssonur!“ mælti hann, „að meðaumkvun kemur mjer til að bjóða yður þjónustu mína, og ef þjer viljið þiggja hana, þá skal eg reynast yður eins trúr og Ebn Thaher, og því lofa eg, að eg skal vera einbeittari enn hann. Eg er reiðubúinn til að leggja líf mitt og mannorð í sölurnar fyrir yður, og svo að þjer trúið orðum mínum, þá sver eg yður við allt, sem helgast er í trú vorri, að eg skal gæta óbrigðanlegrar þagmælsku. Verið því viss um, að eg bæti yður að fullu vin þann, sem þjer hafið misst.“

Kóngssyni var þetta hugfró, og saknaði hann nú ekki Ebn Thahers. Hann þáði boð gimsteinakaupmannsins og þakkaði honum vingjarnlega. „Munduð þjer trúa því,“ mælti hann, „að ambátt Schemselníhars hefur þegar talað um yður? Hún gefur yður að sök, að þjer hafið ráðið Ebn Thaher til að fara frá Bagdað, og það fullyrti hún seinast, þegar eg talaði við hana. En hún gerir

yður rangt til og um það hafa orð yðar sannfært mig til hlítar.“ Gimsteinakaupmaðurinn sagðist ekki hafa sagt nema það, sem satt var. „Þegar Ebn Thaher sagði mjer,“ mælti hann, „að hann ætlaði til Balsóra, þá taldi eg hann ekki af því, heldur sagði eg, að hann væri hygginn og forsjáll maður. Látið það ekki aptra yður frá að treysta mjer; eg skal þjóna yður með alúð og kostgæfni. En ef þjer ráðið annað af, þá skal eg samt vera þagmælskur einsog eg lofaði yður.“ Þá svaraði kóngssonur: „Eg hef þegar sagt yður, að eg ekki væri samdóma trúnaðarambáttinni. Dyggð hennar ein hefur blásið henni tortryggni í brjóst og ber yður að virða henni það til vorkunnar einsog og geri.“ Nú töluðu þeir saman um hríð og ráðguðust um, hvernig þau kóngssonur og Schemselníhar bezt gætu komið boðum hvert til annars. Kóngssonur kvaðst mundu leiðrjetta misskilning ambáttarinnar, og skyldi hún eptirleiðis færa honum brjef og boð frá Schemselníhar, því ekki væri örvænt, að grunur mætti á leggjast, ef hún ljeti optar sjá sig í húsum kóngssonar.

Þegar gimsteinakaupmaðurinn gekk frá kóngssyni heim til sín, sá hann hvar lá á strætinu brjef nokkurt, sem einhver hafði týnt. Tók hann það upp, og sá, að það var frá Schemselníhar til kóngssonar; það var ekki innsiglað og reif hann það þessvegna upp; brjefið var svo látandi:

Trúnaðarambátt mín hefur fært mjer þá fregn, sem ekki fær mjer minni hryggðar enn hún mun fá yður. Okkur er mikil eptirsjá í Ebn Thaher, en fyrst hann yfirgefur okkur af óþarfa forsjálni, þá verðum við að láta huggast, einsog þetta væri óumflýanlegt ólán. Að vísu reið oss aldrei meir á honum enn einmitt nú; látum okkur samt bera þetta sviplega mótlæti með þolinmæði, og ekki hræðast; enginn nær ósk sinni þrautalaust. Við skulum vona, að guð miskuni okkur og að hann uppfylli okkar sárþreyðu óskir eptir svo miklar hörmungar. Líði yður vel!

Meðan gimsteinakaupmaðurinn var hjá kóngssyni hafði ambáttin sagt Schemselníhar frá burtferð Ebn Thahers, og hafði hún undireins skrifað kóngssyni brjef þetta og sent það með ambáttinni. Hún hafði týnt því á leiðinni og varð gimsteinakaupmaðurinn glaður, þegar hann fann það, því hann hugðist að rjettlæta sig í

augum ambáttarinnar, svo að hún tryði sjer. þegar hann hafði lesið brjefið til enda, sá hann, hvar ambáttin kom, og var að leita að brjefinu, braut hann það þá saman í flýti og stakk því á sig. Tók hún eptir því, hljóp til hans og krafðist brjefsins, sem hún hefði týnt og hann fundið. Gimsteinakaupmaðurinn ljet einsog hann skildi hana ekki og svaraði henni ekki, heldur fór leiðar sinnar. Hún veitti honum eptirför og gekk á eptir honum innum dyrnar á húsi hans, sem hann ljet standa opnar með ásettu ráði, og beiddi hann að fá sjer brjefið. Hann neyddi hana til að setjast niður, áðurenn hann svaraði henni nokkru og mælti þvínæst: „Hefur ekki Schemselníhar skrifað brjef þetta, og er það ekki til persneska kóngssonarins?“ Ambáttinni brá svo við spurningu þessa, að hún skipti litum; sagði hann henni þá, að hann hefði ekki þegar í stað fengið henni brjefið aptur, einungis af því hann vildi, að hún kæmi heim til sín, svo að hann gæti skýrt henni frá fyrir ætlun sinni. Sagði hann henni frá viðtali þeirra kóngssonar og að kóngssonur hefði tekið sig til trúnaðarmanns í stað Ebn Thahers. „Ef þjer nú líka trúið mjer,“ mælti hann, „getið þjer eptirleiðis haft not af meðalgöngu minni. Segið því Schemselníhar það, sem eg hef sagt yður og það megið þjer fullyrða, að þó eg steypi mjer í glötun með því að bendla mig við svo hættulegt ástaræfintýri, þá skal eg aldrei sjá eptir því, að eg lagði sjálfan mig í sölurnar fyrir unnustu og elskhuga, sem bæði voru hvert öðru svo samboðin.“ þegar trúnaðarambáttin hafði hlýtt á orð gimsteinakaupmannsins, beiddi hún hann að fyrirgefa tortryggni sína, sem hefði sprottið af innilegri umhyggju fyrir velferð Schemselníhars. „Mjer þykir vænt um,“ mælti hún, „að kóngssyninum og Schemselníhar hefur boðizt svo góður maður í stað Ebn Thahers. Skal eg ekki láta mitt eptir liggja að lýsa góðvilja yðar fyrir húsfreyu minni.“

þvínæst fjekk gimsteinakaupmaðurinn ambáttinni brjefið og mælti: „Farið undireins með brjef þetta til kóngssonar og komið hingað á heimleiðinni, svo eg sjái, hverju hann svarar. Skýrið honum ítarlega frá samtali okkar.“ Ambáttin kom fljótt aptur og hafði með sjer svolátandi brjef frá kóngssyni til Schemselníhars:

„Yður dýrmæta brjef fær mjer eigi svo mikils sem eg mundi

skjósa. þjer leitist við að hugga mig eptir missi Ebn Thahers, en hann er hin minnsta orsök sorgar minnar. þjer þekkið þessar hörmungar og vitið að þeim linnir aldrei, nema við finnumst. Nær mun sá tími koma, að eg megi gleðjast við að sjá yður, og þurfi ekki kvíða því að sjá yður á bak? Hversu lángt mun vera þangaðtil, eða megum við vonast þess, að það verði nokkurntíma? Eg skal reyna að herða upp hugann einsog þjer hvetjið mig til, því eg þekki nú engan vilja nema yðar. Lifið heilir!"

Gimsteinakaupmaðurinn fjekk ambáttinni brjefið þegar hann hafði lesið það; lofaði hún að koma honum í kærleika hjá Schemselníhar, og segja honum næsta morgun, hvernig færi; eptir það fór hún. Morguninn eptir kom hún og sagði honum, að þegar Schemselníhar hefði fengið hið margþreyða brjef frá kóngssyni, hefði komið yfir hana mikið þunglyndi einsog hún átti vanda til. Kvaðst hún þá hafa sagt: „Hugsýki yðar mun vera sprottin af missi Ebn Thahers, en eg særi yður fyrir guðs sakir, látið það ekki festa á yður. Annar maður hefur boðið sig fram, sem er eins kappsamur og hann, og þaráofan einbeittari." „Eg sagði henni," mælti ambáttin ennfremur, „hvað yður hefði gengið til að fara á fund kóngssonar og fullyrti að þjer munduð geyma launungarmál þeirra vandlega, og gera allt, sem í yðar valdi stæði til þess, að þau mættu njótast. þókti mjer sem hún glaðnaði við og sagði hún, að hún og kóngssonur ættu slíkum manni mikið að þakka, sem helgaði þeim þjónustu sína svo sjerdrægnislaust og með svo fáheyrðum drengskap. Kvaðst hún fegin vilja sjá yður og beiddi mig að fylgja yður til sín í dag; er eg nú komin til að sækja yður." Gimsteinakaupmanninnum þókti nóg um og svaraði: „Húsfreyja yðar hefur trauðlega vel íhugað það, er hún heimtar af mjer. Öðru máli var að gegna um Ebn Thaher, því hann hafði leyfi til að ganga fyrir kalífann og allir embættismenn í hirðinni þekktu hann, veitti honum því hægt að finna Schemselníhar svo lítið bar á. Hvernig ætti eg að þora það? þjer sjáið sjálfar, að mjer er það ómögulegt, og ef þjer viljið svo vel gera, að segja Schemselníhar, hvað aptrar mjer, að verða við ósk hennar og hversu mikið illt getur af því hlotizt, mun henni skiljast, að það er til lítils gagns, að eg legg mig í hættu þessa." En ambáttin taldi svo lengi um fyrir gim-

steinakaupmanninum, að hann loksins stóð upp og ætlaði að fara með henni. Þó hann nú í fyrstunni hefði treyst djörfung sinni þá skalf hann nú og titraði af hræðslu, svo að ambátttin rjeði honum til að sitja heima; sagði hún að Schemselníhar mundi sjálf koma til hans til þess að sjá hann. „Farið því hvergi," mælti hún, „og sjáið svo um, að þjer verðið einn heima," að svo mæltu kvaddi hún hann.

Ambáttin hafði getið rjett til, því jafnskjótt, sem Schemselníhar heyrði, hversu hræddur gimsteinakaupmaðurinn væri, fór hún á stað til hans. Hann tók við henni með djúpri lotningu og þegar hún var sezt niður, tók hún blæuna frá andliti sínu, því henni hafði orðið óhægt af hita, fannst þá gimsteinakaupmanninum svo mikið um fríðleik hennar, að honum þókti ekki kyn, þó elska kóngssonar væri svo áköf. Hún tók þannig til máls: „Þegar eg frjetti, hverja hlutdeild þjer vilduð eiga í ástum okkar kóngssonar gat eg ekki á mjer setið, að votta yður þakklæti mitt. Guði sje lof, að hann hefur svo fljótt bætt okkur missi Ebn Thahers."

Sagði hún þvínæst mörg vingjarnleg orð við gimsteinakaupmann og fór síðan til hallar sinnar, en hann fór til kóngssonar til þess að segja honum frá því að Schemselníhar hefði komið til sín. Kóngssonur sagði við hann: „Mjer hefur leiðst eptir þjer, því ambáttin færði mjer brjef frá Schemselníhar, og hefur það veitt mjer litla huggun. Hvað sem hin elskulega Schemselníhar segir, þori eg einskis að vonast og þolinmæði mín er á förum. Eg er einsog ringlaður og örvæntingarfullur útaf burtferð Ebn Thahers. Hann var stoð og stytta mín, og hef eg misst allt með honum. Eg gat þó byggt nokkra von á því, að honum var heimilt, að koma á fund Schemselníhars." Kóngssonur varð svo óðamála af geðshræringu, að gimsteinakaupmanni var ómögulegt að komast að, og gat hann ekki að sjer gert að brosa. Loksins náði hann þó að að tala og mælti þá: „Enginn getur tekið næmari hlutdeild í hörmum yðar enn eg, og ef þjer viljið veita mjer áheyrn, mun yður skiljast, að eg vil bæta úr böli yður. Eg sje, að yður verður með engu móti fullnægt, nema þjer finnið Schemselníhar í góðu tómi; eg skal sjá svo um, að yður á morgun veitist sá fögnuður. Þjer vitið af egin reynslu að það er ógjörningur fyrir yður að

hætta yður inní höll hennar, og veit eg af stað, sem hagkvæmari er og óhultari.“ þegar kóngssonur hafði heyrt þetta, faðmaði hann gimsteinakaupmanninn að sjer og mælti: „þjer gefið mjer aptur líf mitt, og sje eg glöggt, að eg hef beðið bætur Ebn Thahers. Gerið sem yður lízt, eg hef fullkomið traust á yður.“

Morguninn eptir kom trúnaðarambáttin til gimsteinakaupmannsins, sagði hann henni þá, að hann hefði dregist á við kóngsson, að hann skyldi sjá svo um, að hann fengi að sjá Schemselníhar. Svaraði hún, að hún kæmi beinlínis til þess, að tala sig saman við hann; sagði hún vel henta að elskendurnir hittust í húsum hans. „Að vísu gætu þau fundist hjer,“ svaraði hann, „en eg á annað hús, sem enginn býr í, og þar hygg eg þau hafi betra tóm; eg skal undireins láta búa það svo, að þeim verði hæfilega fagnað.“ „þá vantar ekki nema samþykki Schemselníhars,“ mælti ambáttin, „og skal eg undireins skreppa til hennar til þess að bera þetta undir hana.“ Kom hún aptur að stundarkorni liðnu og sagði gimsteinakaupmanninum að Schemselníhar kæmi um dagsetur á hinn tiltekna stað. Fjekk hún honum um leið peningapyngju og beiddi hann að efna til kvöldverðar fyrir fjeð. þvínæst sýndi gimsteinakaupmaður ambáttinni húsið, þarsem elskendurnir áttu að finnast og jafnskjótt, sem hún var farin, leigði hann gull- og silfur borðbúnað, dýrustu svæfla og aðra hluti, prýddi hann nú húsið sem skrautlegast. En er allt var tilbúið, fór hann að sækja kóngsson, sem varð svo frá sjer numinn af fögnuði þeim, er hann átti í vændum, að hann gleymdi öllum hörmungum, fór í skrautlegan búning og gekk burt með gimsteinakaupmanninum. Gimsteinakaupmaður ljet hann ganga með sjer gegnum afvikin stræti til þess að ekki yrði tekið eptir þeim, og er þeir voru komnir heim, þurfti ekki lengi að bíða eptir Schemselníhar. Kom hún undireins eptir kvöldbænir með trúnaðarambátt sinni og tveimur öðrum ambáttum. því verður ekki með orðum lýst, hvað þau kóngssonur og vildarmærin urðu fegin, þegar þau fundust, þau sátu um stund orðlaus og horfðu hvert á annað, en jafnskjótt, sem þau máttu mæla, töluðu þau svo hjartnæmilega hvert til annars, að gimsteinakaupmaðurinn, trúnaðarambáttin og hinar ambáttirnar fengu eigi tára bundizt. Gimsteinakaupmaðurinn þerraði þau nú

af augum sjer og bar sjálfur á borð, en elskendurnir neyttu lítils. Settust þau síðan saman í legubekk og beiddi Schemselníhar um fiðlu eður eitthvert annað hljóðfæri. Gimsteinakaupmaðurinn hafði sjeð svo um, að ekkert vantaði, sem var til yndis og skemmtunar og kom hann með fiðlu. Stillti Schemselníhar hana, hrærði strengina og söng yndislega fagurt.

Schemselníhar töfraði þannig kóngsson, því ástin veitti henni næga orðgnótt til að lýsa tilfinningum sínum, en meðan á þessu stóð heyrðist brak mikið og háreysti. Í sama vetfangi kom inn þræll nokkur, sem gimsteinakaupmaðurinn hafði haft með sjer, og sagði að verið væri að brjóta upp dyrnar. Kvaðst hann hafa spurt, hver þar væri, hefði engu verið svarað, en höggin orðið því stórkostlegri. Gimsteinakaupmaðurinn varð óttasleginn og fór sjálfur út til þess að vita, hvort saga þessi reyndist sönn, en jafnskjótt og hann var koman ofaní húsgarðinn, sá hann í myrkrinu koma á móti sjer flokk manna vopnaðra með öxum og sverðum, og höfðu þeir mölvað upp dyrnar. Hann skauzt undir vegginn og sá tíu ganga framhjá sjer, en þeir tóku ekki eptir honum. Nú með því hann gat ekki orðið kóngssyni og Schemselníhar að liði, þá aumkvaði hann þau einungis í hjarta sínu, en flýði sjálfur til eins af nábúum sínum, sem ekki var háttaður. Hann var sannfærður um að dyrnar hefðu verið brotnar upp eptir skipun kalífans, og honum verið sagt frá ástarfundi þeirra Schemselníhars og kóngssonar. Heyrði hann háreysti mikið í húsi sínu allt fram á miðnætti. En er honum virtist allt vera orðið kyrt, fjekk hann sverð til láns hjá nábúa sínum og gekk síðan til húss síns og er hann kom inní húsgarðinn var hann spurður, hver hann væri. Varð honum hverft við, en þekkti skjótt málróm þrælsins og spurði hann þá aptur, hvernig hann hefði sloppið undan varðmönnum. Kvaðst þrællinn hafa skriðið í skúmaskot og kúrt þar, þangaðtil kyrt var orðið. „En það skuluð þjer vita, húsbóndi góður!“ mælti hann, að það voru ekki varðmenn, sem hjer voru, heldur ræningjar, og hafa þeir fyrir nokkrum dögum síðan rænt annað hús í þessum hluta borgarinnar. Þeir hafa sjeð, að þjer ljetuð flytja hingað svo marga fjemæta hluti, og það hefur lokkað þá.“

þegar nú gimsteinakaupmaðurinn gáði að, sá hann, að öll hin dýrmætu húsgögn, gull og silfur borðbúnaður og í stuttu máli allt var horfið. Hann æpti upp yfir sig óhuggandi: „Drottinn minn! hvílík vandræði er eg kominn í. Hvað munu vinir mínir segja, þegar eg ber það fyrir, að ræningjar hafi brotízt inní hús mitt og haft á burt með sjer það, sem eg hafði fengið til láns hjá þeim. Og hvað er orðið af kóngssyni og Schemselníhar? Mun mönnum mikið finnast um atburð þenna, svo að kalífinn einnig verður þess áskynja, kemst hann þá að öllu og drepur mig í reiði sinni.“ þrællinn, sem var honum trúr, reyndi að hughreysta hann, og sagðist mega fullyrða, að Schemselníhar mundi aðeins hafa verið rænd, enn ræningjarnir mundu hafa sleppt henni og kóngssyni. Mundu þau því hvert um sig vera komin heim til sín, og kalífinn verða einskis áskynja. En hjá vinum sínum gæti hann afsakað sig með því, að hann hefði ekki getað afstýrt óláninu, enda væri kunnugt, hve ræningjar þessir væru mannmargir og harðsnúnir; gæti því enginn ætlast til meira enn að hann bætti skaðann og væri hann fullríkur samt. Áðurenn dagaði ljet gimsteinakaupmaðurinn þræl sinn gera að dyrunum og fór síðan með hann í hús það, er hann var vanur að dvelja í og var hann hugsjúkur útaf atburði þessum.

Óðara enn lýsti af degi var fregnin um næturrán þetta flogin um alla borgina. Kom fjöldi vina og nágranna til gimsteinakaupmanns og ljetust þeir samhryggjast honum, en aðalerindi þeirra var þó í raun rjettri að heyra sagt frá því, er gerzt hafði. það var honum hugfró, að enginn þeirra minntist á Schemselníhar eða kóngsson og rjeði hann af því, að þau mundu hafa komizt heim, eða á einhvern hátt sloppið heil á hófi. þegar allir voru farnir, báru þjónar hans mat á borð fyrir hann, en hann neytti þvínær einskis. Um hádegisbil var honum sagt, að maður væri kominn og vildi fá hann í tal. Vildi hann ekki hleypa ókunnugum manni inn til sín, og fór því ofan til dyra. Tók aðkomumaður þannig til orða: „þó þjer ekki berið kennsl á mig, þá þekki eg yður, og er eg kominn til að tala við yður um áríðandi málefni.“ Gimsteinakaupmaður beiddi hann þá að koma inn til sín, en hinn svaraði: „Nei! það geri eg ekki, en eg ætla að biðja yður að koma

með mjer í hitt húsið yðar.“ „Hvernig vitið þjer af hinu húsinu mínu?“ spurði gimsteinakaupmaður. „Það greinir ekki um það,“ svaraði hinn, „en af því veit eg, komið með mjer, eg skal ekkert gera yður, eg get sagt yður nokkuð, sem yður mun þykja vænt um.“

Gimsteinakaupmaðurinn fór nú með honum og sagði honum á leiðinni að hitt húsið hefði verið rænt fyrir sjer, og kvað þar ekki vera boðlegt gestum. Þegar þeir voru komnir þangað og hinn ókunnugi maður sá dyrnar brotnar mælti hann: „Eg sje, að þjer hafið sagt mjer satt. En látum okkur nú halda lengra áfram, eg veit af stað, þarsem viðværilegra er enn hjer.“ Hjeldu þeir síðan áfram og gengu viðstöðulaust það, sem eptir var dagsins. Gimsteinakaupmaðurinn gerðist þreyttur og óþolinmóður, því hinn hjelt áfram, en sagði ekki, hvert hann færi, og var nú komið undir nótt. Komu þeir loksins ofaná pláss nokkurt við Tígrisfljótið og rjeru þeir yfir það á lítilli kænu. Hinn ókunnugi maður dró hann nú með sjer innanum mörg stræti, sem hann aldrei hafði komið í, þangaðtil hann ljet staðar numið við dyr á húsi einu, lauk þeim upp og fóru þeir þar inn. Lokaði hann þá dyrunum og hleypti fyrir járnlokum og slagbröndum; fylgdi hann síðan gimsteinakaupmanni inní herbergi eitt, og voru þar fyrir tíu aðrir, sem hann ekki þekkti. Þeir heilsuðu honum með lítilli hæversku, en buðu honum þó sæti, kom honum það vel, því hann var dauðlúinn; var hann svo hræddur við menn þessa, að hann skalf einsog hrísla. Þeir höfðu ekki viljað taka kvöldverð fyrr enn yfirmaður þeirra kæmi, en nú báru þeir á borð, þvoðu hendur sínar og neyddu gimsteinakaupmanninn til að taka handlaugar og setjast til borðs með sjer. Þegar þeir höfðu matazt, spurðu þeir hann, hvort hann þekkti þá, kvað hann nei við og sagðist ekki einusinni vita hvar hann nú væri í borginni. Beiddu þeir hann að segja sjer, hvað sögulegt honum hefði viljað til seinastliðna nótt. Þókti honum það kynlegt og kvaðst hann ætla, að þeim mundi það þegar kunnugt. „Að vísu er svo,“ svöruðu þeir, „gestir þeir, er voru hjá yður í gærkvöldi hafa sagt oss það, en okkur langar til að heyra yður sjálfan segja frá því.“ Sá nú gimsteinakaupmaðurinn, að þetta voru ræningjarnir, sem höfðu rænt hús hans og mælti: „Góðir menn! eg er næsta áhyggjufullur útaf manninum og kon-

unni, sem hjá mjer voru. Getið þið sagt mjer nokkuð, hvað af þeim er orðið?“ Ræningjarnir svöruðu honum, að þau væru með með öllu óhult, og að þeim liði vel; bentu þeir honum um leið á tvö herbergi og sögðu, að þau væru þar inni sitt í hverju. „Þau sögðu oss,“ mæltu þeir ennfremur, „að þjer einn gætuð skýrt frá högum þeirra, og frá því vjer heyrðum það, höfum vjer sýnt þeim kurteisi og nærgætni, og enginn okkar skal íllt til þeirra leggja. Skulum vjer ekki fara lakar með yður og er yður óhætt að trúa oss.“ Varð gimsteinakaupmaðurinn stórglaður þegar hann heyrði, að þeim kóngssyni og Schemselníhar hafði ekki verið gert neitt til meins; lofaði hann ræningjana og blessaði þá fyrir mannást sína og drengskap, kvaðst hann vita, að einsog þeir væru menn til að fremja stórræði, mundu þeir og geta þagað yfir leyndarmálum, sem þeim væri trúað fyrir. Sagði hann þeim síðan frá öllum ástarbrögðum kóngssonar og Schemselníhars, allt þangað til þeir höfðu brotizt inní hús hans. Urðu ræningjarnir hissa og gátu valla trúað því, að þeir hefðu hinn hágöfuga persneska kóngsson og hina nafnkunnu Schemselníhar í valdi sínu; en gimsteinakaupmaðurinn sór þeim, að svo væri og sagði að þeir skyldu ekki furða sig á því, þó svo tígið fólk segði ekki til nafns síns. Ræningjarnir fóru þvínæst til kóngssonar og Schemselníhars, fjellu fram fyrir þau, hver af öðrum og beiddu þau fyrirgefningar; þeir sóru og sárt við lögðu, að ef þeir hefðu vitað, hver þau voru mundu þeir ekki hafa ráðizt í ránsförina, en nú skyldu þeir leggja álúð á að bæta yfir glæp sinn. Síðan komu þeir til gimsteinakaupmannsins og sögðu illa farið, að þeir gætu ekki skilað honum öllu aptur, sem þeir hefðu rænt úr húsum hans, því sumt væri ekki lengur í vörzlum þeirra. Beiddu þeir hann því, að láta sjer nægja silfurkerin og skiluðu þeim, hrósaði hann happi, er hann hafði fengið þau aptur. Eptir það kölluðu þeir á kóngsson og Schemselníhar og ljetu þau lofa sjer með svardaga, að koma ekki upp um sig. Að því búnu fóru þeir á stað með þeim þremur og gengu ofanað Tígrisfljótinu. Á leiðinni spurði gimsteinakaupmaðurinn Schemselníhar eptir trúnaðarambátt hennar og báðum hinum ambáttunum, því hann vissi ekki hvað af þeim var orðið. „Eg veit ekkert,“ ansaði hún, „nema að með okkur var farið útúr húsinu

og að við vorum flutt yfir Tígrisfljótið á þann stað, sem við nú skildum við.“ Þegar kóngssonur og Schemselníhar stigu á land úr bát ræningjanna fyrir handan fljótið, komu varðmenn ríðandi með miklum gný, rjett í því ræningjarnir skutu bátnum aptur frá landi og rjeru undan hvað af tók. Varðmannaforinginn spurði kóngsson, Schemselníhar og gimsteinakaupmanninn, hvaðan þau kæmu svo seint og hver þau væru. Urðu þau svo felmtruð og hrædd um, að þau mundu svara einhverju, sem vekti grunsemd, að þau gátu fyrst engu svarað, en þó tjáði ekki annað enn að svara og hafði gimsteinakaupmaðurinn orð fyrir þeim, því hann gat bezt stillt sig. „Herra!“ mælti hann, „fyrst og fremst ábyrgist eg yður það, að við erum ráðvandir innbúar borgar þessarar; en hinir sem róa þarna á bátnum eru ræningjar, sem í nótt eð var brutust inní hús það, sem við vorum í og fluttu okkur í bæli sitt. Þegar við höfðum herjað á þá með öllum bænum vorum, fengum vjer loksins hrært skap þeirra svo að þeir slepptu okkur. Fluttu þeir oss hingað og skiluðu okkur aptur nokkru af ránsfjenu einsog þjer sjáið.“ Svo mælti hann og sýndi foringja varðmannanna silfurböggullinn, sem hann bar. En fyrirliðinn ljet sjer ekki þetta nægja, heldur virti hann kóngsson og gimsteinakaupmann vandlegar fyrir sjer og mælti: „Segið mjer satt, hver er kona þessi, hvaðan þekkið þið hana og hvar í borginni búið þið?“ Við þessa spurningu kom fát á þá og vissu þeir ekki, hverju svara skyldi, en Schemselníhar hjálpaði þeim úr þessum vandræðum, og tók varðmanna foringjann afsíðis; undireins og hún hafði talað við hann eitt eða tvö orð, fór hann af baki með mestu kurteisi og lotningu, og skipaði mönnum sínum að sækja tvo báta. En er bátarnir komu, ljet hann Schemselníhar stíga útá annan þeirra, en kóngsson og gimsteinakaupmanninn á hinn; ljet hann tvo af mönnum sínum fara á hvern bátinn og skipaði þeim að ferja þau heim til sín. Fór þá sinn báturinn í hverja áttina, en nú munum vjer fyrst segja af kóngssyni og gimsteinakaupmanninum. Til þess að stytta leiðina bauð kóngssonur honum að fara heim með vjer til hallar sinnar og sagði fylgdarmönnum sínum, hvar hún væri. En þeir rjeru bátnum að höll kalífans og lentu þar, urðu þeir kóngssonur og gimsteinakaupmaður mjög hræddir, þó þeir ekki ljetu á bera,

því þeir hjeldu að þeir mundu verða ofurseldir varðmönnum og leiddir fyrir kalífann næsta morgun. En ekki var það ásetningur þeirra, heldur beiddu þeir varðmannaforingjann fyrir þá, en hann fjekk þeim tvo hermenn til fylgdar, enda var og langur vegur til hallar kóngssonarins. Þegar þangað kom, voru þeir svo lúnir, að þeir ekki gátu hreift legg nje lið; og kóngssonurinn, sem nú var úrkula vonar um, að hann nokkurntíma mundi hitta Schemselníhar eptir þenna hryggilega atburð, var svo harmþrunginn útaf því, að hann fjell í óvit í því hann settist í legubekk sinn.

Meðan sumir þjónar kóngssonarins stumruðu yfir honum, nauðuðu sumir á gimsteinakaupmanninnum og beiddu hann að segja sjer, hvað herra þeirra hefði viljað til. Svaraði hann þeim, að það væru mikil fádæmi, en nú væri ekki tími til að tala um það, og væri þeim nær að hjúkra kóngssyni, en forvitnast um þetta. Til allrar hamingju raknaði hann við og gengu þeir þá burt, sem áfjáðastir voru að spyrja. Var kóngssonur svo sjúkur, að hann eigi mátti mæla og gat ekki svarað vinum sínum og ættingjum nema með bendingum. Um morguninn þegar gimsteinakaupmaðurinn kvaddi hann, gat hann ekki heldur svarað honum, nema með augnaráði sínu og handabandi. En er hann sá, að hann ætlaði að hafa á burt með sjer silfur það, er ræningjarnir höfðu skilað aptur, skipaði hann einum af þjónum sínum með bendingum, að bera það fyrir hann. Þegar gimsteinakaupmaðurinn kom heim varð mikill fagnaðarfundur, því kona hans, börn og hjú höfðu verið dauðhrædd um, að honum hefði viljað eitthvert slys til. Urðu þau því fegin, þegar hann kom, en það olli þeim kvíða, að útlit hans hafði breytzt svo mjög á jafnstuttum tíma, að hann nú var einsog annar maður; leiddi það af áreynslu hans daginn áður, svefnleysi og angist. Til þess að ná sjer aptur, fór hann ekki út í tvo daga og leyfði engum að koma til sín nema tveimur alúðar vinum sínum. Á hinum þriðja degi hjelt hann það mundi vera sjer til heilsubata að hreifa sig úti, og gekk því á fund kaupmanns nokkurs, sem var góður kunningi hans, og sat hann góða stund í sölubúð hans. Þegar hann stóð upp og kvaddi kaupmann, sá hann álengdar konu, benti hún honum, og sá hann, að það var trúnaðarambátt Schemselníhars. Fjekk það honum í einu gleði og áhyggju, og gekk hann fljótt leiðar sinnar, og leit ekki við; kom

hún á eptir honum einsog hann ætlaðist til. En afþví hann gekk hart, kallaði ambáttin til hans, því hún gat ekki fylgt honum, og beiddi hann hvað eptir annað að bíða sín. Ljet hann sem hann heyrði það ekki, unz hann kom til musteris eins, er fáir sóktu› vissi hann að þar mundi enginn vera og fór þangað inn. Ambáttin fór inn með honum, gat hann þar talað við hana og þurfti ekki að óttast, að neinn rjeði af því, að hann væri í þingum við Schemselníhar, en það þorði hann ekki svo aðrir sæu, því hvert manns barn í Bagdad vissi, að ambáttin þjónaði henni. Urðu þau fegin að finnast, og beiddi ambáttin hann að segja sjer, hvernig farið hefði fyrir honum eptir að þau skildu svo sviplega ; hann gerði svo og beiddi hana síðan að segja sjer, hvernig hún hefði sloppið með báðum hinum ambáttunum.

„Eg hjelt í fyrstunni einsog þjer,“ tók ambáttin til máls, „að ræningjarnir væru hermenn kalífans, og mundu vera sendir til að lífláta Schemselníhar og kóngsson, flýði eg því upp á hið flata húsþak með báðum hinum ambáttunum, meðan ræningjarnir ruddust inní herbergið. Við klifruðumst þak af þaki þangaðtil við komum að húsi einu, sem góðir menn bjuggu í, vorum við þar um nóttina og fórum næsta morgun heim til hallarinnar. Urðu hinar konurnar hissa, þegar þær sáu að Schemselníhar ekki kom með okkur, sögðum við þeim, að hún hefði orðið eptir hjá einni af vinkonum sínum og myndi hún láta okkur vita, nær við ættum að sækja hana. þær ljetu sjer nægja þessa úrlausn, en eg var utan við mig af hræðslu allan daginn. þegar nótt var komin, lauk eg upp bakdyrunum og sá hvar lítill bátur var á síki því, er liggur útí Tígrisfljótið; kallaði eg á ferjukarl og beiddi hann, að róa fram með báðum bökkum fljótsins og láta mig vita, ef hann kæmi auga á einhverja tigna konu. Beið og Schemselníhars með báðum ambáttunum, sem voru eins hræddar og eg; um miðnætti sáum við sama bátinn koma, rjeru honum tveir menn, en aptur í skutstafni lá kona; undireins og hún stje á land, sá eg að það var Schemselníhar og varð eg þá óumræðilega glöð. Eg rjetti henni hönd mína til stuðnings og veitti henni ekki af, því hún gat valla staðið upprjett fyrir þreytu. Hvíslaði hún að mjer með raunalegum málróm, að eg skyldi sækja pyngju með þúsund gullpeningum í handa báðum hermönnunum, sem hefðu fylgt henni. Skildi eg þá

báðar ambáttirnar eptir hjá henni og beiddi báða hermennina að bíða; kom eg fljótt aptur og fjekk þeim fjeð og borgaði ferjumanninum. Þvínæst lokaði eg dyrunum og flýtti mjer til Schemselníhars, og hjálpaði til að koma henni til herbergis síns. Afklæddum við hana og lögðum hana í rekkju, þókti okkur, sem hún mundi gefa upp öndina á hverri stundinni. Hún grjet og andvarpaði og vildi einskis neyta, gátum við aðeins fengið hana til að súpa á víni öðru hverju. Sögðum við hinum konunum, að hún væri svo yfirkomin af þreytu, að hún þyrfti töluverðrar hvíldar; fengum við þær þannig til að fara burt. Ljet hún nú loksins til leiðast fyrir sárar bænir okkar og neytti dálítils. En er hún var svo hress, að hún mátti mæla, beiddi eg hana að segja mjer, hvernig hún hefði verið svo heppin að sleppa frá ræningjunum. Var hún treg til þess, en sagði mjer það þó á þessa leið: „Þegar eg sá ræningjana ryðjast inn með sverð og hnífa, hjelt eg að mjer og kóngssyni væri dauðinn vís. Þókti mjer ekkert fyrir að deya, því eg hjelt að eg mundi deya með honum. En í stað þess að ráðast á okkur og höggva okkur niður, settu þeir tvo ræningja til að gæta okkar, en á meðan ræntu þeir bæði herbergið, sem við vorum í og það, sem næst var, og bundu ránsfjeð saman í böggla; þvínæst báru þeir þá burt og höfðu okkur með sjer. Á leiðinni spurðu þeir, hvað manna við værum og ljezt eg vera dansmey, en kóngssonurinn sagði eg væri borgarmaður, en er þeir virtu oss betur fyrir sjer, þegar við vorum komin heim til þeirra, rengdu þeir mig vegna búnings míns og gimsteinaskarts, og trúðu heldur eigi kóngssyni; gengu þeir þá fast á okkur að við skyldum segja þeim sannleikann. Svaraði kóngssonur, að hann hefði verið í orlofi hjá gimsteinakaupmanninum, nafngreindi hann, og sagði, að hann ætti húsið. Gall þá einn af ræningjunum við, sem við hugðum vera fyrirliða, og kvaðst þekkja gimsteinakaupmanninn, sagði hann vera góðs maklegan af sjer, þó hann ekki vissi af. Lofaði hann að koma honum þangað næsta dag, en ekki sagði hann við mættum fyrr vænta lausnar, enn þeir hefðu heyrt af hans sögusögn, hver við værum, mættum við treysta því, að okkur yrði ekkert gert til meins.“

Schemselníhar sagði nú ennfremur frá því, er gimsteinakaupmaðurinn var sóktur og þau voru gefin laus, ferjuð yfir fljótið og

tekin föst af varðmönnunum. „Eg tók fyrirliðann afsíðis“ mælti hún ennfremur, „sagði honum, hver eg væri og að ræningjarnir, sem flýðu á bátnum, hefðu burtnumið mig kvöldið áður, þegar eg var á leið frá einni af vinkonum mínum, en sleppt mjer og báðum hinum mönnunum, þegar eg sagði þeim, hver eg var. Þegar eg hafði sagt þetta, fór hann undireins af baki til að votta mjer lotningu sína og kvað sjer þykja vænt um, að hann gæti gert mjer greiða; ljet hann sækja tvo báta, annan handa kóngssyni og gimsteinakaupmanninum, en hinn handa mjer, skipaði tveimur mönnum á hvern, og ljet þannig flytja oss heim. Vona eg að þeim ekki hafi neitt illt til viljað síðan við skildum, en þess er eg fullviss, að kóngssonur er eins sorgbitinn og eg. Gimsteinakaupmaðurinn á það skilið fyrir greiðvikni sína, að honum sje bættur skaði sá, er hann hefur beðið. Gleymdu því ekki að færa honum í fyrra málið tvær peningapyngjur og sjeu þúsund gullpeningar í hverri, skaltu fá honum þær í mínu nafni og spyrja eptir kóngssyni.“ Eg reyndi þá þá til að leiða henni fyrir sjónir, að henni væri fyrir beztu að bæla nú niður ást sína, eptir slíkar hættur, sem hún hafði svo furðanlega sloppið úr, en hún skipaði mjer að þegja og hlýða boðum sínum. Sá eg þá ekki annað sýnna enn að leita yður upp, og með því eg ekki hitti yður heima, kom mjer til hugar að fara til kóngssonar, en til þess hafði eg ekki áræði. Eg skildi báðar peningapyngjurnar eptir hjá einum kunningja mínum, sem býr hjer nálægt; bíðið mín hjer stundarkorn meðan eg sæki þær.“

Trúnaðarambáttin kom fljótt aptur og fjekk gimsteinakaupmanninum pyngjurnar svo mælandi: „Takið við þessu og borgið vinum yðar!“ „Þetta fje er miklu meira enn eg þarf,“ ansaði hann, „en eg dírfist ekki að drepa hendi við náð þeirri, sem tígin og drenglynd kona auðsýnir þjóni sínum; segið henni, að eg alla æfi mína skuli minnast gæzku hennar.“ Þvínæst komu þau sjer saman um, að hún skyldi koma til hans í húsið, þarsem hún fyrst hafði komið til hans, þegar hún ætti að skila einhverju frá Schemselníhar, eða spyrja eptir kóngssyni. Fór þá gimsteinakaupmaðurinn heim og var stórglaður, því bæði hafði hann nú nóg á milli handa til að bæta vinum sínum skaðann og þóktist viss um, að enginn mundi vita, að kóngssonur og

Schemselníhar hefðu verið í húsum hans, þegar rænt var. Morguninn eptir veitti honum hægt að fullnægja vinum sínum, og hafði hann svo mikið afgangs af fjenu, að hann gat fengið fullsæmilegan búnað til hins hússins, sem hann nú ljet nokkra af þjónum sínum búa í. Gleymdi hann nú háskasemdum þeim, er hann hafði afstaðið og fór um kvöldið til kóngssonar. Sögðu þjónar hans, að hann kæmi í hæfilegan tíma, því herra þeirra talaði ekki orð og hefði verið svo á sig kominn síðan þeir skildu, að lífi hans virtist hætta búin. Leiddu þeir hann sem hljóðast inn til kóngssonar; lá hann í rúmi sínu með augun apturlokuð og var sárþjáður. Gimsteinakaupmaðurinn tók í hönd honum, heilsaði honum og reyndi að hughreysta hann. Þegar kóngssonur kannaðist við málróm hans, leit hann upp og höfðu augu hans aldrei verið daprari nje raunalegri frá því hann sá Schemselníhar í fyrsta sinn. Hann tók í hönd gimsteinakaupmannsins og þakkaði honum fyrir, að hann vitjaði svo sorgbitins og ólánssams manns, sem hann væri. Gimsteinakaupmaðurinn beiddi hann að fást ekki um það, heldur leita sjer heilsubata, því hann kvaðst vera hræddur um, að hann örvænti og neytti ekki einusinni nauðsynlegrar fæðu. Þjónarnir, sem viðstaddir voru gáfu sig þá fram, og sögðu svo vera, að herra þeirra hefði í langan tíma á engu nærzt. Gimsteinakaupmaðurinn nauðaði nú á honum þangaðtil hann ljet þjóna sína færa sjer mat og borðaði meira enn hann hefði gert áður. Síðan skipaði hann þjónunum út, svo að hann væri einn með gimsteinakaupmanni og tók þá til máls: „Auk óhamingju sjálfs mín, hryggir mig mikillega tjón það, er þjer hafið beðið af góðvilja til mín, og er sanngjarnt að eg reyni að bæta yður það. En segið mjer fyrst, hvort þjer hafið frjett nokkuð af Schemselníhar síðan við skildum.“

Gimsteinakaupmaðurinn sagði honum nú það er hann vissi gerst af sögusögn ambáttarinnar, og hlýddi kóngssonur á það grátandi og andvarpandi. Þvínæst reis hann upp, og varð honum mikið fyrir því, gekk inní geymslusal og ljet þjóna sína binda saman marga böggla úr húsgögnum og silfur borðbúnaði, og skipaði að bera það til gimsteinakaupmannsins. Vildi hann ekki þiggja gjöfina og sagði að Schemselníhar hefði ríkuglega bætt sjer skaðann, en kóngssonur stóð fast á honum að þiggja. Gimsteinakaup-

maðurinn kvaðst fyrirverða sig fyrir slíkri stórmennsku, og eigi geta vottað honum þakklátsemi sína sem skyldi; ætlaði hann þá að fara, en kóngssonur beiddi hann að vera hjá sjer og sátu þeir á tali mestalla nóttina. En áðurenn gimsteinakaupmaðurinn gengi burt morguninn eptir, beiddi kóngssonur hann að setjast hjá sjer og mælti: „þjer vitið, að menn í öllu hafa eitthvert takmark fyrir augum; takmark elskhugans er hin frjálsa eign unnustunnar, og verði hann vonlaus um hana þá ber honum að verða afhuga lífinu. þjer sjáið að þannig er komið fyrir mjer. Eg hugðist tvívegis hafa náð ósk minni og var á hinn grimmasta hátt slitin frá unnustu minni. Nú er ekki annað fyrir enn dauðinn og mundi eg sjálfur hafa sjeð fyrir mjer, ef trú vor eigi bannaði slíkt. En eg þarf ekki að taka fram fyrir hendur dauðans, því eg finn glöggt, að hann ekki mun lengi láta mig bíða sín.“

Að svo mæltu þagnaði kóngssonur stynjandi og tárfellandi og með því gimsteinakaupmaðurinn vissi ekkert ráð til að snúa honum frá svo örvæntingarfullum hugsunum, nema að minna hann á Schemselníhar og gefa honum nokkra von, þá kvaðst hann undireins mundu fara heim til sín, því hann væri hræddur um að trúnaðarambáttin hefði þegar leitað sín. „Farið þá!“ mælti kóngssonur og ef þjer hittið hana, þá látið hana skila til Schemselníhars frá mjer: að ef eg dey bráðum, sem eg býst við, þá elski eg hana til hins síðasta andartaks og allt þangaðtil eg ligg í gröfinni.“

þegar gimsteinakaupmaðurinn hafði beðið nokkrar stundir heima hjá sjer, kom trúnaðarambáttin grátandi og var á henni fát mikið; fjekk það honum áhyggju og spurði hann undireins, hvað að henni gengi. „Við erum öll frá,“ svaraði hún, „Schemselníhar kóngssonurinn, þjer og eg. Skuluð þjer nú heyra harmasögu þá, er eg heyrði í gær, þegar eg kom heim til mín frá yður. Schemselníhar hafði vegna einhverrar yfirsjónar látið refsa annari ambáttinni, sem var við, þegar hún hitti kóngsson í öðru húsinu yðar. Kom illt í ambáttina og með því dyrnar á höllinni voru opnar, læddist hún burt og hefur hún vafalaust sagt einhverjum af geldingunum alltsaman. Hin ambáttin, sem var með henni, er líka flúin til hallar kalífans og er ekkert líklegra enn að hún hafi sagt honum allt leyndarmálið, því í dag ljet kalífinn tuttugu geldinga sækja Schemselníhar. Mjer

tókst að læðast burt, til þess að segja yður hvernig komið var. Eg veit ekki, hvað síðan hefur gerzt, en ekki býst eg við góðu. Hvernig sem fer, þá geymið launungarmálið vandlega.“ Hún rjeði honum þvínæst til þess að segja kóngssyni undireins, hvernig farið hefði, gekk hún síðan burt í skyndi og beið ekki svars. Enda hefði gimsteinakaupmaðurinn ekki getað svarað miklu, því hann varð agndofa, einsog lostinn reiðarslagi. Hann sá samt, að honum var ekki til setunnar boðið og fór því til kóngssonar, Sá hann á svip hans, að hann hafði ill tíðindi að segja. „Kóngssonur!“ mælti gimsteinakaupmaðurinn, „brynjið yður nú þolinmæði, staðfestu og hugprýði, og búist við hinu skelfilegasta, sem yður hefur nokkurntíma að hendi borið. „Hafið færri orð,“ ansaði kóngssonur, „látið mig ekki vefjast í kvalafullum efa, eg er búinn undir dauða minn.“ Þvínæst sagði gimsteinakaupmaðurinn honum það, sem ambáttin hafði sagt og mælti ennfremur. „Yður er ógæfan vís, rísið upp og forðið yður í skyndi, tíminn er dýrmætur. Ofurseljið yður ekki reiði kalífans, nje eigið það á hættu, að þjer verðið píndur til sagna með píslarfærum.“ Það vantaði minna á að kongssonur gæfi upp öndina samstundis af ótta og harmi; samt herti hann upp hugann og spurði gimsteinakaupmann, hvað hann legði til. „Ekki er annað sýnna,“ svaraði hann, „enn að stíga sem skjótast á hestbak og ríða burt. Hafið með yður svo marga þjóna sem yður líkar og leyfið mjer að flýa með yður.“ Kóngssonur sá ekki annað ráðlegra til frelsis og skipaði mönnum að búast sem fljótast; hann stakk á sig peningum og gimsteinum, kvaddi móður sína og fór frá Bagdað með gimsteinakaupmanninum og fylgdarliði sínu. Riðu þeir án afláts hinn næsta dag og þvínær alla nóttina; urðu þeir sjálfir og hestarnir svo þreyttir, að þeir urðu að nema staðar nokkrum stundum fyrir sólar uppkomu. En sem þeir naumast höfðu kastað mæðinni, rjeðist á þá fjölmennur ræningja hópur. Vörðust þeir að vísu drengilega, en er menn kóngssonar voru fallnir, urðu þeir að gefast upp, hann og gimsteinakaupmaðurinn. Ræningjarnir gáfu þeim líf, en ræntu þá og flettu klæðum, og tóku frá þeim hestana og allan faranguriun. Þegar þeir voru farnir mælti kóngssonur: „Hefði ekki verið betra, að eg hefði verið kyrr í Bagdad og beðið dauða míns, í hverri

mynd sem hann hefði birtzt mjer?“ Gimsteinakaupmaðurinn leiddi honum fyrir sjónir, að þetta væri ráðsályktun guðs og að honum þóknaðist að reyna þá með þrautum á þrautir ofan; ættu þeir því ekki að mögla, heldur taka slysi þessu, sem hann hefði látið þeim til vilja, með auðmjúku hugarfari. „En látum oss ekki vera hjer lengur,“ mælti hann ennfremur, „heldur leita oss einhvers skjóls, þarsem okkur verður með fúsum vilja hjálpað í bágindum okkar.“ „Lofið mjer að deya hjer,“ ansaði kóngssonur, „það stendur á sama, hvort eg dey hjer eða annarsstaðar. Hver veit nema Schemselníhar þegar sje dáin og ber mjer ekki að lifa hana.“ Loksins tókst þó gimsteinakaupmanninum með fortölum sínum að fá kóngsson til að fara með sjer. Gengu þeir um hríð, þangaðtil þeir komu að musteri einu, sem stóð opið, fóru þeir þar inn og lögðust fyrir útí horni. Þegar lýsti af degi, gerðu þeir bæn sína; þá kom maður inní musterið og beiddist fyrir, og er hann að aflokinni bænagjörð ætlaði út, varð honum litið til þeirra, kvaddi hann þá og spurði, hvort þeir væru ókunnugir. Gimsteinakaupmaðurinn játti því og sagði honum frá því, að þeir hefðu verið ræntir og væru þurfandi hjálpar, en vissu eigi til hvers leita skyldi. Bauð maðurinn þá að liðsinna þeim eptir megni og beiddi þá að koma með sjer heim til sín. Gimsteinakaupmaðurinn rjeði kóngssyni til að þiggja svo vingjarnlegt boð, því heldur sem uggvænt væri, að einhver kynni að koma. sem þekkti þá, og fjellzt kóngssonur einnig á það. En er maðurinn sá, að þeir stóðu og þinguðu um eitthvað í hljóði, spurði hann, hvort þeir ekki ætluðu að koma með sjer. „Það viljum vjer fegnir,“ ansaði gimsteinakaupmaðurinn, „en við fyrirverðum okkur að láta nokkurn mann sjá okkur, því við erum naktir.“ Tók þá maðurinn af sjer nokkuð af klæðnaði sínum og fjekk þeim, svo að þeir gátu skýlt nekt sinni; fór hann síðan með þá heim til sín. Þegar þangað var komið, ljet hann fá þeim heilan klæðnað og bera mat og drykk á borð fyrir þá; en þeir neyttu þvínær einskis og var kóngssonur svo magnþrota og harmsfullur, að gimsteinakaupmaðurinn varð hræddur um, að honum væri ekki líft.

Húsráðandinn kom opt til þeirra um daginn, en fór snemma frá þeim um kvöldið, því hann vissi að þeir þurftu hvíldar. Hlaut gimsteinakaupmaðurinn fljótt að kalla á hann til þess að vera með

sjer hjá kóngssyninum, meðan hann lá í andarslitrunum; andardráttur hans gerðist þungur og erfiður og var auðsjeð, að hann þá og þegar mundi gefa upp öndina. Gimsteinakaupmaðurinn gekk þá til hans og tók kóngssonur þannig til orða: „Líf mitt er á förum, einsog þjer sjáið og er eg því feginn, að þjer eruð hjá mjer á dauðastundinni. Eg dey glaður og vitið þjer hvað veldur. það eitt fær mjer hryggðar, að mjer ekki auðnaðist að deya í faðmi móður minnar, því hún hefur ávallt haft á mjer viðkvæma ást og mun henni sárna, að fara á mis við hina sorglegu huggun, að veita mjer nábjargir og sveipa mig í náklæði. Segið henni þegar eg er látinn, hversu mjer hafi fallið það nær um trega og biðjið hana í mínu nafni, að flytja lík mitt til Bagdad, svo að tár hennar hrynji á gröf mína og bænir hennar árni mjer friðar.“ Hann þakkaði húsráðandanum fyrir gestrisni sína og beiddi hann að geyma lík sitt þangaðtil það yrði sókt. Að svo fyrirmæltu andaðist hann.

Daginn eptir lát kóngssonar fól gimsteinakaupmaðurinn lík hans varðveizlu húsráðandans og fór aptur með lest einni til Bagdad. Gekk hann undireins heim til sín og hafði fataskipti, þvínæst fór hann til húss þess, er kóngssonur hafði búið í; varð heimilisfólkið hrætt, þegar það sá, að kóngssonur kom ekki með honum. Gimsteinakaupmaður beiddi að skila til móður kóngssonar, að hann vildi tala við hana, var honum þá fylgt inn í sal einn, og sat hún þar á meðal margra kvenna. Hann heilsaði henni og tók þannig til máls með slíkum svip og málróm, að sorgarfregnin ekki leyndi sjer: „Guð varðveiti yður og auðsýni yður nægð miskunar sinnar. þjer vitið að hann stýrir högum vorum einsog honum þóknast.“ þá greip móðirin frammí og kallaði hátt: „Æ! þjer segið mjer lát sonar míns;“ að svo mæltu æpti hún aumkvunarlega og hinar konurnar með henni, svo að gimsteinakaupmaðurinn tárfelldi að nýu. Hún sat lengi og ljet bugast af harmi sínum, en loksins beiddi hún hann að segja sjer harmasögu þessa og dylja sig einskis. En er hann hafði gert það, spurði hún, hvort hann í andlátinu hefði beðið hann að skila nokkru til sín sjerílagi. Sagði hann henni þá, að honum hefði þókt það sárast að deya svo fjærri henni og hefði hann eigi óskað neins, nema þess að hún ljeti flytja lík hans til Bagdad.

Árla næsta morgun fór hún á stað með konum sínum og þrælum. Gimsteinakaupmaðurinn, sem hún hafði haldið hjá sjer þangað til, gekk nú heim hryggur í huga og horfði til jarðar. Mætti hann á leiðinni konu og sá að það var trúnaðarambátt Schemselníhars. Hún var í sorgarbúningi og grjet og fylgdi hún honum heim. þegar þau voru komin þangað, stundi hann þungan og spurði, hvort hún hefði frjett dauða kóngssonar og grjeti þessvegna. „Er hinn elskulegi kóngssonur dáinn?“ ansaði hún, „hann hefur þá ekki lifað Schemselníhar sína lengi. Fögru sálir! hvar sem þið eruð, þá munuð þið fagna, því nú megið þið njótast. Líkamir ykkar voru því til fyrirstöðu, að óskum ykkar yrði framgengt, nú hefur guð losað ykkur við þá til að samtengja ykkur.“ Gimsteinakaupmaðurinn vissi ekki af viðskilnaði Schemselníhars og tók nú fyrst eptir því, að ambáttin var í sorgarbúningi. „Er Schemselníhar dáin?“ mælti hann og varð hálfu hryggari enn áður. „Hún er dáin,“ svaraði ambáttin grátandi, „en áður enn eg segi yður frá hinum minnilegu atvikum andláts hennar, þá segið mjer, á hvern hátt kóngssonurinn andaðist, því eg mun alla æfi trega hann ásamt hússmóður minni, hinni elskulegu Schemselníhar.“ Gimsteinakaupmaðurinn gerði sem hún beiddi, og er hann hafði sagt henni allt, sem gerzt hafði þangaðtil móðir kóngssonar lagði á stað, tók ambáttin þannig til máls: „þjer munið, að eg sagði yður fyrr að Schemselníhar var sókt til hallar kalífans, því svo var, sem eg hafði getið til, að báðar ambáttirnar höfðu sagt honum frá ástum kóngssonar og Schemselníhars og hafði hann haldið próf yfir hverri um sig. Nú munuð þjer ætla að hann hafa orðið afarreiður Schemselníhar, og brunnið af afbrýði og löngun til að hefna sín á kóngssyni. En fjærri fór því; hann aumkvaði Schemselníhar og er líklegt að hann hafi kennt sjer sjálfum um, að svona fór, af því hann hafði leyft henni að ganga út fylgdarlaust. Fór honum svo óvenjulega við hana, að þessi tilgáta mín hlýtur að vera rjett. Hann fagnaði henni með glöðu yfirbragði, en hún gekk fram fyrir hann án alls ótta og undrunar; sá hann hversu hún var hnuggin og mælti: „Schemselníhar! eg má ekki sjá þig koma með svo hryggum svip, og fær það mjer mikillar sorgar. þú veizt hversu brennandi ást eg hef haft á þjer, og hef eg sýnt þjer svo mörg merki þess, að þú mátt

vera sannfærð um það. Eg er ekki hverflyndur og hef eg aldrei elskað þig heitar enn nú. Þú átt óvini og þeir hafa borið mjer illar sögur um háttalag þitt, en allt, sem þeir hafa sagt, hef eg látið sem vind um eyrun þjóta. Útrýmdu því þunglyndi þínu og bústu til að veita mjer ljúfa og unaðsama skemmtun í kvöld, einsog þú hefur svo opt gert að undanförnu." Slík og önnur vinmæli hafði hann við hana og vísaði henni til skrautlegs herbergis við hliðina á herbergi hans sjálfs. Beiddi hann hana að bíða sín þar.

Hin óhuggandi Schemselníhar viknaði af slíkum virðingar merkjum, en því betur sem hún fann hversu mikið gott hún átti kalífanum upp að unna, því sárar sveið henni, að vera skilin frá kóngssyni, er hún gat ei án verið. Þetta hafði nú gerzt þegar eg talaði við yður, og sögðu mjer frá því konur þær, er viðstaddar voru. En þegar eg kom frá yður, fór eg til Schemselníhars og var sjónarvottur þess, er fram fór um kvöldið. Hitti eg hana í herbergi því, sem eg fyrr nefndi, og af því hún þóktist vita, hvaðan eg kæmi, beiddi hún mig að koma til sín og sagði svo enginn heyrði: „Eg þakka þjer innilega fyrir greiða þann, er þú hefur gert mjer; eg veit vel að það er hinn síðasti." Hún sagði eigi meira, en eg fjekk ekki færi á að segja henni neitt til huggunar. Um kvöldið kom kalífinn inn í herbergið og ljeku þá ambáttir Schemselníhars á hljóðfæri. Var undireins borið á borð, kalífinn tók Schemselníhar við hönd sjer og ljet hana setjast í legubekkinn hjá sjer, tók hún svo nærri sjer að gera sjer upp blíðlæti við hann, að hún dó rjett á eptir, því óðara enn hún var sezt niður hnje hún aptur á bak. Við hjeldum einsog kalífinn, að hún næri hnígin í öngvit; en hvernig sem við leituðumst við, var ómögulegt að vekja hana til lífs. Kalífinn gat ekki að sjer gert að gráta og heiðraði hana með tárum sínum. Áðurenn hann gekk aptur til herbergis síns skipaði hann að mölva sundur öll hljóðfærin og bera líkið inn til sín. Sat hann yfir því alla nóttina, en þegar dagur ljómaði, sagði hann fyrir greptrun hennar og skipaði að lauga líkið, sveipa það náklæði og flytja það í skrautlegan legstað. Fyrst nú lík kóngssonar verður flutt til Bagdad þá skal eg sjá svo um, að það verði lagt í sömu gröfina." Gimsteinakaupmaðurinn kvaðst ætla það ógjörlegt vegna kalífans, en ambáttin svaraði: „Þjer munuð

sjálfur játa að það er mögulegt, því eg get sagt yður, að kalífinn hefur gefið öllum ambáttum Schemselníhars frelsi og ætlað þeim árleg laun til viðurværis. Mig hefur hann sett til að gæta grafarinnar og veitt mikið fje bæði gröfinni til viðhalds, og mjer til framfærslu. Að öðru leyti mun kalífanum því síður mislíka það, sem honum var kunnugt, að þau Schemselníhar og kóngssonur elskuðust og mislíkaði það ekki. Fjellst þá gimsteinakaupmaðurinn á fyrirætlun hennar og beiddi hana að fylgja sjer til legstaðarins, svo að hann mætti gera þar bæn sína. En heldur enn ekki brá honum í brún, er hann sá ógrynni fólks, bæði karla og konur þyrpast þangað frá Bagdad, og var það slíkur grúi, að ómögulegt var að komast nálægt, og hlaut hann að standa langt í burtu. „Nú held eg áformi yðar megi verða framgengt,“ mælti hann við ambáttina, þegar hann hafði gert bæn sína, „við þurfum ekki annað enn að segja það, sem við vitum um elsku þeirra beggja og það einkum, að kóngssonur andaðist þvínær á sömu stund og hún. Áðurenn lík hans kemur, mun allur borgarlýður flykkjast saman og krefjast þess, að hans lík verði ekki skilið frá líki hennar.“ Ráð þetta heppnaðist og daginn, sem von var á líkinu, fór mesti manngrúi tuttugu mílur til að taka á móti því. Trúnaðarambáttin beið við borgarhliðin og beiddi móður kóngssonar í nafni allrar borgarinnar að leyfa, að lík beggja elskendanna, sem frá fyrstu upptökum ástarinnar allt fram í andlátið höfðu verið sem einn maður, yrðu lögð í hina sömu gröf. Móðirin leyfði það og var líkið jarðað við hlið Schemselníhars að ásjáanda ótölulegum manngrúa. Síðan hafa bæði innbúar Bagdads og útlendir átrúendur Mahómets úr öllum áttum haft legstað þenna í miklum heiðri, og sækja þangað enn til að gera þar bæn sína.“

Nú var liðið svo langt fram á nótt að ofseint var að byrja á nýrri sögu, lofaði því drottning að segja á næstu nótt söguna af Kamaralsaman kóngssyni og Badúr kóngsdóttur.

# Frá 230. til 205. nætur.

## Sagan af Kamaralsaman kóngssyni og Badúr kóngsdóttur.

Khaledan heitir ey nokkur í meginhafinu og er tuttugu daga sigling til hennar frá ströndum Persalands. Er henni skipt í all-

mörg stór fylki og eru þar blómlegar og fjölmennar borgir. Eyan er konungs ríki og rjeði yfir henni í fyrndinni konungur, er Schachseman hjet. Hann átti fjórar eiginkonur og voru allar konunga dætur, en auk þeirra hafði hann sextíu hjákonur. Taldi hann sig giptumestan allra konunga í heimi, því ársæld og friður blessuðu ríki hans. Samt var honum eitt að angri, að hann átti engan erfíngja að ríki sínu, en var sjálfur kominn að fótum fram; vissi hann ekki hverjum hann ætti að kenna um gæfuleysi þetta. þókti honum það sem von var, vera hið mesta ólán að deya erfingjalaus. Í langan tíma duldi hann harm sinn útaf þessu, og gekk það því nær honum, sem hann átti bágara með að stilla sig. En þar kom loksins, að honum varð ómögulegt að bera mótlæti sitt einsömlum, svo að hann sagði vezír sínum frá því einslega og spurði hann, hvert hann gæti kennt sjer nokkurt ráð til að umflýa ógæfu þá, er yfir vofði. þá svaraði hinn vitri vezír þannig: „Yðar hátign mundi fljótt veitast ráð við því, ef því væri svo varið, að mannleg hyggindi fengju nokkuð að gert. En því er verr, eg hlýt að játa, að mannleg vizka og reynsla má sín hjer ekkert, og er það hið eina úrræði í slíkum vandræðum að snúa sjer til guðs. Hinum alvitra og almáttuga drottni þóknast opt að senda oss mótlæti einmitt þegar allt leikur í lyndi og vjer hugsum sízt til hans, til þess að vjer finnum til almættis hans og minnumst þess, að vjer höfum ekkert af sjálfum oss þegið, heldur allt af honum. Meðal þegna yðvarra eru sumir, sem öðrum fremur leggja stund á að tilbiðja hina æztu veru, og fyrir guðs sakir leggja á sig allskonar meinlæti og vanda lifnað sinn kostgæfilega. það er því mín tillaga að þjer látið útbýta ríflegum ölmusum meðal þessa guðhrædda fólks, og skorið á það að leggjast á eitt með yður í bænagjörð. Hver veit nema einhver meðal þess sje guði svo þóknanlegur, að hann uppfylli yðar innilegu ósk.“ Schachseman leitst vel á þetta viturlega ráð og þakkaði stórvezír sínum af öllu hjarta. Sendi hann án tafar ríflegar ölmusur til allra þeirra fjelaga, er stunduðu heilagleik og guðhræðslu, og stefndi forstöðumönnum þeirra á sinn fund. Veitti hann þeim fyrst hófsamlega máltíð, sagði þeim síðan, hvað sjer byggi í skapi og beiddi þá að sjá svo um, að hinir guðhræddu menn, sem þeir ættu yfir að segja, beiddu fyrir sjer.

Og sjá! ekki leið á löngu, að ein af konum konungs varð barnshafandi og ól hún sveinbarn, þegar reglulegur meðgöngutími var umliðinn. Til þess að votta þakklátsemi sína fyrir þetta mikla happ sendi Schachseman konungur aptur ölmusur til hinna helgu fjelaga og voru þær miklar einsog von var, því hann var stórglaður og stórríkur. Voru margar dýrðlegar hátíðir haldnar í minningu þess, að kóngssonur var fæddur, bæði í höfuðborginni og hvervetna í ríkinu. Jafnskjótt sem hann var fæddur var hann borinn til föður síns og þókti honum sveinninn svo fagur, að hann kallaði hann Kamaralsaman (þ. e. máni sinnar aldar). Vandaði hann uppeldi hans með mestu alúð og ljet sjer annt um uppfræðingu hans, þegar hann var kominn á þann aldur. Voru Kamaralsaman fengnir hinir beztu kennarar og hinir vitrustu siðameistarar, sem til voru í öllu landinu. Menn þessir, er gæddir voru allskonar fróðleik, listum og mannkostum sáu undireins, að kóngssonur var bæði næmur og námfús og veitti hægt að nema allar vísindagreinir. Seinna meir nam hann allskonar líkamlegar listir og varð slíkur afbragðs maður til alls atgjörfis, að allir dáðust að honum, sem hann þekktu, en enginn þó einsog faðir hans.

þegar kóngssonur var fimmtán vetra gamall, ásetti konungur sjer af einlægri elsku að afsala sjer ríkinu syni sínum í hag, og fór hann þessum orðum við vezírinn, sem hann trúði bezt: „Ef að sonur minn er aðgjörðalaus í æsku sinni, þá er eg hræddur um hann missi hinar frábæru gáfur, sem náttúran hefur svo ríkuglega veitt honum, og ekki þær einungis, heldur týni hann því niður, sem hann hefur numið í hinu góða uppeldi, sem eg veitti honum af föðurlegri elsku. Eg er nú kominn á þann aldur, að eg þarf hvíldar við, enda þreyi eg hana líka, hef eg því ásett mjer að afsala mjer ríkisstjórn, og ætla það, sem eptir er æfinnar að láta mjer nægja þá gleði að sjá hann stjórna. Hvernig lízt þjer á þetta, fornvinur minn?“

Stórvezírinn þekkti herra sinn og hafði vit til þess að mótmæla ekki ráðsályktun hans beinlínis, þótt hann hefði margar ástæður til; ljezt hann fúslega fallast á fyrirætlun hans og mælti: „Orð yðar votta föðurlega viðkvæmni og er mjer fögnuður að hlýða á þau; en að vísu mætti ísjárvert þykja að leggja á

jafnungar herðar svo þunga byrði, sem það er, að stjórna voldugu og miklu ríki. Yðar hátign hefur fullkomna ástæðu til að kvíða því, að yðjuleysi muni spilla hinni göfugu sál sonar yðar; en er þá ómögulegt að fá honum annað starf? væri ekki ráð að láta hann kvongast? Hjónabandið er óskaráð til að snúa ungum mönnum frá óreglulegum lifnaði. Gæti yðar hátign um leið veitt honum sæti í ríkisráði yðru; mætti hann þá smámsaman sjá, hvernig hann síðan á að halda við dýrð og vegsemd ríkisins, og gætuð þjer afsalað yður ríkis stjórn ef yður virtist hann vera vaxinn svo háleitu ætlunarverki.“ Soldáni virtist þetta hyggilegt ráð og gerði boð eptir syni sínum jafnskjótt sem stórvezírinn var kominn út. Kóngssonur hafði aldrei verið vanur að koma á fund föður síns nema á tilteknum tíma dags, og brá honum því í brún er hann fjekk boð þessi. Gekk hann því ekki framfyrir hann með sonarlegri djörfung einsog hann var vanur, heldur heilsaði hann honum með djúpri lotningu og stóð frammi fyrir honum horfandi til jarðar. Soldán tók eptir þessu og sagði því til að hughreysta hann: „Sonur minn! geturðu getið uppá, hversvegna eg hef gert boð eptir þjer?“ „Herra!“ svaraði kóngssonur, „guð einn sjer hvað í hjartanu býr, en eg vil glaður heyra skipanir yðar hátignar.“ „Þá skaltu vita,“ segir soldán, „að eg ætla að láta þig kvongast, hvernig lízt þjer á það?“ Kóngssyni líkuðu illa þessi tíðindi, og kom á hann fát, hann svitnaði um ennið og vissi ekki, hverju svara skyldi. Svaraði hann þannig eptir langa umhugsun: „Herra! fyrirgefið mjer, að mjer bregður svo mjög við þessi tíðindi; eg er enn svo ungur, að mjer hefur aldrei slíkt til hugar komið. Veit eg ekki einusinni, hvort eg nokkurntíma muni ráðast í að kvongast, ekki einungis vegna áhyggju þeirrar, sem konur valda, heldur letja mig líka orð hinna mestu skálda vorra, er bregða þeim um illsku og ótryggð. Eitt þeirra kemst þannig að orði:

Ef um fljóð fírar
Fræðast vilja,
Veitti og sönn svör,
Því eg sjálfur reyndi,

Hærist höfuð
Eða hverfi auður,
Er ást þeirra
Öll á förum.

Varast því, vinur!
Að víf þig ginni,
Ef þig guðs götu
Ganga fýsir,
Firrist þroska
Sá, er fljóðum lýtur,
Ungur sveinn,
Verður aldrei nýtur.

Nú má vera að mjer einhverntíma snúist hugur; en „þá koma tímar, þá koma ráð,“ og er nógur tíminn þangaðtil að hugsa um kvonfang.“

Soldán hryggðist mjög af þessu svari sonar síns, því hann sá, að hann var með öllu ófús að hlýðnast vilja hans. Allt fyrir það vildi hann samt ekki skoða þessa undanfærslu hans einsog óhlýðni, eða beita sínu föðurlega valdi til að kúga hann og svaraði hann honum því á þessa leið: „Eg ætla enga nauðung að gera þjer, heldur veita þjer langan umhugsunar tíma, svo þjer geti skilizt að kóngssonur sá, sem ríki á að erfa, hlýtur fyrst og fremst að sjá sjer fyrir erfingja. Eg vona fyrir víst, að þú munir ráða það úr, sem báðum okkur er æskilegast, og hlakka eg til að sjá mig endurborinn í börnum þínum.“ Soldán hreifði nú ekki frekar við máli þessu, en veitti kóngssyni allt frá sama degi sæti í ríkisráðinu og gerði allt sitt til þess, að hann yrði sem ánægðastur með kjör sín við hirðina. En að ári liðnu kallaði hann son sinn aptur á sinn fund og mælti: „Sonur minn! hefur þú hagnýtt þjer tímann vel til þess að hugleiða áform mitt, er eg gerði þjer uppskátt í fyrra? færistu enn sem fyrri undan að veita mjer þessa gleði, sem eg vænti mjer til handa af sonarlegri hlýðni þinni, ætlarðu að láta mig deya án þeirrar huggunar að sjá ætt mína margfaldast?“ Í þetta skipti var kóngssonur stilltari enn í fyrra skiptið, og svaraði hann eptir stutta umhugsun skýrt eg einarðlega: „Herra!

eg hef sannlega íhugað það vandlega, en þegar eg hafði skoðað huga minn til hlítar gerðist eg enn öruggari í áformi mínu, að kvongast aldrei. Hin endalausa ógæfa, sem konur hafa ollað á öllum öldum, einsog lesa má í sagnaritum vorum, og heyra má dags daglega, er mjer sannarlega fullkomin ástæða til að sneyða hjá allri sambúð við þær meðan eg lifi. Yðar hátign mun því fyrirgefa mjer, að eg lýsi því yfir, að það er árangurslaus fyrirhöfn að eggja mig til kvonfangs.“ Að svo mæltu gekk hann fljótt í burt og stóð ekki við til að heyra svar föður síns. Mundi hverjum öðrum konungi hafa veitt örðugt að bæla niður reiðina, þarsem slík ofdirfska var sýnd, en konungur hafði óumræðilega ást á syni sínum og vildi reyna allt með góðu áðurenn hann beitti valdi. Sagði hann stórvezír sínum samt frá skapraun þeirri, er sonur sinn hefði gert sjer: „Eg fór að ráði þínu,“ mælti hann, „en Kamaralsaman er nú ennþá fráhverfari áformi mínu, enn í fyrra skiptið, og hefur hann mælt í móti vilja mínum með svo ósvífnum orðum, að eg varð að taka á allri stillingu minni, svo að eg ekki ljeti hann gjalda rjettlátrar reiði minnar. Þeir, sem sækjast eins eptir barneign og eg sóktist eptir þessum syni mínum, eru meira enn meðalflón, því þeir svipta sig öllum friði lífs síns.“ „Herra!“ svaraði vezírinn, „með þolinmæðinni koma menn miklu til leiðar í heimi þessum. Eg fullyrði ekki, að hún sje einhlít í þessu máli, en þjer þurfið aldrei að yðrast þess, þó þjer veitið syni yðar ennþá eins árs umhugsunartíma. Efað hann á þeim tíma lætur eptir vilja yðar, þá getið þjer ekki ætlast til meiri launa fyrir föðurlegt langlundargeð; en ef hann þverskallast eins og fyrri, þá hafið þjer hina gildustu ástæðu til að segja honum í viðurvist ríkisráðsins, hversu nauðsyn beri til að hann kvongist, ríkisins vegna. Er þá ólíklegt, að hann vogi að óhlýðnast skipun yðvarri í svo lotningar verðri samkomu, sem þjer heiðrið með návist yðvarri.“ Svo annt sem soldáni var um að sonur hans kvongaðist, ljet hann þó til leiðast að hlýða hinu viturlega ráði vezírsins, og veitti hann syni sínum ennþá eins árs umhugsunartíma.

Þegar vezírinn var farinn, gekk soldán til Fatíme móður Kamaralsamans. Hafði hann fyrir löngu sagt þessari konu sinni allan vilja sinn um kvonfang hans og sagði hann henni nú hryggur

frá því, hversu hann hafði staðið ígegn vilja sínum, og hvílíkt umburðarlyndi hann hefði sýnt. Beiddi hann hana um leið að tala rækilega um fyrir syni þeirra, þegar færi gæfist, og láta hann skilja, að ef hann hjeldi áfram slíkri þverúð og þrjózku mundi þar koma loksins, að hann yðraðist beisklega eptir háttalag sitt. Fatíme hlýddi manni sínum og í fyrsta skipti, sem Kamaralsaman kom til hennar, sagði hún honum að hún hefði heyrt, hversu hann færðist undan giptingunni og væri sjer raun að því, að hann hefði veitt föður sínum slíkt sorgar og þykkjuefni. „Góða móðir!“ ansaði kóngssonur, „ef þjer elskið mig, þá minnið mig ekki á þetta hvimleiða umtalsefni. Þækti mjer illt ef eg freistaðist til að segja nokkuð það, er skerða kynni lotningu þá, sem mjer ber að sýna yður.“ Af svari þessu rjeði Fatíme, að sonur sinn mundi enn vera of viðkvæmur og ljet því þetta liggja í þagnargildi um tíma. En nokkru seinna hjelt hún, að hann mundi vera fúsari að hlýða á áminningar sínar og tók þannig til máls: „Seg mjer fyrir alla muni, elskulegi sonur! af hvaða ástæðum ertu svo tregur til að kvongast? Ef þú ekki ber annað fyrir enn vonzku og ótryggð kvenna, þá eru engar ástæður marklausari. Fer því fjærri að eg vilji verja vondar konur, sem ekki eru allfáar, en það væri hin mesta rangsleitni að dæma allar eptir hinum einstöku. Ef þú gerir svo, því snýr þú þá ekki eins huganum til hinna mörgu vondu konunga, höfðingja og soldána, sem illræmdir eru í sögunni fyrir grimmd, sællífi og harðstjórn? Þú gætir eins dæmt þitt egið kyn eptir þessum einstöku dæmum. Trúðu mjer, það eru einsmargir vondir menn til og vondar konur; eg skírskota því óhrædd til sögunnar. Eða heldur þú að skírlífar og ástúðugar konur, sem giptar eru slíkum mannhundum sjeu of sælar? Þú mátt skammast þín, sonur minn! að gera kyni móður þinnar svo rangt til.“ „Móðir mín góða!“ ansaði kóngssonur, „eg efast ekki um, að til sjeu margar hreinlífar, vænar og elskuverðar konur. Guð gæfi, að þær væru allar líkar yður! En það þykir mjer verst, að maðurinn kýs opt í óvissu, þegar hann kvongast, og opt er honum ekki gefinn kostur á að kjósa. Ef eg nú ljeti eptir ákafri ósk föður míns og rjeði það af að kvongast, hverja konu ætli hann þá gæfi mjer? Líklega einhverja kóngsdóttur frá nágr-

anna löndunum, og það ekki þá, sem fegurst væri og elskuverðust, heldur þá, sem veitti ríki voru og ætt vorri mesta hagsmuni með auðlegð og veldi. Mundi eg ekki verða spurður að, hvort mjer yrði kóngsdóttir að skapi, heldur yrði eg að taka hana einsog hún væri, og er mjer lítill hugur á því. En hugsum oss nú að hún væri fögur ásýndum, hver ábyrgist mjer þá innra mann hennar? því ekki stendur mjer á sama, hvort hún er vitur eða óvitur, hvort hún er ljúflynd eða geðvond. Ekki mun sú kona verða mjer að skapi, sem ekki getur talað um annað merkara enn klæðnað, skart og þesskonar smámuni, og því síður sú, sem er þóttafull, dramblát, dutlungasöm og þrætugjörn. Hin fyrrnefnda mundi sóa út öllu fje ríkisins með heimskulegu óhófi í klæðaburði, gimsteinum og fánýtu glingri, og hin síðarnefnda mundi gera mjer lífið þungbært, svo að eg mundi eldast fyrir tímann. Þessar ástæðar virðast mjer vera fullgildar til að sneyða hjá hjónabandi. En þó einhver kóngsdóttir væri lýtalaus að öllu leyti, þá veit eg ótalmargar merkari ástæður, sem mundu styrkja mig enn betur í áformi mínu." „Hvað áttu við, sonur minn!" ansaði Fatíme, „hefurðu fleiri ástæður? mjer þækti gaman að heyra þær. En þær, sem þú hefur sagt eru svo lítilsverðar, að eg get hrakið þær með einu orði. „Látið sjá móðir mín!" ansaði Kamaralsaman, „og hrindið þeim, sem fyrir hendi eru." „Eg þarf ekki annað enn geta þess," mælti Fatíme, „að kóngssonur sá, sem hefur gipzt svo illa, sem þú sagðir, á hægast með að losast við slíka byrði með því að reka konuna frá sjer. Með því afstýrir hann í einu tjóni sjálfs síns og ríkisins." „En er það ekki hryggilegt," svaraði kóngssonur, „að neyðast til að grípa til slíks óyndisúrræðis? mundi hann ekki lifa við betri orðstír og rósamari í huga, ef hann aldrei leggði sig í þessa hættu!" „Fyrst svona liggur í þjer, sonur!" svaraði Fatíme, „verður þú hinn síðasti konungur af ætt hinna nafnkunnu konunga á eynni Khaladan. „Kæra móðir!" mælti Kamaralsaman, „mig langar ekki til að lifa föður minn, og væri eigi svo undarlegt þó eg dæi áundan honum, því mörg börn hafa orðið skammlífari foreldrum sínum. Hvernig sem fer er það sómi fyrir konungaætt að líða undir lok með miklum konungi. Eg skal gera mitt til að eg verði enginn ættleri."

Eptir þetta átti Fatíme opt áþekkar orðadeilur við son sinn, en hann hafði jafnan nægar ástæður í móti, sem hún eigi fjekk hrakið, og ljet hann ekki af sínu máli. Leið svo árið og einhvern dag var hátíðleg ráðssamkoma, voru þar bæði stórvezírinn og aðrir vezírar, helztu embættismenn og herforingjar; segir þá soldán við son sinn: „Sonur minn! eg hef fyrir löngu síðan látið í ljósi við þig hina áköfustu ósk mína, að þú kvæntist, og hjelt eg þú mundir vera mjer eptirlátari, þarsem eg ekki fór fram á neitt ósanngjarnt. Nú er þú hefur þreytt þolinmæði mína, svo að hún er á enda, þá birti eg þjer hið sama og fyrr í viðurvist alls ríkisráðsins. Hjer er ekki einungis undir því komið, að þú fullnægir föður þínum, sem þú ekki hefðir átt að sýna mótþróa, heldur útheimtir velferð ríkisins það, og allir þessir menn óska þess ásamt mjer. Seg því vilja þinn svo að eg geti eptir því gert ráð mitt.“ Svaraði þá kóngssonur með slíkum ofstopa, að faðir hans, einsog von var, varð stórreiður útaf óvirðingu þeirri, er sonur hans sýndi honum í viðurvist ráðsins, og kallaði hátt: „Ertu svo ósvífinn ættlerinn þinn að tala slíkum orðum til föður þíns og konúngs?“ ljet hann síðan flytja hann í turn einn, sem í langan tíma hafði verið óbyggður, var hann lokaður þar inni; var honum fengið rúm, nokkrar bækur og einn þræll til þjónustu. En kóngssonur tók það ekki nærri sjer, úr því honum gafst kostur á að lesa bækur í góðu næði. Um kvöldið gerði hann bæn sína og þegar hann hafði lesið nokkra kapítula í kóraninum með sömu hugarró og hann væri í herbergjum hallarinnar, lagðist hann til hvíldar, en slökkti samt ekki lampann, er brann hjá rúmi hans.

Í turninum var brunnur og bjó í honum á daginn álfkona ein að nafni Maimúne, dóttir Damríats andakonungs. Þegar hún um miðnættið sveif upp úr brunninum til þess að fljúga um víða veröld einsog hún átti vanda til, sá hún ljósið í fangelsi Kamaralsamans og þókti henni það kynlegt. Fór hún þar inn og gaf engan gaum að þrælnum, sem svaf við dyrnar; leið hún inn að hinu skrautlega rúmi, og sá að einhver lá í því. Ábreiðan huldi andlit kóngssonar til hálfs, lypti álfkonan henni og sá unglinginn, sem var svo fríður, að hún aldrei hafði svo fagran litið á öllum ferðum sínum. Hugsaði hún með sjer: „Hversu dásamlegur mun hann vera, þegar augu

hans opnast, sem nú eru hulin hinum fagurmynduðu augnalokum? Hvernig gat hann svo tíginn maður bakað sjer svo óvirðulega meðferð? Viti það himin, að eg skal honum ekkert mein gera, og ekki þola að neinn komi honum of nærri; skal eg hjálpa honum úr vandræðum sínum.“ Hún gat ekki þreytzt á að dást að kóngssyni, en að endingu kyssti hún enni hans og báða vanga, lagði síðan ábreiðuna í samt lag yfir hann og flaug svo á burt að hann ekki vaknaði. Þegar hún var komin uppí miðlopts geiminn, varð hún vör við vængja súg, beindi flug eptir honum og sá að þar fór andinn Dahnesch, sonur Schamhurasch. Hann var einn af öndum þeim, er höfðu gert uppreisn gegn guði, en Maimúne var í tölu þeirra, sem hinn mikli Salómon hafði þröngvað til að lúta guði og var henni því gefið vald yfir Dahnesch. Mundi Dahnesch feginn hafa flúið úr vegi fyrir henni, en hann var kominn svo nálægt, að ekki var annars kostur enn annaðhvort að berjast eða gefa sig upp, og þann kost tók hann og beiddi hana að sverja sjer við guðs háleita nafn, að hún ekki skyldi gera sjer mein, kvaðst hann lofa henni því sama. Svaraði þá Maimúne í reiði: „Þinn bölfaði andi! hvað getur þú grandað mjer? eg er ekki hrædd við þig. En eg skal eigi synja þjer þeirrar miskunnar, sem þú beiðist, og henni heiti eg þjer með svardaga. En seg mjer nú, hvaðan ber þig að, hvað hefur þú aðhafzt í nótt og hvað hefur þú sjeð?“ Svaraði þá Dahnesch: „Fagra álfkona! eg skal þá segja þjer, fyrst þig fýsir að vita það, að eg kem frá endimörkum Kínlands, þarsem hinar yztu eyar þessa hnattarhelfings liggja fyrir landi. Kínland er eitthvert hið stærsta og voldugasta ríki í heimi og undir það liggja eyar þær, er eg nefndi. Ghaiur heitir sá, sem nú er konungur yfir Kínlandi og á eina dóttur barna, sem er fegri öllum konum, er verið hafa frá upphafi heimsins. Hvorki eg nje þú, engir andar af þínu kyni eða mínu og enginn mennskur maður á völ á hæfilegum orðum til að lýsa henni nokkurnveginn. Hið svarta hár hennar er svo sítt, að það tekur ofaná fætur og svo mikið, að þegar hún hefur sett það í lokka, er það áþekkt afarstórum vínþrúgum. Undir hári þessu ljómar hið fegursta enni, sljett sem hin skærasta skuggsjá; hin svörtu augu hennar tindra sem eldur, nefið er hvorki ofstutt nje oflangt; munnurinn lítill og

purpurarauður, tennur hennar eru sem tvær perluraðir skínandi hvítar. Málfæri hennar er sætt og fagurt, og orðin lýsa fjörugum anda. Brjóst hennar eru hvítari enn hið dýrmætasta alabastur. Af þessari lauslegu lýsingu máttu ráða að enginn fegri kona er til á jarðríki. Sá, sem eigi þekkir konunginn föður hennar mætti halda að hann tilbæði hana, því engin unnusti hefur gert slíkt fyrir unnustu sína, sem hann gerir fyrir hana. Hinum afbrýðisamasta manni hefur ekki dottið slíkt í hug, sem hann hefur upp hugsað af fyrirhyggju sinni til þess að gera öllum, nema hinum tilvonandi eiginmanni hennar ómögulegt að komast að henni. En svo að henni ekki leiðist í einsetu þeirri, er hann hefur fyrirbúið henni, þá hefur hann látið reisa sjö hallir handa henni, og hefur enginn sjeð eða heyrt getið um neitt, er við þær jafnist. Hin fyrsta er úr fjallakristall, önnur úr eir, þriðja úr verkuðu stáli, fjórða úr enn dýrmætara málmi enn báðar hinar síðastnefndu, fimmta úr onyx, sjötta úr silfri og hin sjöunda úr skíru gulli. Húsbúnaður hverrar hallar er óviðjafnanlega fagur, og samsvarar efni því, sem höllin er gerð af; lystigarður fylgir hverri höll og vantar þar eigi grasbekki, urtabeð, vatnsstæður, lystihvera, rennur, fossa og trjáþyrpíngar, er sólin má eigi skína ígegnum, en enginn garður er öðrum líkur, heldur sitt fyrirkomulag í hverjum. Hinir voldugustu konungar nágranna landanna heyrðu sagt af hinni óviðjafnanlegu fegurð kóngsdóttur, og gerðu því út sendiboða til að biðja hennar sjer til handa. En konungurinn faðir hennar vildi því að eins gipta hana, að hún sjálf samþykkti, en henni varð enginn ráðahagur að skapi. Fóru sendiboðarnir heim við svo búið, en voru samt ánægðir, því þeim hafði verið sýnd mikil virðing og kurteisi.

Kóngsdóttirin sagði einusinni við föður sinn: „Þú vilt gipta mig og hyggur, að það sje mjer til gleði. Eg kann þjer þakkir fyrir það, en hvar mundi eg finna svo skrautlegar hallir og svo inndæla aldingarða sem hjer hjá þjer. Þaraðauki lætur þú mig hafa fullt frelsi og er mjer samá virðing sýnd og sjálfum þjer. Slíka hagsmuni veitir ekkert land í heimi eg enginn eiginmaður, hver sem hann er. Mennirnir vilja ætíð drottna og mig fýsir lítt að hlýða öðrum.“

Meðan á þessu stóð komu enn fleiri sendiboðar og loksins frá

konungi einum, sem var auðugri og voldugri enn allir hinir fyrri; leitaðist því konungur við að leiða dóttur sinni fyrir sjónir, hversu hagnaðarsamur ráðahagur þessi væri. En hún færðist undan einsog áður og bar hinar sömu ástæður fyrir sig, og er faðir hennar lagði fast að henni að láta undan, gleymdi hún lotningu þeirri, er henni bar að auðsýna honum, og bannaði honum í reiði að tala við sig um nokkurn ráðahag, hvorki þenna nje annan, ella kvaðst hún mundu reka hníf í brjóst sjer, til þess að komast undan þrálæti hans. Svaraði þá konungur í bræði: „þú ert vitskert, barn mitt! enda skal eg fara með þig einsog vitfyrring.“ þvínæst ljet hann loka hana inni í herbergi einu í höll sinni með tíu kerlingum, sem áttu að þjóna henni og vera henni til skemmtunar; var hin elzta þeirra fóstra hennar. En til þess að nábúa konungarnir, sem höfðu sent sendiboða til hans, ekki skyldu hafa hug á henni framar, ljet hann sendimenn skila til þeirra, að hún væri frábitin öllum giptingum; áttu þeir einnig að lýsa því yfir við hverja konungs hirð, að ef nokkur læknir treysti sjer til að lækna hana, þá skyldi hann koma, og fá hana sjálfa í lækninga laun.

„Svo er nú mál með vexti, fagra Maimúne,“ mælti Dahnesch ennfremur; „læt eg engan dag hjá líða, að eg ekki fari þangað til að gleðjast við sjón þessarar óviðjafnanlegu fegurðar, og svo illgjörn sem eg er af náttúrufari, vil eg ekki fyrir nokkurn mun gera henni mein. Komdu og sjáðu hana, það er sannarlega ómaksins vert. þegar þú með egin augum ert orðinn sannfærð um, að eg sagði satt, muntu kunna mjer þökk fyrir, að eg vísaði þjer á svo óumræðilega fagra kóngsdóttur. Seg þú til! eg er boðinn og búinn til að vísa þjer leið.“ Í stað þess að svara skelldi álfkonan Maimúne uppyfir sig og hló lengi, þvínæst mælti hún: „Ætlarðu að telja mjer trú um slíkt? Eg hjelt þú mundi ætla að segja mjer eitthvað fágætt og frábært, en í þess stað talar þú um greppatrýni. Heyr á endemi! Hvað mundirðu segja, þú hin bölfaða! ef þú einsog eg hefðir sjeð hinn fagra kóngsson, sem eg elska einsog hann á skilið? Á slíku er sannarlega mikill munur og mundir þú verða trylltur af fegurð hans.“ Dahnesch spurði, hver kóngssonur þessi væri og svaraði Maimúne þá — því hún hafði þegar heyrt nokkuð um Kamaralsaman: „það hefur farið öldungis eins fyrir honum og

kóngsdótturinni, sem þú nefndir. Soldáninn, faðir hans vildi fyrir hvern mun láta hann kvongast, en þó án afláts væri nauðað á honum, setti hann þvert nei fyrir; var hann þá lokaður inni í hinum gamla turni, sem eg bý í, og þar dáðist eg áðan að fegurð hans.“ Svaraði þá Dahnesch, að hann ekki beinlínis þyrði að mótmæla þessu, en þangaðtil hann sæi kóngsson, mundi hann halda fast við þá trú sína, að enginn dauðlegur maður nje dauðleg kona gæti jafnast við kóngsdótturina um fríðleik. Um þetta þrættu þau stundarkorn, þangaðtil Maimúne skipaði Dahnesch að sækja kóngsdóttur og leggja hana niður hjá kóngssyni svo að þau gætu borið þau saman og skorið úr, hvert á rjettara máli hefði að standa. Dahnesch ætlaði því fyrst til Kínlands en Maimúne aptraði honum, og varð hann fyrst að fylgja henni til turnsins, sem kóngssonur var í, svo að hann vissi, hvert hann ætti að fara með kóngsdótturina Að svo búnu ljet hún hann fara.

Dahnesch sókti kóngsdótturina á augabragði og kom með hana sofandi; hafði hann hitt hana í nátthjúp einum úr egypzku ljerepti, sem var prýddur gullnum snúrum og gullkögri, bæði um höfuðsmáttina, saumana og bryddingarnar. Maimúne tók við henni og fór með hana í herbergi Kamaralsamans og lögðu þau hana í rúmið hjá honum. Andinn og álfkonan stóðu stundarkorn þegjandi, dáðust að kóngssyni og kóngsdóttur, þarsem þau lágu sofandi, og báru þau saman. En er Dahnesch tók til orða og sagði, að kóngsdóttirin væri fríðari enn kóngssonurinn, hófst með þeim áköf orðakeppni; vildi Maimúne ráða henni til lykta og kvaðst því skjóta deilu þessari undir úrskurð gjörðarmanns, en ef andinn vildi eigi á það fallast, þá mundi hún skoða það, einsog hann færi ofan af sínu máli. Dahnesch tók kosti þessum, og stampaði álfkonan á gólfið; laukst það undireins sundur og reis upp úr því ógurlegur andi; hann var krypplingur, eineygður og haltur; sex horn stóðu upp úr höfði hans en fætur hans og hendur voru krepptar. En er hann var allur upp kominn og gólfið hafði lokizt saman aptur, fleygði hann sjer fram fyrir fætur Maimúnes og spurði hana, liggjandi á knjánum, hvað hún vildi sjer, auðmjúkum þjóni hennar. Svaraði hún þá: „Stattu upp Kaschkasch!*) eg hef kvatt þig hingað, til

*) Nafn andans.

þess að þú dæmdir í þrætu einni, er eg á í við þenna bölfaða anda Dahnesch. Líttu nú á hvílu þessa og seg hlutdrægnislaust, hvert þjer þykir fríðara, yngissveinninn eða yngismærin?"

Kaschkasch virti kóngsson og kóngsdóttur fyrir sjer, og var auðsjeð, að honum fannst mikið um, en er hann hafði horft á þau um hríð og verið á báðum áttum, segir hann við Maimúne: „Lafði mín! eg mundi svíkja bæði sjálfan mig og yður, segði eg annað fegurra enn annað. Þau eru gagnlík hvert öðru að fegurð, yndis þokka og snoturleik, og á hverugu er hið minnzta lýti, sem geri það ófegurra enn hitt." En til þess að gera út um þrætuna, sting eg uppá því, að annað þeirra sje vakið, og verði þá svo álitið, að hvert þeirra, sem meiri elsku eða tilfinningu lýsir, sje ekki eins fagurt og hitt." Álfkonunni og andanum leizt þetta óskaráð; Maimúne brá sjer að vörmu spori í flóarlíki, stökk á háls kóngssonar og beit hann svo tilfinnanlega, að hann vaknaði og þreifaði hendinni þangað er honum sveið. En engu náði hann, því Maimúne þaut undireins burt og brást í hina fyrri mynd sína, — ósýnileg einsog báðir andarnir, — til þess að sjá hvað Kamaralsaman tæki sjer fyrir hendur.

Í því kóngssonur brá niður hendinni, snerti hann hönd kóngsdótturinnar frá Kínalandi, lukust þá upp augu hans og undraðist hann mjög, er hann sá svo frábærlega fríða konu hjá sjer. Hann reis upp til hálfs og studdist fram á olbogann til þess að virða hana fyrir sjer. Hinn unglegi meyablómi og hin óviðjafnanlega fegurð kóngsdótturinnar kveiktu samstundis þann eld í hjarta hans, sem hann aldrei fyrr hafði reynt, en ætíð haft óbeit á og varazt. Elskan gagntók hjarta hans með ákefð og gat hann ekki að sjer gert að kalla hátt: „Hvílík fegurð! hvílíkir töfrar! hjarta mitt! sál mín! Og kyssti hann hana þá svo ógætilega á enni, munn og vanga, að hún mundi hafa vaknað, hefði Dahnesch ekki sjeð svo um með töfrum, að hún svaf fastar enn hún átti að sjer. Hvernig er þessu varið, fagra jungfrú!" mælti kóngsson ennfremur, „vaknið þjer ekki við ástaratlot Kamaralsamans kóngssonar? hverjar sem þjer eruð, er hann yður samboðinn." Ætlaði hann þá að vekja hana, en sleppti því, því honum datt allt í einu í hug: „Skyldi þetta vera sú, sem faðir minn ætlaðist til, að yrði eiginkona min?

það var rangt gert af honum, að láta mig ekki sjá hana fyrr, því þá mundi eg eigi hafa móðgað hann með óhlýðni minni og opinberum mótþróa, og mundi hann hafa komizt hjá skapraun þeirri, sem eg gerði honum.“ Yðraðist kóngssonur ávirðinga sinna og ætlaði nú í annað sinn að vekja kóngsdóttur, en hætti við, því honum kom þetta til hugar: „Hver veit nema faðir minn ætli að láta þetta koma flatt uppá mig. Hann hefur vafalaust sett öll þessi ráð, til þess að freista mín, hvort eg í raun og veru hafi svo mikla andstyggð á hjónabandinu, sem eg hef látið hann skilja á mjer. Hann hefur ef til vill sjálfur flutt hana hingað og falið sig hjer einhversstaðar nálægt og ætlar að gefa sig fram, til þess að láta mig verða mjer til skammar fyrir uppgerð mína. Slík yfirsjón væri enn verri enn hin fyrri. En hvernig sem þessu er varið, ætla eg að láta mjer nægja hring þenna, svo eg hafi hann til minningar um hana.“ Tók hann þá fagran hring af hendi kóngsdóttur og smeygði hring sjálfs síns uppá fingur hennar í staðinn, þvínæst snjeri hann bakinu að henni og sofnaði hinum fastasta svefni; ollu því töfrar andanna.

Nú breytti Dahnesch sjer í fló og beit kóngsdóttur fyrir neðan vörina, svo að hún hrökk upp; hún reis upp og lauk upp augunum, brá henni mjög við, er hún sá karlmann hvíla hjá sjer. En þessi felmtur snjerist í undrun og undrunin í óstjórnlegan fögnuð, er hún sá, að þetta var svo fagurt og elskulegt ungmenni. „Skyldi þetta vera sá, sem faðir minn ætlaði að gipta mig?“ mælti hún, „hversu ófarsæl er eg, að eg ekki vissi það! eg skyldi þá ekki hafa reitt hann til reiði, og svipt sjálfa mig þeim manni, er eg hlýt að unna af öllu hjarta. Vaknið! vaknið! brúðgumanum ber ekki að sofa svo lengi fyrstu nóttina.“ Að svo mæltu tók kóngsdóttir svo fast í handlegg rekkjunautar síns, að hann mundi vafalaust hafa vaknað, hefði honum ekki verið stunginn svefnþorn. Kom því fyrir ekki, þó hún gerði hverja atreiðina eptir aðra að vekja hann og mælti hún því forviða: „Hvað hefur hann hent? skyldi hann eiga sjer sambiðil, er sjer ofsjónum yfir sælu hans og minni og hefur drepið honum í þenna dauða dvala með töfrum? því nær skyldi hann heldur vaka enn nú?“ Tók hún þá hönd hans, kyssti hana blíðlega og sá hringinn, þókti henni hann

svo líkur sínum, að hún gekk úr skugga um, að það væri hann, því hún sá annan hring á fingri sjálfrar sín, og gat ekki skilið í, hvernig á hringaskiptum þessum stæði. Efaði hún því ekki, að þetta væri ljós vottur þess, að þau ættu að eigast; var hún nú þreytt, er hún svo lengi árangurslaust hafði reynt til að vekja kóngsson, en með því hún var sannfærð um, að hann ekki mundi strjúka frá sjer, kyssti hún hann á vangann og mælti: „Fyrst mjer ekki einusinni tekst að vekja yður, þá skal eg ekki lengur glepja yður svefn. Lifið heilir þangaðtil við sjáumst næst!“ Þvínæst lagðist hún aptur fyrir og sofnaði undireins.

Þegar Maimúne sá, að kóngsdóttirin var sofnuð svo fast, að hún ekki mundi vakna við mál hennar, segir hún: „Bölfaði Dahnesch! ertu nú sannfærður um að kóngsdóttirin þín sje gædd minni fegurð enn kóngssonurinn minn?“ Þvínæst vjek hún sjer að Kaschkasch og mælti: „En þjer þakka eg; nú skuluð þið Dahnesch flytja kóngsdótturina aptur í rúm sitt.“ Þeir Kaschkasch og Dahnesch gerðu sem fyrir þá var lagt, en álfkonan hvarf aptur ofaní brunninn.

Þegar Kamaralsaman vaknaði morguninn eptir og sá hvergi konu þá, er hann hafði sjeð hvíla hjá sjer um nóttina, segir hann við sjálfann sig: „Mig grunaði það alltjend, að faðir minn ætlaði að leika á mig með þessu og þykir mjer vænt um, að eg ekki ljet taka mig í þeirri gildru.“ Kallaði hann undireins á þrælinn, sem ennþá svaf, til þess að hjálpa sjer í fötin, en ekki nefndi hann þetta á nafn við hann. Þrællinn færði honum þvottarvatn, reis hann þá úr rekkju og gerði bæn sína, tók síðan bók og las um stund. Kallaði hann þá aptur á þrælinn og sagði: „Komdu hingað, en ljúgðu ekki að mjer. Hvernig komst konan hingað inn, sem svaf hjá mjer í nótt og hver kom með hana hingað?“ Þrællinn varð hissa og spurði kóngsson, hverja konu hann ætti við; svaraði hann, að það væri sú, sem hefði komið til sín um nóttina og samrekkt sjer, hvort sem hún hefði komið sjálfkrafa eða aðrir hefðu komið með hana. „Eg sver yður,“ mælti þrællinn, „að eg veit ekkert af því, og hvernig ætti nokkur að komast inn, þarsem eg ligg við dyrnar.“ „Þú lýgur þorparinn þinn!“ svaraði kóngssonur, „og ert í vitorði með þeim til þess að æra mig enn meira og espa

mig til heiptar.“ Rak hann þrælnum þá kinnhest svo að hann datt til jarðar, og tróð hann lengi undir fótum sjer, síðan brá hann brunnfestinni undir hendur honum, ljet hann síga ofaní brunninn og kaffærði hann nokkrum sinnum; „eg drekki þjer,“ kallaði hann til hans, „nema þú þegar í stað segir mjer, hver konan var og hver kom með hana.“ Þrællinn, sem var dauðhræddur, gat ekki öðru trúað enn að kóngssonur væri orðinn vitskertur, og reyndi að forða lífi sínu með ósannindum. Beiddi hann kóngsson því að gefa sjer líf og lofaði að segja honum sannleikann. Dró kóngssonur hann þá upp aptur og gekk á hann, en þrællinn sagði skjálfandi, að sjer væri ómögulegt að verða við ósk hans, meðan hann væri þannig til reika og beiddi hann því að leyfa sjer að hafa fataskipti. Leyfði kóngssonur honum það, en skipaði honum að flýta sjer; fór þrællinn þá út, lokaði kóngsson inni og hljóp til hallarinnar einsog hann stóð.

Það hittist þá svo á, að konungur var að kvarta yfir því við stórvezír sinn, hversu illa nótt hann hefði átt vegna óhlýðni og þvermóðsku sonar síns; leitaðist vezírinn við að hughreysta hann. „Yðar hátign,“ mælti hann, „þarf ekki að sjá eptir því, að þjer hafið sett son yðar í varðhald; þegar hann er búinn að vera þar nokkra stund, mun renna af honum æskumóðurinn og mun hann þá gefa sig undir vilja yðvarn.“ Sagði þrællinn þá greinilega, hvað Kamaralsaman hefði talað og hversu hann hefði farið með sig. Konungurinn, sem sízt átti von á þessari harmafregn segir þá við vezírinn: „Slíkt er mikill harmur og er fregn þessi furðu ólík því, sem þú rjett í þessu varst að telja mjer trú um. Far nú undireins og grennzlast eptir, hvernig á þessu stendur og ger mjer síðan grein fyrir því.“ Fór stórvezírinn þá undireins til kóngssonar og kom að honum lesandi í bók; heilsaði hann honum, settist hjá honum og mælti: „Bölfaður sje þrællinn yðar, því hann hefur borið konunginum, föður yðar slíka fregn, að hann er orðinn dauðhræddur.“ „Hvaða fregn er það?“ svaraði kóngssonur, „eg hef miklu fremur ástæðu til að bera mig upp undan þrælnum.“ „Guð láti það aldrei rætast, sem hann sagði um yður,“ mælti stórvezírinn, „sje eg nú að engin hæfa er í því, því yður líður vel, og láti guð svo vera framvegis.“ „Hann hefur ef til vill ekki getað gert sig skilj-

anlegan,“ mælti kóngssonur, „en fyrst þjer eruð kominn hingað, þykir mjer vænt um, að eg get spurt mann, sem eitthvað mun af vita, hver konan var, sem samrekkti mjer í nótt eð var.“ Stórvezírinn vissi ekki, hvort hann hefði tekið rjett eptir og svaraði: „Kóngssonur! undrist ekki þó mjer þyki þessi spurning kynleg. Hvernig getur það átt sjer stað, að nokkur, hvort heldur karl eða kona, komist hjer inn á náttarþeli, því enginn kemst inn annarstaðar enn um dyrnar og hlýtur hann að stíga fæti á kvið þrælsins yðar. Hugsið nú betur eptir þessu, og munuð þjer sjá, að það er ekki annað enn draumur, sem hefur orðið yður svo minnistæður.“ „Eg hirði ekki um hvað þjer segið,“ mælti kóngssonur með ákefð, „eg vil fyrir hvern mun vita, hvað orðið er af konunni, og þjer eruð nú á þeim stað, að þjer skuluð hlýða mjer með illu, ef þjer ekki viljið með góðu.“ þegar stórvezírinn sá, að hann var svo einbeittur, datt honum allur ketill í eld og hugsað inú ekki um annað enn að komast burt með góðu móti. Fór hann að kóngssyni með hógværð og spurði með auðmjúkustu og kurteisustu orðum, hvort kóngssonur hefði sjeð konu þessa með sínum egin augum. „Víst sá eg hana,“ svaraði kóngssonur, „og skildi eg undireins, að hún var send til að freista mín. Hún leysti ætlunarverk sitt prýðilega af hendi, hún talaði ekki orð, ljet sem hún svæfi fasta svefni og hafði sig á burt, þegar eg var sofnaður í annað sinn. þjer vitið vafalaust af þessu og mun hún þegar hafa sagt yður hvernig fór.“ Tjáði ekkert að stórvezírinn margsór honum, að hvorki sjer nje konungi hefði nokkru sinni komið til hugar, að senda konuna; brást hann reiður við og mælti: „þjer hafið ekki komið hingað til annars, enn að gera gabb að mjer.“ þreif hann í skegg vezírsins og lamdi hann þangaðtil hann varð uppgefinn; þoldi vezírinn ofstopa kóngssonar með stillingu og hugsaði með sjer: það fer eins fyrir mjer og þrælnum og má eg hrósa happi, takist mjer einsog honum, að sleppa úr slíkum háska. Meðan kóngssonur ljet hvert höggið á fætur öðru dynja á honum, kallaði hann: „Veitið mjer aðeins augnabliks áheyrn!“ hætti Kamaralsaman þá, því hann var lúinn af barsmíðinni. „Eg játa,“ mælti stórvezírinn, „að nokkuð er hæft í tilgátu yðvarri, en þjer vitið, að ráðgjafanum er nauðugur einn kostur, að gera skipanir konungs síns og

herra. Ef þjer viljið af náð yðvarri leyfa mjer það, skal eg fara til hans og skila til hans því, sem þjer leggið fyrir mig". „Gott og vel!" ansaði kóngssonur, „farið og segið honum, að eg vilji eiga konuna, sem svaf hjá mjer í nótt eð var, hvort sem hann hefir sent mjer hana, eða sjálfur komið með hana. Flýtið yður nú og segið mjer, hverju hann svarar. Stórvezírinn hneigði sig djúpt fyrir honum og þókti sjer ekki vera borgið fyrr enn hann var kominn út úr turninum og hafði lokað á eptir sjer dyrunum. Fór hann þvínæst áhyggjufullur til Schachsamans konungs og sagði honum, að saga þrælsins hefði verið helzt til sönn, sagði hann honum öll orð kóngssonar, hvernig hann hefði farið með sig, og hverra ráða hann hefði neytt til að sleppa frá honum. Konungurinn hrygðist enn meira við þetta, vildi hann nú sjálfur komast eptir, hvernig á öllu stæði, og gekk með stórvezírnum í turninn til sonar síns.

Kóngssonur tók með lotningu við föður sínum. Þegar hann var seztur niður ljet hann son sinn setjast hjá sjer, og spurði hann að ýmsu, en hann svaraði öllu skynsamlega. Renndi þá konungur öðruhverju auga til stórvezírsins, einsog hann vildi segja, að hann sæji engin merki þess, að hann væri orðinn brjálaður eða óður einsog vezírinn hafði sagt. Loksins minntist konungur á konuna og mælti: „Sonur minn! eg ætla að biðja þig að segja mjer, hvaða kona það er, sem orð leikur á að hafi hvílt hjá þjer í nótt eð var"? Þá svaraði kóngssonur: „Herra! eg bið yðar hátign að bæta ekki meiru á skapraun þá, er eg hef haft af þessu. Auðsýnið mjer heldur þá náð að gipta mjer konu þessa. Því svo mikla ardstyggð, sem eg hingaðtil hef haft á konum, þá hefir fegurð yngismeyjar þessarar töfrað mig svo, að eg hika mjer ekki við að játa breiskleika minn, og er eg reiðubúinn að þiggja hana af yðar hendi með einlægri þakklátsemi". Konungur varð hlessa á svari þessu og þókti það því kynlegra, sem hann allt til þessa hafði talað skynsamlega. „Orð þín fá mjer svo mikillar undrunar", mælti hann, „að eg veit hvorki upp nje niður. Eg sver það við kórónu þá, sem þú munt einhverntíma taka við eptir mig, — eg veit ekkert um konu þessa. Hafi hún komið hingað, þá á eg engan hlut í því, en hvernig ætti nokkur að komast inn í turn þenna án míns leyfis? Því það sem stórvezír minn kann að hafa

sagt þjer, sagði hann ekki til annars enn að sefa æði þitt. það hefir allt saman ekki verið annað enn draumur; eg bið þig því hugleiða þetta vel“. Svaraði þá kóngssonur: „Rengdi eg orð yðar hátignar, væri eg ómaklegur mildi yðvarrar, en eg bið yður veita mjer áheyrn og dæma síðan um, hvort það er draumur, sem eg segi frá“. Sagði hann honum þá allt, hvernig farið hafði, lýsti fegurð hinnar ókunnu meyjar, og elsku þeirri, er allt í einu hafði kviknað í hjarta hans, og sýndi hringinn, sem hann hafði tekið í skiptum fyrir sinn. Stóð þá Schachsaman nokkra stund orðlaus af undrun, og sagði sonur hans þá, að ást sín á meynni væri orðin svo rík, að hann rjeði sjer ekki og beiddi því konunginn að sjá auman á sjer og hlutast svo til, að hann fengi hana til eiginkonu. Svaraði þá konungurinn: „Sonur minn! þegar eg hef heyrt þetta og sjeð hring þenna, get eg ekki efast um, að þú í raun og veru elskir og að þú með eigin augum hafir sjeð þá konu, sem þú elskar. Guð gæfi eg þekkti hana, eg skyldi þá gera vilja þinn þegar í dag og mundi eg þá vera hinn sælasti faðir í allri veröld. En hvar skal hennar leita? hvernig gat hún komist hingað án míns vilja og vitundar? hversvegna kom hún einungis til þess að sofa hjá þjer, sýna þjer fegurð sína, upptendra elsku þína sofandi og hverfa svo burt meðan þú svafst? eg skil ekkert í æfintýri þessu. sonur minn! og ef guð eigi miskunar oss, mun það draga báðum okkur til dauða“. Að svo mæltu tók hann í hönd sonar síns og sagði: „Komdu! við skulum báðir bera harma okkar sameginlega. því þú ert vonlaus um að fá unnustu þína, en eg örvænti að geta orðið þjer að liði“. Að svo mæltu fór hann með son sinn inn í höllina, lagðist kóngssonur þar fyrir í rúm, örvæntingarfullur útaf því, að hann þekkti ekki þá, er hann elskaði. Læsti konungur sig inni hjá honum nokkra daga, grjet með honum og sinnti engum stjórnarstörfum. Stórvezírnum einum var leyft að koma til hans: hann leiddi nú konungi loksins fyrir sjónir, hversu illur kur væri kominn í fólkið útaf því, að hann ekki eptir vanda gekk til dóma á degi hverjum; kvaðst hann nú eigi geta að gert þó óregla og óspektir hlytust af. Beiddi hann konung innilega að hugleiða þetta. og láta ekki allt kollsteypast, þó syni hans væri huggun að hafa hann hjá sjer. „Leyfi mjer yðar hátign“, mælti hann ennfremur

„að stinga upp á því, að þjer flytjið með syni yðar í höll yðar á eynni, sem liggur nálægt höfninni, og veitið mönnum þá áheyrn að minnsta kosti tvisvar í viku. Meðan þjer þeirra erinda vegna yfirgefið son yðar, mun hann hressast, því eyjan er inndælislega fögur, og er þar hin fegursta útsjón, en loptið hreint og heilnæmt“.

Konungur fjellst á ráð þetta og var höllinni komið í lag, hafði hann um langan tíma aldrei komið í hana; fór hann þangað með syni sínum og yfirgaf hann aldrei nema þegar hann fór burt til að veita mönnum áheyrn. Allan hinn tímann sat hann hjá rúmi hans og leitaðist ýmist við að hugga hann eða grjet með honum.

Nú skal víkja sögunni þangað, er andarnir Dahnesch og Kaschkasch fluttu kóngsdótturina frá Kínlandi til hallarinnar, sem faðir hennar hafði lokað hana inní, og lögðu þeir hana í rúm sitt. Þegar þeir luku verki þessu lifði aðeins þriðjungur nætur. En er hún loksins vaknaði í dögun, reis hún upp, leit á báðar hliðar sjer og sá hvergi Kamaralsaman kóngsson, kallaði hún þá svo hátt á þjónustukonur sínar, að þær æddu inn til hennar og þyrptust kringum hvílu hennar. Fóstra hennar stóð við höfðalagið og spurði, hvað hún vildi gera láta, og hvort henni hefði viljað nokkuð til. „Segðu mjer“, ansaði kóngsdóttir, „hvað er orðið af unglingnum elskulega, sem svaf hjá mjer í nótt? Svaraði þá fóstran: „Kóngsdóttir! við skiljum ekki, hvað þjer eigið við, nema þjer talið ljósara“. „Hinn elskuverðasti og fríðasti yngismaður“, mælti kóngsdóttir, „sem hugsast getur, svaf hjá mjer í nótt. Eg reyndi lengi til að vekja hann með ástaratlotum mínum, en mjer tókst það ekki. Hvað er orðið af honum“? „Þjer ætlið að henda gaman að okkur“, svaraði fóstran, „þóknast yður nú að rísa á fætur“? „Eg tala allt í alvöru“, segir kóngsdóttir, „og vil eg vita, hvað orðið er af hinum unga manni“. En er fóstran stóð fast á því, að enginn maður hefði farið þangað inn og sofið þar, svo hún eða hinar konurnar vissu af, varð kóngsdóttir reið, þreif í höfuð fóstru sinni, rak henni löðrunga og hnefahögg og kallaði hátt: „Segðu mjer gamla galdra kerling! það sem eg vil vita, eða eg drep þig.“ Fóstran slapp með naumindum úr höndum hennar og flýtti sjer grátandi með uppþrútnað andlit til drottningar, móður kóngsdótturinnar. Hún spurði hana undireins, hver svo hefði leikið hana. Sagði

fóstran drottningu undireins, hvernig dóttir hennar hefði farið með sig; varð drottning hrædd og kvíðafull útaf þessu. „þjer sjáið,“ mælti fóstran, „að dóttir yðar er gengin frá vitinu og getið þjer sannfærzt um það, ef þjer viljið sjálfar fara til hennar“. Drottningin unni dóttur sinni af alhuga, og fór til hennar þegar í stað með fóstrunni.

þegar drottning kom til dóttur sinnar, settist hún hjá henni, spurði, hvernig henni liði, hvað henni mislíkaði við fóstru sína, og hversvegna hún hefði farið svo illa með hana. „það var ekki vel gert, dóttir mín“! mælti hún, „og svo tíginni konu, sem þú ert, ber eigi að hlaupa svo á sig“. „Heiðraða móðir!“ svaraði kóngsdóttir, „eg sje að yðar hátign ætlar að hafa gaman af mjer, en eg lýsi því nú yfir, að eg skal ekki hætta fyrr enn eg fæ unglinginn elskulega, sem svaf hjá mjer í nótt eð var. þjer hljótið að vita, hvar hann er og eg bið yður að láta hann koma aptur.“ „Dóttir mín!“ ansaði kóngsdóttir, „þú gerir mig forviða og eg skil ekkert í því, sem þú segir“ þá missti kóngsdóttir sjónar á lotningu þeirri, er henni var skylt að sýna og mælti: „þjer og konungurinn faðir minn ætluðuð að þröngva mjer til að giptast, þegar eg ekki vildi. En nú er eg fús til þess og vil fyrir hvern mun eiga hinn unga mann, sem eg nefndi, að öðrum kosti drep eg mig“.

Drottning ætlaði nú með blíðum fortölum að sannfæra dóttur sína um, að enginn maður hefði getað komizt inn í herbergi hennar, en hún greip frammí með slíkum ofsa, að drottning fór burt með þungu skapi, og hlaut hún nú að segja konunginum, hvernig komið var. Vildi hann sjálfur komast að raun um þetta, fór til dóttur sinnar og átaldi hana, vildi hún alls ekki segja frá neinu, heldur beiddist hún aðeins, að sjer yrði skilað aptur eiginmanni sínum, sem hefði sofið hjá henni um nóttina. Var hún svo óðamála að konungur komst eigi að. „Vita skal yðar hátign“, mælti hún, „að hann var fegurstur allra unglinga undir sólinni; eg krefst hans aptur, — eg bið yður að synja mjer ekki bænar minnar. En svo að þjer gangið úr skugga um, að eg hef sjeð hann, sýnt honum blíðlæti og reynt að vekja hann af svefni, þó fyrir ekki kæmi, þá lítið á hring þenna“. Rjetti hún þá að konungi höndina, sem hringur kóngssonar var á og sýndi honum, sá konungur að það var karl-

manns hringur og þókti þetta furðu gegna. En með því hann skildi ekkert í sögu hennar þá styrktist hann nú því heldur í trúnni, að hún væri vitskert. Ljet hann því undireins leggja fjötra á hana og setja hana í varðhald, svo að hún yrði hvorki honum nje öðrum til skaðræðis. Skyldi hún engan hafa til þjónustu, nema fóstru sína og voru öflugir verðir settir fyrir dyr herbergis hennar. Konungur var óhuggandi útaf óláni því, er hann hugði dóttur sína hafa ratað í, og þókti eigi ráð nema í tíma væri tekið, stefndi hann því saman ráðgjöfum sínum og lýsti því yfir, að hver þeirra, sem gæti gert hana alheila meina sinna, skyldi fá eiginorð hennar og erfa ríki hans. —

Emír nokkur gamall og fjölkunnugur tældist af þessari glæsilegu von, og bauð konungi þjónustu sína til þessa, því hann treysti töfrum sínum. Þáði konungur boð hans, en mælti um leið: „Eg læt þig vita fyrifram, að ef þú kemur engu áleiðis þá verður það bani þinn; er það og sanngjarnt, að þú eigir nokkuð á hættu, þarsem til svo mikils er að vinna. Nær þessi skildagi til allra, sem seinna meir kunna að bjóða sig fram, ef að þú hafnar skilyrði þessu eða vinnur fyrir gýg.“ — En emírinn tók þessum kosti og fór konungur nú sjálfur með hann til dóttur sinnar. Undireins og hún sá emírinn sveipti hún blæjunni fyrir andlit sjer og mælti: „Herra! þjer gerið mjer bilt við, þarsem þjer komið með ókunnugan karlmann, sem eg eigi má láta sjá andlit mitt eptir boðorðum trúar minnar“. Þá mælti konungur: „Ekki skaltu hneyxlast á komu hans, því hann er einn af emírum mínum og biður þín til eiginkonu“. „Herra“! svaraði kóngsdóttir, „það er annar enn sá, sem þjer áður hafið gipt mig og ekki sá, sem fjekk mjer hringinn, er eg geng með; fyrirgefið mjer, að eg tek engum manni öðrum“. Þegar emírinn heyrði, að henni fórust svo skynsamlega orð, sá hann að vitfirring hennar var ekki annað enn áköf elska. En ekki þorði hann að gera konungi það uppskátt, því hann mundi eigi hafa þolað, að dóttir hans hneigði ástir sínar til annars enn þess, sem hann leiddi til hennar. Fleygði emírinn sjer þá fram fyrir fætur hans og mælti: „Herra! eptir því sem eg hefi orðið áskynja, munu allar lækninga tilraunir við dóttur yðar verða árangurslausar, því eg veit ekkert ráð, er dugi við meini hennar og er nú líf mitt á valdi yðar hátignar“.

Varð þá konungur svo reiður útaf ódugnaði emírsins, að hann ljet hálshöggva hann.

Nokkrum dögum síðar ljet hann gera heyrimkunnigt í hinum helztu borgum ríkis síns og í konungasetrum þeim, er næst voru, að ef nokkur læknir, stjörnuvitringur eða töframaður treysti sjer til að gera kóngsdóttur heilvita aptur, skyldi hann koma, en lífláti skyldi varða, ef lækningin mistækist. Stjörnuspámaður nokkur fjölkunnigur varð fyrstur til að leggja sig í hættu þessa og ljet konungur einn af geldingunum fylgja honum til dóttur sinnar. Tók þá stjörnuspámaðurinn uppúr poka, er hann bar undir hendinni, hæðarmæli, lítinn himinhnött, glóðarker, allskonar reykelsi og eirker ásamt ýmsu öðru og heimtaði eld. Spurði kóngsdóttir hann, til hvers hann hefði allan þenna viðbúnað, en hann svaraði, að hann ætlaði að særa hinn illa anda sem í henni byggji, byrgja hann í eirkerinu og sökkva honum í sjávardjúp. Þá ávítaði kóngsdóttir hann og sagði að honum væri nær að færa sjer unnusta sinn enn byrja á slíkum hjegóma, ef hann annars væri svo máttugur. „Ef svo er“, ansaði stjörnuspámaðurinn, „þá verðið þjer að vænta hans af hendi föður yðvars, en ekki af mjer“. Þvínæst ljet hann dót sitt niður og var hnugginn útaf því, að hann svo ófyrirsynju hafði ráðizt í að lækna sjúkdóm, sem var einber hugarburður. En er hann var leiddur fyrir konung, ljet hann ekki geldinginn komast að, heldur tók hann sjálfur undireins til orða og mælti: „Eptir auglýsingu yðar hátignar hjelt eg að dóttir yðar væri vitskert og hefði svo verið, mundi eg hafa læknað hana með kunnáttu minni. En hún er aðeins ástfangin og megnar íþrótt mín þar einskis, en yðar hátign gæti öllum fremur gert við meini þessu, ef þjer giptuð hana manni þeim, sem henni leikur hugur á“. Konungi þókti stjörnuspámaður tala þetta af ósvífni og ljet hálshöggva hann í bræði. Sömu afdrif höfðu hundrað og fimmtíu læknar, stjörnuspámenn og töframenn, er buðu lækningar sínar og voru höfuð þeirra reist uppá stjaka fyrir utan borgarhliðin.

Fóstra kóngsdóttur átti son, er Marsawan hjet og var hann brjóstbróðir kóngsdóttur, því móðir hans hafði alið þau bæði saman á brjóstum sjer og uppfætt þau. Meðan börn þessi voru saman höfðu þau fengið elsku hvert til annars einsog systkyn, og svo var

þeim hverju til annars, eptir að skildi með þeim sökum aldurs. Hafði Marsawan allt frá æsku lagt stund á stjörnuspár og jarðspár og önnur dularfull vísindi og var hann vel að sjer í þeim. Ljet hann sjer ekki nægja það, er hann hafði numið af kennurum sínum, heldur tókst hann ferðir á hendur til að auka þekkingu sína. Hvern mann, sem frægur var af einhverri list eða vísindagrein, hafði hann leitað upp í hinum fjærlægustu borgum, og dvalið hjá honum, þangaðtil hann var búinn að nema allt það, er honum líkaði. En er hann hafði verið nokkur ár í burtu, snjeri hann heim aptur til höfuðborgar Kínlands og undraðist mjög, er hann sá höfuðin uppreist fyriframan borgarhliðin. Óðara enn hann var kominn heim til sín spurði hann, hvernig á þessu stæði, en ítarlegast spurði hann eptir kóngsdótturinni, því fjærri fór því, að hún væri honum úr minni liðin. En eigi var hægt að leysa úr fyrri spurningunni, svo að ekki yrði leyst úr hinni seinni um leið, og hrygðist hann mjög er hann varð þess vísari, sem hann spurði um, beið hann nú þess, að móðir sín, fóstra kóngsdótturinnar segði sjer gerr, hvernig á öllu stæði.

Undireins og fóstra kóngsdóttur spurði heimkomu sonar síns, gaf hún sjer tómstund, en þótt hún væri önnum kafin, til að finna hann, faðma hann að sjer og tala við hann stundarkorn. Sagði hún honum grátandi frá hinu hörmulega ástandi kóngsdóttur, og ástæðum þeim, er knúð höfðu konunginn til að fara þannig með hana; spurði Marsawan þá hvort hún gæti ekki sjeð svo um, að hann fengi talað við kóngsdóttur í góðu tómi svo að konungur ekki vissi af. Hún hugsaði sig um og kvaðst engu mega lofa í þann svipinn, en næsta morgun skyldi hún segja honum það. Nú var engum heimilt að koma á fund kóngsdóttur svo að geldingurinn ekki leyfði, nema fóstru hennar, var hann yfirmaður dyravarðanna, en hafði nýtekið við embættinu og vissi því ekkert um það, sem gerzt hafði þar við hirð konungsins. Fóstran fór því til hans og mælti: „Þjer munuð vita, að eg hef alið kóngsdóttur á brjóstum mínum og uppfætt, hitt mun yður ókunnugt, að eg ásamt henni hafði dóttur mína á brjósti, sem eg fyrir skemmstu hef gipt. Kóngsdóttir hefur sömu ást á henni og fyrri og þækti henni gaman að finna hana, en hún vill það því aðeins, að enginn sjái þegar dóttir mín kemur eða fer“. Fóstran ætlaði að segja

meira, en geldingurinn greip frammí og mælti: „Gott og vel! eg er fús að gera hvað sem vera skal kóngsdótturinni til vilja. Dóttir yðar má koma, eða þjer sækið hana sjálfar þegar skuggsýnt er orðið og konungur farinn burt; eg skal láta dyrnar standa opnar". Þegar nótt var komin fór fóstran til sonar síns og færði hann svo laglega í kvennmannsbúning, að engum mundi til hugar koma, að þar væri karlmaður. Fór hún þvínæst á stað með hann, en geldingurinn var með öllu grunlaus og hleypti þeim báðum inn. Sagði fóstran kóngsdóttur, að hún væri þar komin með Marsawan son sinn í dularklæðum og væri hann nýkominn heim úr ferðum sínum; kvaðst hún vona að kóngsdóttir synjaði honum eigi þeirrar sæmdar, að sýna henni lotning. Þegar kóngsdóttirin heyrði Marsawan nefndan, varð hún frá sjer numin af fögnuði og mælti: „Færðu þig nær, bróðir minn! og taktu af þjer blæjuna, því systkynum er ekki bannað að sjá hvert framaní annað blæjulaust". Heilsaði Marsawan henni með lotningu og varð kóngsdóttir svo glöð, að hún gaf honum eigi málrúm, heldur segir hún: „Það fær mjer mikils fagnaðar að sjá þig heilan á hófi eptir svo margra ára fjærveru, þarsem þú allan þann tíma ljezt ekki móður þína einusinni vita, hvernig þjer liði". Þá svaraði Marsawan: „Mikla þökk kann eg þjer fyrir náð þína og góðvilja, en betri tíðinda átti eg von um þína hagi þegar eg kom heim, heldur enn nú verður raun á, og er hörmung að sjá slíkt. Er eg því samt feginn, að mjer auðnaðist, að koma nógu snemma til þess að lækna þig að fullu, eptir að svo margir hafa frá gengið. Og þó ekki yrði annar ávöxtur ferða minna og vísinda iðkana enn þessi, þættist eg vel í haldinn". Að svo mæltu tók hann upp bók og ýmsa aðra hluti, er hann hugði nauðsynlega samkvæmt lýsingu móður sinnar á veikindum kóngsdóttur. Þegar kóngsdóttir sá allan þenna tilbúning mælti hún: „Bróðir minn! heldur þú líka, að eg sje vitskert? Farðu ofan af þeirri villu og hlýddu á það, sem eg segi". Sagði hún honum þá greinilega alla sögu sína þangaðtil hringunum var skipt, og sýndi honum þann, sem hún bar á hendi sjer. „Það er óskiljanlegt" mælti hún að endingu, „að menn kalla mig vitstola, og er mjer í því mikill órjettur gjör". Marsawan varð forviða er hann heyrði þetta og horfði þegjandi til jarðar nokkra stund, þvínæst

segir hann: „Ef svo er sem þjer segist, er eg ekki vonlaus um, að geta orðið við óskum þínum. Eg bið þig þess aðeins, að þú þreyjir nokkurn tíma með þolinmæði, þangaðtil eg verð búinn að fara um nokkur lönd, sem eg allt til þessa ekki hef komið í, og máttu vita, að þegar þú spyr mig heimkominn, mun sá ekki langt í burtu, sem þjer leikur hugur á“. Þvínæst kvaddi hann hana og lagði á stað morguninn eptir.

Marsawan fór nú úr einni borginni í aðra, einu landinu í annað, og úr einni eynni í aðra og heyrði hvervetna talað um Badúr kóngsdóttur á Kínlandi; gekk á því allt þangaðtil hann kom í verzlunarborg nokkra mikla, er lá við sjó. Þar var eigi talað um Badúr kóngsdóttur, heldur um Kamaralsaman kóngsson, og fór merkileg saga af honum og veikindum hans. Það vakti undireins eptirtekt Marsawans, hversu líkar sögur gengu af honum og kóngsdóttur og þókti honum það góðs viti, spurðist hann fyrir í hverri heimsálfu kóngssonur þessi ætti heima, og með því hann sá að skemmst mundi að fara sjóveg, tók hann sjer far með verzlunarskipi nokkru, sem ætlaði til höfuðborgar Schachsamans konungs. Náði skipið farsællega að hafnarmynni, en þar vildi það slys til fyrir handvömm hafnsögumanns að skipið rak á grynninga og fórst fyrir utan höll þá, er Kamaralsaman kóngssonur bjó í. Vildi þá svo til að konungur var þar staddur með stórvezír sínum. Marsawan var ágætur sundmaður og tókst honum að ná landi rjett fyrir neðan höllina; var honum vel tekið eptir skipun soldáns og veitt öll sú hjálp og hjúkrun, sem hann þarfnaðist. En er hann var kominn í ný föt og hafði fengið hressingu nokkra, gerði vezírinn boð eptir honum. Fann vezírinn skjótt á tali hans, að hann skorti eigi gáfur nje kunnáttu og tók þannig til orða: „Það er auðheyrt á orðlagi yðar, að þjer eruð umfram flesta menn; guð gæfi að þjer á langferðum yðar hefðuð komizt að einhverjum töframeðölum, er lækna mættu sjúkling einn, sem öll hirðin hjer hefir lengi borið kvíðboga fyrir með sárum harmi“. Svaraði Marsawan, að ekki mætti vita nema hann kynni að finna ráð, er dygði, ef hann vissi, hvað að sjúklingnum gengi. Sagði stórvezírinn honum þá upp alla sögu Kamaralsamans frá fæðingu hans þangaðtil hann fjekk ást á ungri mey, sem gaf honum hring og lofaðist honum

Varð Marsawan þá stórglaður, er hann sá, að skipreikinn hafði komið honum á þess manns fund, er hann leitaði að, og að Kamaralsaman kóngssonur var sá, sem kóngsdóttirin kínverska elskaði svo ákaft. En ekki ljet hann á neinu bera við stórvezírinn, heldur beiddist hann aðeins leyfis að koma á fund kóngssonar, svo að hann gæti kynnt sjer sjúkleika hans. „Komið þá undireins með mjer“, mælti stórvezírinn, „konungur er nú hjá honum, og hefur hann áður látið í ljósi, að hann vildi sjá yður“. þegar Marsawan kom inní herbergi kóngssonar, lá hann í hvílu sinni með augun apturlokuð einsog dauðvona maður. „Guð minn“! mælti Marsawan ósjálfrátt, er hann sá hann, „ekkert getur verið öðru líkara“. Konungurinn og stórvezírinn furðuðu sig mjög á þessum orðum Marsawans, en kóngssonur lauk upp augum sínum og horfði forviða á hinn ókunna mann. En Marsawan ávarpaði hann þannig með skáldmælum:

„Eg sje þig gagntekinn af fögnuði og frá mjer numinn, þú lifandi ímynd fegurðarinnar! Hefir ástin lostið þig eða hafa örfar sært þig? því enginn lætur svo, nema sá, sem særður er. Rjettu mjer bikar víns svo eg megi drekka af honum, og syngdu ljóð fyrir mig Súleimu og Errabal til dýrðar. Eg öfunda hjúpinn, sem hylur hennar munaðarlega hold og bikarinn, sem snertir varir hennar. Nei, vinur! eg er eigi særður tvíeggjuðu sverði, heldur örfum þeim, er standa af augunum fögru. þegar við hittumst, sá eg að fingur hennar voru rauðlitaðir hinna legi. Hún kveikti loga í hjarta mínu og mælti um leið, einsog sú, er vill leyna, en getur ekki leynt elsku sinni: Vertu þolinmóður, eg hef óviljandi roðið fingurgóma mína; lát þjer fyrir alla muni eigi til hugar koma, að svik búi í hjarta mínu. En eg sá þig í svefni og sár löngun æstist í hjarta mínu. Eg grjet blóðugum tárum útaf skilnaði okkrum og þerraði þau af mjer með höndum mínum, og þannig urðu fingurgómar mínir rauðir. Ámæltu mjer eigi fyrir tár mín, því eg sver það við sjálfa elskuna, að hjarta mitt þjáist af óbærilegum harmkvælum. Eg græt vegna hennar, sem ber fyrirmynd fegurðarinnar í yfirbragði sínu, sem hvergi á sinn jafningja, hvorki í Arabíu, Persíu nje í víðri veröld. Hún er gædd vizku Lokmans, gjörfugleika Jóseps, málrómi Davíðs og skírlífi Maríu! Fyrir þá sök

kvelst eg af harmi Jakobs, angist Jónasar, kvölum Jobs og yðrun Adams".

Orð þessi höfðu svo mikil og góð áhrif á Kamaralsaman, að hann brosti við og benti Marsawan, að hann skyldi færa sig nær rúmi hans. Varð konungur feginn er hann sá breytingu þessa verða á syni sínum; stóð hann þá upp, tók Marsawan við hönd sjer og beiddi hann að setjast við rúmstokkinn. þegar hann hafði heyrt, hver og hvaðan hann væri, mælti hann klökkvandi: „Guð gæfi, að þjer vissuð ráð til að lækna son minn, eg skyldi launa yður það stórmannlega, svo slíks væru ekki dæmi". þvínæst fór hann afsíðis með stórvezírinn og sá svo um, að Marsawan gæti talað við son sinn í góðu tómi. Laut Marsawan þá ofanað kóngssyni og mælti: „Kóngsson! nú mun hrygð yðar bráðum enda taka. Eg þekki yngismey þá, er veldur ástarharmi yðar og heitir hún Badúr og er dóttir Ghaiurs konungs á Kínlandi. Tekur hún ekki minna út af elsku til yðar enn þjer þjáist af elsku til hennar". Sagði hann kóngssyni þvínæst allt það, er hann vissi af sögu kóngsdótturinnar, allt frá þeirri nótt, er hún fyrst kynntist kóngssyni með svo fáheyrðum atvikum; ljet hann þess og getið, hvernig konungur Kínlands hefði farið með þá, er tókust á hendur að lækna geðveiki kóngsdóttur, en komu engu áleiðis. „þjer eruð sá eini", mælti hann, „sem getur læknað hana og óttalaust gengið að skildaga þeim, er konungur býður. En fullri heilsu verðið þjer að ná áður enn þjer takist svo langa ferð á hendur. Látið þjer mig einan um allt annað, eg skal koma yður til hennar og gera ykkur bæði að hjónum". Varð þá kóngssonur svo hughraustur og vongóður af orðum Marsawans, að hann kenndi sig fullstyrkan til að fara á fætur og spurði konung leyfis, hvort hann mætti klæðast. Konungur varð svo frá sjer numinn af gleði, að hann faðmaði Marsawan að sjer og spurði enn einusinni með hverjum meðölum hann hefði gert slíkt kraptaverk; gekk hann síðan burt með stórvezírinum til þess að segja frá tíðindum þessum. Skipaði hann þá að halda fagnaðar hátíð í marga daga, ljet útbýta gjöfum meðal hirðmanna og embættismanna, en ölmusum meðal fátæklinga, og gaf öllum bandingjum frelsi. Er þar stutt frá að segja, höfuðborgin og þvínæst gjörvallt ríkið kváðu við af fagnaðarópi. Svo mátt-

farinn sem kóngssonur var af hungri og svefnleysi náði hann samt fljótt aptur kröptum sínum. Undireins og hann þóktist vera vaxinn langri og erfiðri ferð segir hann við Marsawan: „Nú er tími til kominn, að þjer bindið enda á heit yðvart; kvelst eg svo mjög af bráðlæti og óþolinmæði eptir að sjá kóngsdóttur og eyða harmkvælum þeim, er hún þolir mín vegna, að eg mundi verða jafnvesæll og eg var, þegar þjer komuð til mín, ef við ekki leggjum á stað undireins. En eg er hræddur um að faðir minn synji mjer orlofs til þessarar ferðar, slíka ást hefur hann á mjer, og verðið þjer því að finna eitthvert ráð, svo að við getum sloppið á burt". Í því kóngssonur mælti þetta kom upp fyrir honum grátur En Marsawan svaraði, að hann hefði þegar hugleitt þetta og lagt niður ráðin til að flýja burt á laun. „Þjer skuluð", mælti hann, „undireins biðja föður yðar leyfis til að fara á veiðar og vera burtu tvo eða þrjá daga; þegar hann hefir samþykkt það, látið þjer tvo hesta vera til taks handa hverjum okkar um sig, og skulum við undireins stíga öðrum hestinum á bak, en hafa hinn til skipta. Látið mig sjá um allt annað".

Morguninn eptir bar kóngssonur erindi sitt upp fyrir föður sinn, og veitti hann syni sínum það, er hann beiddist, með því einu skilyrði, að hann ekki yrði burtu meira enn eina nótt. „Því mjer mundi vera kvalræði", mælti hann, „að vera skilinn frá þjer lengri tíma; þú veizt og sjálfur, að þú ert hið sætasta ljós augna minna. Þó eg ætti alla jarðneska fullsælu og rjeði yfir hinu volduga ríki Khosróesar, mundi mjer þykja það minna vert enn flugufótur ef augum mínum væri synjað þess yndis, að horfa á þig". Bauð þá konungur að velja skyldi hina beztu gæðinga handa syni sínum og annaðist sjálfur allt það, er hann þurfti til fararinnar. En er allt var tilbúið faðmaði hann son sinn með hrærðu hjarta, fól hann Marsawan á hendur alúðlega og ljet þá síðan frá sjer fara.

Þeir fjelagar fóru undireins að veiða dýr til þess að glepja förunautum sínum sjónir, og leituðust við að komast sem lengst burt frá borginni. Þegar náttaði sóktu þeir til gistingar í gestgjafahúsi nokkru, tóku þeir þar kvöldverð og sváfu síðan þangaðtil um miðnætti. Vaknaði Marsawan fyrr og vakti kóngsson, en þjónana ljet hann sofa í náðum. Þvínæst fóru þeir í dularklæði,

skiptu um fararskjóta og riðu á burt í skyndi með tvo lausa hesta í taumi. Um aptureldingu komu þeir að krossgötum nokkrum langt inn í skógi og beiddi Marsawan þá kóngsson að nema staðar, en sjálfur reið hann inní skóginn, þarsem hann var þykkvastur. Drap hann þar annan lausahestinn, reif sundur skikkju þá, er kóngssonur hafði farið úr um morguninn og rauð hana í blóði, svo að menn skyldu ætla að óarga dýr hefðu rifið hann til bana. „Konungurinn, faðir yðar“, mælti hann, „mun senda menn til að leita að okkur. þegar þeir finna skikkju yðar rifna og löðrandi í blóði munu þeir snúa heim aptur og hafa fyrir satt, að þjer hafið dáið aumkvunarlegum dauða, en eg hafi flúið af ótta fyrir reiði konungs. það er að vísu hart aðgöngu fyrir son, að draga ástríkan föður þannig á tálar, en þetta er hið eina úrræði, ef við eigum að sleppa burt óhultir; hann mun verða því fegnari þegar hann spyr yður lífs og heilan á hófi“. Kóngssonur þakkaði Marsawan af hjarta fyrir þetta hyggilega ráð og fóru þeir í skyndi leiðar sinnar ýmist landveg eða sjóveg. Höfðu þeir tekið með sjer dýra gimsteina til ferðakostnaðar. þurftu þeir því eigi að halda spart á, heldur gátu þeir hagað ferðinni einsog þeim líkaði. En vegurinn var geysilangur og leið langur tími áður enn þeir náðu til höfuðborgar Kínlands. þegar þangað var komið, fór Marsawan með kóngsson til gestaherbergis nokkurs og voru þeir þar í þrjá daga að hvíla sig eptir ferðina. Á þeim tíma ljet Marsawan gera handa kóngssyni þesskonar búning, er stjörnuspámenn tíðka, og er hinir þrír dagar voru liðnir fóru þeir báðir í laug og ljet hann þá kóngsson fara í búninginn. þvínæst fór Marsawan með hann gegnum borgina til hallarinnar og sagði honum nokkur ráð, hvernig hann skyldi fara að. En sjálfur flýtti hann sjer til móður sinnar, svo að hún gæti undireins gert Badúr kóngsdóttur þess vísari, að hann væri aptur kominn. Kamaralsaman, sem var búinn einsog stjörnuspámaður og hafði allt, sem þá einkennir, kallaði hárri röddu þegar hann kom til hallarinnar: „Eg er stjörnuspámaður og kominn til að lækna hina tignuðu Badúr kóngsdóttur með þeim skilmála, sem konungur hefir sett, að eg fái hana til eiginkonu ef lækningin heppnast, en láti líf mitt ef mjer mistekst“. þyrptist þá ótölulegur manngrúi kríngum kóngsson auk hallar-

varðanna og dyravarðanna, því nú var langt liðið síðan að nokkur læknir eða fræðimaður hafði lagt sig í hættu þessa. Var kóngssonur svo fagur ásýndum, svo kurteislegur í framgöngu og unglegur, að hver maður kenndi í brjóst um hann og sögðu þeir við hann, er næst honum stóðu: „Herra! hvaða æði kemur yður, svo mannvænlegum unglingi, til að hrapa svo í vísa glötun“? En kóngssonur gaf viðvörun þeirra engan gaum og er enginn kom til að fylgja honum inní höllina, kallaði hann aptur svo djarflega að felmtur fór um alla, sem heyrðu og sögðu þeir: „Hann hefir fastráðið dauða sinn! guð miskuni sálu hans“. Þegar kóngssonur hafði kallað í þriðja sinn, kom stórvezírinn loksins og fylgdi honum til konungs.

Jafnskjótt sem Kamaralsaman sá konung Kínlands, fleygði hann sjer fram fyrir hásæti hans og kyssti á gólfið. Engan þeirra allra, sem höfðu hætt lífi sínu af metorðagirni einni, hafði konungur virt viðlits, en undireins og hann sá Kamaralsaman aumkvaðist hann yfir hann. Bauð hann honum að færa sig nær, ljet hann setjast hjá sjer í hásætið og mælti: „Ungur maður! eg trúi því trauðlega, að þú sjert svo reyndur, að þú getir læknað dóttur mína. Eg vildi óska að þjer tækist það og skyldi eg feginn gefa þjer hana í launa skyni. En hinsvegar segi eg þjer fyrir fullt og fast, þó mjer sjálfum renni til rifja, að hvorki æska þín nje fegurð mun aptra mjer frá lífláti þínu, ef þjer mistekst“. Þá svaraði kóngssonur: „Eg þakka yðar hátign fyrir náð þá og sæmd, er þjer auðsýnið mjer ókunnugum manni, en því aðeins er eg kominn úr fjærlægu landi, að eg ekki mun brigða áformi mínu úr því svo langt er komið. Gerði eg það, mundi eg fyrirgjöra virðingu þeirri, er þjer sýnið mjer af náð yðvarri. Eigi eg að láta líf mitt, þá verði guðs vilji! en eg treysti íþrótt minni og vona fyrir víst, að eg muni geta unnið til hinnar elskulegu dóttur yðar“. Konungur skipaði nú geldingnum, verði kóngsdóttur, að fylgja stjörnuspámanninum til hennar. Fór Kamaralsaman með honum og barðist hjarta hans af ákafa og ástar löngun. Komu þeir nú á svalir nokkrar og var herbergi kóngsdóttur við enda þeirra. En er Kamaralsaman sá, að hann var kominn svo nálægt takmarki ástar sinnar, hljóp hann á undan fylgdarmanni sínum. Náði geldingurinn honum með naumindum, tók í handlegg honum og mælti: „Hvað

liggur á, herra! þjer komist svo ekki inn, hvort heldur er, nema eg hjálpi yður. Yður mun vera mikill hugur á að deyja, fyrst þjer anið svona í greipar dauðans. Enginn af öllum þeim stjörnuspámönnum, sem eg hef fylgt þangað, var eins áfjáður og þjer eruð, en þjer munuð koma þangað fullsnemma“. Þá mælti kóngssonur og seinkaði sjer hvergi: „Allir hinir stjörnuvitringarnir voru afglapar og vissu eigi, hvað þeir gerðu. En eg veit fyrir víst, að eg flýg í fang hamingju minnar, og því skyldi eg þá ekki flýta mjer“? Í þessu bar þá að dyrunum, lauk geldingurinn þeim upp og leiddi kóngsson gegnum fordyri inní stóran og glæsilegan sal og var eigi nema fortjald milli hans og herbergis þess, er kóngsdóttir var í. Áðurenn kóngssonur gekk inn segir hann í hljóði við geldinginn svo að kóngsdóttir ekki skyldi heyra: „Svo að þjer skiljist, að hvorki hroki, hugsunarleysi nje heimska hefur ginnt mig hingað, þá leyfi eg þjer að ákveða, hvort eg skuli heldur fara inn með þjer og lækna kóngsdóttur í þinni viðurvist, eða eg bíði hjer fyrir utan og lækni hana ósjeða“.

Geldingurinn varð forviða af sjálfstrausti kóngssonar, svo hann hætti að draga háð að honum og svaraði í fullri alvöru: „Það stendur á sama, hvort þjer læknið hana hjer eða þar, þjer öðlist ódauðlega sæmd hvort heldur er, bæði á Kínlandi og hvervetna annarstaðar í heimi“. „Þá kýs eg heldur að lækna hana ósjeða“, mælti kóngssonur, „og mun íþrótt mín sýnast því veglegri“. Að svo mæltu tók hann upp skriffæri og ritaði þetta:

„Hver, sem þjáist af hugraun skilnaðarins mun bíða bætur harma sinna þegar heitorð elskandans er efnt, en aumt er þess manns hlutskipti, sem örvæntir og veit með vissu, að honum er synjað þess um eylífð, sem hann elskar. Hjarta hans er harmþrungið og honum er engrar hjálpar nje huggunar von; augu hans eru svefnlaus og andvakan flýr þau aldrei. Á daginn brennur hann af eldsloga, á nóttinni þjáist hann af harmkvælum; líkami hans mornar og þornar og engin orðsending kemur til hans frá þeirri, sem hann elskar. Hjarta mitt er aðeins helgað umhugsuninni um þig, mjer svíður í hvörmum og af þeim drjúpa niður blóðug tár, en líkami minn er örmagnaður af hrygð og brennandi löngun. Því harma eg mjer fyrir þjer útaf kvölum ástar minnar

og óþolinmæði minni; — vertu mjer ljúf og líknsöm og ástrík, því hjarta mitt ætlar að bugast fyrir ofurmegni ástríðunnar. — Hjarta elskhugans læknast þegar hann fær notið unnustu sinnar og guð einn er læknirinn, sem læknað getur þann, er kvelst af löngun eptir því, sem hann elskar. Sjert þú ótrygg eða sje eg það, þá þrífist aldrei það okkar, sem ótrygð sýnir". Ritaði hann undir línur þessar: „Frá hinum harmþrungna og sturlaða, sem ýmist er frost eða funi, sem er eirðarlaus af löngun og brennandi ástar þrá, frá Kamaralsaman syni Schachsamans, til þeirrar meyjar, er ber af öllum meyjum sinnar aldar, til Badúr dóttur Ghaiur konungs. Vita skaltu, að eg er andvaka um nætur og agndofa um daga, að eg þjáist af óumræðilegum sjúkleik, þrá og elsku, að eg úthelli társtraumum og dreg ótal andvörp, að eg er þræll elskunnar, píslarvottur ástríðunnar, og tek aldrei á mjer heilum Eg er sá hinn hvíldarlausi maður, sem aldrei sofnar útaf, eg er sá þræll elskunnar, sem grætur án afláts. Eldur hjarta míns slöknar aldrei, og bruni löngunar minnar þverrar eigi". Þvínæst ritaði hann þessi orð á spássíu brjefsins: „Friður af nægð guðs miskunar sje með henni, sem á sálu mína og hjarta mitt". Braut hann nú brjefið saman og ljet hringinn innaní, svoað geldingurinn ekki sá, þvínæst innsiglaði hann það og ritaði þessi orð á það einsog yfirskript: „Lestu það í brjefi mínu, sem hönd mín hefur ritað og stafirnir munu segja þjer óskir mínar og hörmungar. Meðan höndin ritar, hrynja tárin og sál mín tjáir blaðinu harma sína; tár mín drjúpa án afláts á brjefið; ef að lindir þeirra þrytu, mundi eg gráta blóði í þeirra stað. Eg sendi þjer hring þinn, er eg tók í staðinn fyrir minn, þegar við fundumst í fyrsta sinn; sendu mjer minn hring aptur".

Þegar kóngssonur hafði lokið við brjefið, fjekk hann geldingnum það og beiddi hann að fá kóngsdóttur. „Verði hún ekki alheil", mælti hann, „undireins og hún er búin að lesa það, máttu kalla mig veslastan og ósvífnastan allra stjörnuspámanna, bæði þeirra, sem eru og verið hafa".

Geldingurinn fór nú til kóngsdóttur með brjefið, fjekk henni það og mælti: „Kóngsdóttir! nú er kominn stjörnu spámaður, sem er fífldjarfari enn allir hinir fyrri og fullyrðir hann, að þjer verðið albata

jafnskjótt sem þjer lesið brjefið og komist að efni þess. Betur hann færi ekki með lygi nje fals“. Kóngsdóttir tók tómlega við brjefinu, en er hún hafði brotið það upp og fundið í því hring sinn, gaf hún sjer valla tíma til að lesa það. Hún spratt upp af æði og sleit fjötur þann, er á henni var; þvínæst hljóp hún til dyranna og reif fortjaldið frá, kannaðist hún þá undireins við kóngsson og flugu þau hvert um háls öðru og föðmuðust innilega. Var fögnuður þeirra svo óumræðilegur, að þau gátu engu orði upp komið, heldur horfðu þau lengi þegjandi hvert á annað og undruðust stórum, að þau skyldu sjást aptur, eptir að fundum þeirra fyrst hafði borið saman með svo kynlegum hætti. Fóstran, sem hafði farið með kóngsdóttur, fór nú með þau bæði inní herbergi eitt; fjekk Badur kóngssyni þar hring sinn og mælti: „Takið aptur við honum, því eg mundi eigi geta haldið honum, nema eg skilaði yðar hring aptur, en eg vil aldrei láta hann skilja við mig meðan eg lifi“.

Meðan á þessu stóð, hafði geldingurinn hlaupið til konungs; sagði hann honum, að þarsem allir stjörnuspámenn þeir og læknar, sem áður buðust til að lækna kóngsdóttur hefðu verið heimskingjar, þá hefði nú sá, er síðast bauð sig fram, læknað hana ósjeða og hvorki neytt særinga nje reykelsis. Konungur brást glaður við og fór undireins til dóttur sinnar, vafði hana að brjósti sínu, faðmaði síðan kóngsson, greip um hönd dóttur sinnar og mælti: „Hver, sem þú ert, gæfusamlegi útlendingur! þá gef eg þjer nú dóttur mína; en það ræð eg af yfirlitum þínum, að þú munir vera annar enn þú þóktist vera“. Kóngssonur þakkaði konungi auðmjúklega og kvaðst svo mikið mega fullyrða, að hann væri enginn stjörnuspámaður. Sagðist hann hafa brugðið því á til þess, að sjer yrði hægra að ná fundi hans, sem var voldugastur konungur á jarðríki: „Nafn mitt er Kamaralsaman“, mælti hann, „en faðir minn heitir Schachsaman og ræður yfir eynni Khaledan, sem alþekkt er“. Þvínæst sagði hann sögu sína og upptök ásta þeirra kóngsdóttur, og sannaði hann orð sín með hringaskiptunum. En er kóngsson hafði lokið sögu sinni, sagði konungur, að svo fáheyrða sögu yrði fyrir hvern mun að geyma komandi mönnum til fróðleiks, ljet

hann því færa hana í letur og leggja frumritið til geymslu í skjalahirzlu ríkisins, sá hann og um, að sagan kæmist úti almenning og yrði þjóðkunn í nágranna löndunum. Brúðkaupið fór nú fram sama dag og voru gleðihátíðir haldnar um allt Kínland. Konungur veitti Marsawan embætti við hirð sína og hjet honum vegsauka eptirleiðis.

Þau Kamaralsaman og Badur nutu nú alsælu ástarinnar og vottaði konungur Kínlands fögnuð sinn með sífeldu hátíðahaldi, er stóð í nokkra mánuði. Það var einhverja nótt, að kóngsson dreymdi, að hann sæji Schachsaman konung, föður sinn deyjanda, og þókti honum hann segja: „Þessi sonur minn, er eg unni svo af alhuga, hefir yfirgefið mig og veldur hann dauða mínum“. Vaknaði hann þá og varpaði öndinni mæðilega svo að Badur hrökk við og spurði, hverju það sætti. Þá mælti kóngssonur: „Hver veit nema faðir minn hafi skilið við í þessu vetfangi“! og sagði hann henni draum sinn. Kóngsdóttir hafði ekki hugann á öðru enn að gera manni sínum allt að skapi og hugsaði með sjer, að hann mundi langa til að finna föður sinn og mundi það standa honum fyrir gleði, að hann hlaut að dvelja með henni í fjarlægu landi, en ekki ljet hún samt á neinu bera við hann. En samdægurs sætti hún lagi, þegar faðir hennar var einn, kyssti hún þá á hönd honum og mælti: „Eg hef mikillar bænar að biðja yðar hátign! gerið það fyrir orð mín að synja mjer hennar eigi. En svo þjer ekki ætlið, að eg geri það eptir tilmælum manns míns, þá læt eg yður fyrifram vita, að hann er þessa með öllu dulinn. Bæn mín er sú, að þjer af náð yðvarri leyfið mjer að fara með honum á fund Schachsamans konungs tengdaföður míns“.

Þá svaraði konungur: „Dóttir mín! svo þungt sem mjer fellur að sjá þjer á bak, geðjast mjer samt vel að fyrirætlun þinni og veiti eg þjer samþykki mitt. En það geri eg aðeins með því skilyrði, að þið ekki dveljið meira enn eitt ár við hirð Schachsamans konungs. Mun hann víst láta sjer lynda, ef við skiptumst svo á, að hann sjái annað árið son sinn og tengdadóttur, en eg sjái hitt árið dóttur mína og tengdason“. Kóngsdóttir sagði nú manni sínum þetta vilyrði föður síns, en hann varð sárglaður, er hann sá þenna nýja vott elsku hennar og tjáði henni þakklæti sitt.

Kínlands konungur bjó nú til burtferðar þeirra og fylgdi hann þeim margar dagleiðir, þangaðtil þau skildu innilega, grátandi fögrum tárum. Beiddi konungur Kamaralsaman að hafa jafnan slíka ást á dóttur sinni sem hann hefði nú, og snjeri hann þvínæst aptur til aðsetursborgar sinnar, en á heimleiðinni skemmti hann sjer með dýraveiðum. þegar þau kóngsson og kóngsdóttir höfðu þerrað tár sín, hugsuðu þau aðeins um fögnuð þann, er þau áttu í vændum, þegar þau kæmu til Schachsamans konungs.

þegar þau höfðu verið eitthvað mánuð á leiðinni, komu þau einhvern dag á engi nokkurt mikið um sig, alvaxið háum og skuggamiklum trjám. Veður var ákaflega heitt og segir kóngssonur við Badur, að sjer þækti ráð að ægja, og fjellzt hún á það. Var því staðar numið þarsem hentast þókti og tjaldað, en kóngsdóttir stóð á meðan í forsælunni; þvínæst gekk hún inní tjaldið og ljet leysa af sjer beltið sjer til hagræðis, lögðu þjónustukonurnar það niður hjá henni. Sofnaði hún þá af þreytu, en konurnar gengu frá henni. Kóngssonur, sem hafði verið að segja fyrir verkum, kom nú inní tjaldið og settist hljóðlega niður, því kona hans svaf. Ætlaði hann og að leggjast til svefns, en þá hafði hann hönd á belti konu sinnar og horfði á demanta þá og rúbína, er það var prýtt með. Sá hann að lítil taska hjekk við beltið harðla snotur og reimuð saman með bandi, og fann hann að eitthvað hart mundi vera í henni. Langaði hann til að vita, hvað það væri og leysti frá töskunni, fann hann þá í henni karneól, en á hann voru grafnar myndir og ókennilegt letur. Honum kom undireins til hugar, að steinninn mundi vera afar dýrmætur, fyrst kóngsdóttir geymdi hann svo vandlega. Enda var þetta verndargripur, sem drottningin á Kínlandi móðir hennar hafði gefið henni og fylgdi honum sú náttúra, að henni yrði aldrei hamingju vant, meðan hún bæri hann á sjer. Gekk þá kóngssonur útfyrir tjaldið til að skoða hann vandlegar, en er hann hjelt honum á lófa sínum, kom allt í einu fugl úr lopti ofan, hremmdi steininn og flaug burt með hann. Stóð kóngssonur stundarkorn agndofa af harmi, er dýrgripur þessi var þannig hrifsaður úr höndum honum, og horfði á eptir fuglinum, hafði hann sezt niður skammt frá með steininn í nefinu. Vonaði kóngssonur, að hann mundi sleppa honum og gekk því að honum,

en jafnskjótt sem hann nálgaðist, flaug fuglinn aptur spölkorn. Hjelt kóngssonur að sjer mundi ef til vill takast að drepa hann með steinkasti, því hann var mjög hæfinn. elti hann því fuglinn, sem undan flýði í ákefð, svo að hann ekki með öllu skyldi missa sjónar á honum. Þannig var kóngsson allan daginn að elta hann yfir leyti og lautir og ginntist hann lengra og lengra frá tjöldunum og Badur kóngsdóttur. En vit hafði fuglinn til þess, að setjast ekki fyrir í runni, þarsem Kamaralsaman hefði getað læðzt að honum í myrkrinu, heldur settist hann í toppinn á háu trje, þarsem hann gat verið óhultur. Örvænti kóngsson nú er fyrirhöfn hans varð til ónýtis, og hugsaði með sjer, hvort hann ætti að hverfa aptur til tjaldanna. Skoðaði hann um það huga sinn, hverja leið hann skyldi fara og þókti uggvænt, að hann kynni að villast; þorði hann og eigi að koma til kóngsdóttur svo að hann ekki hefði verndargripinn. Stríddu þessar hryggilegu hugleiðingar á hann og var hann þaráofan yfirkominn af þreytu, hungri, þorsta og svefni, lagðist hann því niður og ljet fyrirberast um nóttina undir trje nokkru. Næsta morgun vaknaði hann áðurenn fuglinn flaug frá trjenu, en er hann sá hann fljúga á stað hljóp hann og þenna dag allan á eptir honum árangurslaust, og nærðist hann ekki á öðru enn jurtum og ávöxtum, er hann fann á leiðinni. Þessu fór fram í tíu daga og lá hann jafnan um nætur undir því trjenu, sem fuglinn settist á. Á hinum ellefta degi kom hann að stórri borg, en í því fuglinn flaug yfir borgarvegginn missti kóngsson sjónar á honum og varð þá vonlaus um að fá verndargripinn nokkurntíma framar. Gekk hann sárhryggur inn í borgina; hún lá við sjó niðri og var þar fögur höfn. Ráfaði hann lengi um borgarstrætin og vissi hvorki upp nje niður og kom hann þá niður að höfninni. Var hann mjög í vafa um, hvað hann skyldi taka til bragðs og gekk með sjó fram þangaðtil hann kom að hliði jurtagarðs nokkurs, stóð hliðið opið og leit hann þar inn. Garðyrkjumaðurinn, gamall maður og góðlegur leit upp frá vinnu sinni og jafnskjótt sem hann sá, að komumaður var Mahómets maður og ókunnugur, bauð hann honum að koma inn og loka eptir sjer hliðinu. Gerði Kamaralsaman það og er hann kom til karlsins, spurði hann, hvað honum gengi til þessa. Varð hann þá þess vísari, að blótmenn bjuggu

í borginni, voru þeir svarnir óvinir Máhómets manna og fóru illa með átrúendur spámannsins. „Mjer þykir það vera kraptaverk“, mælti garðyrkjumaður „að þjer náðuð hingað óáreittur, því blótmenn þessir leggja einkum tálsnörur fyrir útlenda og ókunnuga Mahómets menn. Guði sje lof, að hann leiddi yður á óhultan stað!“ Ætlaði þá Kamaralsaman að votta hinum góða manni hjartanlegt þakklæti sitt, en hann greip frammí og mælti: „Sleppið nú öllum fagurmælum, komið heldur með mjer og hvílið yður“. fór hann þá með kóngsson heim í hús sitt. Þegar kóngsson hafði snætt drjúgum af því, sem þar var framreitt með ástúð og hugulsemi, beiddi garðyrkjumaður hann að segja sjer, hvernig stæði á þarkomu hans. Sagði Kamaralsaman honum þá sögu sína hreinskilnislega og spurði þvínæst, hvernig hann gæti komizt þaðan heim í ríki föður síns, því ekki væri að hugsa til að komast aptur til Badur kóngsdóttur. þarsem ellefu dagar væru liðnir síðan hann varð viðskila við hana. „Eg veit ekki, hvar hún er í víðri veröld“, mælti hann og fjekk ekki tára bundizt. Sagði garðyrkjumaður honum þá, að eins árs ferð væri til landa þeirra, er mahómedanskir konungar rjeðu yfir eða Mahómedanar byggðu. En sjóveg mætti á miklu skemmri tíma komast til Svartviðareyjar og væri hægt að komast þaðan til eyjarinnar Khaledan. Kvað hann verzlunarskip sigla á ári hverju til Svartviðareyjar og gæti hann komist þá leið heim til sín, og hefði hann komið nokkrum dögum fyrr, mundi hann hafa getað komizt með skipi því, er fór þangað þetta árið. „En viljið þjer bíða hjá mjer“, mælti garðyrkjumaðurinn, „þangað til skipið fer næsta ár, þá er yður af hjarta velkomin vist hjá mjer, svo góð sem föng eru til“. Taldi kóngsson sig sælan að hafa hitt slíkt athvarf, þarsem hann var öllum ókunnugur og vildi engum kynnast, og var hann því kyrr hjá garðyrkjumanninum. Nú munum vjer skilja við hann um hríð og segja nokkuð af Badur kóngsdóttur, er vjer hurfum frá, þarsem hún lá sofandi í tjaldi sínu.

Kóngsdóttir svaf alllengi, en þegar hún vaknaði brá henni í brún er hún saknaði manns síns, kallaði hún á þjónustukonur sínar og spurði, hvar hann væri. Kváðust þær að vísu hafa sjeð hann í tjaldinu, en ekki sjeð hann fara út aptur, en er hún gyrði

sig beltinu sá hún að verndargripurinn var horfinn, en taskan opin, og kom henni ekki annað til hugar enn að Kamaralsaman hefði tekið hann og viljað skoða hann, og mundi hann koma með gripinn aptur. Beið hún með lítilli eirð til kvöldsins og þókti kynlegt að hann ekki kom; en er náttmyrkrið datt á og hann kom eigi að heldur varð hún óumræðilega sorgbitin. Formælti hún verndargripnum hvað eptir annað og þeim, er hann hefði smíðað og mundi hún ekki einusinni hafa þyrmt móður sinni, sem hafði gefið henni hann. En þó hún væri nú óhuggandi útaf þessu voðalega atviki, því hún vissi ekki hvernig hvarf kóngssonar hlautzt af verndargripnum, þá var hún samt ekki af baki dottin, heldur tók hún djarft og drengilegt ráð, sem sjaldheyrt er meðal kvenna. Enginn í tjöldunum vissi af hvarfi kóngssonar nema kóngsdóttir og þjónustukonur hennar, því allt hitt föruneytið svaf í tjöldunum. Nú með því hún óttaðist svik, ef þetta yrði kunnugt, bar hún harm sinn í hljóði og skipaði þjónustukonum sínum að leyna þessu. Þvínæst fór hún í einn af búningum Kamaralsamans, var hún mjög lík honum, og næsta morgun, er hún skipaði liðinu að taka saman farangurinn og leggja á stað, hjeldu allir að þar væri Kamaralsaman kominn. Þegar allt var tilbúið, ljet hún eina af þjónustukonunum setjast uppí burðarstól sinn, en sjálf stje hún á hestbak og hjelt nú lestin áfram. Ferðaðist kóngsdóttir þannig undir nafni Kamaralsamans og kom til eyjarinnar Khaledan. Þaðan náði hún eptir nokkurra mánaða ferð, sjóveg og landveg, til höfuðborgarinnar á Svartviðarey, ríkti þar í þann tíma Armanos konungur. Menn þeir, er fyrst lentu og áttu að útvega henni herbergi, sögðu að Kamaralsaman kóngssonur væri á skipi þeirra, og hefði hann vegna andviðra orðið að sækja þar til hafna, flaug fregn þessi skjótt til konungshallarinnar. Fór konungur því til móts við Badur með allan þorra hirðar sinnar og hitti hana í því hún gekk á land og ætlaði til herbergja þeirra, er tilbúin voru handa henni. Fagnaði hann henni einsog syni þess konungs, sem jafnan hafði verið honum hinn vinveittasti, og leiddi hana til hallarinnar með öllu föruneyti sínu. Sýndi hann henni alla virðingu, sem hugsast gat, og hjelt dýrðlega veizlu, er stóð í þrjá daga. Varð hann frá sjer numinn af fegurð hennar og viturleik,

og er hann heyrði hana minnast á burtsiglingu sína eptir veizluna tók hann hana afsíðis, og mælti: „Kóngsson! með því eg er hníginn á efri aldur og lítil von til að eg lifi lengi, fær það mjer áhyggju, að eg á engan erfingja að ríki mínu. Guð hefir aðeins gefið mjer einka dóttur og er hún svo afbragðs fögur, að hún mundi hvergi betur komin enn í höndum svo fagurs, göfugs og algjörs kóngssonar, sem þjer eruð. Hugsið því ekki framar um burtferð, heldur þiggið hana ásamt kórónu minni, sem eg afsala mjer hjeðan í frá yður í hag. Hef eg borið þunga hennar í mörg ár, og er nú tími til kominn, að eg taki mjer hvíld, get eg aldrei gert það með rósamara geði enn nú, þarsem eg fæ stjórn ríkis míns í hendur svo verðugs eptirmanns".

Þetta var að vísu stórmannlega boðið af konungi, að gipta Badur kóngsdóttur einkadóttur sína og gefa henni kórónu sína í tilbót, en Badur varð ráðalaus einsog von var. Hún gat ekki fengið af sjer að játa, að hún væri ekki Kamaralsaman, heldur kona hans, því henni þókti það ósæmandi fyrir kóngsdóttur, eptir að hún allt til þessa hafði þókzt vera kóngssonur og leikið hann svo vel. Annarsvegar gat hún ekki hafnað boðinu, því svo var ráðahagur þessi hugleikinn konungi, að hún hafði fulla ástæðu til að óttast, að góðvilji hans kynni að snúast í hatur og fjandskap, svo lífi hennar yrði jafnvel hætta búin. Hún vissi eigi heldur, hvort hún mundi hitta Kamaralsaman hjá Schachsaman konungi föður hans. — Rjeði hún því af, að ganga að boði Armanos konungs, bæði vegna þessara orsaka, og svo af hinu, að hana langaði til að vinna ríki undir mann sinn, ef hún skyldi finna hann aptur. Þagði hún stundarkorn og tók þvínæst til orða: „Herra! miklar þakkir kann eg yður fyrir traust það, er þjer hafið á mjer, fyrir alla sæmd mjer auðsýnda og óverðskuldaða náð, er eg eigi dirfist að drepa hendi við. En því að eins tek eg þessum kosti, að yðar hátign heiti mjer ráða fulltingi, og mun eg eigi ráðast í neitt, nema yðar hátign hafi áður samþykkt". Var brúðkaup ákveðið til næsta dags; vissi föruneyti kóngsdóttur ennþá ekki annað enn að hún væri Kamaralsaman og notaði hún nú tímann til að segja því, hvað í ráðum væri, og sagði að Badur kóngsdóttir hefði veitt til þessa samþykki sitt, gerði hún þetta til þess að liðið ekki skyldi furða sig á til-

tæki hennar. Var konungur harðla ánægður, er hann hafði fengið svo ákjósanlegan mann handa dóttur sinni og stefndi ráðinu saman næsta dag; ljet hann Badur setjast hjá sjer og lýsti því yfir, að hann gæfi Kamaralsaman þessum einkadóttur sína og afsalaði honum kórónu sinni; skipaði hann öllum, að taka hann til konungs og hylla hann. Þvínæst stje hann niður úr hásætinu og ljet Badur kóngsdóttur setjast í það, en settist sjálfur í hennar sæti; tók hún þá við trúnaðareiðum og hyllingu hinna voldugustu höfðingja á Svartviðarey, er þar voru komnir. Þvínæst fóru kallarar um borgina og kunngjörðu, að Kamaralsaman væri til konungs tekinn, boðuðu þeir gleðihátíðir, er standa skyldu í marga daga og voru menn sendir um allt ríkið til að birta það. Um kvöldið kvað öll höllin við af fögnuði og var dóttir konungsins á Svartviðarey, er hjet Haiatalnefus, leidd til Badur kóngsdóttur, búin konunglegum skrúða, en allir hjeldu, að Badur væri karlmaður. Að aflokinni hjónavígslunni og brúðkaupinu voru þau skilin eptir tvö ein og gengu þau þá til hvílu. Næsta morgun kom Badur á almenna samkomu og tók þar við fagnaðar óskum hirðarinnar, einsog nýr og nýkvæntur konungur, en konungur og drottning hans vitjuðu dóttur sinnar og spurðu, hvernig henni hefði sofnazt um nóttina. Svaraði hún engu, heldur horfði hún niður fyrir sig og var næsta döpur; reyndu þau að hugga hana með því, að Kamaralsaman hefði komið með þeim ásetningi, að fara undireins aptur til föður síns; þó hann mætti nú vel við una, að honum var haldið aptur, þá væri samt öll von á, að honum sárnaði sú tilhugsun, að sjá aldrei framar föður sinn eða nokkurn af ættingjum og vinum, en vonandi væri, að hann sýndi henni alúðlega hjúskapar ást, þegar harmur þessi rættist af honum. Badur kóngsdóttir, sem nú var konungur yfir Svartviðarey ljet sjer ekki nægja á degi þessum, að taka við fagnaðaróskum hirðarinnar, heldur kannaði hún og hallarlið sitt og gegndi mörgum öðrum konunglegum störfum, fór henni það svo vel og sköruglega, að allir luku lofsorði á, sem það sáu. Var þegar dagsett, er hún kom aptur til Haiatalnefus; tók hún henni fálega og skildi Badur á því, að hún mundi hafa fyrri nóttina í huga. Leitaðist hún við, að hafa af henni ólundina með viðtali sínu og tók á öllum lipurleik gáfna sinna, er henni voru svo ríkuglega

veittar, til að telja henni trú um, að hún elskaði hana. En er hún loksins þagnaði og hin fór að hátta tók hún að biðjast fyrir, og teygði svo úr bæninni, að Haiatalnefus sofnaði á meðan. þvínæst lagðist hún niður hjá henni, en vakti hana ekki, var henni þá þungt í skapi bæði af því hún saknaði Kamaralsamans sáran og neyddist til að leika það, er henni var lítt að skapi. Næsta morgun reis hún enn á fætur áður enn Haiatalnefus vaknaði, og gekk til ráðstefnu í konunglegum skrúða. Fór Ármanos konungur á meðan að vitja dóttur sinnar og hitti hana grátandi. þurfti ekki meira til þess að hann sæji, hvað um var að vera, varð hann þá fokreiður útaf svívirðingu þeirri, er hann hugði sjer gerða og tók þannig til orða: „Dóttir mín! haf þú þolinmæði til næstu nætur. Eg hef sett mann þinn í hásæti mitt, en eg mun aptur víkja honum úr sessi og reka hann burt með skömm og háðung, nema hann sýni þjer þá sæmd, sem honum ber, því í raun rjettri gerir hann sjálfum mjer svívirðingu þessa“. þenna dag kom Badur einnig næsta seint til Haiatalnefus og talaði við hana, ætlaði hún síðan að leggjast á bæn meðan hún háttaði. En Haiatalnefus aptraði henni og átaldi hana blíðlega fyrir það, að hún óvirti sig svo mjög; sárbændi hún hana að segja, hvað henni þækti að sjer og varaði hana við reiði föður síns, er á mundi dynja að liðinni þessari nótt. Að endingu beiddi hún hana að steypa sjer ekki í örvílnun, því hún gæti ekki að því gert, að hún elskaði hana. Komst nú Badur kóngsdóttir í mesta vanda. Hafði Armanos konungur verið fálátur við hana um daginn og rjeði hún af því, að viðvörun dóttur hans mundi ekki vera um skör fram, vissi hún því ekki annað ráð enn að segja Haiatalnefus allan sannleik. Að vísu hafði hún sjeð það fyrir, að til þessa mundi draga, en samt reis henni nú hugur við af óvissunni, hvort kóngsdóttur mundi líka vel eða illa. Hugleiddi hún nú, að ef Kamaralsaman lifði, hlyti hann að koma við í Svartviðarey á leiðinni til föður síns, og yrði hún að leita sjer lífs hans vegna, en þess væri enginn kostur, nema hún gerði leyndarmál sitt uppskátt, enda hætti hún nú á það. Var hún einsog utan við sig og þagði í fyrstu, ætlaði þá Haiatalnefus að taka til máls, en Badur varð fyrri til og mælti: „Ástfagra og elskulega kóngsdóttir!

eg hef gert rangt, og það játa eg, eg kveð sjálf upp áfellis dóm yfir mjer, en eg vona að þjer fyrirgefið mjer og þegið yfir leyndarmáli því, er eg nú segi yður mjer til rjettlætingar". Sagði hún þá Haiatalnefus kóngsdóttur, að hún væri kvennmaður og mælti ennfremur: „Hyggið að, hvort eg, sem er kona og kóngsdóttir einsog þjer, er ómakleg fyrirgefningar yðvarrar. Eg veit þjer fyrirgefið mjer af hjarta, þegar þjer hafið heyrt sögu mína og eg hef sagt yður frá óláni því, er neyddi mig til að leika það, er þjer sjáið að eg leik enn". Þegar Badur hafði sagt henni allt hið sanna, beiddi hún hana enn á ný að þegja yfir þessu, þangaðtil Kamaralsaman kæmi, því hún kvaðst vonast eptir honum. Svaraði þá Haiatalnefus: „Undarleg væru forlögin þá, ef svo farsælt hjónaband, sem ykkar er, skyldi verða svo skammvinnt eptir frábærar ástir af beggja ykkar hálfu. Eg óska þess að guð láti ykkur bráðum finnast og megið þjer vita fyrir víst, að eg skal dyggilega leyna því, er þjer hafið trúað mjer fyrir. Er það mjer hin mesta ánægja, að engin á Svartviðarey veit, hver þjer eruð nema eg, en þjer skuluð halda áfram ríkistjórn yðar, er þjer hafið svo fagurlega byrjað. Eg beiddi yður ástar, en nú segi eg yður, að eg óska einskis framar enn þess, að þjer álítið mig maklega vináttu yðvarrar". Eptir það föðmuðust þær kóngsdæturnar og sýndu hver annari ótal vinahót.

Þar á landi var siðvenja, að sýna opinberlega raun á því, að hjúskapnum væri framgengt orðið; fundu þær kóngsdæturnar gott ráð við þeim vanda svo að þjónustukonur Haiatalnefus blekktust á því, en þær blekktu aptur konunginn, drottninguna og alla hirðina. Þannig ríkti Badur kóngsdóttir með nafni Kamaralsamans kóngssonar yfir Svartviðarey enn sem fyrri, og varð bæði konunginum og þjóðinni vel að skapi.

Meðan þetta gerðist á Svartviðarey dvaldi Kamaralsaman hjá hinum gamla garðyrkjumanni í borg blótmannanna. Einn morgun fór hann snemma til vinnu í garðinum einsog hann var vanur, en þá aptraði garðyrkjumaður honum og sagði að blótmenn hjeldu mikla hátíð þann dag, og snertu ekki á vinnu heldur sinntu þeir aðeins opinberum skemmtunum og samkvæmum; eigi vildu þeir heldur að átrúendur Mahómets ynnu þann dag. „;Mahómets menn",

mælti hann ennfremur, „horfa á leikana, og er vert að sjá þá; gera þeir það bæði sjer til skemmtunar og til þess að spilla ekki fyrir sjer hjá blótmönnum. Nú verður bráðum hin næsta ferð til Svartviðareyjar og mun eg fara og komast eptir því hjá einhverjum af kunningjum mínum, nær skipið siglir ástað og skal eg um leið útvega yður far með því“. Að svo mæltu fór garðyrkjumaður í hátíða búning sinn og skildi kóngsson eptir einan og vinnulausan; hvarflaði hugur hans því heldur til Badur kóngsdóttur, og gekk hann andvarpandi inn í garðinn. Þá ljetu tveir fuglar hátt í trje nokkru og vakti það eptirtekt hans; undraðist hann mjög, hversu ákaft þeir hjuggust, og steyptist annar fuglanna dauður niður úr trjenu, en hinn flaug á burt. En í sama bili komu tveir stærri fuglar fljúgandi úr annari átt og höfðu þeir álengdar sjeð bardagann, settist annar við höfuð, en hinn við fætur dauða fuglsins og horfðu þeir á hann hnípnir og dapurlegir, þvínæst grófu þeir holu með klónum, greptruðu hræ fuglsins og flugu á burt. — Horfði Kamaralsaman forviða á þenna kynlega atburð, sem gerðist niðri undir trje nokkru; gekk hann þangað, og sá á eitthvað rautt, er stóð útúr kviði fuglsins, sem hafði verið rifinn í sundur. Beygði hann sig þá niður og tók það upp, sá hann að það var verndargripur Badur kóngsdóttur, sem hafði ollað honum svo mikils harms, frá því fuglinn tók hann frá honum. „Þú hinn grimmi fugl“, mælti hann, „þú hafðir yndi af að koma illu til leiðar. Svo mikið illt sem eg hef reynt, svo mikils góðs óska eg þeim, sem hefndu mín á þjer, þarsem þeir guldu þjer dráp eins jafningja síns“. Var nú kóngssonur óumræðilega glaður. „Elskulega kóngsdóttir“! mælti hann ennfremur, „þessi blessaða stund, er gefur mjer það aptur, sem var þjer svo dýrmætt, er vafalaust fyrirboði þess, að eg finni sjálfa þig aptur, ef til vill, fyrr enn mig varir. Lofaður sje drottinn, að hann sendi mjer heill þessa og gaf mjer von um hina mestu hamingju, sem eg get óskað mjer“. Svo mælti hann og kyssti verndargripinn, vafði hann vandlega í lín og batt hann á handlegg sjer. Næstu nótt sofnaði hann værum blundi, enda hafði honum ekki í langan tíma komið dúr á auga. Morguninn eptir spurði hann garðyrkjumann, hvað hann ætti að vinna, og beiddi hann kóngsson þá að fella og uppræta gamalt trje, sem engan ávöxt

þar. Fór þá kóngssonur út með öxi og tók til verka. En í því hann hjó einn rótarangann, varð eitthvað hart fyrir öxinni og söng í, sópaði hann því moldinni frá og fann stóra járnplötu. En er hann hafði lypt henni upp, varð fyrir honum stigi með tíu tröppum, gekk hann þar ofan og kom niður í hvelfingu eina. er var marga faðma ummáls; stóðu þar allt umhverfis fimmtíu stór koparker og var lok yfir þeim. Lauk hann þeim upp hverju eptir annað og voru þau öll saman full af gullsandi. Varð hann stórglaður. er hann fann svo mikil auðæfi og fór upp aptur, lagði járnplötuna yfir stigann og hjelt áfram vinnu sinni, því hann vonaði eptir garðyrkjumanninum. Hafði garðyrkjumaður heyrt daginn áður, að skipið. sem fara átti til Svartviðareyjar. mundi sigla þá dagana. og þenna dag hafði hann farið út til að fá vissa vitneskju um nær skipið færi. Þegar hann kom aptur mátti sjá á yfirbragði hans. að hann færði Kamaralsaman gleðitíðindi. „Fagna þú son minn“! sagði hann við kóngsson, „og vert ferðbúinn að þriggja daga fresti, því þá leggur skipið á stað. Eg hef umgengizt allt við skipstjórnarmann og útvegað þjer far með honum“.

„Einsog nú á stendur“, svaraði Kamaralsaman. „gátuð þjer ekki sagt mjer gleðilegri tíðindi. en í þakklætis skyni get eg líka sagt yður nokkuð, sem eg veit yður mun þykja vænt um. Komið nú með mjer og sjáið. hvílíka blessun drottinn hefir sent yður“. Fór hann þá með garðyrkjumanninn niður í hvelfinguna og sýndi honum auðæfin. sem þar voru, kvaðst hann fagna því af alhuga, að guð hefði launað með þessu langvinnar þrautir hans. En hinn gamli maður vildi ekki þiggja auðæfin og mælti: „þetta er þín eign; eg hef nú rótað moldinni í garði þessum í áttatíu ár. allt frá því faðir minn andaðist og ekki fundið auðæfi þessi, sje eg af því, að þau hafa verið þjer fyrirhuguð. Enda sæma þau þjer betur. sem ert kóngssonur, heldur enn mjer, sem stend með annan fótinn í gröfinni og ekki þarf neins við. Guð sendir þjer þau í hæfilegan tíma, þarsem þú nú fer heim í ríki þitt; veit eg að þú munir verja þeim til góðs“. Kóngssonur vildi ekki standa á baki garðyrkjumannsins í drengskap og urðu þeir eptir langa deilu ásáttir um. að skipta gullinu og fjekk hver um sig tuttugu og fimm ker. „En ekki má hjer við lenda, sonur“! mælti garðyrkjumaðurinn, „því

nú er eptir að koma auðæfunum útá skip. svo að enginn verði þess áskynja. því ella áttu á hættu að þú missir þau. Á Svartviðarey vaxa ekki viðsmjörsber, en þau, sem hjer vaxa eru þar í afhaldi. Þú veizt að eg hef haft mikla berjatekju af garði mínum, skaltu því taka fimmtíu ker. fylla þau gullsandi til hálfs, en viðsmjörsberjum til hálfs, síðan látum við flytja þau útá skip". Kamaralsaman kóngssonur hlýddi heilræði hans og var nú það sem eptir var dagsins að búa um berin. Faldi hann verndargrip Badur kóngsdóttur í einu kerinu og setti á það merki, því hann var hræddur um, að hann kynni að týna honum. En er hann hafði búið fullvel um öll kerin, fór hann með garðyrkjumanni heim til hans, sagði honum frá viðureign beggja fuglanna og öllum atvikum, hvernig hann náði aptur verndargrip Badur kóngsdóttur, á svo kynlegan hátt, að það fjekk honum undrunar ekki síður enn fagnaðar. Næstu nótt varð garðyrkjumanni óglatt, hvort sem það nú hefir verið elli sjúkdómur eða afleiðing af áreynslu hans daginn áður: elnaði honum sóttin tvo hina næstu daga. En á hinum þriðja morgni árdegis kom skipstjórnarmaður með mörgum hásetum að garðhliðinu og lauk Kamaralsaman upp fyrir þeim; spurðu þeir eptir manni þeim, sem ætlaði að verða þeim samferða til Svartviðareyjar. Sagði hann undireins til sín og mælti: „Garðyrkjumaðurinn, sem samdi um farið fyrir mína hönd, er nú veikur og getur eigi talað við yður, en komið samt inn og gerið svo vel að taka ker þessi, sem eru full af viðsmjörsberjum, ásamt farangri mínum. Eg verð að kveðja garðyrkjumanninn og mun eg fljótt ná ykkur". Hásetarnir báru nú burt kerin og annan farangur Kamaralsamans, og áður enn skipstjórnarmaður færi, beiddi hann kóngsson að koma tafarlaust útá skip, því nú væri gott leiði og gætu þeir undireins siglt, ef ekki stæði á honum. Þegar skipstjórnarmaður og hásetarnir voru farnir, fór Kamaralsaman aptur til garðyrkjumannsins til að kveðja hann og þakka honum fyrir allt gott. Hann kom að honum, þarsem hann lá í andarslitrunum og beiddi hann, einsog er siður guðhræddra Mahómets manna á dauðastundinni, að mæla fram trúarjátningu sína; gerði garðyrkjumaðurinn það og andaðist því næst. Nú með því Kamaralsaman varð undireins að stíga á skipsfjöl, flýtti hann sjer einsog hann gat að veita hinum

frammliðna nábjargir. Þvoði hann líkið, veitti því umbúnað og greptraði það einsamall í garðinum, því Mahómets menn, sem með naumindum voru liðnir þar í borginni, höfðu engan opinberan greptrunarstað; varð hann ekki búinn að þessu fyrr enn um kvöldið. Hljóp hann nú á stað og ætlaði útá skipið, tók hann með sjer lykilinn að garðinum, með þeim ásetningi, að skila eigandanum honum ef hann hefði tíma til, eða fá hann í hendur einhverjum áreiðanlegum manni í vitna viðurvist og biðja hann að skila honum. En er hann kom ofan til hafnarinnar, var honum sagt að skipið væri fyrir löngu siglt á stað og horfið úr augsýn, en hefði þó beðið hans í rúmar þrjár stundir.

Nú var Kamaralsaman, einsog fer að líkindum, nauðugur einn kostur að dvelja enn lengur í landi þessu, þarsem hann var öllum ókunnugur og vildi engum kynnast; hlaut hann að bíða eitt ár enn þangaðtil ferð sú yrði aptur, er hann hafði setið af sjer. Jók það á hrygð hans að hann hafði látið frá sjer verndargrip Badur kóngsdóttur og hjelt hann nú að hann væri með öllu týndur. Nú sá hann ekki annað sýnna, eptir því sem komið var, enn að hverfa aptur til garðsins, og leigja hann til yrkingar og notkunar hjá eigandanum, og bera svo böl sitt og mótlæti. Af því hann gat ekki sjálfur unnið öll þau verk, er þurfti, leigði hann sjer vinnudreng; hugsaði hann nú með sjer, að hann ekki skyldi missa þann part auðæfanna, sem garðyrkjumaðurinn hafði látið honum eptir sig, einsog hann hafði misst sinn hlut áður, og skipti því gullsandinum niður í fimmtíu ker og fyllti þau efst með viðsmjörsviðarberjum, svo að hann gæti tekið þau með sjer, þegar að því kæmi.

Þannig byrjaði nú nýtt hörmunga ár fyrir Kamaralsaman, en skipið sigldi leiðar sinnar í óskabyr og náði farsællega til höfuðborgarinnar á Svartviðarey. Konungshöllin stóð þar á sjáfarbakkanum og sá því hinn nýji konungur, eða með öðrum orðum Badur kóngsdóttir, þegar skipið lagði inná höfnina með blaktandi flöggum og veifum. Spurði hún hvaða skip það væri og var henni sagt að það kæmi á ári hverju og ætíð um sama leyti frá borg blótmannanna, og væri optastnær hlaðið dýrindis farmi.

Þó nú kóngsdóttir sæji ekki annað í kringum sig enn konunglega dýrð og viðhöfn, hafði hún þó ætíð Kamaralsaman í huganum

og datt henni í hug, að hann kynni að vera á skipi þessu. Hugsaði hún sjer því að verða fyrri til og fara til móts við hann, en gera ekki uppskátt, hver hún væri, því hún þóktist vita að hann mundi ekki þekkja sig, og ætlaði hún að sjá svo um, að þeim yrði auðið að njótast. Ljet hún í veðri vaka, að hún sjálf ætlaði að spyrjast fyrir um varninginn á skipinu, skoða hann og kjósa úr það, sem henni yrði að skapi, og skipaði hún að taka reiðskjóta handa sjer. Fóru ýmsir embættismenn með henni og kom hún ofan til hafnarinnar í sama bili sem skipstjórnarmaður stje á land. Hún ljet kalla hann fyrir sig og spurði hann, hvaðan hann kæmi, hvað lengi hann hefði verið á leiðinni og hvað honum hefði viljað til á ferðinni, spurði hún og, hvort ekki væru neinir tignir útlendingar með honum, og hverskonar varningi skipið væri fermt. Leysti skipstjórnarmaður úr öllum þessum spurningum og sagði. að engir ferðamenn væri á skipinu, heldur eintómir kaupmenn, sem vanir væru að koma og hefðu þeir meðferðis hinn dýrasta vefnað úr ýmsum löndum, hið smágjörvasta ljerept, og væri litmyndir á sumu en sumu ekki, gimsteina, des, grátt reykelsi, kamfóru, kryddvörur, læknislyf, viðsmjörsber og allskyns annan varning. Nú þókti kóngsdóttur viðsmjörsber ákaflega góð og brá því undireins við og hún heyrði þau nefnd og mælti: „Allt sem þjer hafið innanborðs af viðsmjörs berjum tek eg handa mjer; látið undireins skipa þau upp svo að við getum gert útum kaupin. En segið kaupmönnunum, að þeir skuli sýna mjer það, sem bezt er af hinum varningnum, áðurenn nokkur annar fær að sjá það“. „Herra!“ svaraði skipstjórnarmaður, sem ekki vissi betur enn að hann ætti tal við sjálfan konunginn, „út á skipinu eru fimmtíu ker full af viðsmjörsberjum, en þau á kaupmaður nokkur, sem eptir varð. Eg ljet hann vita, þegar við ætluðum að sigla á stað og beið lengi eptir honum. En er hann kom eigi að heldur, og seinlæti hans varnaði mjer að nota hagstæðan byr, þá þraut mig þolinmæði og sigldi eg því á stað“. „Látið skipa upp viðsmjörsberin“, mælti kóngsdóttir, „eg kaupi þau allt fyrir það“. Sendi skipstjórnarmaður þá bát sinn út til skipsins og leið ekki á löngu að viðsmjörsberin voru borin á land. Spurði kóngsdóttir, hversu mikils þessi fimmtíu ker mundu vera verð á Svartviðarey og svaraði skipstjórnarmaður:

„Eigandinn er örsnauður og ekki mundi yðar hátign ofborga. þó þjer gæfuð honum þúsund silfurpeninga fyrir þau". „Svo að hann ni vel kaupum", mælti kóngsdóttir, „með því líka þjer segið hann vera fátækan. skal eg fá yður þúsund gullpeninga og bið eg yður afhenda honum þá". Skipaði hún að greiða fjeð af hendi og ljet bera kerin burt, þvínæst snjeri hún heim aptur til hallarinnar. En er náttaði gekk hún til hinna innri herbergja í höllinni til Haiatalnefus kóngsdóttur og ljet bera þangað hin fimmtíu ker. — Lauk hún einu þeirra upp og ætlaði sjálf að smakka og láta hana smakka á berjunum, og hellti þeim úr kerinu niðrí skál. Brá henni þá mjög við, því hún sá að viðsmjörsberin voru blandin gullsandi. „Sjá undur mikið"! mælti hún og ljet ambáttir Haiatalnefus ljúka upp kerunum að sjer ásjáandi og hella úr þeim. Undraðist hún enn meir er hún sá, að viðsmjörsberin í öllum kerunum voru blandin gullsandi; en er hrist var úr því kerinu, sem Kamaralsaman hafði fólgið í verndargripinn og hún kom auga á hann brá henni svo við, að hún hnje í ómegin. Þær Haiatalnefus og ambáttir hennar hlupu nú til að stumra yfir henni. stökktu vatni í andlit henni eg komu henni til sjálfrar sín. En er hún var röknuð við. tók hún verndargripinn og kyssti hann hvað eptir annað. Nú með því hún ekki vildi gera neitt uppskátt fyrir þjónustukonunum. en háttatími var kominn, skipaði hún þeim að fara burt. En er hún var ein með Haiatalnefus tók hún þannig til máls. „Kóngsdóttir! eg hef sagt yður svo mikið af æfi minni, að yður mun ekki leika neinn efi á, að öngvit mitt kom af því, að eg sá verndargripinn. Eg á hann og það er sá hinn sami. sem skildi mig frá Kamaralsaman elskulegum eiginmanni mínum; olli hann sárgrætilegum skilnaði okkar, en það veit eg fyrir víst, að hann mun einnig valda því, að við finnumst bráðum aptur". Snemma næsta dag sendi Badur kóngsdóttir eptir skipstjórnarmanni og sagði við hann. „Segið mjer nokkuð gerr af kaupmanninum er átti viðsmjörsberin, sem eg keypti í gær. Mig minnir þjer segðuð, að þjer hefðuð skilið hann eptir í borg blótmannanna, getið þjer ekki sagt mjer, hvað hann aðhafðist þar"? „Á því veit eg góð deili", svaraði skipstjórnarmaður, „því garðyrkjumaður nokkur gamall samdi við mig um far fyrir hans hönd, og sagði hann

mjer, að eg gæti hitt hann hjá sjer í garðinum, því hann væri þar við vinnu, sagði eg fyrir þá sök að hann væri fátækur. Eg leitaði hann upp í garðinum og sagði honum sjálfur, að hann skyldi koma útá skip". „Fyrst svo er mál með vexti", mælti Badur, „verðið þjer þegar í dag að sigla aptur til borgar blótmannanna, og sækja garðyrkju svein þenna, því eg á hjá honum; ella mun eg kasta eigu minni bæði á varning yðar og kaupmanna þeirra, sem eru í för með yður, og skal það varða lífi bæði yðar og þeirra. Skal eg þegar í stað láta setja innsigli fyrir geymslubúr þau, sem varningurinn er í, og skal það eigi burt tekið fyrr enn maður þessi er á mitt vald kominn. Þetta var erindi mitt við yður; farið nú og gerið vilja minn!" Skipstjórnarmaður þorði eigi að mögla mót skipun þessari, er bæði hann og kaupmenn máttu svo mikið tjón af hljóta, ef eigi væri hlýtt. — Sagði hann kaupmönnum frá þessu og undu þeir nú bráðan bug að flytja vatn og vistir útá skipið, svo sem til ferðarinnar þurfti, og urðu þeir svo skjótbúnir, að skipið sigldi á stað sama dag. Urðu þeir vel reiðfara og gerði skipstjórnarmaður svo vel ráð sitt, að hann náði til borgar blótmannanna um það leyti sem náttsett var. En er hann var kominn nógu nálægt landi lagði hann skipinu að, en varpaði eigi akkeri, rjeri síðan til lands á bát og lenti spölkorn frá höfninni, fór síðan með sex áræðna sjómenn til garðsins, sem Kamaralsaman var í. Kóngssonur var vakandi, og harmaði hann einsog fyrri skilnaðinn frá konu sinni, og bölfaði þeirri stund, er hann ljet forvitnina ginna sig til að skoða belti hennar, er hann aldrei skyldi hafa snert. Vakti hann þannig á þeim tíma, sem til hvíldar er ætlaður, en nú heyrir hann að barið er á dyr. Hleypur hann þá hálfklæddur til dyra, og lýkur upp, en í sama vetfangi taka þeir hann höndum, skipstjórnarmaður og hásetarnir; mæltu þeir ekki orð, en drógu hann með valdi fyrst útí bátinn og rjeru síðan út til skipsins; þvínæst sigldu þeir undireins aptur til Svartviðareyjar. Hafði Kamaralsaman í fyrstu þagað einsog skipstjórnarmaður og hásetar hans, en nú spurði hann skipstjórnarmann, því þeir drægju sig burt með ofríki. Þá mælti skipstjórnarmaður: „Eruð þjer ekki skuldanautur konungsins á Svartviðarey"? en Kamaralsaman varð forviða og kvaðst eigi þekkja hann, aldrei hafa stigið fæti á land

hans, eða átt nokkur viðskipti við hann. Þá svaraði skipstjórnarmaður: „Þjer munuð vita það betur enn eg og munuð síðan hafa tal af honum, en sitjið hjer nú fyrst um sinn og hafið þolinmæði". Skipinu varð nú eins farsællegrar ferðar auðið, er það flutti Kamaralsaman til Svartviðareyjar, eins og þegar það lagði á stað að sækja hann. Þegar það lagðist á höfninni var komið dagsetur og ljet skipstjórnarmaður allt fyrir það róa sig og Kamaralsaman til lands, fór hann með hann til konungshallarinnar og kvaðst vilja finna konung að máli. Badur var þá komin í innri herbergi hallarinnar, en undireins og hún heyrði að skipið væri komið með eiganda viðsmjörsberjanna, kom hún út til að tala við hann. Hún leit til kóngssonar, er hún hafði saknað svo mjög og þekkti hann undireins, þó hann væri í auðvirðilegum búningi. En Kamaralsaman gekk skjálfandi fram fyrir konunginn, sem hann nú átti að gera skil fyrir ímyndaðri skuld, og ekki datt honum í hug nje hjarta, að hann stæði frammi fyrir þeirri konu, er hann þráði svo mjög að finna. Hefði kóngsdóttir gert svo sem henni hneigðist hugur til, mundi hún hafa hlaupið um háls honum og sagt, hver hún var. En hún hugði það vera þeim báðum fyrir beztu, að halda uppteknu ráði ennþá nokkra stund, áðurenn hún segði til sín. Ljet hún sjer því nægja að biðja embættismann nokkurn, er viðstaddur var, að sjá um kóngsson og þjóna honum vel til næsta morguns. Þvínæst launaði hún skipstjórnarmanni hið mikla gagn, er hann hafði gert henni, ljet lausar vörur hans, er hún hafði látið innsigla og gaf honum dýran demant; bætti hann margfalt óhag þann, er skipstjórnarmaður hafði haft af ferð þeirri, er hann var neyddur til að fara. Hún sagði og, að hann skyldi eiga hina þúsund gullpeninga, sem hann hafði tekið við fyrir viðsmjörsberja kerin, kvaðst hún skyldu koma sjer saman um þetta við eiganda þeirra. En er hún kom aptur í herbergi Haiatalnefus og sagði henni þessi gleðitíðindi, beiddi hún hana um leið að vera þagmælska einsog fyrri og sagði henni, hvernig hún ætlaði að haga ráði sínu áðurenn hún segði kóngssyni, hver hún væri, og ljeti kunnugt verða, hver hann væri. „Það er svo langt bil milli þess að vera garðyrkjumaður og voldugur konungur", mælti hún, „að ísjárvert er að hefja hann af lægsta stigi til slíkrar hátignar, þó hann sje þess í alla staði

maklegur“. Fór því fjærri að Haiatalnefus kóngsdóttir brigðist henni nú, heldur samþykkti hún áform hennar og kvaðst feginshendi skyldu gera allt, sem hún vildi. Ljet nú Badur fylgja kóngssyni til lauga snemma morguns, og var honum þar fengin emírs eða jarls skikkja. Kóngsdóttir, sem ennþá kom fram einsog konungur Svartviðareyjar, búin konunglegum skrúða, ljet nú leiða hann til ráðs samkomu; varð öllum höfðingjunum þar starsýnt á hann, sökum fríðleika hans, fyrirmennsku og kurteisi. Varð Badur stórglöð, er hún sá, að hann var ennþá eins elskulegur og henni hafði virzt hann vera fyrrum, og jók það henni þor til að lofa hann í heyranda hljóði. „Þjer höfðingjar“! mælti hún, og vjek sjer að hinum emírunum, „Kamaralsaman þessi, er eg í dag geri að samlagsbróður ykkar, er eigi ómaklegur sætis þess, er eg fæ honum á meðal yðar. Eg hef kynnzt honum til hlítar á ferðum mínum, svo eg þori að ábyrgjast hann, og það fullyrði eg, að hann mun ekki minna bera af öðrum mönnum sakir hreysti og annara mannkosta, enn sakir andlegs atgjörfis“. Undraðist Kamaralsaman mjög, er hann heyrði að konungurinn á Svartviðarey nefndi hann á nafn og sagðist þekkja hann, en ekki grunaði hann að konungurinn væri kona og því síður, að hann væri kona hans. Þóktist hann með sjálfum sjer vera viss um, að hann hefði aldrei heyrt hann nje sjeð, og þókti honum því kynlegra, að hann skyldi setja slíkt hól uppá sig. En eigi kom samt fát á hann, heldur tók hann öllu með slíkri kurteisi, að auðsætt virtist, að hann væri sæmdanna maklegur, og mundi eigi ofmetnast af þeim. Fleygði hann sjer fram fyrir hásæti konungs og mælti: „Herra! mjer verður orðfátt að þakka yður hina miklu virðingu, er þjer auðsýnið mjer, og hinar miklu velgjörðir, sem þjer hafið veitt mjer. Eg skal af fremsta megni reyna til að sýna mig þeirra verðugan“. Embættismaður nokkur fylgdi Kamaralsaman af ráðs samkomunni til stórrar hallar, hafði Badur látið búa hana og koma henni í lag, svo að Kamaralsaman gæti búið í henni. Hitti þann þar þjóna og embættismenn, er biðu skipana hans; höllinni fylgdi og hesthús fullt af afbragðs gæðingum. Vildi Badur að hann bærist ekki minna á enn emír sæmdi og jafnskjótt sem hann var kominn í herbergi sitt, fjekk ráðsmaður hans honum kistu fulla af gullpeningum.

Furðaði kóngsson sig á þessu því heldur sem hann eigi fjekk skilið, hversvegna svo mikið væri haft við sig; en sízt kom honum til hugar að kóngsdóttirin frá Kínlandi ætti nokkra hlutdeild í því. Að tveimur eða þremur dögum liðnum gerði Badur hann að fjárhags ráðgjafa, því það embætti var þá nýlosnað, gerði hún það til þess að hann ætti frjálsara að koma á sinn fund og líka til þess að auka virðingu hans. Stýrði Kamaralsaman embætti þessu svo rjettvíslega, að hann varð hvers manns hugljúfi, og varð hann ekki einungis vinur allra hirðmannanna, heldur ávann hann sjer almenna þjóðhylli með rausn og ráðvendni. Mundi Kamaralsaman nú hafa verið hinn sælasti maður undir sólinni, þarsem hann var í svo góðu yfirlæti hjá útlendum konungi, en virðing hans fór dagvaxandi, hefði hann eigi saknað konu sinnar. Þrátt fyrir alla velgengni sína sárnaði honum sí og æ, að hann skyldi ekkert frjetta til hennar í landi þessu; því hún hlaut að hafa farið þar hjá, eptir að þau skildu. Mundi hann hafa komizt eptir, hvernig í þessu lá, hefði kóngsdóttir haldið nafni og búningi Kamaralsamans, er hún bar í fyrstu. En er hún settist í konungs hásæti hafði hún lagt nafnið niður, og tekið upp nafn Armanos tengdaföður síns í virðingar skyni við hann, og var hún nú almennt kölluð Armanos hinn yngri. Að vísu mundu einstöku hirðmenn, að hún hafði nefnt sig Kamaralsaman, þegar hún fyrst kom í Svartviðarey, en kóngssonur var þeim lítt kunnugur og hafði því eigi heyrt það. En líklegt var að til þess mundi draga og það var Badur kóngsdóttir hrædd um; vildi hún sjálf hlutast svo til, að Kamaralsaman þekkti hana aptur, og ásetti sjer því að eyða harmi sínum og hans. Hafði hún tekið eptir því, að í hvert sinn sem hann ræddi um embættis málefni sín, varpaði hann öndinni öðru hverju, og var auðvitað að hann gat ekki andvarpað annars vegna enn hennar. Hún hlaut og sjálf að leggja á sig mikla þvingun meðan þessu fór fram og hugði hún bezt að varpa oki þessu af sjer. En svo var Kamaralsaman vinsæll meðal höfðingja og svo elskaður af lýðnum, að honum mundi veita hægt að verða konungur á Svartviðarey. Sagði nú Badur Haiatalnefus frá þessari ætlun sinni, kallaði Kamaralsaman þvínæst á eintal og sagði við hann: „Kamaralsaman! eg þarf yðar ráðaneytis í mikilsvarðandi máli, og með

því eg veit engan hentugri tíma til að ræða um það við yður, þá ætla eg að gera það í nótt. Komið því til mín í kvöld, og sjáið svo um, að yðar ekki verði vænt heima hjá yður; eg ætla að fá yður hvílu hjerna". Kom Kamaralsaman á tilteknum tíma til hallarinnar og fór Badur með hann í innri herbergin. Ætlaði þá höfuðsmaður geldinganna að fylgja þeim, en hún sagði að hans væri ekki þörf, og skyldi hann sjá um að dyrunum væri lokað. Fylgdi hún síðan kóngssyni í herbergi nokkurt, var hún sjálf vön að sofa í því, en Haiatalnefus var í öðru herbergi. Þegar þau voru bæði komin inní herbergið og dyrunum var lokað, tók Badur kóngsdóttir verndargripinn uppúr litlu eski, sýndi kóngssyni og mælti: „Stjörnuspámaður nokkur gaf mjer verndargrip þenna fyrir skömmu síðan; nú með því þjer eruð svo fróður um alla hluti, þá munuð þjer geta sagt mjer, hver náttúra fylgir honum". Tók Kamaralsaman við verndargripnum og gekk að ljósi einu til að skoða hann betur. Kannaðist hann við hann og brá honum mjög við, en kóngsdóttur þókti vænt um. „Yðar hátign spyr mig", mælti hann, „hver náttúra fylgi verndargrip þessum. Æ! hann getur banað mjer með sorg og harmi, ef eg eigi finn aptur kóngsdótturina, sem var fegurst og elskulegust allra kvenna, sem eru og verið hafa, hann olli, því að eg missti hana. Er það kynlegt æfintýri og vildi yðar hátign heyra mig segja frá því, gæti það hrært yður til meðaumkvunar með ólánssömum manni, sem hefir mikla elsku á konu sinni". „Það getið þjer gert í annað skipti", svaraði kóngsdóttir, „en vænt þykir mjer um það, að eg get sagt yður, að eg er þessu eigi ókunnug. Eg skal undireins koma aptur, bíðið mín aðeins stundarkorn". Að svo mæltu gekk hún inní herbergi, sem var þar til hliðar, tók þar af sjer konungs túrban, fór í kvennklæðnað, setti upp kvennlegan höfuðbúnað og gyrti sig belti því, er hún hafði borið daginn, sem þau Kamaralsaman skildu. Kom hún aptur í búningi þessum og þekkti kóngssonur konu sína undireins, hljóp um háls henni og vafði hana í faðm sinn svo mælandi: „Hvílíkar þakkir má eg kunna konungi fyrir, að hann býr mjer svo óvæntan fögnuð!". Þá svaraði kóngsdóttir og lagði grátandi hendur sínar um háls honum: „Vonastu ekki eptir að sjá konunginn, því þarsem eg er, sjerðu hann. Nú skulum við setjast

niður og skal eg skýra þjer þessa gátu". Sagði kóngsdóttir nú manni sínum, hvert ráð hún hafði tekið þegar þau höfðu seinast tjaldað á enginu, eptir að hún þóktist gengin úr skugga um, að hann ekki mundi koma aptur. Hún sagði honum ennfremur, hversu hún hefði farið ráði sínu fram þangaðtil hún kom í Svartviðarey, og varð neydd til að eiga Haiatalnefus, svo að hún fyrir ráðahag þenna gæti tekið við ríki og völdum af Armanos konungi. Greindi hún og frá því, hversu vel Haiatalnefus hefði farizt, er hún sagði henni, að hún væri kona, og hvernig hún hefði fundið verndargripinn aptur í einu af kerunum, sem hún keypti af skipstjórnarmanni og full voru af viðsmjörsberjum og gullsandi, væri það þannig verndargripnum að þakka, að hún hefði getað látið sækja hann úr borg blótmannanna. Þegar Badur hafði lokið sögu sinni, spurði hún, hvernig skilnaður þeirra hefði atvikazt af verndargripnum. Gerði Kamaralsaman það og lauk sögu sinni með átölum útaf hörku hennar, að hún skyldi láta hann þrá svo lengi. En hún sagði honum hvað sjer hefði gengið til þess og er skýrt frá því hjer að ofan, var nú frammorðið og gengu þau því bæði til hvílu.

Undireins og ljómaði af degi risu þau Kamaralsaman og Badur úr rekkju, en nú klæddist hún kvennmannsfötum en eigi konungs búningi. Þegar hún var alklædd sendi hún höfuðsmann geldinganna til Armanos konungs, tengdaföður síns, og beiddi hann að finna sig að máli. En þegar Armanos kom inní herbergið, varð hann forviða, er hann sá ókunnuga konu og fjárhagsráðgjafann, sem ekki átti neina heimild á, að koma í hin innri herbergi hallarinnar, heldur enn hinir hirðmennirnir. Settist hann niður og spurði, hvar konungur væri. Þá svaraði kóngsdóttir: „Herra! ígær var eg konungur, en í dag er eg ekki nema kóngsdóttir frá Kínlandi, kona hins rjetta Kamaralsamans, sonar Schachsamans konungs. Vilji yðar hátign hafa þolinmæði og heyra sögu okkar, þá vona eg þjer kastið ekki þungum steini á mig, heldur virðið mjer til vorkunar, að eg ljek á yður". Armanos konungur veitti henni áheyrn og hlýddi með undrun á sögu hennar frá upphafi til enda. Lauk kóngsdóttir þannig máli sínu: „Herra! þó að konur þær, er vora trú hafa uni því illa, að menn neyti heimildar sinnar til að

hafa fleiri enn eina konu, þá vil eg samt, ef yðar hátign samþykkir, að Kamaralsaman gangi að eiga Haiatalnefus, dóttur yðar, eptirlæt eg henni drottningartignina, sem hún með rjettu á tilkall til, og læt eg mjer lynda að ganga henni næst. Og þó hún ekki ætti heimtingu á að ganga fyrir mjer, þá ber mjer samt, að víkja úr sæti fyrir henni, af því hún þagði yfir launungarmáli mínu með slíkum drengskap. En skyldi yðar hátign heimta samþykki hennar, þá læt eg yður vita, að eg hef borið þetta undir hana og fengið vissu fyrir, að henni geðjast vel að". Hlýddi Armanos konungur með undrun á mál Badur kóngsdóttur, en er hún var þögnuð, vjek hann sjer að Kamaralsaman og mælti: „Sonur! eg blekktist, svo að eg hugði Badur konu þína vera tengdason minn, og skal eg eigi fást um það. Úr því hún nú segist vilja eiga hvíluneyti við þig jöfnum höndum með dóttur minni, þá hlýt eg að spyrja þig þess, hvort þú viljir eiga hana líka og þiggja kórónu þá, sem kóngsdóttirin frá Kínlandi átti skilið að bera æfilangt, ef hún nú ekki afsalaði sjer henni af elsku til þín". Svaraði þá Kamaralsaman: „Herra! svo ákaft sem mig langar til að sjá föður minn aptur, á eg þó yðar hátign og Haiatalnefus dóttur yðar svo mikið gott upp að unna, að eg má ekki synja yður neins".

Gerðu nú kallarar heyrimkunnugt, að Kamaralsaman væri orðinn konungur; fór brúðkaup hans fram sama dag með mikilli viðhöfn. Hafði hann mesta yndi af gáfum, fríðleika og elsku Haiatalnefus kóngsdóttur, en báðar drottningarnar bjuggu framvegis saman í sátt og samlyndi einsog fyrri, enda gerði Kamaralsaman heldur engan mun á þeim. Eignuðust þær sama árið sinn soninn hver, og voru miklar fagnaðarhátíðir haldnar, er sveinarnir voru fæddir. Eldri sveininn, sem Badur átti, kallaði Kamaralsaman Amgiad, en son Haiatalnefus kallaði hann Assad.

# Frá 250. til 272. nætur.

## Sagan af Amgiad og Assad.

„Báðir kóngssynirnir voru uppaldir með mestu alúð og þegar þeim jókst aldur, var þeim fenginn sami siðameistari og sömu

kennarar í öllum þeim fræðum, listum og íþróttum, sem Kamaralsaman vildi láta kenna þeim. Höfðu þeir hina mestu ást hver á öðrum frá blautu barnsbeini og fór hún dagvaxandi. En er þeir voru komnir á þann aldur, að þeir skyldu búa sinn í hverju húsi, voru þeir svo samrýndir, að þeir báðu Kamaralsaman, að lofa sjer að búa í sama húsinu. Var þeim lofað það og höfðu þeir hina sömu embættismenn undir sjer, sömu þjóna, sömu hesta, sama hús og sama borð. Hafði Kamaralsaman svo mikið traust á vitsmunum þeirra og ráðvendni, að þegar þeir voru átján vetra, hikaði hann sjer ekki við, að láta þá til skiptis hafa forsetadæmið í ríkisráðinu á hendi, þegar hann reið útá veiðar og ætlaði sjer að vera nokkra daga burtu. Voru báðir kóngssynirnir fríðir sýnum og vel vaxnir, og þókti mæðrum þeirra frábærlega vænt um þá, en því vjek svo við, að Badur unni meira Assad syni Haiatalnefus enn Amgiad syni sínum, aptur unni Haiatalnefus Amgiad meira en Assad syni sínum. Í fyrstunni hugðu þær drottningarnar að þokki þessi væri sprottinn af hinni miklu elsku. er þær báru hver til annarar, en að því skapi sem sveinarnir eltust, snjerist hann í ákafa ást, en ástin varð að brennandi ástríðu, því þeir kóngssynirnir voru gæddir töfrandi fegurð. Vissu þær að vísu, hversu andstyggileg ástríða þessi var og gerðu allt sitt til að bæla hana niður. En með því þær umgengust þá á degi hverjum og höfðu allt frá því þeir voru börn, vanið sig á að dást að þeim og kjassa þá, urðu þær svo upptendraðar af girnd, að þær nutu hvorki svefns nje matar. Varð það bæði sjálfum þeim og kóngssonunum til óhamingju, að þeim datt ekki í hug nje hjarta, að drottningarnar byggju yfir þessari syndsamlegu ást.

Sín í milli leyndi hvorug drottningin aðra þessarar ástríðu, en eigi voru þær svo ósvífnar, að þær þyrðu að láta hana í ljósi við þá sonu sína og kom þeim því saman um, að þær skyldu gera það brjeflega. Sættu þær lagi, að koma þessari svívirðilegu ætlun fram einusinni þegar Kamaralsaman var farinn útá veiðar og ætlaði að vera burtu þrjá eða fjóra daga. Fyrsta daginn sem hann var burtu, þegar Amgiad kom af ráðstefnu til hallarinnar nokkrum stundum eptir hádegi, tók geldingur nokkur hann afsíðis og fjekk honum seðil frá Haiatalnefus. Tók Amgiad við honum

og brá honum ógurlega við er hann las það, er í honum stóð. Hann brá sverði sínu úr slíðrum og æpti að geldingnum: „Drottinssvikari! er þetta trygð sú, er þjer ber að sýna konungi þínum og herra?“ að svo mæltu hjó hann af honum höfuðið. Fór nú Amggiad undireins fokreiður til Badur móður sinnar og sýndi henni með reiðisvip brjef það, er hann hafði fengið og sagði henni frá hverri það væri og hvers efnis. En Badur vildi eigi hlýða á orð hans, heldur brást hún reið við og mælti: „Sonur! það, sem þú segir, er ekki annað en lygi og rógur. Haiatalnefus drottning er vitrari enn svo, að hún geri slíkt, og þykir mjer þú furðu djarfur, að hafa svo ósvífin orð um hana, þegar eg heyri“. Varð Amgiad þá bálreiður við móður sína og mælti: „þið haldið saman og er hver annari verri. Skyldi Haiatalnefus lifa þenna dag síðastan, ef ekki aptraði mjer lotning sú, er mjer ber að sýna föður mínum“. þóktist Badur drottning geta ráðið það af breytni Amgiaðs sonar síns, að Assad sem var eins vammlaus, mundi ekki taka betur ástarjátningu þeirri, er hún ætlaði að tjá honum. En eigi aptraði það henni frá þessu andstyggilega áformi og skrifaði hún seðil til hans daginn eptir og fjekk hann gamalli konu, sem heimilt var að koma í höllina. Sat kerling um þegar Assad kom af ráðstefnu og fjekk honum brjefið, því hann hafði forsetadæmið í ráðinu þann dag. Tók hann við brjefinu, en áður enn hann læsi það til enda, varð hann svo reiður, að hann brá sverði sínu og launaði kerlingu einsog maklegt var. Hljóp hann til Haiatalnefus móður sinnar með seðilinn í hendinni og ætlaði að sýna henni. En hún gaf honum ekki tíma til þess, heldur segir hún: „Eg veit hvað þú vilt mjer, þú ert eins ósvífinn og hann Amgiad bróðir þinn. Snáfaðu burt og komdu aldrei fyrir mín augu framar“. — Assad varð fyrst forviða er móðir hans tók honum þannig, en þvínæst varð hann svo æfareiður, að við sjálft lá, að hann mundi láta hana kenna á bræði sinni. En hann sekkti samt reiðina og gekk burt svo að hann sagði ekki orð, því hann vildi ekki segja neitt það, er ósamboðið væri drengskap sínum. Amgiad hafði verið svo dulur, að hann hafði alls ekki sagt honum frá brjefi því, er hann fjekk daginn áður, en Assad gat ráðið það af orðum móður sinnar, að hún mundi vera jafnsek og Badur, gekk hann því á hans fund og

átaldi hann blíðlega fyrir þagmælsku sína og svöluðu þeir nú báðir harmi sínum. Drottningarnar örvæntu, er þær höfðu reynt manndygð sona sinna, en í stað þess að sjá að sjer, gleymdu þær öllum móðurlegum tilfinningum og tóku sig saman um að fyrirkoma þeim. Töldu þær því þjónustukonum sínum trú um, að þeir hefðu ætlað að nauðga sjer; gerðu þær sjer upp grát og ekka og margbölfuðu þeim, lögðust síðan báðar fyrir í rúm, einsog þær væru dauð uppgefnar af því að verjast ásóknum þeirra. Þegar Kamaralsaman kom heim af veiðum næsta dag, brá honum mjög í brún, er hann hitti þær, liggjandi í rúminu þrútnar af gráti og aumlega útleiknar og sá hann aumur á þeim. En er hann spurði, hvað þær hefði hent, gerðu þær sjer upp hálfu meiri grát og ekka enn áður, og ljetu hann lengi ganga á sig, en loksins tók Badur drottning til orða og mælti: „Herra! harmur okkar er ekki um skör fram, og svo er honum varið, að við ættum aldrei að láta sjá okkur við dagsbirtuna framar, slíka skapraun hafa synir þínir gert okkur með fádæmis ósvífni. Þeir hafa meðan þú varst burtu, gert samtök um það, sem er óhæfa eptir ætterni þeirra. og reynt til að ósæma okkur. Beiðztu ekki frekari frásagnar af okkur, það sem á vantar munt þú fá ráðið af harmi vorum“. Ljet þá konungur kalla á báða sonu sína og mundi hafa drepið þá, hefði Armanos tengdafaðir hans eigi verið nærstaddur og aptrað honum. „Hvað ætlarðu að gera, son minn“! mælti hann, „ætlarðu að flekka hendur þínar og höll þína með þínu eigin blóði? sjeu þeir í raun og veru sekir þá má hegna þeim á annan hátt“. Leitaðist hann þvínæst við að sefa reiði Kamaralsamans og beiddi hann að ransaka nákvæmlega, hvort þeir væru sannir að þeim sökum, er sagðar voru á hendur þeim. Ljet Kamaralsaman fúslega af því, að vera sjálfur böðull barna sinna, en eptir að hann hafði látið setja þá í varðhald skipaði hann háöldruðum emír, er Giandar hjet, að lífláta þá fyrir utan borgina, þarsem honum bezt líkaði, og mætti hann ekki koma svo aptur, að hann ekki hefði með sjer klæði sveinanna til merkis um, að hann hefði fullnægt skyldu sinni. Ljet Giandar hvern þeirra um sig í kistu, með hendurnar bundnar á bak aptur, ljet hann síðan báðar kisturnar uppá múlasna, fór sjálfur á hestbak og reið burt með þá úr borginni alla nóttina,

þangaðtil hann næsta morgun kom á afskekktan eyðistað. þar ljet hann staðar numið, og fór af baki, þvínæst tók hann kisturnar ofan, lauk þeim upp og hleypti kóngssonunum út. Sagði hann þá við þá grátandi: „Börn mín! þið vitið að eg er ekki annað enn þræll, er hlýða verður skipun þeirra, sem voldugri eru, og gengur mjer til hjarta að gera ykkur mein, en faðir ykkar hefur skipað mjer að hálshöggva ykkur. Guð gæfi að eg gæti komist undan boði þessu, en eg veit þið munið fyrirgefa mjer“. þá svöruðu kóngssynirnir emírnum: „Gerðu einsog konungurinn hefur fyrir þig lagt, við skulum taka öllu með þolinmæði, sem guð lætur okkur að hendi bera. því hans er mátturinn og dýrðin. Við fyrirgefum þjer og þú ert saklaus, þó þú úthellir blóði okkar“. þvínæst föðmuðust sveinarnir og kvöddust í hinnzta sinni svo innilega, að þeir langa stund gátu ekki slitið sig hver úr annars faðmi. Loksins bauðst Assad til að ganga fyrr undir banahöggið og segir við Giandar: „Eg særi þig fyrir guðs sakir, byrjaðu á mjer svo að mitt hlutskipti verði ljettara og láttu mig ekki horfa á líflát bróður míns“. En Amgiad beiddist hins sama og vitnaði til þess, að hann væri eldri. Kom upp grátur fyrir þeim báðum og gat Giandar eigi að sjer gert að tárfella með þeim. þvínæst hnigu kóngssynirnir ennþá einusinni hver í annars faðm og kvöddust, sagði þá annar þeirra: „Allt þetta hlýtzt af tveimur fláráðum konum, en hvergi er vald nje máttur nema hjá guði. Í sannleika, við erum hans börn og hverfum til hans aptur“. Faðmaði þá Assad bróður sinn með gráti og ekka og mælti: „Ó þú, sem ert hæli hinna nauðstöddu og skjól hinna ofsóktu, þú ert ætíð reiðubúinn að heyra hverja bæn. Eg á mjer enga hjálpar von, nema að berja á þínar dyr, og verði mjer þar frá vísað, að hvers dyrum á eg þá að ganga? Guð minn! nægð þinnar náðar styðst við anda almættis orðsins: vertu mjer líknsamur, því hjá þjer er öll miskunn“.

þá vafði Amgiad bróður sinn enn fastara að brjósti sínu og mælti: „Ó drottinn! þú, sem hefur auðsýnt mjer svo margfalda miskunn og blessað mig með óteljandi velgjörðum, aldrei hefur mótlætið vitjað mín svo, að eg eigi finndi vísa hjálp hjá þjer“.

þessi hjartnæmilega kappdeila bræðranna um það, hver fyrr skyldi deyja, varð þannig útkljáð, að þeir skyldu leggjast í faðmlög

og Giandar reyra þá báða saman, svo að hann væri viss um að geta höggið af þeim höfuðin í einu höggi. — Samþykktist Giandar það og föðmuðu þá bræðurnir hver annan fast og innilega svo að auga lá við auga, en hann batt þá þvínæst saman grátandi og spurði, hvort þeir ekki vildu biðja sig neins áðurenn þeir væru líflátnir. Svöruðu þá kóngssynirnir: „Við biðjum þig einungis, að segja konungi með vissu, þegar þú ert kominn heim, að við höfum dáið saklausir, en höfum honum enga sök á gefið, þó hann úthellti blóði okkar. Við vitum að honum er lítt kunnugt, hver tilhæfa er í glæp þeim, sem á okkur er borinn“. Lofaði Giandar að gera sem þeir beiddu og reiddi nú sverð sitt til höggs, en við þá hreifingu hans og af bliki sverðsins fældist hestur hans, er bundinn var við trje eitt skammt þaðan, sleit hann sundur taumana og hljóp burt. Þókti Giandar illt að missa hestinn, því hann var afbragðs gæðingur og búinn dýrustu reiðtygjum. Fleygði hann því sverðinu í stað þess að höggva kóngssonuna, hljóp á eptir hestinum og ætlaði að ná honum. Hesturinn stökk á undan honum út í ýmsar hliðar og inní skóg nokkurn, en Giandar hljóp á eptir. Ljón nokkurt, sem hafði legið þar sofandi hrökk upp við hneggið í hestinum, en ekki veittist það að honum, heldur hljóp það í Giandar undireins og það sá hann. Varð hann þá hræddur um líf sitt, hætti að elta hestinn og flýði undan ljóninu, en það elti hann án afláts og var skammt á eptir honum. Í þessum dauðans nauðum sagði emírinn við sjálfan sig: Guð mundi eigi senda mjer refsingu þessa nema kóngssynirnir væru saklausir, sem mjer var skipað að drepa. Er það yfirtak ógæfunnar, að eg ekki einusinni hef sverð mitt til að verjast með. Meðan Giandar var í burtu kvöldust báðir kóngssynirnir af brennandi þorsta, og kom það af dauða angistinni, enn þótt þeir með drengskap vildu gefa sig undir vilja föður síns. Amgiad segir við bróður sinn, að lind nokkur renni ekki mjög langt frá þeim og skuli þeir leysa sig úr böndum, fara til lindarinnar og drekka. „Bróðir minn góður“! svaraði Assad, „úr því við eigum svo skammt eptir ólifað, tekur því ekki, að við slökkvum þorstann, við munum þola við hina litlu stund, sem eptir er“. En Amgiad losaði sig allt fyrir það og leysti síðan böndin af bróður sínum. Gengu þeir þá báðir til lindarinnar og svöluðu sjer, en í sama bili heyrðu

þeir ljóns öskur og óp mikið inní skógnum. þá tók Amgiad undireins sverð emírsins og mælti við Assad: „Flýtum okkur og hjálpum Giandar, hver veit nema við getum ennþá komið í tækan tíma og frelsað hann úr háskanum“. Hlupu kóngssynirnir undireins á stað og komu að í sama bili og ljónið varpaði emírnum til jarðar. En er dýrið sá Amgiad vaða að sjer með brugðið sverðið, sleppti það emírnum og flaug grenjandi á hann. Stóð hann óhræddur fyrir og hjó ljónið svo fast, að það steyptist dautt til jarðar. þegar Giandar sá að hann átti kóngssonunum líf sitt að þakka, fleygði hann sjer fram fyrir fætur þeim og þakkaði þeim innilega fyrir drengilega hjálp. Stóð hann þá upp, kyssti hendur þeirra grátandi og mælti: „Kóngssynir! guð varðveiti mig frá því, að gera ykkur nokkurt mein nú er þið hafið liðsinnt mjer með slíkum drengskap. Enginn skal geta brugðið Giandar emír um svo svívirðilegt vanþakklæti“. þá svöruðu kóngssynirnir: „Greiði sá, er vjer gerðum þjer, á ekki að aptra þjer frá því, að gera það, sem þjer var skipað. Við skulum nú fyrst ná hesti þínum og fara síðan þangað. er þú skildir við okkur“. Náðu þeir skjótt hestinum, því hann hafði stöðvazt þegar fælnin var af honum. En er þeir voru aptur komnir að lindinni, gátu þeir með engu móti fengið Giandar til að lífláta sig. „Eg bið ykkur aðeins einnar bænar“, mælti hann, „og megið þið ekki synja mjer hennar, en hún er sú, að þið reynið að komast af með það, sem eg fæ ykkur af klæðnaði mínum, en fáið mjer klæði ykkar í staðinn, og það með, að þið farið svo langt í burt, að Kamaralsaman konungur frjetti aldrei til ykkar framar“. Urðu þá kóngssynirnir að láta undan honum og fóru þeir nú úr klæðum sínum og huldu nekt sína með því, er emírinn gaf þeim af búningi sínum, tróð hann og uppá þá öllu því fje, er hann hafði á sjer, kvaddi þá þvínæst og reið á burt. Snjeri hann inní skóginn og rauð þar klæði kóngssonanna í blóði ljónsins, braut þau þvínæst saman og ljet þau uppá múlasnann. Kom hann síðan heim aptur í höfuðborgina á Svartviðarey og spurði Kamaralsaman hann, hvort hann hefði trúlega afrekað erindi sitt. þá rjetti emírinn fram klæðin alblóðug og mælti: „Herra! hjer eru skýrteinin“. „Seg mjer“, mælti konungur, „hvernig bárust þeir af við hegningu þá, er eg dæmdi á hendur þeim? „Herra!“ svaraði

Giandar, „þeir tóku henni með aðdáanlegri staðfestu og undirgefni undir guðs vilja, sem ráða mátti af því, hversu innilega þeir mæltu fram trúarjátningu sína; en einkum ljetu þeir mikla virðingu í ljósi fyrir yðar hátign og gáfu sig undir dauðadóminn með óskiljanlegri auðsveipni. „Við deyjum saklausir“, sögðu þeir, „en kvörtum eigi. Við meðtökum dauða vorn af drottins hendi og fyrirgefum konunginum föður okkar, því við vitum, að honum voru glaptar sjónir í þessu máli“. Viknaði Kamaralsaman af hjarta við frásögn emírsins og datt honum í hug, að skoða í vasa sona sinna. Leitaði hann fyrst í vösum Amgiads og fann brjef, las hann það og fór um hann hryllingur, því hann sá bæði á rithöndinni og hárlokk einum, er lá innaní, að það var frá Haiatalnefus drottningu. Leitaði hann síðan skjálfandi í vasa Assads og fann þar seðilinn frá Badur drottningu; fjekk það honum svo mikils, að hann fjell í óvit. Hefur enginn orðið hryggari í bragði enn Kamaralsaman varð, þegar hann raknaði við. „Hvað gerðirðu grimdarfulli faðir!“, æpti hann hástöfum, „þú hefur drepið sjálfs þíns börn. Veslings synir mínir! Hafa ekki vitsmunir þeirra, kurteisi, auðsveipni og undirgefni undir vilja þinn, talað máli þeirra hjá þjer? ertu þess verður að skríða á jörðinni eptir svo skelfilegan glæp? Eg hef sjálfur steypt mjer í svívirðingu þessa og nú bitnar guðleg refsing á mjer, af því eg hjelt ekki fast við þá óbeit á konum, sem var mjer meðfædd. En eigi mun eg samt afþvo glæp ykkarn í blóði ykkar, einsog þið eigið skilið, þið andstyggilegu konur! nei! þið eruð ekki einusinni verðar reiði minnar. En guðs reiði skal lenda á mjer, ef eg nokkurntíma framar lít ykkur augum mínum“. Kamaralsaman konungur hjelt heit sitt trúlega. Ljet hann samdægurs fara með báðar drottningarnar í herbergi, sem afsíðis lá, skyldu þær vera þar æfilangt í ströngu varðhaldi og kom hann aldrei nálægt þeim eptir það. Meðan Kamaralsaman nagaði sig í handarbökin útaf missi sona sinna, ráfuðu þeir um eyðistaði og vöruðust að koma nálægt nokkrum bygðum eða hitta nokkra menn. Nærðust þeir eingöngu á villijurtum og aldinum og drukku óhreint rigningavatn, er safnazt hafði í bjargskorunum. Um nætur sváfu þeir og vöktu til skiptis svo að þeir gætu verið óhultir fyrir villu dýrum. Eptir mánaðartíma komu þeir að fjalli

einu hræðilegu, er virtist vera ógengt, var það allt úr svörtum steini. Sáu þeir að vísu troðning á einum stað, en svo var hann mjór og örðugur, að þeir þorðu eigi að ráða þar til uppgöngu. Vonuðust þeir að finna aðra götu, er greiðfærari væri og gengu því í fimm daga fram með fjallinu, en fóru jafnnærri og urðu að ganga götuna, er þeir í fyrstunni höfðu frá horfið. — Var þar illt yfirferðar og voru þeir lengi efablandnir áðurenn þeir rjeðust í að klifrast upp fjallið. Varð fjallið því hærra og þverbrattara, sem þeir komust lengra og lá þeim opt við að snúa aptur. Þegar annarhver þeirra varð uppgefinn og hinn varð þess áskynja, staldraði hann við, og hvíldu þeir sig þá báðir. En margsinnis voru þeir báðir svo þreyttir, að þeir urðu með öllu magnþrota og úrkula vonar um að geta klifrast lengra og hugðu að þeir mundu deyja samstundis af lúa. En er nokkur stund var liðin og þeir kenndu sig styrkari, hughreysti hver annan og fóru þeir síðan leiðar sinnar. En þrátt fyrir allan ákafa þeirra, strit og áreynslu, var þeim ómögulegt að ná uppá fjallstindinn þenna dag. Náttmyrkrið datt yfir og var Assad svo lúinn og örmagna, að hann stóð við og sagði við Amgiad bróður sinn: „Eg kemst ekki lengra, og mun eg deyja hjer í sömu sporum“. „Við skulnm hvíla okkur svo lengi sem þjer líkar“, mælti Amgiad og reyndi að hughreysta hann; „þú sjer að við eigum ekki eptir nema kippkorn að klifrast, en nú er vel vegljóst af tunglsskininu“. Hvíldi Assad sig rúma hálfa stund, og neytti síðan allrar orku sinnar; náðu þeir loksins uppá fjallstindinn og hvíldu sig þar aptur. Stóð Amgiad fyrr upp og reikaði þar í kring, fann hann þar allnærri kjarneplatrje, hlaðið stórum aldinum, en uppsprettu lind rann við rætur trjesins. Hljóp hann þá undireins til Assads að segja honum þessi gleðitíðindi og leiddi hann að lindinni, svöluðu þeir sjer þar báðir, snæddu sitt kjarneplið hver, og lögðust þvínæst til svefns. En er þeir vöknuðu næsta morgun uppörfaði Amgiad bróður sinn til að halda áfram, og sagði að fjallið væri ekki nærri eins snarbratt hinu megin, enda hallaði nú undan fæti. Var Assad þá svo uppgefinn eptir fyrri daginn, að hann varð ekki afþreyttur fyrr enn eptir þrjá sólarhringa. — Allan þenna tíma voru þeir að tala um hina ónátturlegu ást mæðra sinna, sem hafði stofnað þeim í þessi hryggilegu vandræði. „Það er

auðsjáanlegt“, sögðu þeir, „að guð vill annast okkur, og verðum við því að bera mótlæti okkar með þolinmæði og gleðjast í voninni um, að hann láti því linna“. þegar hinir þrír dagar voru liðnir lögðu bræðurnir aptur á stað, var fjallið á þessa hliðina jafnt aflíðandi með breiðum hjöllum, og gengu þeir í fimm daga áðurenn þeir komu ofaná undirlendið. Loksins komu þeir auga á borg eina mikla, og segir þá Amgiad við Assad bróður sinn: „Viljirðu fara að mínum ráðum, þá skaltu vera hjer kyr fyrir utan borgina einhverstaðar þarsem eg get fundið þig, en eg mun fara og komast eptir, hvað borg þessi heitir og á hvert land við erum komnir; mun eg og koma aptur með vistir. það er hollast að við komum ekki báðir saman í borgina, ef þar skyldi einhver hætta vera búin“. Sagði Assad þá, að sjer þækti ráð hans hyggilegt, „en ef við eigum að skilja fyrir þá sök“, mælti hann, „mun eg aldrei líða að þú farir, heldur verður þú að lofa mjer að fara, því það mundi fá mjer sárustu hrygðar, ef þjer vildi nokkurt slys til“. „Bróðir minn góði“, ansaði Amgiad, „eg kvíði hinu sama þín vegna sem þú kvíðir mín vegna, lofaðu mjer því fyrir alla muni að fara og bíddu mín með þolinmæði“. „það líð eg aldrei“, mælti Assad, „og hendi mig einhver ógæfan, þá hef eg samt þá huggun að eg veit þig óhultan“. Varð Amgiad þá að láta undan og sat hann eptir undir trjánum við rætur fjallsins, en Assad gekk til borgarinnar, og hafði með sjer nokkuð af fje því, er Amgiad bar í pyngju sinni. þegar Assad var nýkominn í hið fyrsta stræti borgarinnar mætti hann karli nokkrum vel búnum og öldurmannlegum með staf í hendi. Taldi Assad víst, að hann mundi vera tíginn maður, sem ekki mundi vilja gabba sig, og ávarpaði hann þannig: „Herra! gerið svo vel og segið mjer leið til kauptorgsins“. „það er auðsjeð að þú ert ókunnugur hjer, son minn“! svaraði karlinn, „því annars mundirðu ekki spyrja mig að þessu“. Assad kvað svo vera og segir karlinn: „Vertu þá velkominn, það er sómi fyrir land vort, að svo fríður unglingur skuli hafa tekið sjer ferð á hendur til að sjá það. En seg mjer samt, hvert er erindi þitt á kauptorgið“? „Herra“! svaraði Assad, „nú eru bráðum tveir mánuðir síðan að eg lagði á stað með bróður mínum úr fjarlægu landi. Höfum við gengið allan þann tíma samfleytt og komum við hingað fyrst í dag.

Varð bróðir minn eptir uppi undir fjallinu, því svo var hann þreyttur eptir þessa löngu ferð, ætla eg nú að sækja vistir handa honum og sjálfum mjer“. „Son minn!“ mælti karlinn, „þú hefur borið niður á góðan stað og þykir mjer vænt um það, bæði sjálfs þín og bróður þíns vegna. Svo stendur á, að eg í dag hef haldið mörgum af vinum mínum stórveizlu og hefur verið leift mörgum rjettum, sem ekki er snert á. Komdu því með mjer; skaltu eta þig saddan og þvínæst hafa mat á burt með þjer, sem nægir ykkur bræðrum í marga daga. Skaltu ekki eyða peningum þínum á torginu, því aldrei hafa ferðamenn ofmikið af fjenu. — En meðan þú snæðir skal eg segja þjer frá því, sem merkilegt er í borg vorri, er mjer um það kunnugra enn nokkrum öðrum, því eg hef gegnt öllum hinum æðstu embættum með heiðri eg sóma. Mátt þú hrósa happi, að þú hittir mig, en ekki aðra, því hjerna að segja, þá eru ekki allir borgarmenn eins skapi farnir og eg. Eg segi þjer satt, það er margur þorparinn í þeirra tölu. En komdu nú með mjer, eg skal kenna þjer að þekkja mun á ráðvöndum mönnum, einsog eg er, og mörgum öðrum, sem þykjast vera, en eru það ekki“ „Eg kann yður mikla þökk fyrir, að þjer eruð svo góðviljaður til mín,“ mælti Assad, „og treysti eg yður í öllu. Eg er fús að fara með yður, hvert sem þjer viljið.“ Brosti þá karlinn í kamp sjer og hjelt áfram með Assad; en af því hann var hræddur um, að hann kynni að taka eptir því, talaði hann við hann um hitt og þetta til þess að halda honum stöðugum í trausti því, er hann hafði fengið til hans. „Eg get ekki annað sagt,“ mælti hann, „enn að þú sjert mikill lánsmaður, þarsem þú hittir mig og engann annan. Lofa eg guð fyrir, að hann ljet þig verða á vegi mínum og munt þú skilja, því eg segi það, undireins og þú ert kominn í hús mitt.“ Þegar karlinn var kominn með Assad heim til sín fylgdi hann honum inní stóran sal, sátu þar fjörutíu karlar kringum eld og tilbáðu hann. — Bauð kóngssyni við að horfa á óvitringa þessa, er tignuðu verk skaparans í stað þess að tigna hann sjálfan, varð hann og hræddur, er hann sá að hann var svikinn og kominn á svo andstyggilegan stað. — Var hann nú einsog steini lostinn af hræðslu, en karlinn hrekkvísi heilsaði hinum fjörutíu körlum og mælti: „Þjer guðhræddu eldsdýrkendur, þetta er oss

mikill heilladagur. En hvar er hann Kasban? kallið þið á hann.“ — Við þessi orð hans, er hann talaði hátt og skýrt, kom inn svertingi, er heyrt hafði til hans niðri undir salnum. Var þetta Kaskan og jafnskjótt sem hann sá Assad hræddan og forviða, óð hann að honum, lamdi svo í andlit honum, að hann rauk um koll, og batt síðan hendur hans. En er hann var búinn að því, sagði karlinn: „Farðu ofan með hann og mundu að segja þeim dætrum mínum, Bostane og Kawane, að þær skuli á hverjum degi gefa honum iljastrokur, svo hann megi reka minni til, og ekki fá honum neitt til matar, nema eitt brauð að morgni og eitt að kvöldi. Munum við þannig halda í honum lífinu, þangaðtil skipið siglir á stað til bláa hafsins og eldfjallsins. Þar munum við blóta honum og færa guði vorum þæga fórn.“ — Óðara enn hinn grimmúðugi karl hafði sagt þetta, dró Kasban Assad ofan úr salnum heldur óþyrmilega, og fór með hann gegnum margar dyr þangaðtil þeir komu ofaní myrkvastofu eina; lágu niður að henni rúmar tuttugu tröppur. Hneppti hann Assad þar í sterka fjötra og fór þvínæst að segja dætrum karlsins til. En karlinn sjálfur var þegar kominn til þeirra og mælti: „Dætur mínar! farið ofan og lemjið i iljar Mahómets manni þeim, er eg hef sett í varðhald; dragið ekki af honum. — Þið getið með engu sýnt betur, að þið sjeuð sannir eldsdýrkendur.“ Þær Bostane og Kawane voru uppaldar í hatri á Mahómets átrúendum og urðu þær því fegnar skipun þessari. Fóru þær undireins ofan í myrkvastofuna, færðu Assad úr fötunum og lömdu hann miskunarlaust til blóðs, þangaðtil hann hnje í ómegin. En er þær höfðu misþyrmt honum þannig, skildu þær eptir hjá honum brauð og vatnskrukku, og gengu burt að svo búnu. Leið löng stund áðurenn Assad raknaði við; grjet hann þá mjög í vandræðum sínum, en huggaði sig við það, að Amgiad bróðir hans hafði ekki orðið fyrir óláni þessu. Sat nú Amgiad undir fjallinu allt til kvölds og gerðist óþolinmóður að bíða eptir Assad. En er langt var liðið af dagssetri og bróðir hans kom eigi að heldur þókti honum öll von úti. Sat hann alla nóttina kvíðafullur og óhuggandi, en jafnskjótt sem ljómaði af degi, snjeri hann á leið til borgarinnar.

Það þókti honum undrum sæta, hversu fáum Mahómets mönn-

um hann mætti í borginni, en hinn fyrsta, sem varð á vegi hans spurði hann að nafni borgarinnar og svaraði hann því, að hún væri kölluð Magía borg, því allur þorri borgarmanna væri eldsdýrkendur, en næsta fáir Mahómets menn væru í borginni. Assad spurði og að því, hversu langt væri þaðan til Svartviðareyjar og var honum svarað, að þangað væri fjögra mánaða ferð á sjó, en ekki veitti af heilu ári, ef landveg væri farið. Þegar Amgiad hafði fengið þessa úrlausn gekk Mahómets maðurinn skyndilega burt og flýtti sjer til starfa sinna. Nú með því Amgiad og bróðir hans höfðu ekki verið lengur enn sex vikur á leiðinni frá Svartviðarey, fjekk hann eigi skilið, hvernig þeir hefðu átt að fara svo langa leið á svo stuttum tíma, nema þeir væru leiknir töfrum eða fjallvegurinn stytti svo mjög leið, en væri sjaldfarinn vegna örðugleika.

Meðan hann var að ráfa í borginni staldraði hann við sölubúð skraddara nokkurs, sá hann á klæðnaði hans, að hann var Mahómets maður, og hafði hann á hinu sama þekkt þann, er hann fyrst talaði við. Heilsaði hann skraddaranum, settist þvínæst niður hjá honum og sagði honum, hvernig stæði á kvíða sínum og harmi. Svaraði þá skraddarinn: „Sje bróðir yðar kominn á vald nokkurs eldsdýrkanda, þá megið þjer vera hræddur um, að þjer sjáið hann aldrei framar. Það er ómögulegt að bjarga honum, og verðið þjer að leita yður huggunar og hafa hugann á því, að firrast slíka óhamingju. Ef þjer viljið eiga undir mjer, þá skuluð þjer vera hjá mjer og skal eg segja yður allar vjelar Magía þessara, svo að þjer getið varað yður á þeim þegar þjer gangið út.“ Amgiad, sem var sárhryggur útaf missi bróður síns, þáði boð skraddarans og margþakkaði honum góðvilja sinn. Leið svo heill mánuður, að hann gekk aldrei út fyrir dyr nema skraddarinn væri með honum, en loksins hætti hann á, að fara til lauga einsamall. Á heimleiðinni varð honum gengið um stræti nokkurt, sem var autt af mönnum og mætti hann þar konu einni. Undireins og hún sá hinn fríða unga mann, hressan og bragðlegan eptir baðið, gekk hún að honum, og lypti blæjunni, og spurði hann brosandi með hýrlegu augnaráði, hvert hann ætlaði. Fjekk Amgiad eigi staðizt fegurð hennar og svaraði: „Lafði mín! eg fer heim til mín eða með yður, allt eptir

því sem yður líkar.“ Leit hún þá augum sínum til jarðar og með orði hans, sem lofaður sje og vegsamaður, svaraði hún á þessa leið: „Karlar eiga að ganga á undan konum vegna yfirburða þeirra, sem guð hefir veitt þeim.“ Skildi Amgiad á svari þessu, að hún mundi vilja fara með honum og komst hann nú í meiri vanda enn hann átti von á. Hann fyrirvarð sig að hafa hana heim með sjer í hús skraddarans, og var líka hræddur um, að hann kynni að svipta sig skjóli því, er hann þurfti í borginni, þarsem hann hlaut að fara svo varlega. En hann vildi eigi heldur vísa svo fríðri og girnilegri konu frá sjer, og gekk því áundan henni uppá von og óvon. Fylgdi hún honum úr einu strætinu í annað, þangað til hún varð þreytt og spurði hann: „Herra! hvar er þá húsið yðar?“ „Við erum nú rjett að segja komin að því,“ svaraði Assad og gekk inní hliðstræti eitt, stóð hús eitt glæsilegt með læstu hliði fyrir enda þess og voru tveir bekkir sinn hvoru megin; var ómögulegt að komast þar útúr strætinu. Settist Amgiad á annan bekkinn, en konan á hinn og segir hún: „þetta er þá húsið yðar?“ „það getið þjer nú sjálfar sjeð,“ svaraði Amgíad. „því ljúkið þjer því þá ekki upp?“ mælti konan, „eptir hverju eruð þjer að bíða?“ „Mig vantar lykilinn,“ svaraði Amgiad. „Eg skildi hann eptir hjá þrælnum mínum, en hann átti að annast erindi nokkurt fyrir mig og er engin von til, að hann sje kominn heim ennþá. Eg skipaði honum líka að kaupa allt, sem heyrði til góðrar máltíðar og er eg því hræddur um, að hans verði langt að bíða.“ – Til þessa undanbragðs greip Amgiad afþví hann sá, hversu örðugt sjer mundi verða að koma fram vilja sínum og vonaði hann að konan mundi verða óþolinmóð og fara að reyna lukku sína annarstaðar. En eigi varð honum að því og tók hún þannig til máls: „þetta er ljóti þrællinn, að láta okkur bíða svona lengi eptir sjer. Eg skal taka ofaní lurginn á honum einsog hann á skilið þegar hann kemur, ef þjer ekki gerið það. Annars er það ósæmilegt, að eg sitji svona hjá karlmanni fyrir utan dyr.“ Að svo mæltu stóð hún upp og tók stein í hönd sjer, gekk síðan að dyrunum og ætlaði að brjóta lásinn í sundur, því hann var veikur og úr trje einsog tíðkaðist þar í landi. Varð Amgiad hræddur við þetta tiltæki hennar og ætlaði að aptra henni, en hún mælti: „Við hvað eruð

þjer hræddur? eigið þjer ekki húsið? það er ekki hundrað í hættunni þó trjelásinn sje brotinn, það er hægast að fá annan í staðinn.“ þvínæst mölvaði hún sundur lásinn og er dyrnar lukust upp gekk hún inn á undan. — þókti Amgiad sem fokið væri í öll skjól er dyrnar voru brotnar upp og var hann á báðum áttum, hvort hann heldur skyldi fara á eptir henni eða flýja, svo að hann kæmist úr háska þeim, sem óumflýjanlegur var að öðrum kosti. — Rjeði hann það af að flýja, en í sama bili leit konan fagra um öxl sjer og sá að hann gekk ekki inn, sagði hún þá við hann: „Hvað er nú að? því komið þjer ekki inn í húsið yðar?“ „Eg er að gá að, hvort þrællinn minn ekki kemur,“ ansaði Amgiad, „því eg er hræddur um, að ekkert sje tilbúið enn.“ „Komið þjer nú bara, komið þjer!“ kallaði konan, „það er betra að við bíðum inni enn úti.“ Fylgdi Amgiad nú nauðugur konunni, sem var að freista hans, og komu þau inní víðan húsgarð, hreinan og steinlagðan, gengu þau þar upp rið eitt og komu í anddyri mikið. Varð þá fyrir þeim stór salur, er stóð opinn, var þar fögur skipun á öllu og stóð þar eitt borð alsett dýrindis rjettum og annað hlaðið allskonar fögrum aldinum; þar var og drykkjarborð alþakið fullum vínflöskum. þegar Amgiad sá allan þenna viðbúnað taldi hann glötun sína vísa. „þú ert nú frá, veslings Amgiad!“ hugsaði hann með sjer, „þú munt ekki lifa hann Assad bróður þinn lengi.“ En fylgikona hans rjeði sjer ekki fyrir kæti, er hún sá allan þenna fögnuð og mælti: „Herra! þjer voruð hræddur um, að þjer munduð grípa í tómt, nú sjáið þjer að þrællinn yðar hefir gert betri skil enn þjer áttuð von á. En ef eg get rjett til, þá er allur þessi fögnuður búinn í móti einhverri annari enn mjer. En hvað sem því líður, þá er hún velkomin; eg lofa yður því, að eg skal ekki verða afbrýðissöm. Eg bið einungis þeirrar náðar, að mjer leyfist að þjóna henni og yður.“ Svo hugsjúkur sem Amgiad var, gat hann samt ekki að sjer gert að hlægja að gamanyrðum konunnar fögru og svaraði: „Eg segi yður satt, þjer getið öldungis rangt til; það er allt saman eins einfalt og vant er hjá mjer hversdagslega.“ Gat hann ekki fengið af sjer að setjast við borð, sem ekki var uppreitt handa honum, og ætlaði því að setjast í legubekkinn. en konan varnaði honum þess. „Hvað er yður nú í hug?“ mælti hún, „þjer hljótið

að vera svangur eptir baðið, við skulum því setjast við borðið, og gleðja okkur.“ Sá Amgiad ekki annað sýnna enn að láta eptir henni og settust þau bæði til borðs og snæddu. Óðara enn hún hafði látið upp í sig fyrsta bitann tók hún flösku og staup, hellti á og drakk Amgiad til. Þvínæst fyllti hún sama staupið og rjetti Amgiad; drakk hann þá aptur til hennar. Því meira sem Amgiad hugsaði umæfintýri sitt, því meira furðaði hann sig á því, að hann skyldi ekki sjá hússbóndann og að enginn þjónn skyldi vera í svo fögru húsi, er prýtt var með slíkri viðhöfn. „Það væri fáheyrð heppni,“ hugsaði hann með sjer, „ef hússbóndinn kæmi ekki fyrr heim enn eg er sloppinn úr þessum vanda.“ Meðan hann var sokkinn niður í slíkar og aðrar enn þyngri hugleiðingar, át konan og drakk næsta lystugt og neyddi hann öðru hverju til að gera eins. Voru þau rjett um það leiti að byrja á aldinunum þegar hússbóndinn kom; hann var æðsti hestavörður Magía konungs og hjet Bahader. Hann átti hús þetta, og bjó þó í öðru húsi; en í þessu húsi var hann vanur að veita þremur eða fjórum hinum beztu vinum sínum. — En það, er til þess þurfti, ljet hann bera þangað úr íveruhúsi sínu, og svo hafði hann látið nokkra þjóna sína gera þenna dag, voru þeir rjett nýfarnir þegar Amgiad kom.

Bahader kom nú í dularbúningi og fylgdarlaus einsog hann var vanur, nokkru fyrr enn hann hafði boðið vinum sínum að koma. — Varð honum hverft við, er hann sá að dyr ar voru brotnar upp. Gekk hann hljóðlega inn og með því hann heyrði glauminn og gleðilætin inni í salnum, læddist hann fram með veggnum og rak höfuðið inní dyrnar til hálfs, til þess að sjá, hver í salnum væri. — En er hann sá þau Amgiad og yngiskonuna eta og drekka við borð það, er ætlað var honum og vinum hans, þókti honum minna að orðið enn hann hafði búizt við í fyrstu, kom honum þá til hugar að hafa gaman af þeim. Konan fagra snjeri bakinu að honum og gat því eigi sjeð hann, en Amgiad sá hann og hjelt hann þá á staupi í hendinni. Brá hann lit og starði á Bahader, en hann gerði honum bendingu, að hann skyldi þegja og koma út til sín. — Drakk Amgiad þá af staupinu og stóð upp. Spurði konan, hvert hann ætlaði, en hann beiddi hana að vera kyrra, kvaðst verða að bregða sjer út allra snöggvast, og

skyldi hann koma undireins aptur. Gekk Amgiad nú út og hitti Bahader í anddyrinu; tók Bahader hann með sjer niður í garðinn til þess að konan ekki skyldi heyra, hvað þeir töluðu saman. Þegar Amgiad var kominn niður í garðinn með hestaverðinum, spurði hann, hvernig það hefði atvikazt, að hann væri kominn með konu hingað í híbýli hans, og hversvegna þau hefðu mölvað upp dyrnar. „Herra!“ svaraði Amgiad, „eg veit yður mun þykja eg vera refsingar verður, en ef þjer viljið svo vel gera, að veita mjer áheyrn, hygg eg þjer munið vorkenna mjer.“ Sagði hann honum þvínæst stutt og hreinskilnislega, hvernig á öllu stóð, og svo að hann gengi úr skugga um, að hann væri fjarlægur því, að fara svo ósæmilega að ráði sínu, að brjótast inní hús, sagði hann honum að hann væri kóngssonur og hvernig á því stæði, að hann var kominn í borg Magianna. Bahader var gestrisinn maður og þókti honum vænt um, að hann gat greitt fyrir svo tignum manni sem Amgiad var. Fannst honum mikið um yfirbragð og kurteisi kóngssonar, og þókti hann haga prýðilega orðum sínum, svo að honum kom ekki til hugar að tortryggja hann. „Kóngsson!“ mælti hann: „það er mjer hin mesta gleði, að mjer gefst kostur á að hjálpa yður, svo að þetta skemmtilega æfintýri verði yður til enn meira gamans. Fer því svo fjærri, að eg vilji spilla gleði yðar, að mjer skal vera sönn ánægja að hjálpa yður. Nafn mitt er Bahader og er eg æðsti hestavörður konungs; bý eg að staðaldri í höll einni og kem eg aðeins stundum í hús þetta til þess að geta glaðzt því frjálslegar með vinum mínum. Þjer hafið talið hinni fögru lagskonu yðar trú um, að þjer eigið þræl, þó þjer engan eigið. Nú mun eg látast vera þræll þessi og svo að þjer ekki teljið tormerki á eða mótmælið mjer, þá ítreka eg, að það er eindreginn vilji minn, munuð þjer innanskamms sjá, hvað mjer gengur til. En farið nú og setjist í sæti yðar og verið glaður. — En þegar eg nú bráðum geng fram fyrir yður í þræls búningi þá skuluð þjer skamma mig svo mark sje að og ekki horfa í að lemja mig. Eg ætla að þjóna yður til borðs allt frammá nótt, skuluð þjer þá sofa hjá konunni fögru og láta hana fara í fyrramálið með veg og sóma. Mun eg eptirleiðis reyna að gera yður meiri greiða enn þetta er. En farið nú og eyðið ekki tímanum

til ónýtis.“ Ætlaði Amgiad þá að svara einhverju, en hestavörðurinn vildi eigi heyra það og neyddi hann til að fara aptur til lagskonu sinnar. — En óðara enn hann var farinn til hennar, komu vinir hestavarðarins, er boðnir voru. Beiddi Bahader þá vingjarnlega að hafa sig afsakaðan þann dag, þó hann gæti eigi tekið við þeim, kvaðst kann skyldu segja þeim næsta dag, hvað sjer gengi til þessa og mundi þeim þá virðast hann hafa rjett að farið. En er þeir voru farnir flýtti Bahader sjer að fara í þrælsbúning inn, en Amgiad var hjá lagskonu sinni glaður í huga, af því svo vel hafði hittzt á, að hann kom í hús jafntígins manns, er sýndi honum slíkan góðvilja. Settist hann aptur til borðs og mælti: „Eg margbið yður fyrirgefningar fyrir ókurteisi mína og ólund þá, sem í mjer var af því þrællinn ekki kom; en hann skal hitta sjálfan sig fyrir, slóðinn sá arna. Eg skal sýna honum það, hvort honum hentar að slæpast svona lengi.“ „Sakist ekki um það,“ ansaði konan, „það er verst fyrir sjálfan hann. En við skulum nú ekki hugsa um það framar, heldur einungis um gleði og góða skemmtun.“ Varð þeim nú borðhaldið hjeðan í frá því ánægjusamara, sem Amgiad þurfti ekki framar að kvíða því, að neitt illt hlytist af gáleysi og keskni konunnar. Var Amgiad í bezta skapi og skemmtu þau sjer á margan hátt, — því meira drukku þau enn átu — þangaðtil Bahader kom inn í þrælsbúningnum. Ljet hann sem hann yrði lafhræddur af því hann kom svo seint heim og sá að hússbóndi hans hafði gest hjá sjer, fleygði hann sjer þá fram fyrir fætur Amgiad og kyssti á gólfið, til merkis um að hann beiddi fyrirgefningar. En er hann var aptur uppstaðinn stóð hann með hendurnar krosslagðar á brjósti sjer og höfuðið niðurí bringu og beið þess, er honum yrði skipað að gera. Þá mælti Amgiad með reiðuglegum svip og þjósti: „Óhræsis þrællinn þinn! er meiri mannskauð til á jörðinni enn þú ert? hvar hefirðu verið að slæpast? hvað hefirðu þjer til afbötunar fyrst þú ekki kemur fyrr heim?“ „Hússbóndi góður!“ svaraði Bahader, „eg bið yður fyrirgefningar, eg átti fullt í fangi með að afreka erindin, sem þjer lögðuð fyrir mig, — eg hjelt þjer munduð ekki koma hingað svo fljótt aptur.“ „Þú ert hússgangur!“ mælti Amgiad, „og eg skal lemja úr þjer lýgina og hirðuleysið með stafnum mínum.“ Þvínæst stóð hann

upp, tók staf einn og sló Bahader tvö lin högg og settist síðan aptur til borðs. En konan ljet sjer ekki nægja refsingu þessa, heldur spratt hún upp, þreif stafinn og lúbarði Bahader svo miskunar laust, að honum vöknaði um augu. Gramdist Amgiad mjög að hún skyldi leyfa sjer slíkt við konunglegan embættismann og kallaði til hennar, að hún skyldi hætta, en það kom fyrir ekki, því hún lamdi Bahader í einni lotu og sagði: „Látið þjer mig um það, eg vil hafa minn vilja fram, eg skal kenna honum að vera skemur burtu í næsta skipti.“ — En er hún ætlaði aldrei að láta af heiptaræði sínu, varð Amgiad að skerast í leikinn og gat hann með naumindum rifið af henni stafinn. Settist þá kvennsniptin fagra aptur í sæti sitt og smánaði þrælinn í orði, þegar henni var bannað að leggja hendur á hann. En Bahader þerraði af sjer tárin og var hinn ötulasti að hella á staupin fyrir þau. Þegar hann sá að þau væru hætt að eta, bar hann allt af borðinu, sópaði salinn og setti hvað eina á rjettan stað. Þegar myrkvaði af nótt kveikti hann ljósin, en í hvert skipti sem hann kom eða fór, smánaði konan hann og heitaðist við hann svo að Amgiad hafði af því hina mestu skapraun. Vildi hann vægja honum en þorði eigi ímóti að mæla. Þegar háttatími var kominn bjó Bahader um þau í legubekk einum og fór inní annað herbergi og sofnaði hann fljótt eptir strit það, er hann hafði átt í. Amgiad og konan sátu enn á tali rúma hálfa stund, en áður enn hún lagðist niður, gekk hún út og heyrði Bahader hrjóta. Þegar hún kom aptur sagði hún við Amgiad: „Herra! þjer verðið að gera mjer nokkuð til eptirlætis?“ „Hvað er yður hugleikið?“ spurði Amgiad. „Gerið svo vel,“ mælti hún og takið sverðið þarna ofan af þilinu og höggið höfuðið af þrælnum yðar.“ Varð Amgiad forviða af þessari bæn konunnar; og hjelt að hún talaði slíkt í ölæði og segir: „Við skulum láta þrælinn vera, hann er ekki þess verður, að þjer sjeuð að hugsa um hann. Eg hef refsað honum og þjer líka; látum það gott heita. Eg er að öðru leyti vel ánægður með hann og honum er sjaldan vant að yfirsjást svona.“ „Þjer skuluð ekki hafa mig af yður með þessu,“ mælti konan í bræði, „eg vil að þrællinn sje drepinn og verðið þjer honum ekki að bana, þá skal eg drepa hann.“ Að svo mæltu hrifsaði hún sverðið, brá því úr slíðrum og

hljóp út. Náði Amgiad henni í anddyrinu og aptraði henni með þessum orðum: „Fyrst þjer endilega viljið svo vera láta, þá er ekki annað fyrir enn að gera vilja yðar; en illt þykir mjer ef annar maður enn eg skal taka þræl minn af lífi.“ — Fjekk hún honum sverðið og segir hann þá: „Gangið nú sem hægast á eptir mjer, svo að hann ekki vakni,“ og fór hann með henni inní herbergi það, sem Bahader svaf í. En í stað þess að höggva til hans hjó hann höfuðið af konunni og datt það ofaná Bahader sofandi. Vaknaði hann við vondan draum og varð hlessa, er hann sá Amgiad með blóðugt sverðið í hendinni, en lík konunnar lá á gólfinu: spurði hann, hverju þetta sætti. Sagði Amgiad honum þá allt, hvernig farið hafði og mælti: „Eg vissi ekkert annað ráð til að koma í veg fyrir, að þessi óða kona veitti yður bana, enn að drepa hana sjálfa. Komst Bahader þá við af þakklátsemi og svaraði: „Herra! þeir menn, sem eru eins tignir og veglyndir og þjer geta eigi unnið slík ódáðaverk. Þjer eruð lífgjafi minn, og það fæ eg yður ekki fullþakkað.“ Faðmaði hann þá Amgiad að sjer til þess að sýna honum enn frekari vott þakklátsemi sinnar, og mælti: „En ekki tjáir annað enn að líki þessu verði komið burt hjeðan áðurenn dagur er á lopti og skal eg annast það.“ —

Mælti Amgiad á móti því og kvaðst sjálfur vilja bera líkið burt, með því hann hefði drepið konuna, en hestavörðurinn tók þá þannig til máls: „Það mundi eigi takast ókunnugum manni hjer; leyfið mjer að gera það og verið hjer kyrr. En komi eg eigi aptur fyrir lýsingu þá skuluð þjer hafa það til merkis um, að varðmenn hafi handtekið mig; nú, ef svo skyldi fara, mun eg skilja eptir hjá yður gjafabrjef þess efnis, að þjer verðið eigandi að húsi þessu og öllu, sem í því er, og getið þjer þá undireins sezt að í því.“ Þegar hann hafði ritað skjal þetta, ljet hann lík konunnar og höfuð hennar niðurí poka, tók hann síðan uppá herðar sjer og gekk ofan eptir strætum þeim er lágu niður að sjónum. En hann var skamma leið kominn, er hann mætti lögreglustjóranum, sem var þá á næturgöngu sinni, tóku þjónar hans Bahader undireins fastan. Fundu þeir líkið blóðugt í pokanum, og þekkti dómarinn hestavörðinn þó hann væri í dularbúningi, en ekki þorði hann að lífláta svo háan embættismann, án þess konungur vissi af og fór

því með hann á hans fund um morguninn. Sagði dómarinn frá ódáðaverki því, er hann hugði hestavörðinn hafa unnið. Atyrti þá konungur Bahader ákaflega og mælti: „þú drepur þá þegna mína til að ræna þá og fleygir líkum þeirra í sjóinn, svoað illvirki þín dyljist. Látið þegna mína verða óhulta fyrir honum og festið hann á gálga?“ Gaf Bahader sig undir dóm þenna með auðsveipni, þó hann væri saklaus, og mælti ekki orð sjer til rjettlætingar. Ljet þá dómarinn fara burt með hann, og meðan verið var að reisa gálgann ljet hann kallara kunngjöra um alla borgina, að hinn æðzti hestavörður yrði líflátinn um hádegisbil fyrir morð eitt. Hafði Amgiad beðið þess, að Bahader kæmi aptur og heyrir hann nú að þetta er kallað fyrir utan húsið. Brá honum ógurlega við og segir hann við sjálfan sig: „Eigi nokkur að láta líf sitt vegna þessarar illfúsu konu, þá skal hestavörðurinn ekki verða fyrir því, og ekki þoli eg það, að hinn saklausi sje drepinn í stað hins seka.“ Athugaði hann þetta ekki frekara, en hljóp undireins til aftökustaðarins; streymdi lýðurinn þangað úr öllum áttum. En jafnskjótt sem Amgiad sá dómarann, er ljet leiða Bahader til gálgans gekk hann til hans og mælti: „Herra! eg er hingað kominn til að segja yður og sverja, að hestavörðurinn er sýkn af dauða konu þessarar. Eg er valdur að þeim glæp, sem á hann er borinn, ef það er glæpur, að drepa vændiskonu, er sjálf ætlaði að veita honum bana. En það atvikaðist þannig.“ Sagði Amgiad dómaranum nú upp alla söguna frá viðskiptum sínum við konuna, sem hann hafði drepið. Ljet dómarinn þá ekki verða af lífláti Bahaders, heldur fór hann með hann til konungs ásamt Amgiad: vildi konungur sjálfur heyra Amgiad sanna sakleysi hestavarðarins. Notaði Amgiad tækifæri þetta til að segja konungi ítarlega sögu sína og Assads bróður síns. En er hann hafði lokið henni, sagði konungur sjer þykja vænt um, að þeir væru orðnir kunnugir hver öðrum fyrir atvik þetta og gaf hann bæði honum og hestaverðinum líf; lofaði hann hestavörðinn fyrir góðvilja þann, er hann hafði sýnt Amgiad og gaf honum aptur emhætti sitt, en Amgiad gerði hann að stórvezír sínum. — „Eg ætla með því,“ mælti konungur, „að gera yður skaðlausan af meðferð þeirri, er þjer urðuð fyrir af föður yðar, því hún var ranglát, þó honum væri nokkur vorkunn. En hvað

Assad bróður yðar snertir, þá leyfi eg yður að neyta alls þess valds, sem eg hef fengið yður í hendur, til að láta leita hann upp.“ þakkaði Amgiad konungi Magíanna og tók við stórvezírs embættinu og neytti þvínæst allra ráða til að finna bróður sinn aptur. Fóru kallarar hvervetna um borgina og kunngjörðu, að hver sá maður, sem gæti haldið honum til skila eða sagt til hans skyldi fá mikil verðlaun. Voru menn sendir til að leita hans, og höfðu þeir sig alla við, en gátu engar frjettir fengið af honum.

það er nú af Assad að segja, að hann sat í myrkvastofunni undir jörð niðri, þarsem karlinn hrekkvísi hafði sett hann í varðhald. þær Bostane og Kawane dætur karlsins kvöldu hann með sömu grimmd og áður. En nú bar hina miklu hátíð eldsdýrkenda að hendi, og var skip það búið út, er vant var að fara til eldfjallsins, og skyldi Behram skipstjórnarmaður vera fyrir því, en hann fylgdi ákaft fram trú Magía. þegar skipið var seglbúið, var Assad fluttur útá það í kistu, sem til hálfs var full af vörum, og var hún látin neðst í skipið; voru nokkur göt á henni. til þess að Assad gæti dregið að sjer andann. En áðurenn skipið færi, fór Amgiad stórvezír sjálfur útá það, því honum hafði borizt til eyrna, að eldsdýrkendur væru á ári hverju vanir að blóta Mahómets manni á eldfjallinu, hugsaði hann með sjer, að vel gæti verið að þeir hefðu kosið Assad til þess, ef þeir hefðu fest hendur á honum. Ljet hann því alla sjómenn og farþega ganga uppá þilfar, meðan hans menn ransökuðu skipið, en ekki fundu þeir Assad, því hann var vandlega falinn. þvínæst ljet skipið úr höfnum og jafnskjótt sem það var komið út á rúmsjó, ljet Behram taka Assad upp úr kistunni og setja hann í fjötra, svo að hann ekki skyldi steypa sjer fyrir borð af örvæntingu útaf dauðdaga þeim, er fyrir honum lá. En að nokkrum dögum liðnum snjerist vindurinn, er allt til þessa hafði verið hagstæður og brast á stórviðri. Missti skipið þá stefnu sinnar og vissu þeir Behram og stýrimaður ekki hvar þeir voru; voru þeir hræddir um, að þá mundi þá og þegar reka á kletta. En er veðrið var sem hvassast sázt til lands, og varð Behram illt við, er hann sá, að þar var höfn og aðsetursborg Margiane drottningar. Trúði hún á Mahómet og var svarinn óvinur eldsdýrkenda, leið hún þá ekki í ríki sínu og leyfði ekki

einusinni skipum þeirra að leggja þar að landi. En nú var Behram ómögulegt að sneyða hjá höfn aðsetursborgar hennar, því ella mundi hann hafa týnzt við hina sæbröttu hamra, er gnæfðu hvervetna fram með ströndinni. Ráðgaðist hann í vandræðum þessum við stýrimann og aðra sjómenn og mælti: „Börn mín! þið sjáið í hvílíkar nauðir við erum komnir. Eitt af tvennu liggur fyrir oss, annaðhvort að týnast í sjáfaröldunum eða að forða oss á land Margiane drottningar, en þjer vitið að hún ber óslökkvandi hatur til vorrar trúar og játenda hennar. Mún hún vafalaust taka skip vort og láta drepa oss alla miskunarlaust. Veit eg hjer ekki nema eitt ráð, er kann að duga. Það er mín tillaga, að vjer leysum úr fjötrum Mahómets manninn, sem vjer höfum innanborðs, og færum hann í þrælabúning. Þegar drottning kallar mig á sinn fund og spyr um atvinnu mína, mun eg látast vera mansölumaður og segjast hafa selt alla þrælana nema einn, og ætla að hafa hann eptirleiðis fyrir skrifara, því hann sje bæði læs og skrifandi. Mun henni þá verða hugur á að sjá hann og með því hann er fríður sýnum og sömu trúar sem hún, mun hún kenna í brjóst um hann og fala hann af mjer, mun hún fyrir hið sama líða oss í höfn sinni þangað til veður batnar. Nú ef þjer vitið betra ráð, þá er eg fús að heyra.“ Stýrimaður og hásetar fjellust á ráð hans, og ljet Behram þegar leysa Assad úr fjötrum og færa hann í þokkaleg þrælaföt, er sæma máttu skipsskrifara. En er öllu þessu var svo í lag komið, sem hann vildi, sigldi skipið inná höfnina og lagðist við akkeri. Sást útá sjóinn úr höll drottningar og lá aldingarður hennar allt niður að sjáfarmálinu. Sá hún því þegar skipið hafnaði sig og sendi undireins boð eptir skipstjórnarmanni, ljek henni svo mikil forvitni á að tala við hann, að hún gekk til móts við hann í aldingarðinum.

Behram hafði gert ráð fyrir því, að drottning mundi senda eptir sjer og fór hann til lands med Assad kóngsson; hafði hann lagt ríkt á við hann, að hann skyldi segjast vera þræll hans og skrifari. Fleygði hann sjer fram fyrir fætur drottningarinnar og sagði henni, hversu sjer hefði verið nauðugur einn kostur að hleypa inn á höfnina, kvaðst hann vera mansölumaður og hafa selt alla þræla sína, nema Assad, er hann hafði með sjer, og væri

hann skrifari hans. — Varð Assad drottningu vel að skapi undireins í fyrsta bragði, og þókti henni vænt um, að hann var þræll. Ásetti hún sjer að kaupa hann, hvað dýr sem hann yrði, og spurði hann að nafni. Svaraði Assad þá og feldi tár af augum: „Mikla drottning! vill yðar hátign vita það nafn, er eg bar áður eða það. sem eg ber nú.“ „Heitið þjer þá tveimur nöfnum?“ mælti drottning. „Því er nú verr,“ ansaði Assad, „að eg áður hjet Assad, *) en nú heiti eg Moatarr.“ **) Drottning skildi eigi til fulls, hvað í svari þessu lá, en hjelt að hann ætti við ánauð sína og rjeði af því að hann mundi vera vitur maður. Tók hún aptur þannig til orða: „Fyrst þjer eruð skrifari, munuð þjer víst skrifa fallega hönd; lofið mjer nú að sjá rithönd yðar.“ Hafði Behram fengið Assad pappír og skriffæri og bar hann hvorttveggja við belti sitt; ætlaði Behram með því að gera sögu sína sennilegri. Ritaði kóngssonur nú vísur þessar á blað.

Fellur fjærsýnn
Í fárs gryfju
þá, er skammsýnn skirrist,
Opt óvitur
Orð þau firrist,
Er fjölvitran fella.

Svelta og sýta
Sanntrúaðir,
En guðníðingar
Gengi fagna,
Hve má hulin rök
Hugur skilja?
En þó fer allt
Að allvalds ráði.

Rjetti Assad drottningu blaðið og fannst henni ekki minna til efnisins enn skriptarinnar svo að hún fjekk á honum hinn bezta

*) Þ. e. Alltof sæll.

**) Þ. e. sá, sem ekki þorir að segja, hvers hann þarf í vandræðum sínum.

þokka og hrærðist til meðaumkvunar með honum. Þegar hún hafði lesið vísurnar sagði hún við Behram: „Eg set yður tvo kosti, annaðhvort að selja mjer eða gefa mjer þræl þenna. Má vera að þjer ekki hafið minni hag á að gefa mjer hann enn selja.“ Svaraði Behram þá af ósvífni og kvaðst ekki þurfa að kjósa um kosti, því hann þyrfti þrælsins með og ætlaði sjer að halda honum. Varð drottning þá uppvæg og vildi engum orðum skipta við Behram, tók hún í hönd Assad og ljet hann ganga á undan sjer inn í höllina, en til Behrams ljet hún skila, að ef hann lægi þar á höfninni næstu nótt, skyldi hún gera allan skipsfarminn upptækan, en láta brenna upp skipið. Varð Behram þá að fara útá skipið aptur og undi hann illa ferð sinni; ljet hann að öllu búa skipið til burtsiglingar og var storminum þó eigi slotað til fulls.

Þegar Margiane drottning var komin inn í höllina skipaði hún, að undireins skyldi bera kvöldmat á borð og fór hún með Assad inní herbergi eitt og ljet hann setjast þar hjá sjer. En er hann færðist undan, því slíkt var of mikil virðing fyrir þræl, tók hún þannig til máls: „Fyrir stundarkorni síðan voruð þjer þræll, en nú eruð þjer það ekki lengur. Setjist nú niður hjá mjer og segið mjer sögu yðar, því hún mun vera frábær, ræð eg það bæði af því, er þjer skrifuðuð til að sýna mjer sýnishorn rithandar yðvarrar og svo af ósvífni mansölumannsins.“ Assad hlýddi henni og svaraði: „Eigi skjátlast yðar hátign í því, saga mín er frábær, sem að líkindum ræður. Eg hef þolað miklar píslir og hörmungar og eg átti dauðann fyrir höndum, en þjer frelsuðuð mig með konunglegum drengskap; megið þjer af því ráða, hvílíkan velgjörning þjer hafið auðsýnt mjer og mun það mjer aldrei úr minni líða. En áðurenn eg segi frá þessum skelfilegu fádæmum, verð eg að hverfa til upphafs sögunnar og byrja á upptökum rauna minna.“ Örfaðist forvitni drottningar við formála þenna og sagði Assad henni nú upp alla sögu sína, frá ætterni sínu og frá Amgiad bróður sínum allt þangað til þeir skildu. Sagði hann og frá harmkvælum þeim, er hann varð að þola í fangelsinu og gat þess, að eldsdýrkendur hefðu ætlað að blóta sjer á eldfjallinu. En er hann hafði lokið sögu sinni, segir drottning, sem nú var orðin enn reiðari eldsdýrkendum enn hún hafði verið áður: „Kóngsson! svo

mikla andstyggð, sem eg jafnan hef haft á eldsdýrkendum, þá hef eg samt sýnt þeim of mikla mannást, en úr því þeir hafa farið svo grimmlega með yður og haft svo afskaplegt ódæði í hug, að blóta yður, þá segi eg þeim eylífan ófrið á hendur.“ Ætlaði hún að fara um þetta fleirum orðum, en þá var matur á borð borinn og settist hún til borðs með Assad; fannst henni svo mikið um orð hans og yfirbragð, að hún fjekk ást á honum og langaði til, að sem bráðast mætti svo bera undir, að hún gæti látið hann skilja það á sjer. „Þjer verðið,“ mælti hún, „að taka yður gildar skaðabætur fyrir föstur og illt viðurværi, er þjer höfðuð hjá eldsdýrkendunum, og munuð þjer þurfa næringar eptir slíkar raunir.“ Slík og önnur kurteisleg orð sagði hún við Assad, hjelt að honum að borða og ljet skenkja á hvern bikarinn af öðrum handa honum. Stóð borðhald þetta lengi og drakk Assad nokkru meira enn hent var. En er borið var af borði þurfti hann að bregða sjer út og fór svo laglega að því, að drottning varð þess ekki vör. Gekk hann útí hallargarðinn og þaðan inní aldingarðinn, því hliðið stóð opið; gekk hann þar stundarkorn sjer til skemmtunar. Bar hann seinast að gosbrunni einum, sem var hvað mest til inndælis í garðinum, þvoði hann þar hendur sínar og andlit, svo að sjer yrði svalara, lagðist hann þvínæst niður á grasbekkinn, sem var umhverfis brunninn og sofnaði þar.

Nú var nótt fyrir hendi og með því Behram þókti uggvænt, að drottning kynni að efna hótunar orð sín, þá hafði hann þegar dregið upp akkeri. Var hann næsta hugsjúkur útaf því, að hann hafði miszt Assad, svo að hann ekki gat blótað honum, einsog hann hafði ætlað; en það var honum samt nokkur huggun, að veðrið lægði og vindur bljes af landi svo að vænlegt var til burtsiglingar. En er hann hafði látið háseta fara útí stærri skipsbátinn og róa skipið útúr höfninni, sagði hann þeim, að þeir mættu eigi koma uppá skipið ennþá, því hann ætlaði að fá þeim nokkur ker og skyldu þeir fara og sækja vatn. En þeir færðust undan, því þeir vissu ekki hvar vatn var fáanlegt; en þegar Behram var hjá drottningunni í aldingarðinum, hafði hann sjeð gosbrunninn, og sagði hann nú hásetum sínum að lenda hjá aldingarðinum og klifrast yfir garðinn, sem ekki væri hærri enn svo sem svaraði

hálfri mannhæð, mundu þeir þá í miðjum aldingarðinum fá nóg vatn í dældinni kringum brunninn.

Rjeru nú hásetar þangað og komu að garðinum, klifruðust þeir yfir hann, hver með sitt ker og varð þeim ekki mikið fyrir því. En er þeir komu að vatnsdældinni, sáu þeir mann sofandi á bakkanum, læddust þeir að honum og sáu, að þar var Assad. Slóu þá nokkrir af skipverjum hring utan um hann, en aðrir helltu sem hljóðlegast vatni á kerin; voru hinir búnir til að halda honum, ef hann vaknaði. — En hann gaf þeim nógan tíma til að ljúka af verki sínu, og loksins þegar búið var að fylla kerin og þeim var lypt upp á þá, er bera skyldu, lögðu hinir hendur á Assad. — Ljetu þeir hann engan tíma hafa til að ranka við sjer og báru hann ásamt vatnskerunum yfir garðinn og ofaní bátinn, rjeru síðan í skyndi út að skipinu.

En er þeir voru nærri komnir að borði, kölluðu þeir hlakkandi til skipstjórnarmanns, að nú skyldi hann láta slá bumburnar, því þeir færðu honum þræl hans. — Gat Behram eigi skilið í því, að hásetar hans hefðu fundið Assad og náð honum, en vegna nátt myrkursins gat hann ekki sjeð hann í bátnum. — Beið hann þess næsta óþolinmóður, að þeir kæmu upp á skipið, svo að hann gæti spurt þá, hvað þeir ættu við, en er hann sá Assad bersýnilega með augum sínum, varð hann frá sjer numinn af kæti. Spurði hann þá alls ekki, hvernig happ þetta hefði borið þeim að höndum, en ljet undireins setja hann í fjötra; var báturinn þvínæst dreginn uppá skipið og sigldu þeir aptur með fullum seglum til eldfjallsins.

Í fyrstunni fjekk það Margiane drottningu engrar áhyggju, er hún sá að Assad kóngsson var genginn útúr herberginu. Ljek henni enginn efi á, að hann mundi koma aptur og beið hún hans með óþolinmæði, en er nokkur stund var liðin og Assad kom eigi að heldur, varð hún áhyggjufull og skipaði þjónustukonum sínum að leita að honum. — En þær urðu einskis vísari og var hans leitað með ljósi, en það kom fyrir ekki. Þá varð drottning utan við sig af hræðslu og fór sjálf að leita með logandi blysum, sá hún að aldingarðurinn stóð opinn og leitaði hún um hann allan með þjónustukonum sínum. En er hún gekk hjá vatnsdældinni, sá

hún hvar skór lá á grasbekknum og kannaðist hún við, að það var annar þeirra, er kóngsson hafði gengið með. Rjeði hún bæði af þessu og af því, að vatni hafði verið hellt niður kringum dældina, að Behram kynni að hafa flutt hann á burt með sjer. Ljet hún undireins spyrjast fyrir, hvort hann væri ennþá á höfninni, varð hún þess þá vísari, að hann hafði haft uppi segl rjett undir nóttina, en dvalið stundarkorn og sent bát til að sækja vatn í aldingarðinn. Ljet hún þá skila til manns þess, sem var fyrir hinum tíu herskipum hennar, er allajafna lágu alskipuð mönnum og seglbúin á höfninni, að hún ætlaði sjálf að stíga á skipsfjöl næsta morgun. — Stefndi þá sjóliðsforingi saman liði sínu og sveitarhöfðingjum, og voru þeir allir komnir útá skip á tilteknum tíma. Stje nú drottning á skip og jafnskjótt sem flotinn var kominn út úr höfninni og segl voru upp dregin, sagði hún fyrirliðanum, að hún ætlaði að ná kaupmanni þeim, er siglt hafði af höfninni kvöldið áður. — „Skuluð þjer,“ mælti hún, „eiga alls kosti við hann, ef hann verður tekinn, en ef við ekki náum honum, þá varðar það lífi yðru.“ Hjeldu nú hin tíu skip á eptir Behram í tvo daga svo að eigi sást til hans, en er ljómaði af hinum þriðja degi sást skip hans, og um hádegis bil fengu hin skipin kvíað það svo, að ómögulegt var að komast undan.

Þegar grimdarseggurinn Behram sá hin tíu skip, ljek honum alls enginn efi á, að Margiane drottning sendi flota þenna til að elta hann, og veitti því Assad iljastroku. — Hafði enginn dagur liðið svo, frá því hann lagði á stað frá borg Magíanna, að hann ljeti það hjá líða, en í þetta skipti misþyrmdi hann honum venju fremur. — Þegar hann nú sá að hann var kvíaður af skipunum, átti hann mjög úr vöndu að ráða, því hjeldi hann Assad hjá sjer, þá var það sama sem hann játaði sökinni á hendur sjer, en ef hann dræpi hann, þá var hann hræddur um, að einhver merki þess kynnu að sjást. Ljet hann þá loksins leysa af honum fjöturinn og fara með hann uppúr kjalsoginu, og leiða fram fyrir sig; „það er þjer að kenna,“ mælti hann, „að okkur er veitt eptirför,“ og að svo mæltu hratt hann honum útí sjóinn. — En Assad var hinn sundfærasti maður og neytti hann knálega handa og fóta, var straumurinn og hagstæður, svo að honum tókst að ná landi. Þegar

hann var kominn á þurt land, varð honum það fyrst fyrir, að hann færði drottni þakkir fyrir, að hann hafði frelsað hann úr slíkum háska. Þvínæst afklæddist hann og vatt sjóinn úr vosklæðum sínum, breiddi þau síðan til þerris á klettunum og þornuðu þau skjótt, því veður var heitt af sól og var jörðin hlýnuð af geislum hennar. — Meðan á þessu stóð, hvíldi hann sig, og barmaði sjer útaf bágindum sínum; vissi hann hvorki, hvar hann var, nje heldur, hvert fara skyldi. Fór hann aptur í föt sín og gekk nú jafnan með sjó fram, þangaðtil hann kom að förnum vegi og fylgdi hann honum. Gekk hann í rúma tíu daga um óbyggðir og nærðist ekki af öðru enn aldinum og jurtum, er spruttu á lækjarbökkum. Eptir langan tíma bar hann að borg einni, og sá hann skjótt, að það var Magía borgin, þarsem hann hafði verið svo illa útleikinn; varð hann þess áskynja, að Amgiad bróðir hans var nú stórvezír. Varð hann því feginn og einsetti sjer að koma ekki nálægt nokkrum eldsdýrkenda, en leita jafnan til átrúenda Mahómets, því hann rankaði við að hann hefði sjeð nokkra af þeim þá er hann fyrsta sinn kom í borgina. En með því nú hallaði út degi og hann vissi, að sölubúðum var lokað, en fátt manna á borgarstrætum, kaus hann heldur að láta fyrirberast á greptrunarstaðnum fyrir utan borgina; voru þar margir legstaðir með hjálmþökum. Hitti hann einn, er stóð opinn, gekk hann þar inn og rjeði af að vera þar um nóttina.

Nú skal aptur segja af Behram og skipi hans; var það umkringt af skipum Margiane drottningar jafnskjótt sem hann hafði fleygt Assad í sjóinn. Var þar enginn kostur að verjast og ljet Behram hlaða seglum, er skip drottningar renndi að, til merkis um að hann gæfi sig á hennar vald. Gekk hún uppá skip hans og spurði hann, hvar skrifarinn væri, sem hann hefði verið svo djarfur að nema burt eða láta nema burt úr höll sinni. Behram sór og sárt við lagði, að hann væri ekki á skipi hans og sagði að hún mætti láta ransaka það, svo að augljóst yrði, að hann var saklaus. Skipaði þá drottning að leita og var það gert svo rækilega sem auðið var, en ekki fannst maður sá, er hana langaði svo mjög til að finna, bæði af því hún unni honum og var drenglynd af náttúrufari. Var þá við sjálft búið, að hún mundi vega að

Behram, en hún stillti þó geð sitt og ljet sjer nægja að taka frá honum skipið og skipsfarminn.

þeir Behram og hásetar hans fengu bátinn, til þess að þeir gætu komist á land og tókst þeim það; komu þeir að borg Magíanna sömu nóttina, sem Assad var á greptrunarstaðnum. Borgarhliðum var lokað og sá Behram því ekki annað sýnna, enn að leita sjer náttbóls á greptrunarstaðnum, en til allrar óhamingju bar hann að legstaðnum, sem Assad var í, lá hann þar sofandi og hafði sveipað skikkjunni um höfuð sjer. þegar hann heyrði háreystið reis hann upp og spurði, hver þar væri, en Behram þekkti hann þá undireins. „Skoðum nú!“ mælti hann, „þarna ert þú kominn, sem veldur því, að eg hef ratað í æfilangt ólán. Í þetta sinn var þjer ekki blótað, en þú mátt reiða þig uppá, að það verður næsta ár.“ Að svo mæltu fleygði hann sjer ofaná Assad, tróð uppí hann klút svo að hann ekki gæti kallað, og ljet háseta sína binda hann. Um morguninn þegar borg hliðinu var upp lokið veitti honum hægt að komast með Assad gegnum afvikin stræti, þarsem enginn var kominn á fætur, og fara með hann til karlsins, sem hafði svikið hann á svo svívirðilegan hátt. Ljet Behram undireins kasta honum í sömu díflissuna, sem hann hafði sókt hann í, og sagði karlinum hversu slysaleg för sín hefði orðið, og væri hann nú aptur kominn við svo búið. Sá nú Assad að hann var aptur kominn þangað, sem hann hafði þolað svo mikil harmkvæli. Nú átti hann hinar sömu píslir fyrir höndum, sem hann áður hugðist með öllu við sloppinn, og grjet hann yfir sínum hryggilegu forlögum; í sama bili sjer hann Bostane koma inn með staf í hendi, eitt brauð og vatnskrukku. Illmennið gamla hafði ekki gleymt að biðja dætur sínar fyrir að kvelja Assad miklu grimmlegar enn að undanförnu. þegar hann sá hina miskunar lausu kvennsnipt, fór um hann hryllingur, því hann hugsaði til kvala þeirra, er hann nú átti yfir höfði sjer á degi hverjum í heilt ár, áðurenn hann dæji skelfilegum dauðdaga.

Ljek nú Bostane Assad eins grimmlega og áður, en svo fór loksins, að hún viknaði, því hann kveinaði og barmaði sjer, beiddi innilega vægðar og tárfeldi; tók hún þá að gráta með honum. „Herra!“ mælti hún, „í því hún hætti að lemja hann, „eg bið

yður fyrirgefa mjer harðúð þá, er eg hef sýnt yður áður og nú fyrir skemmztu látið yður kenna á. Áður mátti eg eigi óhlýðnast föður mínum, sem er yður ofsareiður að orsakalausu og sárlangar að fyrirkoma yður; en nú er eg loksins búin að fá andstygð á þessari grimd. Huggist nú, hörmungar yðar munu enda taka, og skal eg reyna að gera góðar yfirbætur allra ávirðinga minna. Áður tölduð þjer mig á meðal heiðingja en nú megið þjer hafa fyrir satt, að eg sje mahómedanskrar trúar. Einn af þrælum mínum, sem er yðar trúar, hefir veitt mjer nokkra tilsögn í trúarbrögðum yðar og vona eg að þjer fullkomnið það, sem hann hefir uppbyrjað. En svo að þjer sjáið þess vott, að eg hef góðan vilja, þá bið eg sannan guð að fyrirgefa mjer öll þau afbrot, sem eg hef gerzt sek í við hann, með því að misþyrma yður; hef eg það traust á honum, að hann láti mig finna ráð til að veita yður fullkomið frelsi.“ Voru þessi orð hennar Assad til mikillar huggunar, og þakkaði hann guði fyrir, að hann hafði hrært hjarta Bostane. þakkaði hann henni fyrir að hún bar svo góðan þela til hans, og gerði allt sitt til að styrkja hana í áformi sínu, kenndi hann henni enn betur trúarbrögð Mahómets og sagði henni sögu sína og allar þær ófarir, er hann hafði ratað í, þrátt fyrir tign sína og ættgöfgi. En er hann var genginn úr skugga um, að hún var einbeitt í hinu góða áformi sínu, spurði hann, hvernig hún ætlaði að dylja þetta fyrir systur sinni og aptra henni frá að misþyrma sjer. Sagði hún þá, að hann mætti eiga víst, að hún skyldi svo koma ár sinni fyrir borð, að Kawane ekki leggðist framar á hann, og hughreystist hann við það. Enda tókst henni alltaf að verða fyrri til enn Kawane í hvert skipti, sem hún ætlaði ofan í díflissuna. Kom nú Bostane opt til Assaðs, en nú færði hún honum ekki vatn og brauð heldur vín og góðan mat, er hún ljet tólf mahómedanskar ambáttir til reiða, þær er henni þjónuðu. Mataðist hún og stundum sjálf með honum og gerði allt, sem í hennar valdi stóð til að hugga hann.

það var nokkrum dögum eptir þessi heppilegu umskipti, að Bostane sat við húsdyr, heyrði hún þá að kallari nokkur kunngjörði eitthvað, svo langt í burtu að hún heyrði eigi orðaskil. En er hann kom nær, gekk hún á hurðar bak og hjelt henni opinni

til hálfs, sá hún að kallarinn gekk á undan Amgiad stórvezír, og fylgdu honum margir af embættismönnum hans og þjónum. Örskammt frá húsdyrunum tók kallarinn upp auglýsingu sína og hrópaði hárri röddu:

„Hinn hágöfugi stórvezír, sem hjer er nærstaddur, leitar að ástkærum bróður sínum, er hvarf honum fyrir rúmu ári síðan.“ Þvínæst las hann upp lýsingu á honum og mælti: „Hafi nokkur maður hann hjá sjer eða viti, hvar hann hefst við, þá skipar stórvezírinn honum að fara með hann á sinn fund eða segja sjer til hans, og heitir hann góðum verðlaunum. En leyni nokkur honum og verði uppvís að því, þá lýsir stórvezírinn því yfir, að þeim manni, konu hans, börnum og ættingjum skal refsað með lífláti, en hús hans skal niður brotið verða.“ Þegar Bostane hafði heyrt auglýsingu þessa lokaði hún dyrunum í skyndi og fór til Assaðs, og kallaði til hans með miklum fögnuði: „Kóngsson! nú er óhamingja yðar á enda, komið með mjer og flýtið yður.“ Hafði hún tekið af honum fjöturinn undireins fyrsta daginn er hann kom aptur í díflissuna og gat hann því þegar í stað fylgt henni útá stræti; kallaði hún þá: „Hjer er hann! hjer er hann!“ Stórvezírinn var ekki langt í burt og leit í kringum sig, þekkti Assad bróður sinn og hljóp í fang honum, því Amgiad hafði og kannazt við hann. Einn af embættismönnum þeim, er fylgdu honum varð að fá Assad hest sinn, fór Amgiad svo med bróður sinn sigri hrósandi til hallarinnar og leiddi hann á fund konungs; tók konungur Assad upp í tölu vezíra sinna. Bostane vildi eigi fara aptur til föður síns, enda var hús hans rifið niður sama dag. Hafði hún aldrei haft augun af Assad á leiðinni til hallarinnar og var farið með hana til drottningarinnar.

Þeir Behram og faðir hennar voru leiddir fram fyrir konung með hyski sínu og voru þeir dæmdir til að hálshöggvast. Fjellu þeir á knje og beiddu miskunar, en hann svaraði: „Ykkur skal engin miskunn sýnd, nema þið látið af eldsdýrkun og gerist játendur Mahómets.“ Það gerðu þeir ásamt öllu hyski sínu og unnu sjer það til lífs.

Nú með því Behram tók trú Mahómets og Amgiad vildi bæta honum tjón það, er hann áður hafði beðið, þá veitti hann honum

eitt af hinum æðstu embættum og fjekk honum bústað í húsi sínu. Skömmu síðar heyrði Behram sögu velgjörðamanns síns og Assaðs bróður hans, bauðst hann þá til að búa skip og flytja þá til Kamaralsamans konungs, föður þeirra; kvað hann konung mundu hafa komizt að sakleysi þeirra á þeim tíma, er liðinn var og mundi honum verða frábær fögnuður að finna þá aptur. Þeir kóngssynir glöddust við orð hans, en tárfeldu þó um leið og segir Behram því: „Grátið ekki, því ykkur og ættmennum ykkar mun aptur samfunda auðið einsog þau Neama og Noam fundust aptur.“ „Og hver voru þau Neama og Noam? hvernig er saga þeirra?“ spurðu þeir Amgiad og Assad og sagði Behram þeim þá sögu þessa:

## Sagan af Neama og Noam.

Einusinni var í borginni Kufah maður, er Rabia hjet; var hann einhver hinn auðugasti og tignasti allra borgarmanna. Guð hafði gefið honum einn son, er hann kallaði Neama Allah, (guðs gjöf); unni hann drengnum hugástum og hafði lagt hina mestu alúð við hann frá blautu barns beini. Það var einhverju sinni, að hann gekk yfir mantorg og sá hvar ung og fögur kona var leidd fram til sölu, hafði hún lítið meybarn á armi sjer yndislega fagurt. Gerði hann mansalsmiðli einum bendingu að koma og spurði hvað ambáttin með barnið ætti að kosta. „Fimmtíu sekkínur,“ svaraði hann og sagði því Rabia: „Hjer er andvirðið; semjið undireins kaupbrjefið og fáið eiganda ambáttarinnar fjeð.“

Þegar kaupin voru gerð og Rabia hafði borgað mansalsmiðlinum tók hann við ambáttinni og barninu og fór með þau heim til sín. Þegar kona hans sá hann koma með þetta föruneyti, spurði hún hver konan væri. „Það er ambátt, sem eg keypti mjer núna,“ ansaði Rabia, „af því mjer leizt svo vel á hana dóttur hennar litlu, það er ætlun mín, að hún muni einhverntíma bera af öllum konum bæði í Persíu og Arabíu fyrir fegurðar sakir. Hún er nú á aldur við Neama og geta þá bæði börnin leikið sjer saman.“

Þau Neama og Noam voru nú uppalin saman þangaðtil þau voru tíu vetra og jókst þeim fegurð og atgjörfi, hverju í kapp við annað. Kölluðu þau hvert annað bróður og systur, þangaðtil Rabia einhverju sinni tók son sinn afsíðis og sagði við hann:

„Son minn! hún Noam er ekki systir þín, heldur ambátt þín. Eg hef keypt hana handa þjer, meðan þú lágst í vöggu og máttu ekki hjeðan í frá kalla hana systur þína.“

„Ef svo er, get eg átt hana,“ ansaði Neama glaður og flýtti sjer til móður sinnar til að segja henni, hvers hann væri orðinn vísari og hvað hann hefði í huga. Móðir hans var góð kona og eins eptirlát honum og faðir hans, segir hún því: „Hún Noam er ambátt þín og þú mátt gera við hana, hvað þjer líkar.“ En er Neama var svo æskilega svarað, vatt hann bráðan bug að því að eiga Noam, því hann hafði brennandi elsku á henni, lifðu þau svo nokkur ár og fjell mjög ástúðlega á með þeim. Enda var hún makleg þeirrar ástar, er hann hafði á henni. Hún var frábærlega fríð yfirlitum og ágætlega vaxin, en þartil var lund hennar blíð og elskurík, hafði uppeldi hennar verið vandað mjög og var hún því prýðilega menntum búin. Hún las svo fallega, að yndi var á að hlýða og ljek á öll hljóðfæri. Hrærði rödd hennar hvert hjarta er hún söng undir með fiðlu eða bjöllu bumbu, og svo var henni ljett um kveðskap, að hún jafnaðist við hina mestu snillinga, er í þann tíma voru. Er þar stutt frá að segja, Noam mátti með rjettu nefnast fríðust og fullkomnust allra kvenna, er í Kufah voru.

En meðan þau lifðu svo sælu lífi, var Hedschadsche, hraustur maður en harðráður, jarl kalífans Abdalmelek-ebn-Mervans í Kufah, og datt honum í hug að láta nema Noam burt til þess að fá kalífanum hana. Hafði hann heyrt mikið sagt af fegurð hennar og öðrum kostum og hugðist eigi mundu geta gefið kalífanum betri gjöf, því hann vissi að hann átti enga konu, er við hana jafnaðist. Gerði Hedschadsche því boð eptir kerlingu nokkurri, er opt hafði reynzt honum slúngin í þesskonar efnum. Skipaði hann henni að koma sjer í kunningsskap á heimili Rabia og vingast við Noam, svo að hann gæti fengið færi á að nema hana burt.

Næsta morgun fór kerling í þykk ullarföt og hengdi um háls sjer bænaband, er dregnar voru á stórar kúlur; tók hún staf í hönd sjer er kyrfis*) flaska hjekk við, og fór síðan á stað til húsa

*) Jurtin cucurbita; hún ber ætilegan ávöxt kúlumyndaðan, með harðri skel.

Rabia. Kom hún þangað um hádegisbæna tíma og drap á dyr, lauk dyravörður upp og spurði, hvað hún vildi. „Eg er vesæl þjónustukona drottins," ansaði kerling, „hádegisbæna tíminn kom mjer á óvart og bið eg því að mjer sje leyft inn að ganga í þetta helga og æruverða hús, svo eg geti gert þar bæn mína." Heyrði Neama orð þessi, gekk út og gerði dyraverði bendingu, að hann skyldi hleypa kerlingu inn; fór hann síðan sjálfur með hana inn í herbergi konu sinnar. En er hún sá Noam, varð hún frá sjer numin af einstakri fegurð hennar, kvaddi hana með lotningu og mælti: „Ó þú drottning mín! vertu falin handleiðslu guðs, sem samtengt hefur slíkan vænleik og fegurð, þarsem þið hjón eruð." Þvínæst fleygði hún sjer niður fyrir framan hvolfstúku eina, fjell á knjebeð og baðst fyrir í einni lotu allt þangaðtil nóttin datt yfir. Þá sagði Noam loksins við hana: „Guðhrædda móðir! hvílið yður nú um stund," veitti hún henni þvínæst mat og drykk og mælti: „Neytið nokkurs af þessu, sem eg hef fyrir hendi og biðjið guð að uppfræða mig og miskuna mjer." Þannig átti Noam tal við kerlingu um stund og sagði síðan við mann sinn: „Eg vildi óska að þú gætir greitt eitthvað fyrir þessari gömlu konu; guðhræðslan skín útúr svip hennar. Gæti hún ekki verið til húsa hjá okkur um tíma?" „Láttu hana þá fá herbergi," mælti Neama, „svo hún geti í því þjónað guði sínum án þess nokkur trufli fyrir henni." Lá kerling alla nóttina á bæn og las í kóraninum, en er lýsti af degi, gekk hún á burt og grjet þá Noam, svo mikið þókti henni fyrir að skilja við flagðið. Daginn eptir kom hún aptur til þeirra Neama og Noam; heimsókti hún síðan þau hjón á degi hverjum og sýndu þau henni æ meiri og meiri virðingu. Einusinni þegar hún og Noam voru einar saman, tók hún þannig til máls: „Göfuga frú! þegar eg kem á hina helgu staði og bið fyrir yður, óska eg þess einatt, að þjer væruð með mjer og sæjuð hina guðhræddu öldunga, sem þar eru saman komnir, mundi guð fyrir þeirra bænastað veita yður, hvað sem þjer beidduð um." „Það er hjartans ósk mín að fylgjast með yður," ansaði Noam.

Næsta morgun kom hún aptur og með því Neama ekki var heima, sá hún sig ekki úr færi og sagði við Noam: „Við báðum

fyrir yður í allan gærdag. Látum okkur því ganga út í dag, svo við getum um stund verið í samneyti guðhræddra manna. Við getum verið komin heim áður enn Neama kemur aptur.“ Þannig tókst kerlingu að ginna Noam með sjer; fór hún með hana til hallar Hedschiadsche og ljet undireins skila, að hún væri komin. En er hann kom inn í herbergið, sem kerling hafði fylgt Noam í, fjell hann í stafi við fegurð hennar, en er Noam sá hann, sveipti hún undireins blæjunni fyrir andlit sjer. Skipaði jarlinn einum af sveitarforingjum sínum að taka með sjer fimmtíu riddara og flytja þessa fögru konu til Damaskus á einhverjum hinum bezta úlfalda, er hann hefði; skyldi hann afhenda konuna kalífanum Abdalmelek-ebn-Mervan. Sveitarhöfðinginn flýtti sjer og að hlýðnast skipun þessari, ljet hann setja Noam upp á fljótan úlfalda og lagði á stað. En Noam gerði ekki annað enn gráta og andvarpa á allri leiðinni útaf því, að hún var skilin frá manni sínum.

Þegar sveitarforinginn var kominn til Damaskus, beiddist hann leyfis að ganga á fund kalífans og fjekk hann honum brjef frá jarlinum. En er kalífinn hafði lesið það, spurði hann, hvar hin unga ambátt væri, var hún þá leidd fram fyrir hann og afhent honum. Skipaði kalífinn að leiða hana til herbergis eins, er hún ein skyldi vera í, og fór til konu sinnar að segja henni, að Hedschadsche hefði keypt handa sjer ambátt eina af ætt konunganna í Kufah fyrir þúsund sekkínur og væri hún nýkomin. Samfagnaði kona hans honum, er hún sá að þetta fjekk honum svo mikillar gleði. En ámeðan gekk systir kalífans inní herbergið, sem Noam var í og er hún sá hana mælti hún hátt: „Herra yðar hefði ekki keypt illa, þó hann hefði gefið hundrað þúsund gullpeninga fyrir yður.“ Gaf Noam orðum þessum engan gaum, en segir við hana: „Segið mjer í guðs nafni göfuga frú! hvaða höll þetta er, hver konungur á hana og í hvaða borg eg er?“ „Þjer eruð í Damaskus,“ ansaði systir kalífans, „í höll bróður míns kalífans Abdalmelek-ebn-Mervans. Er yður þá þetta allt ókunnugt?“ „Eg veit alls ekkert um það,“ svaraði Noam. Þá mælti systir kalífans: „Sagði maðurinn yður ekki, sá sem seldi yður og tók við fjenu, að kalífinn ætti að fá yður?“ Þegar Noam heyrði þetta, hrundu fögur tárin um ásjónu hennar, formælti hún hinni svívirðilegu hrekkvísi, er henni hafði orðið að tjóni og

hugsaði með sjer: „þó eg segi allt, hvernig farið hefur, mun enginn trúa mjer, og vil eg því heldur þegja. Eg veit að guðs hjálp er ætíð nálæg mjer.“ Afþví hún var lúin eptir ferðina, ljet systir kalífans hana hvíla sig allan hinn næsta dag. Morguninn eptir færði hún henni lín, klæðnað, perlumen og armbönd og beiddi hana að búast í skart þetta að sjer áhorfandi. Rjett á eptir kom kalífinn og settist hjá Noam, hjelt hún þá höndum fyrir andlit sjer. En systir hans lofaði hana mjög og sagði hana vera gædda allri fegurð og yndisleik, beiddi hún Noam að synja honum eigi slíkrar fagnaðar sjónar. Allt fyrir það hjelt hún höndunum fyrir andliti sjer, en af því eina atviki, að kalífinn sá hina fögru handleggi hennar, feldi hann brennandi ástarhug til hennar. Sagði hann því við systur sína, að hann myndi koma að þriggja daga fresti og mælti ennfremur: „Eg vona að hún á þeim tíma verði þjer kunnugri og móttækilegri fyrir ást þá, er hún hefir blásið mjer í brjóst.“ þegar kalífinn var genginn burt, tók Noam á ný að hugleiða ástand sitt og kveina útaf því að hún var fráskila orðin manni sínum. Um kvöldið varð hún veik og vildi einskis neyta, og ljet fegurð hennar þegar ásjást. Varð kalífinn næsta áhyggjufullur útaf sjúkleika hennar, gerði hann boð eptir hinum beztu læknum og fór með þá til hennar, en enginn þeirra gat komizt að undirrót veikinda hennar nje orðið henni að liði.

Neama ætlaði nú að verða frávita af örvæntingu útaf missi konu sinnar; var hann þá ekki nema fjórtán vetra og var honum ekki grön vaxin. Forðaðist hann þá staði, er rifjuðu upp fyrir honum ástir hans og flóði hann sífellt í tárum. Varð móðir hans næsta kvíðafull hans vegna og grjet hún og andvarpaði með honum alla nóttina. Leitaðist faðir hans við að hughreysta hann og kvað sjer þykja líklegt, að jarlinn hefði sjálfur látið nema burt ambáttina, og mundi hann ef til vill fá hana bráðum aptur; en það kom fyrir ekki, Neama vildi ekki taka neinni huggun og svo mjög fór harmur hans í vöxt, að vitsmunir hans tóku að skerðast; hann vissi nú ekki framar hvað hann sagði, nje heldur bar hann kennsl á menn þá, er til hans komu. Sókti Rabia hina beztu lækna til sonar sína, en þeim bar öllum saman um, að honum mundi eigi fyrr batna enn hann fengi aptur ambáttina. þannig dróst hann upp

í þrjá mánuði og fór faðir hans að örvænta honum lífs. þá frjetti hann að til Kufah væri kominn læknir einn, sem væri afbragðs stjörnuspámaður, beiddi hann konu sína að senda eptir honum, því hann vissi ef til vill ráð til að lækna son þeirra. Voru þá gerð boð eptir læknirnum og er hann kom, ljet Rabia hann setjast niður hjá rúmi sonar síns. Tók þá læknirinn hönd hans og þreifaði um liðamótin, og er hann hafði virt hann vandlega fyrir sjer segir hann við Rabia brosandi: „Veikindi sonar yðar eru í hjartanu.“ Furðaði Rabia sig mjög á þessu og kvað það satt vera, og sagði honum allt, hvernig Noam var numin burt. þá mælti læknirinn: „Hin unga ambátt, er þjer talið um, er nú í Balsora eða Damaskus og það eitt getur orðið syni yðar til lífs, að hann finni hana aptur.“ „Ef þjer getið komið því til leiðar,“ mælti Rabia, „þá megið þjer verja til þess öllum fjármunum mínum, og skal eg gera yður að lánsmanni.“ „það skiptir minnstu,“ ansaði læknirinn persneski, vjek sjer þvínæst að Neama og mælti: „Verið hughraustur! yður skal bráðum verða hjálpað.“ Spurði hann Rabia, hvort hann hefði fjögur þúsund gullpeninga fyrir hendi; sókti Rabia þá undireins fjeð og fjekk lækninum. Sagði læknirinn þá, að hann ætlaði til Damaskus með sjúklinginn og sór hann, að hann skyldi ekki koma svo aptur, að hann ekki hefði með sjer ambáttina, sem Neama elskaði svo heitt. Spurði hann að nafni sjúklingsins, og er honum var það sagt sagði hann við Neama: „Heilir svo, Neama! herðið upp hugann og treystið almáttugum guði, — hans nafn sje vegsamað! Hann var sá sem samtengdi yður og unnustu yðar. Etið nú og drekkið, bælið niður harma yðar og reynið að hressast og styrkjast svo, að þjer getið þolað vos og þrautir á ferðinni; munum við leggja á stað til Damaskus að átta dögum liðnum.“

Bjóst nú læknirinn persneski í ákafa til ferðarinnar og ljet fá sjer allskonar gripi, er hann ætlaði að gefa, og þaraðauki sex þúsund sekkínur, svo að hann hafði tíu þúsund samtals, því minna þóktist hann ekki geta komizt af með, ef ætlun hans ætti að verða fram gengt. Var nú allt til taks, hross, úlfaldar og farangur, og að liðnum átta dögum kvaddi Neama foreldra sína eg lagði á stað með lækninum. Dvöldu þeir einn dag í Aleppo til að spyrjast fyrir um ambáttina, en urðu einskis vísari. En er þeir voru

komnir til Damaskus hvíldu þeir sig í þrjá daga. Þvínæst leigði læknirinn sjer sölubúð og bjó hana með mestu viðhöfn. Á hyllur þær, er í henni voru, raðaði hann dýrmætustu postulíns kerum með silfurlokum yfir, eigi vantaði heldur að búðin væri búin gulli og öðru, er prýði var að, en á búðarborðið setti hann gler og kristalls flöskur, og voru á þeim smyrsli og heilsudrykkir. Hann setti og hæðarmæli sinn upp í búðinni ásamt töflu þeirri, er hann hafði til stjörnu reikninga. Þartil bjó hann sig skrautlega einsog persneskur læknir og ljet Neama fara í nærföt úr hinu smágjörvasta ljerepti, og silkislopp utan yfir með gullsaumuðu belti. Að því búnu mælti læknirinn: „Neama! nú verðið þjer framvegis að láta sem þjer sjeuð sonur minn. Þjer skuluð kalla mig föður og eg kalla yður son.“ „Eg heyri og hlýði,“ svaraði Neama. Fór nú borgarlýðurinn í Damaskus að þyrpast kringum búð persneska læknisins og dáðist að hversu ríkmannlega og skrautlega hún var búin; svo þókti og mikið koma til fríðleika Neama. Talaði hinn persneski læknir ekki annað við hann enn persnesku og svaraði hann á sama máli, því hann kunni það einsog flestir heldri manna synir. Flaug skjótt orðrómur af lækninum persneska um alla borgina og leituðu menn ráða hjá honum við öllum sjúkdómum. Hann vissi og ráð við öllu og þurfti hann ekki annað enn að sjá þvag sjúklinganna til að vita, hvað að þeim gengi, sagði svo hverra meðala skyldi neyta og hvernig þeir ættu að haga sjer um allt. Varð hann innanskamms átrúnaðargoð allra borgarmanna og heyrðist orðstír hans einnig í höllum höfðingjanna. Það var einhvern dag, er hann var að tilreiða læknisdóma sína, að gömul kona kom til búðar hans ríðandi múlasna, í skrautlegum söðli, ljet hún þá staðar numið og gerði honum bendingu að hann skyldi koma út og hjálpa sjer af baki. Kom læknirinn þá með kurteisi, tók hana af baki og fylgdi henni inn í búðina. „Eruð þjer,“ spurði konan „persneski læknirinn, sem fyrir skemmztu er kominn frá Arabíu?“ Kvað læknirinn svo vera og sagðist kerling þá eiga dóttur, sem væri veik. Þvínæst lýsti hún sjúkleika hennar og fjekk honum dálítið glas, er þvag sjúklingsins var í. Skoðaði læknirinn það rækilega og spurði að endingu, hvað dóttir hennar hjeti, svo að hann gæti útreiknað undir hverri

stjörnu hún væri fædd, og hvenær hún mætti neyta læknisdóma þeirra, er henni gæti batnað af. „Hún heitir Noam,“ ansaði konan og fór nú læknirinn að skoða huga sinn og reikna og skrifa á lófa sinn. En loksins tók hann þannig til máls: „Náðuga frú! eg get ekki gefið dóttur yðar neitt læknismeðal, nema eg viti hvar hún er fædd, því eg verð að hafa hliðsjón af því, hvort hún hefur lifað undir ýmsum himinbeltum. Segið mjer því, hvar hún er uppalin og hvað gömul hún er?“ „Hún er nú fjórtán vetra og er uppalin í Kufah,“ ansaði konan. „Hversu lengi hefir hún verið hjer,“ spurði læknirinn og svaraði konan, að hún hefði verið þar nokkra mánuði. Neama, sem var viðstaddur, hafði tekið vandlega eptir hverju orði, sem þau töluðu saman og var sem hjarta hans tæki viðbragð, er hann heyrði Noam nefnda. Sagði læknirinn konunni, hvert ráð duga mundi sjúklingnum, fjekk hún honum þá tíu gullpeninga og beiddi hann að fá sjer læknismeðalið. Sagði hann Neama, hvernig ætti að búa það til; fór konan þá að virða hann betur fyrir sjer og segir: „Guð blessi þig, drengur minn! — en víst er um það að þú ert líkur henni.“ Spurði hún læknirinn, hvort hann væri þræll hans eða sonur og svaraði hann, að hann væri sonur sinn.

Þegar Neama var búinn að því, er fyrir hann var lagt ritaði hann vísu þessa á blað.

Líti mig Noam,
Ljúfar ástir
Firrist eg fljóða,
Þó fögur sjeu;
Rjeðu mjer bragnar,
Brúði að hafna,
Kváðu mýmargar
Meyjar slíkar.
Ósatt var orð,
Hún er öllum betri
Mun eg því aldrei
Af auðgrund hyggja.

Faldi hann seðil þenna laglega í öskju þeirri, er læknis meðalið var í, innsiglaði hann og ritaði á hann nafn sitt, fjekk hann þvínæst hinni gömlu konu allt saman; kvaddi hún þá og snjeri heim aptur til kallar kalífans. Gekk hún til herbergis þess, er hin unga ambátt var í og sagðist koma frá ágætum lækni persneskum, sem nýkominn væri til Damaskus. Kvaðst hún hafa spurt hann ráða um veikindi hennar og fengið læknismeðal, er sonur hans hefði tilreitt. „Í allri Damaskusborg,“ mælti hún, „er ekki fríðari nje fagurskapaðri unglingur til og engin búð kemst i samjöfnuð við búð læknis þessa.“

Tók Noam þá við öskjunni, sem meðalið var í, en er hún sá nafn og hönd manns síns á lokinu brá hún lit. Þóktist hún undireins sannfærð um, að sá, sem nú byggi í búðinni væri kominn frá Kufah gagngert í þeim tilgangi að komast eptir, hvað orðið væri af henni, og beiddi hina gömlu konu að lýsa hinum unga manni, er hún hafði minnzt á. Lýsti hún honum þá ítarlega og sagði að hann hefði merki á hægri augabrúninni, kvað hann vera prýðilega vaxinn og skrautbúinn. Bergði Noam á læknis meðalinu og hló meðan konan var að lýsa Neama. „Þetta er ágætis meðal,“ mælti hún, „og finn eg að mjer verður gott af því.“

Þvínæst fann hún seðilinn frá Neama, las hann og varð harla kát, er hún fjekk fulla vissu fyrir, að maður hennar, er hún elskaði svo mjög, væri ekki langt frá henni. Þegar hin gamla kona tók eptir þessu mælti hún: „Mikill heilladagur! Það var gott, að eg fór til læknisisins þess arna.“ Beiddist Noam þá nokkurs matar og drykkjar og hljóp konan út til að kalla á ambátt eina og ljet bera hinar ljúffengustu krásir á borð. Kom þá kalífinn að, og er hann sá Noam matast, ljet hann í ljósi, hversu feginn hann væri bata hennnr. „Drottinn rjetttrúaðra manna!“ mælti hin gamla kona, „gleði sú, er lækning ambáttar yðvarrar fær yður, eigið þjer lækni einum að þakka, sem nýkominn er hingað. Hefur enginn betra vit á sjúkdómum enn hann, og eitt læknismeðal frá honum nægir til þess að sjúklingurinn verði alheill.“ Þá mælti kalífinn: „Færið lækni þessum pyngju með þúsund gullpeningum í, fyrir þessa heppilegu lækningu,“ að svo mæltu gekk hann burt. Ljet hin gamla kona sjer um það hugað, að fá lækninum fjeð sem fyrst og

sagði hún honum um leið að það væri ekki dóttir hennar, heldur vildarambátt kalífans, sem hann hefði læknað. Afhenti hún lækninum einnig brjef frá Noam, en hann fjekk Neama það og brá honum mjög við, er hann tók við því. Brjefið var svo látandi:

„Frá ambátt þeirri, sem svipt er sælu sinni og skilin frá unnusta sínum. Vík eg svo til efnisins. Eg hef tekið við brjefi þínu og gladdi það hjarta mitt, það var einsog skáldið segir: „Brjefið kom, og óska eg, að höndin, sem skrifaði það, megi geymast mjer, unz sætleikur drýpur af henni. Það var einsog þegar Móses var aptur gefinn móður sinni, eða þegar klæði Jósephs voru færð Jakobi föður hans.“*)

Þegar Neama las orð þessi, kom upp fyrir honum grátur, og sagði hin gamla kona við læknirinn að sjer þækti það undarlegt. „Því skyldi hann ekki gráta,“ svaraði læknirinn, „þarsem hann er herra hinnar ungu ambáttar og elskar hana ákaft? því satt að segja er hann ekki sonur minn, heldur sonur Rabia í Kufah. Línur þær, er hann skrifaði Noam, gátu læknað hana, því ekkert annað gekk að henni enn harmur útaf því, að hún var skilin fra herra sínum, er hún ann svo mjög. Megið þjer eiga þessa þúsund gullpeninga og skuluð þjer fá meiri verðlaun, ef yður hneigist hugur til að líkna þessu ógæfusömu elskendum. Þjer einar eruð nokkurs umkomnar í máli þessu og byggjum við alla von á yður.“ Kom þetta flatt uppá konuna, en um leið þókti henni vænt um að henni var sýnt svo mikið traust, og spurði hún Neama, hvort það væri satt, að hann væri herra hinnar ungu ambáttar. Kvað hann svo vera og sagði konan honum þá, að Noam gerði ekki annað enn tala um hann alltaf. Sagði Neama henni þvínæst alla sögu sína og komst konan við og hjet að gera sitt til að þau mættu finnast aptur. Fór hún síðan á bak múlasna sínum og reið í skyndi heim aptur til hallarinnar. Gekk hún inn í herbergi Noam, leit framaní hana brosandi og mælti: „Tekur það því, að vera að setja í sig ólund og gera sjer upp veiki vegna hans Neama Rabia

*) I 12 kapítula kóransins segir svo, að Jakob hafi grátið Jóseph svo mjög, að hann varð blindur; sendi Jóseph honum nærföt sín frá Egyptalandi með bræðrum sínum og varð hann aptur sjáandi, er þau voru breidd yfir augu hans.

sonar frá Kufah?“ „Guð almáttugur!“ æpti Noam upp yfir sig, „hefur þá allt komizt upp?“ en konan eyddi ótta hennar og sór henni, að hún skyldi ekki fara illa með leyndarmál það, er henni hefði verið trúað fyrir, heldur skyldi hún leggja líf sitt í hættu til þess að verða henni að liði. Fór hún þá aptur til Neama og mælti: „Ef yður nú eigi skortir áræði nje ráðdeild, þá skal eg koma yður til hennar og hafa sjálfa mig í hættu yðar vegna. Mun eg finna ráð til, að þjer getið komizt í höll kalífans.“

Nokkru síðar fór konan út aptur að finna Neama og hafði böggul undir hendinni, var í honum perlumen og annað skart ásamt fullkomnum kvennbúningi. Beiddi hún hann að koma með sjer í innra herbergið í búðinni, svo þau gætu verið ein saman. Pentaði hún þar andlit hans og fingurgóma, prýddi hann armböndum, vafði silkisnúrum um hár hans og ljet hann fara í silkibrækur og taka yfir sig kvennskikkju; bjó hún hann að öllu einsog unga ambátt, svo að hann varð ásýndum líkur svarteygri paradísarmey. En er hún var búin að því, skoðaði hún hann í krók og kring og mælti: „Guði sje lof! aldrei hef eg fegra sjeð; hann er sannarlega fríðari enn ambáttin hans.“ Segir hún þá við hann: „Eg sæki yður annað kvöld og kem yður inn í höllina. Verið nú óhræddur og talið við engan, eg skal vera fyrir svörum.“

Kvöldið eptir fór hin gamla kona með Neama til hallar kalífans. Gekk hún rakleiðis inní innri hallargarðinn og segir þar við Neama: „Herðið nú upp hugann, gangið djarflega inn og farið til hægri handar; teljið vandlega herbergin, sem þjer gangið framhjá og farið inní hið sjötta; er þar allt til reiðu, að yður verði sem bezt fagnað.“ Drap Neama þá höfði niður og gekk inn, en í stað þess að halda til vinstri handar gekk hann hægra megin og kom hann ekki í sjötta, heldur í sjöunda herbergið. Var það ríkmannlega búið; þar var tjaldað gullofnum silkitjöldum og lagði sætan ilm af viðsmjörsviði og reykelsi, er logaði á í gullnum kerum. En í miðju herberginu stóð hásæti og var gullsaumað klæði breitt yfir; settist Neama í hásætið og hafði engan grun af, hvað fyrir honum lá eptir hulinni ráðsályktun drottins. Sat hann þar og var að hugleiða forlög sín, en í sama bili kom systir kalífans inn með einni af ambáttum sínum. Gekk hún að ambáttinni, sem hún

hugði vera, og varð frá sjer numinn af fegurð hennar, tók hún þannig til máls: „Seg mjer, hver þú ert og hver hefur komið þjer í herbergi mitt?“ En Neama þagði við, reyndi hún þá að hæna hann að sjer og koma honum til að svara sjer, með því að kjassa hann og láta vel að honum. En þá varð hún þess vísari að þar var engin ambátt og reyndi til að rífa skýluna frá andliti Neama, en þá sagði hann: „Drottning mín! eg er þræll; miskunið mjer, kaupið mig og skjótið skjólshúsi yfir mig.“ Undraðist systir kalífans mjög og mælti: „Vertu óhræddur, en seg mjer hver þú ert, og hver hefur komið þjer hingað.“ „Nafn mitt er Neama,“ ansaði hann, „og er eg fæddur í borginni Kufah, hef eg hætt lífi mínu til leita upp Noam, ambátt mína, er Hedschiadsche jarl ljet með svívirðilegri hrekkvísi nema burt frá mjer.“ Huggaði systir kalífans hann og kallaði á ambátt sína og skipaði henni að sækja Noam.

Meðan þetta gerðist hafði hin gamla kona farið til Noam, og er hún ekki fann Neama hjá henni, grunaði hana einsog eðlilegt var, að hann mundi hafa villzt og ekki fundið hið rjetta herbergi. Ljet hún hræðslu sína í ljósi við Noam, og varð hún óttaslegin og mælti: „Hvergi er vald nje máttur nema hjá guði, öll von er úti og glötunin er okkur vís.“ Þarna voru þær dauðhræddar að tala um vandræði sín, en í sama bili kom ambáttin frá systur kalífans og sagði Noam að hún vildi tala við hana. En er Noam kom til hennar sagði hún: „Þarna er herra þinn; hann hefur villzt á herbergjum og gengið inní mitt herbergi í staðinn fyrir þitt. Þið skuluð samt bæði vera ókvíðin, því með guðs hjálp vona eg mjer takist að frelsa ykkur bæði.“ Af þessu vingjarnlega ávarpi rjenaði kvíði Noam og þakkaði hún systur kalífans fyrir fulltingi það, er hún hjet þeim. En er Neama sá hana, spratt hann upp og hljóp til hennar, föðmuðust þau þá og varð svo mikið um af geðshræringu, að þau hnigu í ómegin. En er þau voru röknuð við, ljet systir kalífans þau setjast hjá sjer og skipaði ambátt sinni að bera mat og drykk á borð. Í sama vetfangi kom kalífinn inn til þeirra. Fleygðu elskendurnir sjer undir eins fram fyrir fætur honum og kysstu á gólfið, en drottinn rjetttrúaðra manna leit blíðlega til Noam og mælti: „Lof sje guði, sem ljett hefur af þjer sorg og sjúkleika!“

Að því mæltu leit hann til Neama, sem var ennþá í dularbúningnum og spurði systur sína, hver ambátt sú væri, er sæti við hlið Noam. „Drottinn rjetttrúaðra manna!“ svaraði hún, „hún er ein af ambáttum þínum og er hún svo skemmtileg lagskona, að Noam sinnir hvorki mat nje drykk, nema hún sje hjá henni.“ „Hún er líka allt eins fríð og Noam,“ mælti kalífinn, „og skal hún á morgun fá herbergi við hliðina á herbergi hennar.“ Ljet nú systir kalífans sækja hressingu handa honum, því hann var seztur niður hjá þeim og hafði tekið á sig náðir. Leið svo tíminn í góðri skemmtun og glaðværð þangaðtil komið var miðnætti, tók þá systir kalífans þannig til orða: „Ef þjer þóknast, ætla eg að segja sögu eina, sem eg hef lesið einhverntíma.“ Sagði kalífinn, að sjer væri ánægja að heyra hana og tók þá systir hans til máls:

„Herra! einusinni var í borginni Kufah maður, er Neama hjet, Rabia son. Hann átti ambátt, og höfðu þau verið uppalin saman frá blautu barnsbeini, unni hann henni af alhuga og hún honum. þegar þau voru bæði stálpuð, gekk Neama að eiga hana; en óðara enn þau voru gipt, ljetu forlögin mótlætið bera þeim að höndum og skildu þau sundur. Vondir menn ginntu hana frá heimili sínu og stálu henni frá honum. þvínæst var hún seld voldugum konungi fyrir tíu þúsund gullpeninga; leitaði hann allra ráða til að öðlast ástir hennar og hylli, en honum varð þess eigi auðið.

Nú örvílnaðist herra ambáttarinnar útaf missi hennar og gekk frá heimili sínu, eigum og ættingjum, til þess að komast eptir, hvað af henni væri orðið, og binda aptur við hana ást og samlag. Hafði hann sig í mesta háska og hætti lífi sínu, svo að hann gæti átt fund við hann. En rjett sem þau sátu saman, kom konungurinn að, sem keypt hafði ambáttina af ránsmanni hennar, og skipaði hann í bráðræði að drepa þau bæði, var hann svo óbilgjarn, að hann vildi ei leyfa hinn minnsta frest á lífláti þeirra.

„Drottinn rjetttrúaðra manna! hver er nú þinn dómur um ójöfnuð og bráðræði konungs þessa,“ mælti systir kalífans að endingu og svaraði hann þá: „Konungur þessi hefði átt að fyrirgefa, þó hann hefði vald til að refsa, því það var þrennt, sem honum bar að athuga, fyrst það, að hin ungu hjón voru samtengd sökum elsku þeirrar, er þau höfðu hvert á öðru, annað það að

þau voru í höll hans og á hans valdi, og það í þriðja lagi, að konungur skal aldrei dæma aðra ófyrirsynju, allra sízt þegar hann á sjálfur hlut að máli. Konungur þessi fór því ókonunglega að ráði sínu.“

Þá mælti systir kalífans: „Bróðir minn! gerðu það fyrir mig, biddu hana Noam að syngja og taktu eptir því, sem hún fer með.“ Það gerði kalífinn og söng þá Noam vísur þessar viðkvæmt og hjartnæmilega:

Brigð voru örlög,
Svo var alla daga —
Hjörtum undir ýfðu;
Skildu elskendur,
Angurskúrir
Þeim af hlýrum hrundu.

Sátum og undum,
Það var sæla meiri,
Saman lán oss leiddi;
Þig grætur brúður
Blóðgum tárum,
Syrgir þig dægur og daga.

Hafði kalífinn hið mesta yndi af að hlýða á söng hennar. Þá tók systir hans aptur til máls og sagði: „Hver, sem kveður upp dóm yfir sjálfum sjer, verður að fullnægja honum og standa við orð sín.“ Beiddi hún þá Noam og Neama að standa upp og mælti: „Drottinn rjetttrúaðra manna! hjer standa nú frammi fyrir þjer hin sorgmæddu hjón, sem þú kenndir svo mjög í brjóst um. Noam er hin unga ambátt, sem Hedschiadsche nam burt til að senda þjer. En þarsem hann segir í brjefi sínu, að hann hafi keypt hana fyrir tíu þúsund gullpeninga, þá hefur hann dregið þig á tálar. Neama, sem hjer er í ambáttar búningi, er hennar rjetti herra og eiginmaður. Nú særi eg þig fyrir hina ágætu forfeður þína, að þú sjáir aumur á æsku þeirra og fyrirgefir þeim það, sem þeim hefur á orðið. Munt þú í djúpi hjarta þíns finna umbun

fyrir miskunsemi þá, er þú auðsýnir þeim. Gæt þess, að þau eru bæði á þínu valdi, að þau hafa notið þeirrar sæmdar, að eta við borð þitt og að systir þín sárbænir þig, að gefa þeim líf.“

Þá viknaði kalífinn og mælti: „Þú hefur rjett að mæla, systir! eg hef kveðið upp dóm í máli þessu og þú veizt að eg tek aldrei dóma mína aptur.“ Þvínæst vjek hann sjer að Noam og sagði: „Er þessi maður þá herra þinn?“ Svaraði hún með auðmýkt að svo væri og sagði kalífinn þá með blíðu: „Verið óhrædd, eg fyrirgef ykkur báðum af hjarta. En hvernig hefur þú komizt að því, Neama! að ambátt þín væri hjer og hvernig hefur þú farið að komast hingað í höllina?“ „Herra!“ ansaði Neama, „auðsýnið mjer þá náð, að hlýða á sögu mína, eg sver það við yðar ágætu forfeður, að eg skal yður einskis leyna.“ Sagði hann kalífanum þvínæst allt, sem á daga hans hafði drifið, hversu mikið gott hann átti persneska lækninum að þakka, og sömuleiðis hinni gömlu konu; sagði hann og frá því, er hún fór með hann inní höllina, og hann fór villur vegar. Furðaði kalífinn sig mjög á öllu þessu og gerði boð eptir læknirnum persneska, ljet hann fá honum tignarklæði og veitti honum hátt embætti við hirð sína. Gerði hann og stórvel til Noam og Neama og hinnar gömlu konu; voru nú haldnar hátíðir í höllinni í sjö daga samfleytt. En að þeim tíma liðnum leyfði kalífinn Noam og Neama að halda heim aptur til Kufah; hittu elskendurnir þar aptur ættingja sína og lifðu sælu lífi, þangaðtil spillir gleðinnar og frumkvöðull vinaskilnaðarins vitjaði þeirra.

## Niðurlag sögu Amgiaðs og Assaðs.

Þeir Amgiad og Assad hlýddu undrunarfullir á sögu Behrams og voru fast ráðnir í því, að fallast á uppástungu hans, að búa skip og fara til Kamaralsamans konungs, föður síns. Fóru kóngssynir þá til konungsins og ætluðu að kveðja hann. En rjett sem þeir voru að þakka honum fyrir allt gott, heyrðist allt í einu gnýr mikill í borginni og kom inn sveitarhöfðingi og sagði að óvígur her færi að borginni og vissi enginn deili á honum. Brá konungi mjög við þessi voðalegu tíðindi og tók þá Amgiad þannig

til máls: „Herra! þó eg nú samstundis hafi afsalað mjer stórvezírs embættinu, sem þjer sæmduð mig með, þá er eg samt enn fús að þjóna yður. Leyfið mjer því að fara og komast fyrir, hver óvinaher þessi er.“ þurfti hann ekki langt að fara til að sjá herinn, sýndist honum hann vera mikill og alltaf færast nær. Útverðirnir fögnuðu honum vel, og fylgdu honum til drottningar sinnar, hafði svo verið fyrir þá lagt; stöðvaði hún þá allan herinn, til þess að þau gætu átt tal saman. Heilsaði Amgiad henni og hneigði sig djúpt, spurði hann, hvort hún kæmi með frið eða ófrið, og hvað konungurinn, herra sinn hefði misgert við hana, ef svo væri að hún færi með ófrið. „Hjerkoma mín er friðvænleg,“ ansaði drottning, „og hefur Magía konungur ekkert misgert við mig. Liggja lönd okkar beggja svo, að valla geta deilur risið á milli okkar. Eg kem aðeins til að sækja þræl einn, er Assad heitir, rænti honum frá mjer Behram skipstjórnarmaður, hjeðan af landi, og er hann allra manna ósvífnastur. Vona eg að konungur unni mjer rjettinda, þegar hann heyrir, að eg er Margiane drottning.“

„Tignaða drottning!“ mælti Amgiad, „eg er bróðir þrælsins, sem þjer leitið að með slíku kappi. Eg hafði týnt honum og hef eg fundið hann aptur. Komið nú, eg skal sjálfur afhenda yður hann og mun eg þá leyfa mjer að segja yður greinilegar frá öllu.“ Fylgdi Amgiad henni þá til borgarinnar, og í höllina, leiddi hann hana þar á fund konungs. En er konungur hafði fagnað henni eptir verðleikum, heilsaði Assad kóngssonur henni, því hann var nærstaddur og kannaðist við hana. Sagði hún, að sjer væri mikill fögnuður, að sjá hann, en í því var konungi sagt að nú sæjist til annars hers í annari átt, væri hann enn meiri og ógurlegri og stefndi að borginni. Varð konungur þá enn óttaslegnari enn í fyrra skiptið, því af þessum her þyrlaðist upp svo mikill rykmökkur, að hvergi sá í himininn og gat hann af því ráðið, hversu miklu hann var mannfleiri.

Stje nú Amgiad á bak hesti sínum og reið í loptinu við lausa tauma til móts við hinn ókunna her. Ljet hann hermenn þá, er hann hitti fyrst, fylgja sjer til hershöfðingjans, sá hann undireins að hann var konungur því hann hafði kórónu á höfði. Fór hann

af baki jafnskjótt sem hann sá hann og gekk til hans, fleygði sjer til jarðar frammi fyrir honum og spurði, hvers hann krefðist af herra sínum. „Eg er Ghaiur Kínlands konungur,“ svaraði hann, „og fór eg heiman úr ríki mínu til að spyrjast fyrir um Badur dóttur mína, sem eg fyrir nokkrum árum gipti Kamaralsaman syni Schachsamans konungs á eynni Khaledan. Leyfði eg kóngssyni að fara í orlof til föður síns með því skilyrði, að hann kæmi til mín annaðhvert ár með dóttur minni, en uppfrá því hef eg hvorki sjeð hann nje frjett af honum. Mundi konungur yðar gleðja mótlættan föður, ef hann segði mjer það, sem honum kann að vera kunnugt um hann.“

Skildi Amgiad þá, að þetta var afi hans, kyssti hann því blíðlega á hönd hans og mælti: „Herra! yðar hátign mun fyrirgefa mjer þessa dirfsku mína, því vita skuluð þjer, að eg þannig sýni yður lotningu, sem yður ber einsog afa mínum. Eg er sonur Kamaralsamans, sem nú er konungur á Svartviðarey, og Badur drottningar, efa eg eigi, að þeim muni báðum vegna vel í ríki sínu.“ Þá varð konungur Kínlands frá sjer numinn af fögnuði og faðmaði dótturson sinn með blíðu, grjetu þeir báðir gleðitárum við þenna óvænta feginsfund. Spurði konungur, hvernig hann væri kominn á þetta ókunnuga land, og sagði Amgiad honum þá sögu sína og Assaðs. En er hann hafði lokið sögunni, mælti Ghaiur konungur: „Það er rangsleitni, að tveir saklausir kóngssynir, slíkir sem þið eruð, skuli lengur eiga í andstreymi. Huggist nú, eg skal fylgja ykkur báðum heim og koma sættum á. Far nú til bróður þíns og seg honum komu mína.“

Meðan Ghaiur nú setti tjöld sín þarsem þeir höfðu fundizt, fór Amgiad til Magía konungs, er þreyði óðfús að fá tíðindasögu af honum. Varð hann hissa er hann heyrði, að svo voldugur konungur, sem Kínlands konungur var, hafði tekizt svo langa og erfiða ferð á hendur til að leita upp dóttur sína, og væri nú kominn svo nálægt höfuðborg sinni. Skipaði hann þá að fagna honum eptir virðingu hans, og bjóst til að ganga til móts við hann. En þá sáust aptur allt í einu og í annari átt enn fyrri, geysimiklir jóreykir, og frjettist þá að þriðji herinn væri á leiðinni. Sá Magía konungur þá ekki annað sýnna enn að sitja kyrr í borginni, og

beiddi hann Amgiad að komast nú enn fyrir, hvað herlið þetta ætlaði sjer.

Reið Amgiad nú á stað og hafði hann í þetta skipti Assad bróður sinn með sjer, urðu þeir þess vísari, að þetta var her Kamaralsamans, föður þeirra; hafði hann farið á stað að leita þeirra. Hafði hann orðið svo yfirkominn af harmi, er hann hugði sonu sína dauða, að Giandar emír gekk loksins við því, að hann hefði skilið við þá lifandi. Hafði hann þá lagt á stað til að leita þá upp; vafði nú faðirinn þá örmum sínum eptir miklar áhyggjur, og feldi feginstár af augum, eptir að hann í langan tíma hafði grátið saknaðartárum. Sögðu synir hans, að tengdafaðir hans, Kínlands konungur hefði og komið þenna dag, brá Kamaralsaman þá við og fór með sonum sínum og fámennri fylgd til herbúða hans. En áðurenn þeir væru langt komnir, sást fjórði herinn og gekk fram í glæstum röðum, virtist hann koma frá Persalandi. Beiddi Kamaralsaman sonu sína að ríða á stað og verða þess vísari, hver her þessi væri, kvaðst hann skyldu bíða þeirra. Riðu þeir á stað og var þeim fylgt á fund konungsins, er stýrði hernum, kvöddu þeir hann með lotningu og spurðu, hvað honum gengi til að fara svo nærri höfuðborg Magia konungs. Var stórvezírinn viðstaddur og svaraði: „Konungur sá, er þjer eigið tal við, er Schachsaman frá eynni Khaledan, hefur hann lengi farið um lönd með föruneyti sínu, til að leita upp Kamaralsaman son sinn, er fór úr ríki hans fyrir mörgum árum síðan. Ef þjer skylduð eitthvað vita til hans, munduð þjer gleðja hann mikillega, ef þjer gerðuð honum það uppskátt.“ Sögðu kóngssynirnir að þeir skyldu undireins koma aptur og svara því, er um var spurt, þeystu þeir síðan aptur til Kamaralsamans og sögðu honum, að það væri lið Schachsamans konungs, föður hans, er síðast kom og væri hann með hernum. Brá Kamaralsaman mjög við þessi tíðindi bæði af gleði og líka harmi útaf því, að hann hafði skilið svo við föður sinn, að hann ekki kvaddi hann, og fjekk það honum svo mikils, að hann hnje í ómegin. Stumruðu þeir synir hans yfir honum og komu honum loksins til sjálfs síns, en er hann kenndi sig fullstyrkan flýtti hann sjer til Schachsamans föður síns og fleygði sjer fram fyrir fætur honum. Hafði það aldrei við borið í langan tíma

að faðir og sonur fínndust aptur með slíku ástríki og viðkvæmni. Átaldi Schachsaman Kamaralsaman konung hóglega fyrir, að hann skyldi hafa haft skap til að yfirgefa sig, en hann sagðist af hjarta iðrast eptir glappaskot þetta, er hann hefði ginnzt til af ástinni.

Í þrjá daga dvöldu hinir þrír konungar og Margiane drottning við hirð Magía konungs og var þeim stórmannlega veitt. Á þeim tíma fór fram brúðkaup Assaðs kóngssonar og Margíane drottningar, og giptust þau Amgiad og Bostane um leið, því hann gekk að eiga hana í þakklætis skyni fyrir hið góða, er hún hafði gert honum að síðustu. En loksins fóru hinir þrír konungar og Margiane drottning heim aptur í ríki sín, en Amgiad, sem var kominn í mikla kærleika hjá Magía konungi, varð kyrr hjá honum; tók hann við ríkisstjórn af honum og neytti allrar orku til að eyða eldsdýrkun og útbreiða trúarbrögð Mahómets í löndum sínum.

# Frá 273. til 289. nætur.

## Sagan af Núreddín og Persameynni fögru.

Bærinn Balsora var í langan tíma höfuðborg konungsríkis nokkurs, sem var skattgilt kalífunum; stjórnaði þar á ríkisárum kalífans Harúns Alraschyds Mohammed konungur, sonur Soliman-Es-Seyni. Hann var vinur aumra og þurfandi manna, og ör af fje sínu til allra þeirra, er á Mahómet trúðu. Hann var líkur konungum þeim, er skáldin hafa lýst: „Hann hafði lagvopn sín fyrir penna, hjörtu fjandmannanna fyrir pappír og blóð þeirra fyrir blek, — og fyrir þá sök hygg eg að forfeður vorir hafi kallað lagvopn: Khattijeh.“ Þeir kalífinn og Mohammed konungur voru bræðrungar. Hafði Mohammed eigi þókt ráðlegt að trúa einum vezír fyrir stjórn landa sinni, hafði hann því kosið sjer tvo vezíra. og hjetu þeir Khakan og Sawy.

Khakan var ljúfmenni, greiðvikinn, ör af fje og rjettlátur, hafði hann yndi af að gera hverjum manni að skapi, sem hann átti nokkur viðskipti við, að því leyti sem honum var unnt, en

varaðist þó um leið að halla rjettvísinni, er hann var settur til að gæta. Enda var enginn sá, hvorki í hirð konungs, borginni Balsora nje í öllu ríkinu, sem ekki lofaði hann og hjeldi orðstír hans á lopt. Öðru máli var að gegna um skapferli Sawys, hann var jafnan önugur og hratt öllum frá sjer, hvort sem þeir voru tignir eða ótignir. Fór því fjærri, að hann verði fje sínu sæmilega, heldur var hann mesti svíðingur og synjaði sjálfum sjer hinna nauðsynlegusta hluta. Hann var hverjum manni hvimleiður og aldrei heyrðist hans getið nema að illu einu. Gjörðist hann enn óvinsælli fyrir fæð þá, er hann lagði á Khakan, því hann færði allar gjörðir þessa veglynda ráðgjafa á verra veg og reyndi þannig án afláts að gera hann tortryggilegan í augum konungs.

það var einhvern dag eptir ráðstefnu, að konungurinn í Balsora var að tala við báða vezírana og marga aðra ráðherra. Ræddu þeir um konur þær, sem keyptar eru einsog ambáttir, og njóta þvínær sömu virðingar á meðal vor sem lögmætar konur. Hjeldu sumir þeirri skoðun fram, að það nægði, ef slíkar ambáttir væru fríðar og vel vaxnar, svo þær gætu verið þeim til huggunar, er annaðhvort fyrir frændsemi sakir eða annara hluta vegna, neyðast til að eiga konur, sem ekki eru alltjend sjerlega fríðar eða öðrum líkamlegum kostum búnar.

Aptur voru aðrir, og í þeirra tölu var Khakan, er mótmæltu þessari skoðun og sögðu, að það væri ekki fegurðin ein og líkamlegir kostir, er heimta skyldi af þesskonar ambátt, heldur ætti hún og að vera andrík, hyggin, kurteis og látprúð, og kunna margskonar fræði og fagrar listir, svo sem unnt væri. Færðu þeir það til síns máls, að ekkert væri þeim mönnum inndælla, sem hafa áríðandi störf á hendi, enn að koma heim til skemmtilegrar lagskonu eptir dagsverk sín, og hafa bæði gagn og gaman af viðtali hennar í góðu tómi. því menn gerðu sig jafna dýrum, ef ambáttin ekki væri höfð til annars enn augnagamans og til að svala fýsn þeirri, sem sameginleg er mönnum og dýrum. þessu varð og konungurinn samdóma og skipaði hann Khakan vezír sínum að kaupa handa sjer ambátt afbragðs fríða og gædda öllum hinum áðurnefndu kostum, en það var einkum tekið fram, að

hún skyldi vera vel menntuð. Öfundaði Sawy vezírinn af sæmd þeirri, er honum var sýnd með þessu, og með því hann var á gagnstæðu máli segir hann: „Yðar hátign! slíka ambátt mun erfitt að finna, en þó það tækist, sem mjer er til efs, þá mætti það heita sanngjarnt, þó tíu þúsund gullpeningar væru goldnir fyrir hana.“ „Yður vex verð þetta í augum, Sawy!“ mælti konungur, „enda kann það að vera mikið fyrir yður, en það er ekki mikið fyrir mig.“ Skipaði hann þá undireins yfirgjaldkyra sínum, að fá vezírnum Khakan tíu þúsund gullpeninga til að greiða kostnað þenna. Undireins og Khakan var kominn heim til sín, gerði hann boð eptir öllum þeim verzlunar miðlum, er fengust við að selja ambáttir og beiddi þá að láta sig vita, ef þeir hittu ambátt, er væri lík því, sem hann lýsti fyrir þeim. Lögðu þeir ljettan á að útvega slíka ambátt, bæði vezírsins vegna og svo í ábata skyni, og var þvínær á hverjum degi einhver leidd á hans fund; en hann sá alltjend einhvern galla á þeim. það var einhvern morgun, er Khakan ætlaði til konungshallarinnar, að mansalsmiðill einn kom með miklum asa og sagði honum að seint um kvöldið áður hefði persneskur kaupmaður komið og haft ambátt til sölu, væri hún svo fögur, að hún bæri langt af þeim, er hann áður hafði sjeð. En hvað gáfur hennar og kunnáttu snerti, þá kvað hann seljandann ábyrgjast, að hún stæði jafnfætis öllum snillingum og fræðimönnum í heimi. Brá Khakan vel við þessi tíðindi, því honum þókti líklegt, að sjer mundi nú bjóðast tækifæri til að gera konungi að skapi, og bað hann því, að ambáttin mætti verða leidd til sín, þegar hann kæmi aptur frá höllinni; fór hann þvínæst leiðar sinnar. Sveikst mansals miðillinn ekki um að koma til vezírsins á tilteknum tíma með ambáttina; leizt vezírnum hún svo fögur og þókti hún vera svo langt umfram von sína, að hann kallaði hana undireins „Persameyna fögru.“ Sköpulag hennar var gullfallegt, hún hafði svört augnahár, brjóst hennar voru mikil og sælleg, mittið mjótt en mjaðmirnar ávalar. Limar pílviðanna í Austurheimi máttu fyrirverða sig fyrir vaxtarlagi hennar; og rödd hennar var þýðari enn vestanblærinn þegar hann líður yfir blómgaðan rósareit. Hefur skáld eitt lýst henni með svofeldum orðum:

Mjúkt er hennar hörund ljósa,
Hjalar sætum rómi man,
Sín kann orðin svanni kjósa,
Svo að hvorki er of nje van;

Sjónir fagrar — sjóli heima
Sagði: „Verðið!“ óðar þá
Hvarmasólir hrifu beima
Hug sem mungát svífur á.

Elska mín til hennar hitni
Með hverri nótt í sælu er dvín,
Ástarband það aldrei slitni
Efsti dagur þartil skín.

Dökku skyggist hún af hári,
Húm sem nætur grúfi svart,
Sem bjarmi mær af morgunsári
Meyjar ennið ljómar bjart.

Nú með því vezírinn var andríkur maður og vel að sjer, fann hann skjótt á tali hennar, að sjer mundi til einskis að leita eptir annari ambátt, sem væri þessari fremri í því, er konungur hafði á kosið. Spurði hann þá, hversu dýra persneski kaupmaðurinn vildi selja hana, svaraði mansalsmiðillinn því, að kaupmaðurinn slæi aldrei af, en hann setti upp tíu þúsund gullpeninga fyrir hana. „Kaupmaðurinn,“ mælti hann ennfremur, „hefur svarið mjer, að með því fje væru hvorki borgaðir kjúklingarnir, sem hún hefur etið, nje heldur það, sem kostað hefur verið til að mennta hana, því hún hefur lært að skrifa, málfræði, þýðingar kóransins og undirstöðu lögvísinnar, trúarfræði, læknisfræði, og rímtal, hefur hún og numið hljóðfæralist og iðkað hana. Engar bækur eru til, sem hún ekki hefur lesið, og engin ambátt hefur kunnað meira enn þessi, svo að menn viti til.“ Kunni Khakan miklu betur að virða hina fögru ambátt frá Persalandi enn mansals miðillinn, sem ekki gerði annað enn að tyggja það upp aptur, sem kaupmaður hafði beðið

hann að segja. Vildi Khakan nú gera útum kaupin og sendi því undireins eptir kaupmanninum. Hann var næsta hrörlegur og hafði hann lifað svo lengi, að ekki var eptir nema bein og sinar. Sagði vezírinn honum að hann keypti ekki ambáttina handa sjálfum sjer, heldur fyrir Mohammed konung, og spurði hvort hann vildi selja sjer hana fyrir tíu þúsund gullpeninga. „Fyrst hún er ætluð konungi," ansaði kaupmaður, „væri það sæmilegast, að eg byði honum hana að gjöf, ef maður í minni stöðu væri þess umkominn að gefa slíka gjöf." Ljet vezírinn þá sækja fjeð og telja kaupmanni það af hendi. Þvínæst mælti kaupmaður: „Með leyfi herra míns, vezírsins, vildi eg segja nokkuð." „Seg þú það, sem þjer býr í huga," ansaði Khakan. „Herra!" mælti kaupmaðurinn, „að minni hyggju væri það gott, ef þjer ekki færuð með ambáttina til konungs nú þegar í dag. Hún er nýkomin úr langferð og er því eptir sig, svo þó hún sje fyrirtaks fríð, mundi hún þó verða miklu ásjálegri, ef þjer ljetuð hana hvíla sig í tíu daga í húsi yðar og veittuð henni góðan aðbúnað. Getur hún síðan tekið laugar og má þá leiða hana fyrir soldán í skartmiklum búningi; munuð þjer fá af þessu mikla sæmd og vona eg að þjer kunnið mjer nokkra þökk fyrir." Vezírnum leizt ráð kaupmannsins hyggilegt og ljet fá hinni fögru Persamey herbergi sjer, næst því, er kona hans var í; beiddi hann konu sína að láta hana eta við borð sitt og fara með hana einsog konu, sem konungur ætti. Hann beiddi hana og að láta gera handa henni marga búninga, skyldu þeir vera hinir skartmestu og fara sem bezt. Sagði hann að skilnaði við Persameyna fögru: „Þjer getið ekki orðið fyrir meira láni enn eg hef fyrirhugað yður. Megið þjer sjálfar dæma um, hvort ekki er svo; eg hef keypt yður handa konunginum og vona eg að hann verði miklu fegnari að fá yður, enn eg að hafa afrekað erindi það, er hann fól mjer á hendur. En um leið verð eg að gera yður vara við, að eg á son, sem ekki skortir vitsmuni, en hann er ungur, glannalegur og nærgöngull. Varið yður því á honum, ef hann skyldi fara nokkurs á leit við yður."

Persamærin fagra þakkaði honum fyrir viðvörun þessa og sagði, að hann mætti treysta því, að hún skyldi fara að ráðum hans. Sonur vezírsins hjet Núreddín og mátti hann koma í herbergi

móður sinnar svo opt sem honum líkaði, borðaði hann optastnær með henni. Hann var ungur, og allra manna fríðastur sýnum, látbragð hans var fagurt og djarflegt, og með því hann var gáfumikill og prýðilega vel máli farinn, gat hann talað hvern mann upp til hvers, sem vera skyldi. Þó hann nú vissi að Persamærin fagra var keypt handa konungi og faðir hans hefði sagt honum það, fór því fjærri, að hann snjeri ástarhuga sínum frá henni, úr því hann einusinni hafði sjeð hana. Varð það miklu fremur til þess, að hann ljet töfrast af yndisleika hennar; einsetti hann sjer, er hann hafði átt tal við hana, að vinna allt til, að hafa hana undan konunginum. Enda varð Núreddín Persameynni fögru vel að skapi og hugsaði hún með sjer: Vezírinn gerði mjer mikla sæmd, þarsem hann keypti mig handa konunginum í Balsora, en ofursæl þæktist eg vera, ef hann vildi gefa mig syni sínum. Sá Núreddín sig aldrei úr færi, þegar hann gat sjeð eða talað við meyna fögru, er hann hafði svo mikla ást á. Gekk hann aldrei frá henni fyr enn móðir hans neyddi hann til að fara. „Sonur minn!“ mælti hún. „það er ósæmandi, að slíkur unglingur sem þú ert, skuli alltaf sitja í kvennastofu. Gakktu því til herbergis þíns og gerðu þig maklegan þeirrar sæmdar, að setjast í sæti föður þíns síðarmeir.“ Persamærin fagra hafði ekki laugað sig allan þann tíma, sem hún var á leiðinni, og ljet því kona vezírsins fimm dögum eptir að hún var komin, heita handa henni bað, er þar var í húsinu. Ljet hún hana þvínæst fara til baðhússins ásamt nokkrum ambáttum sínum, skipaði hún þeim að þjóna henni einsog drottningu sinni og færa hana í skrautlegan klæðnað, er hún hafði látið gera handa henni. Hafði hún látið vanda hann mjög, því hún vildi þóknast manni sínum og sýna honum, hversu annt henni væri um allt það, er honum fjell vel í geð. En er Persamærin kom úr baðinu var hún þúsund sinnum fegri enn þegar Khakan sá hana fyrst, gekk hún til konu hans, kyssti kurteislega á hönd hennar og mælti: „Eg veit ekki, hvernig eg kem yður fyrir sjónir í klæðnaði þessum, sem þjer hafið gera látið handa mjer af góðsemd yðvarri. Ambáttir yðar hafa fullyrt, að hann færi mjer vel og sagt að þær þekktu mig ekki aptur, en það er auðvitað, að það er smjaður, og því vil

eg gefa mig undir yðar dóm. En þó þær kynnu að hafa sagt satt, þá á eg það yður að þakka, að eg hefi búizt um.“ Varð kona Khakans glöð við og mælti: „Dóttir mín! þú skalt ekki ætla að ambáttir mínar hafi slegið þjer gullhamra. Eg hef betra skynbragð á því enn þær, og þó eg ekki fái mjer til orða, hvað aðdáanlega búningur þessi fer þjer, þá verð eg að segja, að þú ert nú sjálf svo miklu fegri, er þú kemur úr baðinu, heldurenn áður, að eg þekki þig valla aptur. En ef eg annars vissi að baðið væri gott ennþá, skyldi eg sjálf baðast; eg er nú kominn á þann aldur að þörf gerist á því optar enn fyrrum.“ Svaraði þá Persamærin fagra: „Drottning mín! þessu óverðskuldaða lofi fæ eg engu svarað, en af baðinu er það að segja, að það er ágætt, og megið þjer ekki hafa af yður tímann, ef þjer ætlið að nota það. Ambáttir yðar munu segja sama og eg.“ Hafði kona vezírsins ekki tekið laugar í marga daga og vildi því nota tækifærið, skipaði hún ambáttum sínum að ganga til baðhússins með allt það, er til baðsins þurfti. Persamærin fagra gekk aptur til herbergis síns, en áðurenn kona Khakans gengi til baðhússins skipaði hún tveimur litlum ambáttum að vera hjá henni og hleypa Núreddín ekki inn til hennar, ef hann skyldi koma. Enda varð sú raunin á, að hann kom meðan móðir hans var í baði, og er hann fann hana ekki í herbergi sínu gekk hann til herbergis Persameyjarinnar. Sögðu báðar litlu ambáttirnar honum, hvar þær væru, móðir hans og Persamærin, og að móðir hans hefði sagt, að hann mætti ekki koma til hennar. En nú var ekki nema dyratjald eitt milli hans og þeirrar, sem honum var hugur á. ætlaði hann því að ganga inn, en ambáttirnar vörðu honum dyrnar. Tók hann þær þá báðar og fór með þær útúr fremra herberginu og skellti dyrunum að innanverðu í lás á eptir þeim. Hlupu þær æpandi til húsfreyjunnar í baðhúsið og báru sig grátandi upp undan Núreddín, sögðu þær að hann hefði ruðzt með ofríki inn til Persameyjarinnar fögru. þókti henni sonur sinn hafa gert sjer mikla skapraun með þessari ofdirfsku sinni, hætti við baðið og klæddist í snatri. En áður enn hún væri alklædd og komin í herbergi Persameyjarinnar var Núreddín farinn frá henni og flúinn á burt.

Persamærin fagra undraðist mjög er hún sá konu vezírsins

koma inn grátandi og utan við sig, segir hún þá við hana: „Drottning mín! má eg spyrja, því eruð þjer svo hryggar? hvaða óhapp vildi yður til í baðinu, að þjer skylduð koma svo fljótt aptur!“ „Hverju sætir það,“ mælti kona vezírsins, „að þú spyr sneypulaust að þessu, eptir að Núreddín sonur minn hefur brotizt inní herbergi þitt og verið hjá þjer einni? Gat meiri ógæfa hent okkur, hann og mig?“ „Fyrirgefið, drottning mín!“ mælti Persamærin fagra, „hvernig getur það, sem Núreddín aðhafðist, verið yður eða honum til ógæfu?“ „Hefur maðurinn minn ekki sagt þjer,“ mælti kona Khakans, „að hann keypti þig handa konunginum? sagði hann þjer ekki að þú skyldir varast að láta Núreddín koma of nærri þjer?“ „það er mjer ekki úr minni liðið,“ ansaði Persamærin fagra, „en Núreddín hefur sagt mjer að vezírinn, faðir hans hafi brugðið á aðra ætlun, og ætli ekki að gefa mig konunginum, heldur honum. Eg trúði því og með því eg einsog önnur ambátt hef verið vanin á auðsveipni frá barnsaldri. þá mun yður skiljast, að eg hvorki gat nje vildi varna honum þess, er hann vildi. Já, eg kannast við, að mjer var því ónauðugra að láta eptir honum, sem eg hafði fellt mikla ást til hans, hlauzt það af því að við höfum dagsdaglega verið saman, án þess nokkur bannaði. Mjer sárnar alls ekki að verða afhuga konunginum, ef eg má búa saman við Núreddín alla æfi.“ „Guð gæfi þú segðir satt,“ mælti kona vezírsins, „og skyldi það vera mjer mikil gleði, en vertu viss um það, að Núreddín hefur dregið þig á tálar og það tekur engu tali, að faðir hans hafi gefið honum slíka gjöf. Ó! hversu ófarsæll er hann! hversu ófarsæl er eg! og þó er faðir hans verst farinn vegna hinna þungu eptirkasta, sem af þessu geta hlotist. Hann mun ekki vikna svo við tár mín og bænir, að hann fyrirgefi honum. Hann mun láta reiði sína bitna á honum sem maklegt er, undireins og hann kemst að því, hvert ofríki hann hefur sýnt þjer.“ Að svo mæltu tók hún að gráta beisklega, og grjetu ambáttirnar með henni, því þær voru hræddar um Núreddín, ekki síður enn hún. Rjett á eptir kom vezírinn Khakan að þeim og varð hann hissa, er hann sá konu sína og ambáttir hennar fljóta í tárum, og Persameyna fögru hengja höfuðið með dapurlegu yfirbragði. En er hann spurði, hverju það gegndi hljóðuðu, þær

kona hans og ambáttirnar upp yfir sig og grjetu enn ákafar enn áður, en svöruðu honum engu, furðaði hann sig þá því meira. Vjek hann sjer að konu sinni og mælti: „Eg vil fyrir hvern mun vita, því þið grátið, og það með sannindum.“ Gat þá kona hans ekki lengur færzt undan og tók þannig til máls: „Herra! lát mig eigi gjalda þess, sem eg nú geri þjer uppskátt, eg sver þjer að eg er með öllu saklaus. Meðan eg var í baði með ambáttum mínum, kom sonur þinn og hagnýtti sjer óheillastund þessa til að telja Persameynni fögru trú um, að þú ætlaðir honum hana, en ekki konunginum. Það, sem hann tók sjer fyrir hendur eptir að hann hafði logið þessu að henni, muntu lofa mjer að láta ósagt, enda er það auðráðið. Þetta veldur því, að eg er svo hrygg bæði þín og sonar míns vegna, eg þori naumast að biðja þig fyrirgefa honum.“

Því verður ekki með orðum lýst, hversu Khakan varð uppvægur af heipt og harmi útaf ósvífni sonar síns. Hann barði sjer á brjóst, sleit skegg sitt og æpti upp yfir sig: „Óláns seggurinn! ættarskömmin þín! svona hrindir þú föður þínum af hæzta tindi hamingjunnar niður í djúp glötunarinnar, svona steypir þú bæði honum og sjálfum þjer í ógæfu.“ Leitaðist kona hans við að sefa skapsmuni hans og beiddi hann að hafa hóf á harmi sínum. „Eg skal gefa þjer tíu þúsund gullpeninga af eigum mínum,“ mælti hún, „og getur þú fyrir þá keypt þjer aðra ambátt, sem fríðari er og samboðnari konunginum.“ „Heldur þú,“ svaraði vezírinn, „að eg kæri mig nokkuð um þessa tíu þúsund gullpeninga? fjártjón þetta og jafnvel missir eigna minna getur nú ekki komið til tals, og það mundi ekki fá mjer mikils. En hjer ræðir um sæmd mína og hún er mjer dýrmætari enn öll auðæfi jarðarinnar.“ „Þá virðist mjer samt svo,“ mælti kona hans, „að sá skaði, sem bæta má með fje, sje ekki svo háskalegur.“

„Veiztu þá ekki,“ ansaði vezírinn, „að Sawy er svarinn óvinur minn? ætli hann fari ekki til konungsins undireins og hann frjettir þetta, og hrósi þar sigri yfir mjer? „Yðar hátign!“ mun hann segja, „þjer talið alltjend um, hvað hann Khakan sje yður dyggur og trúr, en hann hefur rjett fyrir skemmstu sýnt, að hann er ómaklegur þess trausts, sem þjer hafið á honum. Hann tók

við tíu þúsund gullpeningum til að kaupa ambátt fyrir, og kom því heiðarlega ætlunarverki fram, sem honum var á hendur falið, keypti hann svo fagra ambátt, að enginn hefur fegri sjeð. En í stað þess að færa yðar hátign hana, hefur honum þóknazt að gefa syni sínum hana að gjöf. „Þú ert maklegri að eiga ambátt þessa enn konungurinn," sagði hann — því svona mun hann ljúga af illmennsku sinni — „og tók sonur hans við henni og skemmtir sjer nú með henni alla daga. Svona er nú mál með vexti sem eg hef sagt yðar hátign og getið þjer sjálfur gengið úr skugga um það." „Heldur þú ekki," mælti vezírinn ennfremur, „að þegar svona er borin sagan, muni konungsmanna vera von á hverri stundinni, og kunna þeir að mölva upp hús mitt og hafa ambáttina á burt með sjer? Og þaráofan bætist allt hitt ólánið sem óumflýjanlegt er."

Svaraði þá kona hans: „Við slíku mætti að vísu búast af hinni hræðilegu mannvonzku Sawy, ef hann fengi hina minnstu vitneskju um þetta. En hvernig getur hann eða aðrir komizt að því, sem gerist hjer í húsi? Og ef nú grunsemd skyldi á leggjast, og konungur skyldi ympra á því við þig, þá getur þú borið það í vænginn, að þjer hafi ekki þókt ambáttin svo samboðin hans hátign, þá er þú hafðir reynt hana, sem þjer leizt í fyrstunni, og hafi kaupmaður vjelað þig í kaupum. Skaltu segja, að hún sje óviðjafnanlega fögur, en mikið vanti á, að hún sje svo gáfuð, andrík og vel að sjer, sem af henni var látið. Mun konungur þá trúa orðum þínum og hefur Sawy þá skapraun, að illræði hans verður til ónýtis einsog opt hefur orðið fyrr, þegar hann hefur ætlað að steypa þjer. Huggastu því og gefðu ráð þitt í guðs hönd." Nú með því vezírnum þókti ráð þetta viturlegt, þá sefaðist hann og ásetti sjer að breyta eptir því. En allt fyrir það rjenaði ekki reiði hans til Núreddíns. Ljet Núreddín ekki sjá sig allan daginn og þorði ekki einusinni að vera hjá neinum af kunningjum sínum, því hann var hræddur um að faðir sinn mundi láta leita að sjer hjá þeim. Flýði hann því úr borginni í aldingarð einn, er hann aldrei kom í endrarnær, bar enginn þar kennsl á hann. En er mjög var álíðið og hann vissi að faðir hans var gengin til herbergis síns, kom hann aptur og ljet ambáttir móður sinnar ljúka upp fyrir sjer, hleyptu þær honum inn sem hljóðlegast. Morguninn

eptir gekk hann burt af heimilinu áðurenn faðir hans var kominn á fætur, og þeirrar varúðar varð hann að gæta í heilan mánuð, þó honum sárnaði það mjög. Sögðu ambáttirnar honum hispurslaust, að faðir hans væri honum eins reiður og fyrri og mundi drepa hann undireins og hann kæmi í augsýn hans.“ Vissi kona vezírsins af sögn ambáttanna, að Núreddín var vanur að koma og fara burt aptur á laun, en ekki dirfðist hún að biðja mann sinn að fyrirgefa honum. En loksins jókst henni hugur og segir hún við vezírinn, að reyndar hafi aldrei nokkur sonur meira afgert við föður sinn enn Núreddín, þarsem hann hafði þá sæmd af honum, að færa konungi svo algjörva ambátt sem Persamærin fagra var. „En ætlar þú,“ mælti hún, „að glata honum gjörsamlega? þá mundir þú í stað óláns þess, er þú ættir að gleyma, baka þjer enn meiri ógæfu, sem þú ekki athugar. Ertu þá ekki hræddur um, að menn loksins komist að hinu sanna, þegar þeir fara að brjóta heilann um það, hversvegna sonur þinn flýr þig? En færi svo, þá rataðir þú einsog maklegt er í glötun þá, sem þú óttast svo mjög.“ Sá vezírinn að þetta var viturlega mælt, en samt kvaðst hann ekki geta fengið af sjer að fyrirgefa syni sínum svo, að hann ekki um leið ljeti hann finna til þess, hversu mjög hann hafði misgert. Sagði þá kona hans: „það mundi takast, ef þú vildir gera einsog mjer nú kemur til hugar. Núreddín kemur hingað á hverju kvöldi, þegar þú ert genginn til rekkju, sefur hann hjer og fer burt að morgni áðurenn þú ert kominn á fætur. Bíddu hans nú í kvöld og láttu einsog þú ætlir að drepa hann. Eg hleyp þá til að hjálpa honum, og gefur þú honum líf fyrir minn bænastað, mun hann feginshendi taka þeim kosti, að eiga Persameyna fögru, með hverjum skildaga sem þú vilt setja. Veit eg þú nú munir vilja gefa honum hana, því heldur sem mjer er kunnugt, að hann ann henni hugástum og hún honum.“

Fjellst vezírinn á ráð hennar, og áðurenn Núreddín væri hleypt inn á vanalegum tíma, faldi Khakan sig að hurðarbaki; en er sonur hans kom inn, flaug hann á hann, varpaði honum niður og reiddi upp hnífinn, en í sama vetfangi kom móðir Núreddíns hlaupandi, þreif í handlegg honum og æpti: „Hvað ætlar þú nú að gera, herra!“ „Slepptu mjer,“ svaraði vezírinn reiðuglega, „svo eg geti

drepið þenna vonda son.“ „Dreptu mig heldur, herra!“ sagði móðirin, „eg skal aldrei líða þjer að flekka hendur þínar í þínu eigin blóði.“ Þá sætti Núreddín lagi og sagði grátandi: „Faðir! eg bið þig vægðar og miskunar; fyrirgef mjer í nafni hans, sem þú væntir þjer fyrirgefningar af á þeim degi, sem vjer allir munum birtast fyrir honum.“ Ljet Khakan þá snúa hnífinn úr hendi sjer fjell Núreddín þvínæst fram fyrir hann, og kyssti á fætur hans til merkis um, hversu hann iðraðist eptir að hafa móðgað hann. Sagði vezírinn Núreddín að hann skyldi þakka móður sinni, því hann gerði það af elsku til hennar, að fyrirgefa honum. „Og Persameyna fögru,“ mælti hann ennfremur. „gef eg þjer því aðeins með því skilyrði, að þú sverjir mjer að fara ekki með hana einsog ambátt, heldur sem konu þína. eða með öðrum orðum aldrei selja hana eða reka hana frá þjer. Hún er margfalt hyggnari. gáfaðri og siðugri enn þú, og er eg því viss um, að hún muni spekja ofstopa æsku þinnar, sem annarskostar gæti komið þjer á kaldan klaka.“ Hafði Núreddín ekki vænt svo mikillar mildi; þakkaði hann föður sínum svo innilega sem hann gat og var fús að vinna eiðinn. Voru þau af hjarta ánægð hvert með annað. hann og Persamærin fagra, og þókti föður hans vænt um, að svo vel fjell á með þeim. Ljet vezírinn ekki konunginn minna sig á erindi það, er honum hafði verið falið á hendur, heldur minntist hann sjálfur á það opt og einatt og sagði konungi, hverjum vandkvæðum það væri bundið, að leysa það svo af hendi. að hann mætti vel við una. Fór honum þetta svo laglega úr hendi, að konungur varð því smámsaman afhuga. Hafði Sawy reyndar heyrt ávæning af því, er gerzt hafði, en Khakan var svo miklu kærari konunginum, að Sawy þorði hvergi að hreifa við því máli.

Þannig ræfttist betur úr vanda þessum enn Khakan hafði búizt við, en rúmu ári síðar tók hann sótt þá, er hann leiddi til bana; en það atvikaðist svo að hann varð að ganga snögglega úr baði vegna áríðandi starfa, er kölluðu að honum. En er hann fann að hann var aðfram kominn sagði hann við Núreddín, sem alltaf var hjá honum: „Son minn! eg veit ekki, hvort eg hef varið auðæfum þeim, sem guð veitti mjer. eins vel og vera skyldi. Þú

sjer að þau hjálpa mjer ekki til að umflýja dauðann. þess eins bið eg þig nú á deyjanda degi, að þú munir það, sem þú lofaðir mjer Persameynni fögru til handa. Eg dey glaður í því trausti, að þú munir efna það.“ Mælti hann þvínæst fram báðar trúarjátningar sínar: „Enginn guð er til nema guð,“ og „Mahómet er spámaður guðs,“ gaf upp öndina og hvarf til samneytis rjettlátra. Kvað þá höllin við af kveinstöfum og tregaði konungur hann einsog vitran ráðgjafa og dyggan og trúlyndan þjón, en borgarmenn hörmuðu hann einsog velgjörðamann sinn og verndarmann, og jafnvel skóladrengir grjetu hann. Var útför hans svo virðuleg, að engi hafði slík verið í Balsora; emírar, vezírar og öll stórmenni í hirðinni kepptust um að bera líkkistu hans til grafar, og fylgdu allir borgarmenn honum grátandi, hvort sem þeir voru vellríkir eða bláfátækir.

Núreddín ljet nú í langan tíma bugast af áköfum harmi útaf missi föður síns og talaði ekki einusinni við beztu vini sína. það var einhvern dag er hann sat í húsi föður síns sæla, að drepið var á dyr; gekk hann þá til dyra og lauk upp. Var þar kominn einn af einkavinum föður hans; gekk hann inn og tók í hönd Núreddíns, svo mælandi: „Herra! sá er ekki dáinn, sem lætur eptir sig slíkan son sem þjer eruð. Herðið nú upp hugann; þjer hafið helgað minningu föður yðar alla þá sæmd, er skylt var, og gert allt það, er velsæmi býður, en nú er aptur tími til kominn, að þjer gefið yður við heiminum einsog fyrri, umgangist vini yðar og haldið upp tign þeirri, sem ætt og eigin verðleikar hafa lagt í hendur yðar. Að vísu væri það afbrigði bæði gegn guðs og manna lögum ef vjer eigi greiddum feðrum okkar skuld sonarlegrar ástar eptir andlát þeirra. En ef vjer eigi getum ámælt sjálfum oss fyrir tómlæti í þessu efni, þá er það skylda vor, að lifa með heiminum einsog áður. þerrið því tárin af augum yðar og takið upp glaðlyndi það, er fyrrum jók unun hvervetna þarsem þjer komuð.“ Ráð vinar þessa var næsta viturlegt og hefði Núreddín hlýtt því með nógu mikilli gætni, mundi hann hafa komizt hjá öllum þeim slysum, er síðar hentu hann. Stóð hann nú upp og gekk til gestaherbergis og veitti þar vin sínum. En er hann gekk burt beiddi Núreddín hann að koma til sín aptur næsta dag, bauð

hann og öðrum kunningjum sínum, sem voru á aldur við hann; hjelt hann þannig hverja veizluna á fætur annari og gaf stórgjafir. Þegar einhver hældi einhverjum hlut, sem hann átti og sagði: „Þetta þykir mjer fallegt,“ svaraði hann: „Eigðu það!“ og það þó um heil hús væri að gera. Það var stundum, er hann sat á tali við Persameyna fögru, að hún talaði um fyrir honum hispurslaust. „Það er að vísu enginn vafi á því,“ mælti hún, „að vezírinn faðir þinn hefur látið þjer eptir sig mikinn auð, en — þú mátt ekki taka illa upp orð mín — svo mikil sem auðæfi þessi eru, þá mun samt þar koma að þau þrjóta, ef þú heldur þessum lifnaðarhætti áfram. Að vísu geta menn veitt vinum sínum og glatt sig með þeim, en að gera það á degi hverjum, það er að hrapa í vísa glötun. Mundir þú betur annast mannorð þitt og sóma, ef þú fetaðir í fótspor föður þíns og kæmist til þeirrar mannvirðingar. er aflaði honum svo mikils orðstírs“ Hlýddi Núreddín brosandi á ræðu hennar og svaraði: „Við skulum sleppa þessu og tala heldur um, hvernig við eigum að skemmta okkur. Hann faðir minn sæli hjelt mig alltaf í miklu ófrelsi, og þykir mjer nú gott að njóta frelsisins. er eg þráði svo mjög, meðan hann var á lífi. Eg hef tímann fyrir mjer að taka upp hinn reglusama lifnað, sem þú ræður mjer til. Á mínum aldri verða menn að njóta unaðsemda æskunnar.“ Ráðsmaður Núreddíns hafði og einurð til að áminna hann fyrir eyðslusemina. „Herra!“ sagði hann einhverju sinni, „þekkið þjer ekki málsháttinn: „Hver, sem gefur og hefur ekki gát á, verður öreigi.“ Ef þjer haldið þessu áfram, munu eigur yðar fljótt ganga upp.“ Hvessti þá Núreddín augun á hann og mælti: „Ekkert af því, sem þú sagðir, fellur mjer í skap. Ætli þú getir sýnt mjer nirfil, sem hefur aflað sjer orðstírs með nízku sinni eða rausnarmann, sem dó af rausn sinni? Og það segi eg þjer, að meðan þú hefur nóg milli handa til miðdegisverðar míns, máttu ekki ónáða mig með áhyggjum fyrir kvöldverðinum.“ Hneigði ráðsmaðurinn sig þá djúpt og gekk á burt, en Núreddín eyddi og sóaði fje sínu einsog fyrri.

Leið svo eitt ár, en einn dag er hann sat til borðs með fjelögum sínum, var barið á dyr og stóð Núreddín sjálfur upp til að sjá, hver kominn væri, því hann hafði sent alla þræla sína

burt og lokað að sjer og vinum sínum, svo að þeir hefðu því betra næði. En er hann lauk upp, sá hann ráðsmann sinn og gekk út til að heyra erindi hans; gekk einn af gestunum á eptir honum og faldi sig á hurðar baki. „Herra!“ mælti ráðsmaðurinn, „eg bið yður fyrir alla muni fyrirgefa mjer, ef eg trufla yður, þegar hæzt stendur á skemmtun yðvarri, en mjer virtist það, sem eg nú verð að segja yður, svo áríðandi, að mjer þókti óráðlegt að fresta því. Það er komið svo fyrir yður sem eg sagði yður fyrir. Skuluð þjer nú vita, að eg hef ekki svo mikið sem einn skilding eptir af fje yðru. Svo eru og aðrar eigur yðar uppgengnar, hafa leiguliðar yðar sannað mjer, að skuldakröfur yðar eru seldar öðrum í hendur, og get eg því ekki gengizt eptir skuldum hjá þeim í yðar nafni. Nú ef þjer viljið að eg verði lengur í vist hjá yður, þá vísið mjer á nýjar tekjur eða leyfið mjer annarskostar að ráðast burt úr þjónustu yðar.“ Varð Núreddín þá sem steini lostinn og hengdi niður höfuðið, varð honum ekki annað til svara, enn að hann hafði upp orð þessi: „Hvergi er vald nje máttur nema hjá guði!“ Gestur hans, er stóð á hleri að hurðarbaki, hafði heyrt hvert orð og flýtti hann sjer að segja hinum það, er hann hafði komizt að. „Gerið þið einsog ykkur sýnist,“ mælti hann, „en ekki ætla eg mjer uppfrá þessum degi að koma optar í hús þrotamanns þessa.“ „Úr því svo á stendur,“ sögðu hinir, „viljum við ekki eiga neitt saman við hann að sælda fremur enn þjer, og skal hann ekki sjá okkur framar.“

Í þessu bili kom Núreddín aptur og reyndi að gera sig glaðlegan á svipinn, og pipra upp lagsbræður sína, en samt gat hann ekki hamlað því, að þeir sáu á yfirbragði hans, að þeim hafði verið borin sönn saga. Óðara enn hann var seztur aptur í sæti sitt, stóð einn þeirra upp og mælti: „Eg verð að biðja yður að lofa mjer að fara burt.“ „Því þá svo fljótt?“ segir Núreddín. „Konan mín,“ svaraði hann, „býzt við að ala barn í nótt og hef eg ekki skap til að vera fjærri henni.“ Lofaði Núreddín honum að fara, en þá kom annar og beiddist hins sama, kvaðst sá vilja finna bróður sinn, því hann hjeldi veizlu í minningu þess, að sonur hans var umskorinn, fór þannig hver á fætur öðrum og bar ósannindi fyrir, svo að loksins var enginn eptir.

En er Núreddín var aleinn eptir, kallaði hann á Persameyna fögru og skýrði henni frá því, er ráðsmaðurinn hafði sagt; var auðsjeð á honum að hann iðraðist af hjarta. En hún minnti hann á, hversu hún hafði vandað um við hann og talað um fyrir honum; „það eitt fær mjer hryggðar," mælti hún, „að þú veizt ekki ennþá, hversu grátleg eptirköst þetta getur haft. þegar eg ætlaði að segja þjer álit mitt um það, vildir þú ekki gefa orðum mínum gaum, heldur varstu ætíð gjarn til að njóta sælunnar meðan lukkan veitti hana, því ekki væri víst, að hún alltjend yrði svo hýr í horn að taka. En eg hafði ekki á röngu að standa, þegar eg svaraði þjer því, að við sköpum sjálf gæfuna í hendi okkar með hyggilegum lifnaði." Kannaðist Núreddín við, að það hefði verið rangt af sjer, að hlýða ekki heilræðum hennar, en hann sagði að hún gætti þess eigi, að þó hann hefði gjöreytt eigum sínum, þá hefði hann eytt þeim með útvöldum vinum, sem hann hefði þekkt lengi. þeir eru þakklátsamir og sómamenn," mælti hann, „og munu þeir ekki yfirgefa mig." „Herra!" svaraði Persamærin, „ef þú ekki hefur öðru að treysta enn þakklátsemi vina þinna, þá stendur von þín völtum fæti, og muntu síðar láta sannast á þau orð mín." „þú yndislega Persamey!" ansaði Núreddín, „eg treysti þeim betur til að liðsinna mjer enn þú. Mun eg fara á morgun og finna þá alla, áðurenn þeir eru vanir að koma til mín, og muntu sjá að eg kem heim aptur með mikið fje, sem þeir gefa allir mjer til styrktar. Mun eg þá breyta lifnaði mínum, einsog eg hef einsett mjer, og verja fjenu svo að eg hafi gagn af." Morguninn eptir lagði Núreddín á stað til hinna tíu vina sinna, bjuggu þeir allir í sama strætinu. Drap hann fyrst á dyr hjá þeim, sem ríkastur var; spurði ambáttin, sem upplauk, hver komumaður væri. „Seg þú hússbónda þínum," ansaði hann, „að hjer sje kominn Núreddín, sonur Khakans vezírs." Hleypti ambáttin honum þá inn og fylgdi honum inn í sal einn; þvínæst fór hún inn og sagði hússbónda sínum, hver kominn væri. „það er hann Núreddín," sagði hann þá með fyrirlitningu svo hátt að Núreddín heyrði sjálfur og varð forviða, „segðu honum að eg sje ekki heima, og það skaltu segja, hvenær sem hann kemur." Gekk ambáttin þá aptur til dyra og sagði Núreddín, að sjer hefði skjátlazt, því hússbóndi hennar væri ekki

heima, einsog hún hafði haldið. Gekk Núreddín þá burt með kinnroða, en samt hugsaði hann með sjer: þó að þessi sje þorpari og látist ekki vera heima, þá er ekki sagt að hinir reynist einsog hann; fór hann þá og barði á dyr hjá öðrum vin sínum, en bæði hjá honum og þeim öllum tíu voru sömu svörin, þó allir væru þeir heima. þá minntist Núreddín þessara orða: „Í velgengninni er maðurinn líkur trje, sem allir þyrpast utanum, á meðan það ber aldin. En þegar þau eru öll lesin, fara menn burt og leita upp annað trje. Vei þeim mönnum, sem nú gerast, því eg hef ekki hitt einn af tíu, sem rjettlátur væri!"

Gekk hann nú heim aptur til Persameyjarinnar fögru, og er þangað var komið, ljet hann yfirbugast af harmi. Hafði hún undireins sjeð á honum, að hann mundi ekki hafa fengið þá aðstoð hjá vinum sínum, sem hann bjóst við, spurði hún hann, hvort hann væri nú genginn úr skugga um, að hún hefði spáð rjett. „Ó mín elskulega!" mælti hann, „þú sagðir helzt til satt. Enginn þeirra allra ljet mig sjá sig og aldrei mundi eg hafa trúað því, að þeir menn skyldu gera svo hraklega til mín, sem eiga mjer svo mikið gott upp að unna, því þeirra vegna er eg orðinn öreigi. Eg er utan við mig, og í þessari eymd og örvílnun er eg hræddur um, að eg fremji eitthvert það verk, sem ósæmandi er fyrir mig, nema þú dugir mjer með góðum ráðum." „Eg sje ekkert ráð," svaraði hún, „annað enn að selja þræla þína og húsgögn og lifa af því, þangaðtil guð lætur okkur á einhvern hátt komast úr bágindum þessum."

þóað Núreddín þækti þetta hart aðgöngu, sá hann samt ekki annað sýnna og seldi hann fyrst þrælana, því þeir voru honum nú þarflausir mötunautar og höfðu verið honum til miklu meiri kostnaðar enn hann var fær að standast. Lifði hann um stund af fje því, er hann fjekk fyrir þá, en er það var þrotið, ljet hann færa búshluti sína á torgið, var sumt af þeim munum afar dýrmætt, en varð þó selt fyrir gjafverð. Lifði hann nú alllengi af þessu, en það gekk líka til þurðar, og átti hann þá ekkert eptir, sem hann gæti varið í peninga. Sagði hann Persameynni fögru, hversu hann var harmþrunginn útaf þessu, en ekki hafði hann búizt við, að hún mundi svara honum einsog hún gerði. „Herra!" sagði

hún: „það er þá mitt ráð, að þú seljir mig líka. Eg er ambátt þín, og þú veizt að vezírinn sæli keypti mig fyrir tíu þúsund gullpeninga. Veit eg það raunar, að eg er ekki eins mikils verð nú og eg var þá, en eg er samt sannfærð um, að þú munt enn geta fengið töluverða borgun fyrir mig. Farðu því tafarlaust með mig ofaná torg, og far með fje það, er þjer greiðist fyrir mig í einhverja borg, þarsem enginn þekkir þig og getur þú þar grætt svo mikið á verzlun, að það nægi þjer til að lifa góðu og viðunanlegu lífi. Ef drottni þóknast munum við bráðum finnast aptur." „Elskan mín!" mælti Núreddín, „hvernig getur þjer slíkt til hugar komið; hef eg látið svo litla elsku í ljósi við þig, að þú skulir trúa mjer til slíkrar fúlmennsku? Gæti eg gert það svo að eg ekki ryfi eið þann, er eg vann föður mínum sæla, því eg sór honum að eg skyldi aldrei selja þig? Kýs eg heldur að deyja enn að bregða útaf því og skilja við þig, sem eg ekki elska jafnt, heldur miklu framar sjálfum mjer. En óráð það, er þú fer fram á, sýnir mjer, hve mikið vantar á, að þú unnir mjer eins heitt og eg ann þjer." Svaraði þá Persamærin fagra: „Herra! eg er sannfærð um, að þú hefur slíka ást á mjer, sem þú segir, og eg kalla guð til vitnis mjer, hvort eg ber minni ást til þín enn þú til mín, og hvort eg ekki varð að stríða við vilja minn, þegar eg stakk uppá því, er þú tókst svo óstinnt upp fyrir mjer. En til þess að hrekja mótbárur þínar þarf eg ekki annað enn að minna þig á það, að nauðsyn brýtur lög. Þú getur ekki elskað mig heitar enn eg elska þig, og það svér eg þjer, að ást mín skal aldrei rjena, hver sem herra minn verður. Mundi það vera mjer hin mesta gleði, að samtengjast þjer aptur, ef þú skyldir verða þess um kominn að kaupa mig aptur, sem eg vona. Er þetta að vísu sárgrætilegt neyðarúrræði bæði fyrir þig og mig, en eg sje alls ekkert annað ráð, er geti frelsað okkur úr bágindum þessum." Sá Núreddín gjörla, að það var satt, er Persamærin fagra sagði, og af því hann með engu öðru móti gat komizt hjá háðuglegri örbyrgð, neyddist hann til að taka til úrræðis þessa. Fór hann sárhryggur með Persameyna fögru ofaná torgið þarsem ambáttir voru seldar og vjek sjer að mansalsmiðli einum, er Hadschi Hassan hjet og sagði við hann: „Hjer hef eg ambátt eina til sölu; segðu mjer,

hvað menn muni bjóða fyrir hana.“ Fór hann þá með Núreddín og Persameyna inní herbergi eitt og er ambáttin hafði brugðið upp andlitsblæjunni mælti hann: „Herra! yfirtaks fegurð líður mönnum ekki úr minni. Er þetta ekki sama ambáttin, sem vezírinn hann faðir yðar sæli keypti fyrir tíu þúsund gullpeninga?“ Kvað Núreddín svo vera, og sagði mansals miðillinn að hann mundi fá töluvert fje fyrir hana og hjet að gera sitt til, að hann fengi sem mest. Gekk Núreddín þá úr herberginu með Hadschi Hassan; lokaði Hassan Persameyna fögru þar inni. fór hann þá að litast um, hvort hann ekki sæji kaupmenn. Voru þeir allir á strjálingi að þinga um ambáttir frá Tyrklandi, Grikklandi, Georgíu. Abyssiníu og öðrum löndum, varð hann því að bíða þangaðtil þeir voru búnir að því. En er þeir loksins höfðu safnazt saman á torginu gekk hann fram og mælti með glaðlegum svip og látbragði:

„Þjer kaupmenn! þjer ríkismenn! það er ekki allt hnot. sem er hnöttótt og ekki allt langt, sem er fíkja; það er ekki heldur allt kjöt, sem rautt er, eða mör það, sem hvítt er. og ekki eru heldur öll egg glæný. Eg á við það. að þjer kunnið bæði að hafa sjeð og keypt margar ambáttir um dagana. en enga hafið þjer sjeð. er komist geti í samjöfnuð við þá, sem eg nú býð ykkur til kaups. Komið svo að eg geti sýnt ykkur þessa dýrindis perlu. sem aldrei getur fullborguð orðið með fje, og segið mjer á hverju boði byrja skal.“ Að svo mæltu lauk hann upp herberginu, sem Persamærin fagra var í. horfðu kaupmenn á hana og dáðust að henni, og kom þeim öllum saman um, að hún gæti ekki orðið seld fyrir minna enn fjögur þúsund og fimm hundruð gullpeninga. Gekk Hadschi Hassan út aptur með þeim, lokaði dyrunum og kallaði: „Fjögur þúsund og fimm hundruð gullpeninga fyrir persnesku ambáttina!“ En áðurenn nokkur byði og meðan kaupmenn voru að skoða huga sinn um, hversu hátt þeir skyldu bjóða, kom vezírinn Sawy. Hafði hann sjeð Núreddín á torginu og hugsaði með sjer: Hann er líklega ennþá einu sinni að selja eitthvað af húsgögnum sínum og ætlar svo að kaupa sjer ambátt. Þá kallaði Hadschi Hassan í annað sinn: „Fjögur þúsund og fimm hundruð gullpeninga fyrir persnesku ambáttina!“ en er Sawy heyrði, að svo mikið var upp sett, rjeði hann af því, að ambáttin mundi vera óvenjulega fríð og

langaði hann til að sjá hana. Reið hann því rakleiðis til Hadschi Hassans, sem stóð í miðri kaupmanna þrönginni, og sagði: „Ljúktu upp, og láttu mig sjá ambáttina.“

Nú var það ekki siður, að sýna nokkrum manni ambátt eptir að kaupmenn höfðu sjeð hana og voru farnir að semja um kaupin, en af því vezír átti hjer hlut að máli, þorðu þeir ekki að fylgja fram rjetti sínum og varð Hadschi Hassan því að ljúka upp og láta Persameyna fögru koma, svo að Sawy þyrfti ekki að fara af baki til að sjá hana. Varð hann frá sjer numinn af undrun, er hann sá svo óvenju fagra konu og sagði við mansals miðilinn: „þú setur upp fjögur þúsund og fimm hundruð gullpeninga?“ „Já, herra!“ svaraði hann, „kaupmennirnir hjerna hafa orðið ásáttir um, að eg skyldi bjóða hana upp fyrir það verð, og vona eg að þeir bjóði betur.“

„Eg skal gefa það fyrir hana ef enginn býður betur,“ mælti Sawy og leit um leið þeim augum til kaupmanna, að þeir máttu skilja, að hann vænti ekki þess, að neinn mundi dirfast að bjóða hærra enn hann. Enda stóð öllum slíkur ótti af honum, að enginn lauk munni sundur, þó ekki væri til annars enn að kvarta undan lögleysu þeirri, er hann hafði í frammi haft. En er hann hafði beðið nokkra stund og enginn bauð hærra, segir hann við Hadschi Hassan: „Nú, nú! eptir hverju ertu að bíða? farðu til seljandans og slá þú kaupi við hann um fjögur þúsund og fimm hundruð gullpeninga, eða komstu eptir, hvað hann vill vera láta.“ Vissi vezírinn ekki enn sem komið var, að Núreddín átti ambáttina; flýtti mansals miðillinn sjer nú til hans og sagði: „Herra! eg hef ill tíðindi að segja; ambáttin yðar er seld fyrir gjafverð.“ „Hvernig þá?“ spurði Núreddín og svaraði hinn: „Allt var á bezta vegi og jafnskjótt sem kaupmenn höfðu sjeð ambáttina, ljetu þeir mig bjóða hana upp fyrir fjögur þúsund og fimm hundruð gullpeninga. En þá kom að vezírinn Sawy og ljet sýna sjer ambáttina, kvaðst hann mundu kaupa hana því verði; þorði enginn kaupmaður að bjóða hærra enn hann, þó þeir áður væru fúsir á að bjóða helmingi meira enn faðir yðar hafði gefið; er það mjer mjög á móti skapi að koma til yðar með svo óaðgengilegt boð. Annars mætti það heita guðs mildi, ef hann greiddi fjeð út í hönd, en þess vænti eg

miklu fremur af rangsleitni hans, að hann riti skuldskeyting upp á einhvern erindsreka sinn og skipi honum í laumi, að synja útgreiðslu fjárins. Munu þeir ginna yður með góðum vonum dag frá degi, og þegar þjer verðið harðari í sóknum munu þeir segja við yður: „Fáið okkur skuldskeytinguna!“ og rífa hana í sundur upp í opið geðið á yður, segja þeir svo skuldina borgaða. Þartil er ambáttin yðar miklu meira virði, og mundi eg aldrei ráða yður til að farga henni fyrir það verð.“

„Haf þökk fyrir ráð þitt,“ ansaði Núreddín, „eg skal aldrei láta ambáttina komast í hendur þess manns, sem er óvinur ættar minnar, og vil eg heldur veslast upp í örbyrgð. En seg mjer nú, hvernig eg get komið í veg fyrir það, því þú veizt ráðin og þekkir lag á öllu slíku.“ „Herra!“ mælti Hadschi Hassan, „það er hægur vandi. Þjer skuluð láta sem þjer hafið reiðzt ambáttinni og svarið í bráðræði, að fara með hana á torgið, en alls ekki haft í hyggju að selja hana, heldur hafið þjer aðeins ætlað að leysast undan eiðnum. Mun enginn maður verða því mótfallinn og getur Sawy ekki haft á því. Komið því með mjer og í sama bili sem eg leiði ambáttina til vezírsins einsog með yðar samþykki, skuluð þjer taka hana aptur og fara heim með hana.“ Þakkaði Núreddín og kvaðst hlíta vilja þessu ráði. Fór Hadschi Hassan þá og lauk upp herberginu, sem Persamærin fagra var í. Sagði hann með fám orðum að hún skyldi ekki hræðast það, er nú kæmi að höndum, leiddi hana síðan til vezírsins Sawy, er stóð við dyrnar, og mælti: „Hjerna herra! er ambáttin yðar, þjer eruð nú eigandi hennar.“ En rjett sem hann hafði þetta mælt, þreif Núreddín til hennar, svipti henni að sjer og rak henni kinnhest, og sagði við hana, svo allir heyrðu: „Komdu nú þín ósvífna ambátt! þú skalt nú fara heim með mjer aptur. Vegna geðvonzku þinnar sór eg, að eg skyldi fara með þig útá torgið, en alls ekki að eg skyldi selja þig. Nú þarf eg þín við, og er nógur tíminn að grípa til þessa neyðar úrræðis, þegar eg á ekkert eptir nema þig.“

Varð vezírinn nú fokreiður og æpti að Núreddín: „Óhræsis svallarinn þinn! ætlar þú að telja mjer trú um, að þú eigir nokkuð til að selja annað enn ambáttina,“ og í sama bili keyrði hann hest sinn sporum og reið á Núreddín; ætlaði hann að rífa af honum

Persameyna fögru. Hafði Núreddín hina mestu skapraun af háðung þeirri, er vezírinn gerði honum; beiddi hann Persameyna fögru að bíða sín, þreif þvínæst í taumana á hestinum og hrakti hann langt á hæl aptur; segir hann þá við vezírinn: „Mannfýlan þín! með skeggið gráa, þú skyldir þegar í stað láta líf þitt, ef ekki aptraði mjer virðing fyrir mönnum þeim, sem hjer eru viðstaddir." Allir, sem á horfðu urðu glaðir, er þeir sáu Núreddín svívirða hinn óvinsæla vezír, ljetu þeir hann skilja á augnaráði sínu og bendingum, að enginn mundi varna honum að taka fullkomna hefnd. Leitaðist Sawy við að ná aptur taumunum, en Núreddín, sem var sterkur vel og þaráofan gerðist djarfari fyrir fylgi þeirra, er í kring stóðu, svipti vezírnum ofanúr söðlinum svo að hann valt ofaní ræsið, lamdi hann síðan og meiddi höfuð hans svo á grjótinu, að blæddi úr. Ætluðu þá hinir tíu þrælar, sem með Sawy voru, að vaða að Núreddín með brugðnum sverðum, en kaupmenn öptruðu þeim og sögðu: „Hvað ætlið þið að gera? sjáið þið ekki, að annar þeirra er vezír, en hinn vezírs sonur? látið þá sjálfa ráða leiks lokum. þeir sættast ef til vill bráðum, og haldið þið að herra ykkar, þó hann sje voldugur, geti varið ykkur fyrir rjettvísinni, ef þið skylduð drepa Núreddín?"

þegar Núreddín loksins var uppgefinn að lemja vezírinn, skildi hann við hann, þarsem hann lá í ræsinu, og fór heim til sín með Persameyna fögru, en á leiðinni gerði lýðurinn góðan róm að framgöngu hans. Sawy reis upp meiddur og lemstraður og studdu þrælarnir hann, var nú hinn hvíti skrúði hans ataður aur og blóði. Hengdi hann um háls sjer eina af hinum óvönduðu og þykku mottum, sem mestu aumingjar eru vanir að sitja á, og tók sinn hálmvöndulinn í hverja hönd sjer; voru vöndlarnir vafðir úr samkyns hálmi, sem mottan var riðin úr. Gerði hann þetta til að sýna, að með sig hefði verið farið einsog hinn mesta vesaling. Studdi hann sig við axlir tveggja þræla sinna og gekk svo í allra augsýn til hallar konungsins, en enginn maður aumkvaði hann. Tók hann að veina aumkvunarlega fyrir neðan herbergi þau, er konungur bjó í og grátbændi hann að synja sjer ekki rjettlætis. Ljet konungur leiða hann fyrir sig og undraðist mjög, er hann sá hann. „Hver hefur farið svo með yður?" mælti kon-

ungur. „Herra!“ svaraði Sawy, „það þarf ekki annað enn einhver sje í kærleikum hjá yðar hátign eða eigi nokkra hlutdeild í yðar helgu ráðum, þá á hann á hættu að verða eins háðuglega útleikinn og eg varð nú.“ „Og hver misgerði svo gífurlega?“ mælti konungur, „hann skal iðrast aðgjörða sinna ef hann hefur rangan málstað.“ Sagði þá Sawy frá atburðinum, og fegraði sitt mál á þessa leið: „Herra! eg var sjálfur farinn út á ambátta torgið og ætlaði að kaupa mjer eldabusku, heyrði eg þá að boðin var upp ambátt fyrir fjögur þúsund og fimm hundruð gullpeninga. Ljet eg sýna mjer hana og sá eg þá hina fegurstu sjón, sem eg hef litið á æfi minni; varð eg þess vísari, að Núreddín, sonur Khakans vezírs átti hana. Yðar hátign gaf þessum framliðna vezír tíu þúsund gullpeninga fyrir tveimur eða þremur árum síðan og átti hann að kaupa afbragðs ambátt fyrir þá. Enda keypti hann þessa, en í stað þess að færa yðar hátign hana, gaf hann hana syni sínum, því yður áleit hann ómaklegan hennar. Hefur sonur hans sólundað öllu að honum látnum, nema ambáttinni hafði hann ekki lógað, ætlaði hann nú að selja hana og varð hún seld í nafni hans. Kallaði eg á hann og minntist eg þá ekki einu orði á óráðvendni eða rjettara sagt svik föður hans, en sagði honum kurteislega, að eg hefði heyrt, að kaupmenn hefðu boðið fjögur þúsund og fimm hundruð gullpeninga fyrir ambátt hans. „Eg efa alls ekki,“ sagði eg, „að kaupmenn muni hækka verðið langt umfram þessa upphæð, en komið nú með mjer og seljið mjer ambáttina fyrir fjögur þúsund og fimm hundruð gullpeninga. Eg ætla að kaupa hana til þess að gefa hana konungi vorum og herra, skal eg um leið mæla fram með yður hjá honum, og mun það verða yður að margfalt meira gagni enn það, sem kaupmenn gjalda yður.“ En í stað þess að svara mjer kurteislega, hvessir þessi ósvífni gikkur á mig augun og segir: „Mannfýlan þín með skeggið gráa! eg vil heldur gefa Gyðingi ambátt mína enn selja þjer hana.“ Brást eg þá ekki reiður við, þó eg hefði fullkomna ástæðu til þess, heldur tók eg að leiða honum fyrir sjónir, að hann athugaði ekki, hversu hann stygði konunginn með orðum sínum, „því hann,“ sagði eg, „gerði föður þinn að því, sem hann var og mig hefur hann gert að því, sem eg er.“ En þá varð hann

hamslaus og flaug á mig einsog óður maður, gætti hann ekki aldurs míns og því síður tignarstöðu minnar, heldur rykkti hann mjer af hestbaki, og lamdi mig svo lengi sem honum líkaði, þangaðtil eg varð eins aumlega til reika og þjer sjáið. Bið eg yður mildilegast gæta þess, að þetta henti mig einungis fyrir þá sök, að eg ætlaði að kaupa ambáttina handa yðar hátign."

Að svo mæltu fleygði vezírinn sjer niður grátandi, en konungur reiddist svo, er hann heyrði þessa lognu sögusögn, að æðar þrútnuðu í enni honum. Skipaði hann undireins varðliðs foringja sínum, er nærstaddur var, að fara með fjörutíu manns, ræna hús Núreddíns og brjóta það niður allt að grundvelli, en koma með sjálfan hann og ambátt hans í fjötrum.

Svaraði þá varðliðsforinginn: „Eg heyri og hlýði," og fór á stað. En Sandschar, er fyrrum var þræll Khakans, en nú var orðinn hirðsveinn konungs, var kominn út á undan honum og hafði farið undireins og hann heyrði skipun þessa. Hafði hann mikinn ræktarhug til fyrrverandi herra síns, er hann átti upphefð sína að þakka, var honum og vel til Núreddíns, sem hann hafði þekkt í uppvexti, en annarsvegar var honum kunnugt, hvert hatur Sawy hafði á ætt Khakans, svo hann gat ekki trúað því, að Núreddín hefði eins mikið til saka og vezírinn taldi konungi trú um. En svo var Sawy uppvægur, að hann ætlaði undireins að láta taka Núreddín af lífi og ekki gefa honum neinn frest til sakvarnar. Hljóp Sandschar sem fætur toguðu heim til Núreddíns og barði hart á dyr; lauk Núreddín sjálfur upp, því nú hafði hann engan þjón. Kannaðist hann undireins við Sandschar og ætlaði að heilsa honum, en hann sagði: „Bezti herra! til þess er nú enginn tími. Yður er ekki leingur vært í Balsora; forðið yður og flýjið án augnabliks dvalar." „Hversvegna þá?" mælti Núreddín, „hver nauðsyn ber til svo skyndilegrar burtfarar?" „Flýjið, segi eg," ansaði Sandschar, „og takið ambátt yðar með yður, Sawy hefur sagt konungi frá viðskiptum ykkar, einsog honum er lagið, og er varðliðsforinginn á leiðinni með fjörutíu manns og á hann að taka yður fastan og ambáttina. Hjer eru fimmtíu gullpeningar, svo að þjer getið leitað yðar hælis, eg skyldi gefa yður meira ef eg gæti. En fyrirgefið mjer, þó eg tefji ekki lengur; eg skil nauðugur við yður, en það

er bæði yður og mjer fyrir beztu, því varðliðsforinginn má ekki sjá mig hjer.“ Sandschar lofaði Núreddín aðeins að þakka sjer og flýtti sjer burt, en Núreddín sagði Persameynni fögru, að þeim væri nauðugur einn kostur að flýja samstundis. Hjúpaði hún sig blæjunni og gengu þau bæði heiman frá sjer, komust þau farsællega útúr borginni svo að enginn varð var við, og gengu ofan að ósi Euphrats elfarinnar, sem var þar allnærri. Fengu þau sjer far með skipi einu, sem var að ljetta akkeri. En er þau voru stigin á skipsfjöl og segl voru uppdregin, þá spurði Núreddín fyrst, hvert skipið ætlaði og varð hann feginn, er honum var sagt, að ferðinni væri heitið til Bagdad; sigldi skipið nú hraðbyrja frá Balsora.

Nú gerðist það í Balsora að varðliðsforinginn kom að húsi Núreddíns með liðsmenn sína, börðu þeir á dyr, en enginn lauk upp. Ljet hann þá mölva upp dyrnar og ruddust menn hans inn í húsið og ransökuðu hvern krók og kima, en fundu hvorki Núreddín nje Persameyna fögru. Ljet þá varðliðsforinginn spyrjast fyrir hjá nágrönnum Núreddíns og sjálfur spurði hann, hvort nokkur hefði sjeð hann, en þó nú svo hefði verið, mundi enginn samt hafa ljóstrað því upp, því Núreddín var hvers manns hugljúfi. Meðan verið var að ræna húsið og rífa það niður sagði varðliðs foringinn konungi, að Núreddín og ambáttin fínndust hvergi. En konungur skipaði að leita þeirra hvervetna, því hann vildi fyrir hvern mun ná þeim. Hjelt varðliðsforingi því áfram leitinni; hafði konungur gefið Sawy tignarklæði og sagt við hann: „Yðar skal enginn hefna annar enn eg,“ en Sawy beiddi honum langra lífdaga og fór heim til sín fagnandi. Lýstu kallarar því yfir í borginni, að hver sá, sem færði konungi Núreddín og ambátt hans skyldi fá tignarklæði og þúsund gullpeninga að launum, en hver, sem greiddi fyrir þeim, skyldi sæta þyngstu refsingum. En allt kom þetta fyrir ekki og hvergi varð vart við þau.

Meðan þetta gerðist, sigldu þau Núreddín og Persamærin fagra til Bagdad og gekk ferðin æskilega. En er skipstjórnarmaður loksins sá borg þessa, kallaði hann til farþega sinna, frá sjer numinn af fögnuði er ferðin var farsællega á enda: „Börn mín! þetta er Bagdad, vagga friðarins, mikil og ágæt borg, sem allt streymir að

úr öllum heimsálfum. Þar munuð þjer finna ótölulegan manngrúa og þar þurfið þjer hvorki að kvíða nístingi vetrarkuldans nje ofurmegni sumarhitans, heldur munuð þjer njóta eylífrar vorblíðu, sem jafnframt sínum fagra blóma veitir yður hina dýrlegu ávexti haustsins." Greiddu þau Núreddín og Persamærin fagra fimm gullpeninga í farareyri og lentu skammt fyrir neðan borgina með öðru ferðafólki. Hafði Núreddín aldrei fyrr komið í Bagdad og vissi eigi, hvar leita skyldi náttstaðar. Fór hann með fylgikonu sinni til aldingarða þeirra, er liggja við Tígrisfljótið og kom að einum, er umgirtur var löngum og fögrum múrum. En er þeir þrutu komu þau á langa, steinlagða braut, sáu þau þá hlið á aldingarði einum og fagran gosbrunn hjá. Var hliðið glæsilegt og forsalur fyrir framan, voru í honum tveir legubekkir sinn hvoru megin. „Það veit hamingjan, að þetta er hentugur staður," mælti Núreddín, „við höfum etið útá skipi og nótt er fyrir hendi, það er því mitt ráð, að við verðum hjer í nótt." „Herra!" svaraði Persamærin fagra. „Þú veizt að eg vil það, sem þú vilt." Þvoðu þau andlit sín og hendur í brunninum og drukku af honum, lögðust síðan fyrir í legubekknum einsog þeim var hægast og sofnuðu fljótt. Lofaður sje sá, sem aldrei sefur!

Aldingarð þenna átti kalífinn Harun Alraschyd og var hann kallaður Unaðsgarður, en í honum miðjum stóð tjaldsalur einn og var kallaður Gleðisalur. Var hann prýddur mörgum litmyndum og voru á honum áttatíu gluggar með grindum fyrir; hjengu í honum áttatíu lampar og ljósahjálmur stór af gulli ger í miðju, en á honum var aldrei kveikt, nema þegar kalífinn var viðstaddur. Var hann vanur að koma þangað, þegar illa lá á honum og ljet hann þá ljúka upp öllum gluggunum, svo að ljósa dýrðin sázt víða úr nágrenninu og úr mestum hluta borgarinnar. Að öllum jafnaði var ekki nema einn maður gamall til að sjá um garð þenna; hann hjet Íbrahim og hafði kalífinn veitt honum embætti þetta í launa skyni fyrir dygga þjónustu. Hafði Íbrahim verið skipað að hleypa ekki hverjum og einum inní garðinn, en allrasízt mátti hann líða nokkrum að sitja á legubekkjunum, er stóðu við innganginn.

Nú vildi svo til að umsjónarmaðurinn gamli hafði gengið út

þenna dag erinda sinna vegna, kom hann ekki heim fyrr enn seint um kvöldið og sjer nú hvar tveir menn liggja sofandi í öðrum legubekknum og höfðu breitt dúk yfir höfuð sjer til hlífðar við mýbiti. „Nei, nú lízt mjer ekki á,“ hugsar karlinn með sjer, „vitið þið ekki að kalífinn hefur gefið mjer vald yfir þeim, sem eg gríp hjer, eg skal gefa ykkur ráðningu svo þið sjáið, hverja virðingu þið eigið að sýna kalífanum.“ Lauk hann þá hliðinu upp hljóðlega og gekk inn í garðinn, kom hann óðara aptur með stóran staf í hendi og hafði brett upp ermunum. En rjett sem hann ætlaði að láta stafinn ríða að, hugsaði hann með sjer: „Hvernig getur þú lamið þá, Íbrahim! nema þú vitir eitthvað meira um þá. Hver veit nema þeir sjeu ókunnugir og hafi ekki getað fengið sjer neinn náttstað, má vera að þeir þekki ekki forboð kalífans. Það er bezt eg sjái þá fyrst.“ Kom hann þá nær og lypti með varkárni dúknum, sem þau höfðu breitt yfir höfuð sjer. Varð hann frá sjer numinn, er hann sá þar svo fagurskapaðan ungling og svo fríða konu. „Ekki get eg fengið af mjer að lemja þau,“ hugsaði karlinn með sjer og breiddi aptur yfir höfuð þeim; vakti hann þvínæst Núreddín með því að kitla hann undir iljunum. Vaknar Núreddín og litast um og sjer gamlan karl með sítt skegg; reis hann þá upp, greip um hönd karlsins, kyssti á hana og mælti: „Guð blessi yður, faðir sæll! hafið þjer nokkurs að biðja?“ „Hver eruð þjer, sonur sæll?“ mælti Íbrahim, „hvaðan eruð þjer?“ „Við erum ókunnug,“ svaraði Núreddín, „og rjett nýkomin hingað, ætlum við að vera hjer í nótt.“ „Sonur kær!“ ansaði Íbrahim, „þú veizt að spámaðurinn býður oss að sýna ókunnugum mönnum drengskap. Mundi ykkur illa gefast að vera hjer, en ef þið viljið koma með mjer, skal eg búa ykkur náðugri hvílu, og þangað til dymmir getið þið haft unun af að skoða garðinn, því hann er mæta fagur.“ „Eigið þjer garðinn?“ segir Núreddín. „Víst á eg hann,“ svaraði Íbrahim. „Komið nú inn, þið munuð ekki sjá eptir því.“

Stóð Núreddín nú upp og þakkaði Íbrahim góðvilja hans; lokaði Íbrahim hliðinu og gengu þau hjónin inní garðinn með honum. Fylgdi hann þeim á einn víðsýnan stað í garðinum, mátti þaðan í einu sjá yfir fyrirkomulag og fegurð hans. Þekkti Núreddín marga fagra lystigarða í Balsora, en engan hafði hann

sjeð, er jafnast gæti við þenna. En er hann hafði skoðazt um í garðinum og gengið gegnum trjáganga nokkra. spurði hann Íbrahim, hvað garðurinn hjeti. En er hann hafði sagt honum það, mælti hann: „Eg get ekki annað sagt, Íbrahim! enn að þetta sje dýrðlegur garður; guð láti yður lifa í honum lengi og vel! Fáum við ekki fullþakkað góðsemi yðar. að þjer lofuðuð okkur að sjá svo fagran stað; það er því sanngjarnt. að við vottum yður þakklátsemi okkar. Takið nú við þessum tveimur gullpeningum; útvegið okkur eitthvað til að snæða fyrir þá, svo að við getum glatt okkur saman.“ Brosti Íbrahim í kamp sjer. er hann fjekk gullið. því gull þókti honum málma bezt. Fór hann síðan að annast það, er hann var beðinn fyrir og er enginn heyrði, segir hann hróðugur við sjálfan sig: „Þetta er vænsta fólk; það hefði verið mjer mesti skaði, ef eg hefði barið þau eða rekið þau út. Skal eg veita þeim svo vel fyrir tíunda part peninga þessara, að konungi mætti sæma, en hitt ætla eg sjálfum mjer í ómaks laun.“ Meðan hann var að kaupa til kvöldverðarins handa sjer og hjónunum, gengu þau sjer til skemmtunar í garðinum og bar þau þá að salnum stóra, er stóð í honum miðjum. Undruðust þau byggingarlag hans, hæð hans og stærð og er þau höfðu gengið allt umhverfis hann, gengu þau upp eptir hvítum marmara tröppum að dyrunum, en þeim var lokað. Gekk Núreddín þá niður aptur með Persameynni fögru, en í sama bili kom Íbrahim aptur, klyfjaður matföngum. Kallaði Núreddín til hans og sagði: „Sögðuð þjer ekki að þjer ættuð þenna lystigarð?“ „Það sagði eg,“ svaraði Íbrahim. „og það segi eg enn, en því spyrjið þjer mig að því?“ „Eigið þjer þá líka salinn fagra?“ segir Núreddín. Kom spurning þessi flatt upp á Íbrahim og var því einsog vöflur kæmu á hann. Hugsaði hann með sjer, að ef hann segði nei, mundu þau spyrja sig, hvernig á því stæði, að hann ætti garðinn. en ekki salinn, en hann vildi ekki verða tvísaga um það, að hann ætti garðinn. Svaraði hann því: „Sonur kær! salurinn verður ekki skilinn frá garðinum, og á eg hvorttveggja.“ Þá mælti Núreddín: „Úr því þjer eigið salinn, og viljið veita okkur beina í nótt, munuð þjer ekki synja okkur þeirrar ánægju að sjá hann innan. Mun hann vera frábærlega skrautlegur, ef hin innri prýði samsvarar hinni ytri.“

Nú var svo komið að það mundi hafa verið ókurteisi að synja þess, er Núreddín beiddi, enda var Íbrahim engin vitneskja gjör um það, að kalífinn mundi koma, en hann var vanalega látinn vita, þegar hans var von; hjelt hann því, að hann mundi geta borðað þar kvöldverð í makindum með gestum sínum. Setti hann því matinn, sem hann bar, á neðstu tröppuna og fór heim í hús sitt að sækja lykilinn. Kom hann aptur með lykil og ljós og er Núreddín og Persamærin fagra komu inní salinn fjellu þau svo í stafi, að þau ætluðu aldrei að geta þreytzt á að undrast hina ljómandi prýði og fegurð, sem þar var að sjá. Hugsaði Núreddín þá með trega til hinna liðnu stunda, er hann lifði í dýrð og vegsemd. Bjó Íbrahim nú til kvöldverðar á borði einu, er stóð fyrir framan legubekk, og er allt var tilbúið settust þau þrjú saman í legubekkinn og borðuðu. En er þau höfðu matazt og þvegið hendur sínar, lauk Núreddín upp glugga einum og beiddi Persameyna fögru að koma til sín, því útsjón væri fögur og garðurinn inndæll yfir að líta í tunglsskininu. Gekk hún þá til hans og höfðu þau bæði unun af þessari dýrðlegu sjón meðan Íbrahim var að bera af borði. En er hann var búinn að því, kom hann aptur til gesta sinna, spurði Núreddín hann, hvort hann ekki gæti gefið þeim nokkuð að drekka. „Hvað viljið þið drekka?“ spurði Íbrahim, „viljið þið svaladrykk? eg hef hann ágætan, en það er ekki siður manna að neyta hans eptir kvöldverð.“ „Veit eg það,“ ansaði Núreddín, „enda var mjer annar drykkur í hug; það gengur yfir mig, að þjer skylduð ekki skilja mig.“ „Þjer eigið þá við vín,“ segir Íbrahim. „Þar gátuð þjer í kollinn,“ mælti Núreddín, „og ef þjer skylduð hafa nokkuð af víni, þá gerið svo vel og látið okkur fá eina flösku. Þjer munuð vita að menn drekka það eptir kvöldverð til að stytta sjer stundir þangað til þeir fara að hátta.“ „Maður guðs og lifandi!“ segir Íbrahim. „skyldi eg hafa vín í húsum mínum eða koma nokkurstaðar nálægt þarsem vín er! Eg hef farið fjórar pílagrímsferðir til Mekka og svarið mig um að bragða ekki vín æfilangt, því spámaðurinn bölfaði þeim, sem byggju það til, bæru það eða drykkju.“ „En þjer gerðuð okkur mikinn greiða,“ tók Núreddín aptur til máls, „ef þjer útveguðuð okkur dálítið af víni; og ef þjer sjáið ekkert

ráð, þá skal eg segja yður, hvernig þjer skuluð fara að, svo að þjer hvorki þurfið að búa vínið til, bera það nje drekka, og bitnar þá ekki formælingin á yður.“ „Nei! nei!“ segir karlinn, „látið mig heyra!“ og mælti þá Núreddín ennfremur: „Við sáum asna tjóðraðan nálægt garðshliðinu og þykir mjer líklegt, að þjer hafið hann til notkunar. Takið nú við þessum tveimur gullpeningum, látið burðarkörfina uppá asnann og farið með hann til næsta veitingahúss, þurfið þjer ekki að koma nær því enn yður lízt. Skuluð þjer þá gefa einhverjum, sem framhjá gengur lítilræði til að teyma asnann alla leið að húsinu, skuluð þjer og fá honum peninga til að kaupa tvær krukkur víns, láti hann þær svo ofaní körfina og teymi asnann til yðar aptur. Rekið þjer svo asnann hingað á undan yður, en við skulum sjálf taka krukkurnar úr körfinni; munuð þjer þannig komast hjá að gera nokkuð það, sem yður getur þókt ísjárvert.“ Fannst Íbrahim mikið um, er hann fjekk tvo gullpeninga á ný og mælti: „En hvað þjer eruð sjeður, sonur kær! án yðar mundi eg aldrei hafa fundið ráð til að útvega vínið svo að samvizka mín ekki ofþyngdist.“ Að svo mæltu gekk hann burt og kom fljótt aptur með asnann klyfjaðan víni, tók Núreddín krukkurnar ofan og bar þær inní salinn, en Íbrahim teymdi asnann burt. En er hann kom aptur mælti Núreddín: „Við getum ekki nógsamlega þakkað yður fyrir ómak það, er þjer hafið haft okkar vegna, og þó vantar nokkuð enn.“ „Hvað er það?“ spurði karlinn, „hvað get eg gert ykkur til vilja frekara?“ „Okkur vantar drykkjarskálir,“ ansaði Núreddín, „og ef þjer skylduð hafa nokkur aldin fyrir hendi, mundu þau koma sjer vel.“ „Segið þjer bara til,“ mælti Íbrahim, „og skal yður þá ekkert skorta, sem þjer viljið hafa;“ gekk hann þá út og kom skjótt aptur og bar á borð eitt fagrar postulíns skálar fullar af allskonar aldinum, ásamt drykkjar skálum úr gulli og silfri. Spurði hann, hvort þau þyrftu nokkurs meira og gekk síðan út, en ekki fjekkst af honum að vera þar inni, þó þau þrábændu hann. Settust þau þá tvö ein til borðs, Núreddín og Persamærin fagra, bergðu þau fyrst á víninu og var það ágætt. „Erum við ekki allra manna sælust í heimi,“ mælti Núreddín, „að við skyldum hitta á svo fagran stað af tilviljun einni? Gleðjum okkur nú og hressum eptir sjóferðina. Get eg

verið sælli enn nú, þarsem eg hef þig á aðra hönd mjer en fleytifulla vínskál á hina?“ Drukku þau nú og skemmtu sjer feginshugar, sungu þau og kvæði á víxl. Höfðu þau bæði hina fegurstu söngrödd, en þó einkum Persamærin fagra, og ginntist Íbrahim þangað aptur af söng hennar; hlýddi hann lengi á þau, en ljet ekki sjá sig. Rak hann loksins höfuðið inn í dyrnar og kallaði til Núreddíns, sem hann hugði vera kenndan: „það líkar mjer, herra! mjer þykir vænt um að sjá yður svo kátan.“ „Íbrahim!“ ansaði Núreddín og snjeri sjer að honum, „mikið gull af manni eruð þjer og mikið eigum við yður að þakka. Við dirfumst ekki að neyða yður til að drekka, en komið samt inn og sýnið okkur þá sæmd að vera hjá okkur.“ „Haldið þið bara áfram,“ sagði Íbrahim, „eg læt mjer nægja þá unun, að heyra ykkur syngja með svo fagri rödd,“ og gekk hann síðan burt. En Persamærin fagra tók eptir því, að hann nam staðar efst á tröppustiganum og sagði hún Núreddín frá því. „Svo mikla óbeit sem hann hefur á víni,“ mælti hún, „efast eg samt ekki um, að mjer muni takast að koma honum til að drekka, ef þú vilt fara eins að og eg legg fyrir.“ „Og hvað á eg að gera?“ segir Núreddín, „seg þú til, eg er búinn til hvers sem vera skal.“ Þá mælti hún: „Fá þú hann til að koma og vera kyrran hjá okkur, skaltu síðan hella á skálina og rjetta honum. Vilji hann ekki drekka, skalt þú drekka og láta síðan einsog þú sofnir; láttu mig svo sjá fyrir því, sem á vantar.“ Skildi Núreddín undireins, hvað hún hafði í huga og kallaði á Íbrahim; kom hann þá aptur að dyrunum. „Við erum gestir yðar, Íbrahim!“ mælti Núreddín og hafið þjer fagnað oss með frábærri góðfýsi og alúð. Hvernig getið þjer nú synjað okkur þess, sem við biðjum yður, að sýna okkur þá sæmd að vera hjá okkur. Við krefjumst þess ekki einusinni, að þjer drekkið, heldur að eins, að þjer unnið okkur þeirrar ánægju að horfa á yður.“ Ljet þá Íbrahim til leiðast að fara inn og settist yzt á legubekkinn næst dyrunum. „Þarna hafið þjer ekki gott sæti,“ mælti Núreddín, „og okkur veitist ekki einusinni sú sæmd að sjá yður. Gerið það fyrir mig að færa yður nær, tyllið þjer yður niður hjá konu minni, henni mun ekki þykja margt að því.“

„Eg skal gera einsog þjer viljið,“ svaraði Íbrahim brosandi af

feginleik, er hann fjekk að koma svo nálægt slíkri blómarós, og settist hann niður svo að skammt var á milli þeirra. Beiddi Núreddín hana þá að syngja eitthvað, fyrst Íbrahim sýndi þeim slíka sæmd, gerði hún það og ljek karlinn við hvern sinn fingur. En er hún var þögnuð, hellti Núreddín víni í eina skálina og rjetti Íbrahim hana svo mælandi: „Gerið það fyrir mig Íbrahim! drekkið nú minni okkar.“ „Herra!“ svaraði hann og hrökk aptur á bak einsog hann hryllti við að sjá vínið, „eg ætla að biðja yður að hafa mig afsakaðan. Hef eg ekki sagt yður, að eg fyrir löngu hef svarið að bergja aldrei á víni?“ þá mælti Núreddín: „þó þjer með engu móti viljið drekka okkar minni, munuð þjer samt leyfa mjer að drekka yðar minni.“

Meðan Núreddín drakk, skar Persamærin fagra epli eitt í sundur, rjetti Íbrahim annan helfinginn og mælti: „þjer vilduð ekki drekka, en þjer munuð samt ekki færast undan að smakka á þessu ágæta epli.“ Var honum nú ómögulegt annað enn að þiggja það, er svo fögur hönd bauð honum, hneigði hann sig því, tók við eplishelfingnum og lagði sjer til munns. Sló hún honum gullhamra um leið, en Núreddín hallaði sjer aptur á meðan og ljet einsog hann sofnaði. þokaði hún sjer þá nær Íbrahim og sagði við hann í hljóði: „Sjáið þjer nú, svona fer hann að í hvert skipti sem við skemmtum okkur saman. Óðara enn hann hefur tæmt tvær fullar skálir, sofnar hann og lætur mig eina. En eg vona að þjer skemmtið mjer meðan hann sefur.“ Hellti hún þvínæst víni á skál og rjetti karlinum með frábærum yndisþokka. „Drekkið nú minni mitt,“ mælti hún, „eg skal ekki svíkjast um að drekka yður til.“ Taldi Íbrahim öll tormerki á því og sárbændi hana að hlífa sjer við því, en hún lagði svo fast að honum og sigraði hann með orðum sínum og yndisleik, svo að hann tæmdi loksins skálina. Satt að segja þókti karltetrinu gott að fá sjer í staupinu, en hann fyrirvarð sig að láta ókunnuga sjá það til sín. Gekk hann á laun í vínsöluhús einsog margir aðrir, og það var öðru nær enn að hann færi að ráðum Núreddíns, heldur gekk hann rakleiðis til vínsölumanns eins, sem hann var gagnkunnugur. Skýldi náttmyrkrið honum og tókst honum fyrir þá sök að spara fje það, er hann hefði orðið

greiða öðrum fyrir að umgangast kaupin, ef hann hefði hlýðnazt ráði Núreddíns.

Meðan hann nú var að tyggja eplishelfinginn, hellti Persamærin fagra aptur víni á skálina og tók Íbrahim við henni með minni tregðu enn í fyrra skiptið; þriðju skálina drakk hann umtalslaust og sömuleiðis hina fjórðu, en þá ljet Núreddín einsog hann vaknaði. Reis hann upp og horfði á karlinn hlægjandi. „Nú eruð þjer staðinn að víndrykkju, Íbrahim,“ mælti hann, „og þjer ljetuzt þó hafa svarið, að bergja aldrei á víni, mjer sýnist yður þykja það gott.“ Kom þetta flatt uppá Íbrahim og roðnaði hann við, en allt fyrir það vílaði hann ekki fyrir sjer að renna út skálina. Segir hann þvínæst hlægjandi: „Herra! hafi eg syndgað með þessu, þá lendir sú sök á konu yðar, því hver getur staðizt slíkan yndisleik.“ Persamærin fagra mælti Íbrahim bót og segir við Núreddín: „Herra styggðu ekki hann Íbrahim, en drekktu heldur og skemmtu þjer.“ Rjetti hún honum þá fulla skál og eins rjetti hann henni aptur fulla skál. Þetta gerðu þau tvívegis sín á milli, en helltu ekki á fyrir Íbrahim, rak hann þá upp stór augu og sagði: „Hvað á þetta að þýða! því fæ eg ekki meira, fyrst eg er orðinn drykkju bróðir ykkar?“ Hlóu þau þá dátt og helltu líka á skálina fyrir hann; drukku þau þannig og gömnuðu sjer þangaðtil komið var miðnætti.

Þá tók Persamærin fagra eptir því, að ekki logaði nema eitt ljós á borðinu og segir hún því: „Íbrahim! þjer hafið ekki fært okkur nema eitt ljós og er þó nóg af þeim hjerna í salnum. Gerið nú svo vel og kveikið á þeim líka, svo að hjer verði bjartara.“ Sat Íbrahim þá á tali við Núreddín; vildi hann eigi fella niður samtalið og svaraði ódeiglega, einsog drukknum mönnum er títt: „Kveikið þjer þá á þeim sjálfar, þjer eruð yngri og ljettari á fæti enn eg; en kveikið ekki nema svo sem á fimm eða sex, það nægir; — eg veit hvað eg fer.“

Sókti þá Persamærin fagra kerti eitt og kveikti á því, kveikti hún síðan með því á öllum hinum áttatíu kertum og skeytti alls ekki orðum karlsins. Skömmu seinna, er Íbrahim var að tala við hana, biður Núreddín hann að kveikja líka á nokkrum lömpum. Tók þá Íbrahim ekki eptir því, að ljós logaði í hverri kertispípu

og svaraði hann: „Þjer munuð vera heldur enn ekki latur eða þjer eruð það linari enn eg, að þjer skulið ekki geta það sjálfur. Farið og kveikið þá á fáeinum, en ekki á fleirum enn þremur.“ Allt fyrir það tendraði Núreddín alla hina áttatíu lampa og lauk upp hinum áttatíu gluggum, gaf Íbrahim ekki gætur að því, því hann var engu sinnandi meðan hann var að tala við Persameyna fögru.

Í það mund sat kalífinn, þó frammorðið væri, við glugga einn í höll sinni og horfði yfir Tígrisfljótið í tunglsskininu, þangað, er Gleðihöllin var. Undraðist hann mjög, er hann sá höllina lýsast upp í einum svip og ljet undireins kalla til sín Gíafar stórvezír, sem nú var að vona, að kalífinn þá og þegar mundi ganga til hvílu, svo að sjer leyfðist að fara heim. Kom Gíafar að vörmu spori og segir kalífinn með þjósti: „Óhræsis vezír! þjónar þú mjer svona, að þú ekki einusinni lætur mig vita, hvað gerist í Bagdad?“ „Hvað veldur því, herra! að þjer mælið svo?“ ansaði Gíafar. Segir kalífinn þá: „Ætti eg Bagdad ennþá, mundi Gleðihöllin ekki vera upplýst nje gluggar hennar standa opnir. Vei þjer! Hver vogar slíkt meðan eg er kalífi? Komdu hingað og sjáðu.“

Varð vezírinn hræddur um, að svo kynni að vera og leit titrandi útum gluggann, sá hann þá að kalífinn sagði satt. Hugsaði hann sjer að bera eitthvað fyrir svo að kalífinn mætti sefast. „Drottinn rjetttrúaðra manna!“ mælti hann, „eg get enga grein gert yðar hátign fyrir þessu aðra enn þá, að Íbrahim kom til mín fyrir nokkrum dögum síðan og kvaðst ætla að bjóða klerkunum við það musteri, sem hann sækir, til hátíðar einnar, er hann hugði gott til að halda undir yðar heillavænlegu ríkisstjórn. En er eg spurði hann, hvað eg gæti greitt fyrir honum í þessu efni, þá beiddi hann mig að spyrja yðar hátign leyfis, hvort hann mætti nota Gleðihöllina til hátíðarhalds þessa. Leyfði eg honum það og lofaði að segja yðar hátign frá því, bið eg yður fyrirgefa mjer, að eg hef gleymt því. Hefur Íbrahim að líkindum haldið hátíð sína í dag, og ætlað að skemmta þeim með ljósa prýðinni.“

Rann þá kalífanum nokkuð reiðin og tók hann þannig til máls: „Eptir því sem þjer segist, Gíafar! hefur þjer þrennt yfirsjezt. Í fyrsta lagi leyfðir þú Íbrahim að nota salinn, en einfaldur umsjónarmaður er ekki í svo háum veg, að slík sæmd megi hæfa

honum. Í öðru lagi hefir þú ekki minnzt einu orði á þetta við mig og í þriðja lagi hefur þú alls ekki skilið, til hvers hinn góði öldungur ætlaðist. Eg geng að því vísu, að hann hefur í raun og veru ekki farið annars á leit enn að fá fjestyrk til að halda hátíð þessa. Hefur þú ekki hugsað eptir því og misvirði eg ekki við hann, þó hann lýsi upp salinn til hefnda fyrir það, að hann var látinn fara burt tómhentur.“

Varð stórvezírinn feginn er hann sá að kalífinn tók þannig í málið og játaði fúslega að sjer hefði það á orðið, sem kalífinn bar honum á brýn, og að það hefði verið rangt af sjer að gefa ekki Íbrahim nokkra gullpeninga. Tók kalífinn þá aptur til máls og sagði brosandi: „Fyrst að svo er, verður þú að taka refsingu fyrir ávirðingar þínar, en ljettbær skal refsingin verða. En hún er sú, að þú skalt vaka með mjer í alla nótt innanum þessa góðu menn, því mig langar til að sjá þá. Meðan eg nú bý mig í borgara búning, skuluð hið Mesrúr gera slíkt hið sama og koma svo báðir með mjer.“ Ætlaði Gíafar að leiða kalífanum fyrir sjónir, að nú væri þegar frammorðið og mundi samsætinu slitið þegar þeir kæmu, en kalífinn sagðist fyrir hvern mun vilja fara. Örvænti nú vezírinn útaf þessari ætlun kalífans, því engin tilhæfa var í því, er hann hafði borið í vænginn; en honum tjáði ekki annað enn að hlýða mótmælalaust.

Nú gengu þeir kalífinn, stórvezírinn og Mesrúr, höfuðsmaður geldinganna til garðsins; hafði Íbrahim gleymzt að loka hliðinu þá er hann kom frá vínkaupunum. „Hverju gegnir það, að hliðið stendur opið þegar svo er áliðið?“ segir kalífinn við Gíafar heldur stygglega, „ætli hann Íbrahim sje vanur að láta það vera opið á hverri nótt? En eg ætla heldur að hafa fyrir satt, að það hafi verið svo mikið fát á honum útaf hátíðahaldinu, að hann hafi gleymt því.“ En er hann var kominn rjett að salnum, spurði hann stórvezírinn, hvort ekki mundi ráð að klifrast upp í trje eitt, er nærri stóð, og sjá þaðan það, sem fram færi í salnum, því það vildi hann vita áðurenn hann færi inn. Vakti Gíafar athuga hans á því, að salardyrnar voru opnar í hálfa gátt, gekk þá kalífinn upp að þeim hljóðlega og gat þar sjeð inní salinn, án þess nokkur sæji hann. Gekk það fram af honum, er hann sá konu óviðjafn-

anlega fagra, einhvern hinn fríðasta ungling, og Íbrahim sitja saman til borðs. Sat Íbrahim nú með fulla skál í hendi og sagði við Persameyna fögru: „Góður drykkjumaður má aldrei drekka, svo að hann ekki syngi vísu áður. Gerið mjer nú þá sæmd að hlýða á mig, meðan eg fer með einhverja hina fallegustu drykkjuvísu.“ Þvínæst söng hann vísuna; en er kalífinn sá þetta athæfi til Íbrahíms, sem hann ætíð hafði haldið vera ráðsettan mann og sízt grunað um víndrykkju, þá þrútnaði æð milli augna honum af reiði. Gekk hann aptur gætilega ofan til Gíafars, er stóð nokkrum tröppum neðar og mælti: „Aldrei hef eg sjeð guðhrædda menn hegða sjer eins aðdáanlega og í nótt. Gakktu upp og horfðu á það, svo þú missir ekki blessunarinnar.“ Var þetta sagt í þeim tón, að Gíafar skildi glöggt, að illa áhorfðist, en er hann gat að líta samsætið í salnum tók hann að skjálfa af hræðslu. Kom hann aptur til kalífans utan við sig af ótta og gat engu orði upp komið. „Mikil óregla er það,“ mælti kalífinn, „að nokkur skuli dirfast að skemmta sjer í garðinum mínum og salnum; og svo kveður rammt að, að Íbrahim hleypir þeim inn, líður þeim það, og skemmtir sjer með þeim. Hvað sem því líður, held eg að eg hafi aldrei sjeð fríðari mann og konu saman, og vil eg komast eptir, hver og hvaðan þau eru, áðurenn eg læt reiði mína á dynja.“ Að því mæltu gekk hann aptur til dyranna til að sjá, hvað fram færi og fylgdi vezírinn honum og stóð að baki honum. Heyrðu þeir nú báðir Íbrahim spyrja Persameyna fögru, hvort hún æskti nokkurs, er auka mætti á kvöldskemmtun þessa. Svaraði hún þá: „Eg held mjer þækti einskis á vant, ef þjer hefðuð hljóðfæri hjá yður, sem eg kynni að leika á.“

„Kunnið þjer að leika á fiðlu, fagra frú!“ mælti Íbrahim, og er hún sagði já til þess, sókti hann óðara fiðlu úr skáp einum, og rjetti henni. Í því hún tók að stilla hana, vatt kalífinn sjer að Gíafar og mælti: „Viti það himin, að ef hún leikur vel, skal eg fyrirgefa henni og hinum unga manni, en þig læt og fortakslaust hengja.“ „Drottinn rjetttrúaðra manna,“ ansaði Gíafar, „þá óska eg hún leiki illa.“ „Hvers vegna þá?“ spurði kalífinn. „Eigi eg að verða hengdur,“ svaraði vezírinn, „þá þækti mjer bezt að fara ekki einsamall.“

Kalífinn hafði gaman af findni og hló hann að svari þessu, vjek hann sjer þá aptur að dyrunum og hlýddi á strengslátt Persameyjarinnar fögru, var það undireins auðheyrt er hún byrjaði að leika, að hún kunni prýðilega á hljóðfæri þetta. Söng hún þvínæst kvæði með hinni fegurstu rödd og flutti það með slíkri list og fegurð, að kalífinn varð frá sjer numinn. En er hún hafði sungið það til enda og var þögnuð, gekk hann ofan tröppurnar með Gíafar og sagði við hann: „Aldrei á æfi minni hef eg heyrt fegri rödd eða betur leikið á fiðlu. Fyrr hef eg haldið, að hann Ísak væri beztur fiðluleikari í heimi, en hann kemst ekki í hálfkvisti við hana. Mjer þækti gaman að fara inn og heyra hana nálægt, en eptir er að vita, hvernig eg á að fara að því." „Drottinn rjetttrúaðra manna!" ansaði Gíafar, „ef þjer farið inn og Íbrahim þekkir yður, mun hann deyja af hræðslu." „það er eg líka hræddur um," mælti kalífinn, „og þækti mjer illt að valda dauða hans, eptir að hann hefur þjónað mjer svo lengi. En nú dettur mjer nokkuð í hug, sem eg ætla muni duga. Vertu hjer kyrr með honum Mesrúr og bíðið þið mín í næsta trjágangi." Að svo mæltu skildi kalífinn við þá og gekk ofan að vatnsþró einni múrveggjaðri; var vatninu veitt í hana úr Tígrisfljótinu, og höfðu margir hinir fegurstu fiskar leitað upp í hana. Var fiskimönnum kunnugt um það og mundu þeir fegnir hafa viljað veiða þar, en kalífinn hafði skýlaust tekið það fram við Íbrahim, að hann mætti engum hleypa þangað. Nú hafði svo viljað til á þessari nótt, að fiskimanni nokkrum varð gengið framhjá garðshliðinu, eptir að kalífinn var kominn inn. Hafði kalífinn gengið frá því ólæstu einsog það var, og sá fiskimaðurinn sig þá ekki úr færi; læddist hann inn í garðinn og að vatnsþrónni, og kastaði þar út neti sínu, en sem hann ætlaði að draga það á land kom kalífinn að honum. Hafði kalífann grunað, að slíkt mundi hljótast af hirðuleysi Íbrahims og ætlaði nú að láta það koma sjer í góðar þarfir. þekkti fiskimaður kalífann undireins, þó hann væri í dularbúningi, og fleygði sjer fram fyrir fætur honum, beiddi hann fyrirgefningar og hafði fátækt sína sjer til afsökunar. Sagði kalífinn honum að standa upp og bað hann vera óhræddan og draga net sitt á land til að sjá, hvaða fiskar í því væru. Fór þá

hræðslan af fiskimanni og gerði hann sem kalífinn bauð; voru fimm eða sex fagrir fiskar í netinu og valdi kalífinn úr tvo hina stærstu; ljet hann fiskimann draga tág í gegnum höfuð þeirra og knýta hana saman; þvínæst skipaði hann honum að hafa fata skipti við sig. En er kalífinn var búinn sem fiskimaður frá hvirfli til ilja segir hann við fiskimanninn: „Tak net þitt og far til starfa þinna;“ gekk fiskimaður þá feginn burt. En kalífinn tók fiskana, snjeri aptur til þeirra Gíafars og Mesrúrs og staðnæmdist frammi fyrir þeim. Þekkti Gíafar hann ekki og mælti: „Hvað vilt þú? ætlarðu ekki að snauta burt!“ Þá hló kalífinn og sá vezírinn þá fyrst, hver kominn var. „Drottinn rjetttrúaðra manna!“ mælti hann, „á eg að trúa því? eruð þjer það? eg þekkti yður ekki, og bið eg yður mikillega fyrirgefningar. Nú er yðar hátign óhætt, að fara inn í salinn og þurfið þjer ekki að kvíða því, að Íbrahim muni þekkja yður.“

„Verið þá kyrrir hjer meðan eg reyni, hvernig mjer tekst,“ mælti kalífinn, gekk hann þá upp tröppurnar og drap á dyr. Heyrði Núreddín það fyrstur og sagði Íbrahim til, en hann spurði, hver kominn væri. Gekk kalífinn inní salinn, og staðnæmdist rjett við dyrnar. „Íbrahim!“ sagði hann, „eg er Kerim fiskimaður. Af því eg varð var við, að þjer veittuð gestum og með því svo hittist á, að eg rjett í þessu veiddi tvo afbragðs fallega fiska, ætla eg nú að spyrja yður, hvort þjer ekki hafið þeirra þörf.“ Núreddín og Persameynni fögru þókti fiskur ákaflega góður og undireins og þau heyrðu talað um fisk, beiddu þau Núreddín að láta manninn koma nær og sýna fiskana.

Nú var svo komið fyrir Íbrahim, að hann mundi lítt spyrja, hvaðan eða hvernig fiskimaður væri kominn þangað, hafði hann allan hugann á því, að verða Persameynni fögru að skapi. Vjek hann höfði sínu vínhöfgu að dyrunum og segir með drafandi tungutaki við fiskimann: „Komdu nær næturþjófur minn! komdu nær og lofaðu okkur að sjá þig.“ Gerði kalífinn það og ljet sem líkast fiskimönnum og sýndi fiskana. „Þetta eru gullfallegir fiskar,“ mælti Persamærin fagra, „eg vildi fegin snæða þá, ef þeir bara væru soðnir og vel tilreiddir.“ „Það veit hamingjan, þjer segið satt,“ sagði Íbrahim, „hvað eigum við að gera við fiskana

þína ósoðna? farðu heldur og matreiddu þá sjálfur fyrir okkur, þú munt finna allt, sem til þess þarf, í eldhúsinu mínu.“

„Eg skal gera einsog þjer segið,“ ansaði kalífinn og gekk út, sagði hann Gíafar að allt hefði farið vel, og vildu þau nú, að hann skyldi sjóða fiskana og tilreiða þá. Bauðst vezírinn þá undireins til þess, en kalífinn sagði: „Mjer er svo mikið um þetta hugað, að eg vil feginn taka fyrirhöfnina uppá sjálfan mig. Fyrst eg leik fiskimanninn svo vel, þá get eg líklega leikið matsveininn. þeir voru tímarnir þegar eg var ungur, að eg fjekkst við matreiðslu og fór mjer það ekki óhönduglega.“ Gekk hann þvínæst heim í hús Íbrahíms með þeim Gíafar og Mesrúr. Hjálpuðust þeir nú allir að, og með því þeir fundu allt í eldhúsinu, sem á þurfti að halda, urðu þeir fljótt búnir að tilreiða matinn, og bar kalífinn hann á borð. Lagði hann og þrjár sítrónur á borðið, sína handa hverju, svo þau gættu neytt þeirra ef þau lysti; borðuðu þau nú öll með góðri lyst, einkum þó Núreddín og Persamærin fagra, en kalífinn stóð frammi fyrir þeim. En er þau höfðu matazt, þvoðu þau hendur sínar og sagði Núreddín þá: „Fiskimaður! betri fiska getur enginn etið og ekki gaztu glatt okkur með öðru meira enn þessu.“ „Eigðu þetta,“ mælti hann og rjetti honum um leið pyngju sína, voru í henni eptirstöðvarnar af hinum fimmtíu gullpeningum, sem Sandschar í Balsora hafði gefið honum, „eg skyldi gefa þjer meira ef eg ætti. Hefði eg þekkt þig áðurenn eg sólundaði föðurarfi mínum, skyldi eg hafa sjeð svo um, að örbyrgðin ekki amaði að þjer. En taktu nú við þessu lítilræði eins vingjarnlega, og þú mundir hafa þegið stærri gjöf.“

þakkaði kalífinn honum og tók við pyngjunni, og er hann sá að gull var í henni, mælti hann: „Herra! eg get ekki nógsamlega þakkað rausn yðra. Sæll er hver, sem á við svo góða menn að skipta, sem þjer eruð. En áðurenn eg fer, hef eg einnar bænar að biðja yður. Eg sje þarna fiðlu og ræð eg af því, að hin náðuga frú muni kunna að leika á hana; æ! ef þjer gætuð fengið hana til að leika eitt lag, þá færi eg manna sælastur heim til mín. Eg hef ákaflega miklar mætur á því hljóðfæri.“ Tók þá Persamærin fagra fiðluna eptir tilmælum Núreddíns, stillti strengina, ljek á hana og söng. þvínæst ljek hún án söngs og er hún hætti

var kalífinn frá sjer numinn af undrun, og mælti: „Ó hvílík rödd! hvílík hönd! hversu prýðilega leikur hún! Hefur nokkurntíma heyrzt betur sungið eða betur leikið á fiðlu? Slíks eru ekki dæmi.“ „Þókti þjer svo, fiskimaður!“ ansaði Núreddín, „geðjaðist þjer að henni og hinum lipra strengjaslætti hennar?“ „Já, það veit guð minn!“ sagði kalífinn. Fór Núreddín þá fram uppteknum hætti sínum, að gefa burt allt það, sem aðrir lofuðu af eigum hans, og mælti: „Eg gef þjer hana þá. Þiggðu hana einsog gjöf af stórlyndum manni, sem aldrei gengur á bak orða sinna.“ Að svo mæltu stóð hann upp, og tók skikkju sína, er hann hafði lagt frá sjer, ætlaði hann þá að fara burt og skilja Persameyna fögru eptir hjá fiskimanninum.

Var hún nú hissa á slíku örlæti, og hjelt Núreddín aptur, renndi augunum til hans með viðkvæmni og mælti: „Herra! hvert ætlar þú að fara? seztu í sæti þitt og hlýddu á það, sem eg ætla að leika og syngja.“ Ljet Núreddín að orðum hennar, en hún leit til hans með tárin í augunum, ljek á fiðluna og söng vísur af munni fram, var það efni þeirra, að hún veitti honum þungar átölur fyrir ástarleysi hans, þarsem hann gat verið svo lauslyndur og harðbrjósta, að gefa Kerim fiskimanni hana Átti hún við það, að Kerim var lítilsháttar fiskimaður, því hún hafði engan grun af, að hann væri kalífi. En loksins lagði hún hljóðfærið frá sjer og hjelt klút fyrir andliti sjer, grátandi. Núreddín ansaði ekki þessum átölum hennar einu orði og virtist ráða mega af þögn hans, að hann ekki sæji eptir gjöfinni.

Kalífinn furðaði sig mjög á þessu og mælti: „Herra! þessi fríða, aðdáanlega kona, sem þjer gáfuð mjer af stórmennsku yðar, er þá ambátt yðar?“ „Svo er víst, Kerim!“ ansaði Núreddín, „en svo mjög sem þetta gengur yfir þig, þá mundir þú samt undrast meir, ef eg segði þjer frá allri þeirri óhamingju, sem eg hef í ratað hennar vegna.“ „Æ herra!“ mælti kalífinn, „gerið það fyrir mig og segið mjer sögu yðar;“ ljek hann enn sem fyrri fiskimann og fór honum það mæta vel. Hafði Núreddín veitt honum það, sem meira var og varð hann nú einnig við þessari bæn hans. Sagði hann honum þvínæst alla sögu sína allt frá þeim degi, er Khakan vezír keypti Persameyna fögru handa

konunginum í Balsora, og fram á þessa stund, og undanfelldi ekki hið minnsta. En er hann hafði lokið sögu sinni spurði kalífinn, hvert hann ætlaði nú að halda, og svaraði Núreddín: „þangað sem guð leiðir mig.“

„Ef þjer viljið láta að mínum orðum,“ mælti kalífinn, „þá skuluð þjer ekki lengra fara, heldur snúa þegar heim aptur til Balsora. Eg skal fá yður brjef meðferðis til konungsins og munuð þjer sanna, að hann fagnar yður vel, þegar hann er búinn að lesa það, og mun þá enginn leggja neitt til yðar.“ það sagði Núreddín sjer þykja kátlegt og kvað það óheyrt, að slíkur fiskimaður, sem Kerim væri, skrifaðist á við konung. En kalífinn sagði, að hann skyldi eigi furða sig á því, því þeir hefðu gengið í skóla hjá sama kennara og verið mestu mátar; reyndar hefði hamingjan gert hinn að konungi, þarsem guð ljet hann verða fiskimann, og ekki komast hærra, en sá gæfumunur hefði alls ekki dregið sundur með þeim; hefði konungur endilega viljað hefja sig til metorða, en hann kvaðst ekki hafa beiðzt meira enn þess, að sjer mætti aldrei verða synjað um neitt það, er hann beiddi vinum sínum til handa. „Látið mig ráða því,“ mælti hann að endingu, „þjer munuð fljótt sjá að vel bregður við.“

Tók Núreddín þá boði hans og með því öll skriffóng voru fyrir hendi, ritaði kalífinn brjef til konungsins í Balsora; skrifaði hann ofanmáls á það með smáu letri: „Í nafni guðs hins miskunsama,“ til þess að gefa í skyn með því, að hann vænti umtalslausrar hlýðni, en brjefið var svolátandi: „Harun Alraschyd, sonur Mahdis, sendir brjef þetta til Móhammeds Seynis sonar, frænda síns. Jafnskjótt sem Núreddín sonur Khakans vezírs, hefur afhent þjer brjef þetta og þú lesið það, skaltu taka af þjer konungs möttulinn, láta hann íklæðast honum og setjast í hásæti þitt. Lifðu vel!“

Kalífinn braut brjef þetta saman og innsiglaði það, en sagði Núreddín alls ekki frá efni þess. þvínæst fjekk hann honum það og mælti: „Takið nú við því og fáið yður far með skipi einu, er bráðum mun leggja á stað — það er vant að fara eitt skip daglega á sama tíma; þjer getið sofið á skipinu.“ Tók Núreddín við brjefinu, stakk því í túrban sinn og fór á burt með það litla fje,

er hann hafði átt áðurenn Sandschar gaf honum pyngju sína. En Persamærin fagra varð óhuggandi útaf burtför hans; hún vjek sjer afsíðis og flóði í tárum.

Óðara enn Núreddín var kominn út, snýr Íbrahim sjer að fiskimanni; hafði hann allt til þessa þagað, en nú tók hann þannig til máls: „Heyrðu Kerim! þú komst með tvo fiska, sem tæplega voru tveggja koparskildinga virði, og fjekkst fyrir þá pyngju, troðfulla af peningum og ambátt þar á ofan; ætlarðu að eiga allt þetta einn? eg segi þjer satt, eg vil hafa minn hluta í ambáttinni. En lofaðu mjer að sjá hvað í pyngjunni er; ef að silfur er í henni, þá máttu eiga einn pening, en skyldi það vera gull, þá tek eg það allt, og skal eg gefa þjer nokkra koparskildinga, sem eg hef á mjer.“

„Ekki veit eg hvað í pyngjunni er,“ ansaði Kerim fiskimaður, „en eg skal gjarna miðla yður af henni hvort sem hún hefur gull eða silfur að geyma, en ambáttina ætla eg mjer einum. Ef þjer ekki látið yður það lynda, þá fáið þjer ekkert.“ það þókti Íbrahim vera ósvífni af aumum fiskikarli, að bjóða sjer slíkt og varð fokreiður, tók hann þá eina postulíns skálina af borðinu og þeytti henni í höfuð Kerims. En honum veitti hægt að víkja sjer undan, er ófimlega var kastað; kom skálin í veggjarþilið og mölbrotnaði. Í sama bili gekk kalífinn út að glugga og skellti saman lófunum. En það gerði hann til vísbendingar, að vezírinn, Mesrúr og fjórir þjónustusveinar skyldu koma inn með nýjan klæðnað, er Gíafar hafði sókt. Komu þeir að vörmu spori inn í salinn og varpaði þá kalífinn af sjer fiskimanns flíkunum, en hinir hjálpuðu honum í föt þau, er þeir komu með. Varð Íbrahim agndofa við sjón þessa; hann þreifaði í koll sjer, beit í fingur sjer og sagði ringlaður og utan við sig: „Dreymir mig eða er eg vakandi?“ Gat kalífinn ekki að sjer gert að hlægja, er hann sá, hversu honum varð felmt við og mælti: „Íbrahim! hvernig sæki eg að þjer?“ þá tók af allan efa fyrir honum og rann af honum mesta ölvíman; fleygði hann sjer fram fyrir fætur kalífans, svo að andlit hans og skeggið síða lá á gólfinu, og sagði hann þá: „Drottinn rjetttrúaðra manna! yðar aumi þræll hefur móðgað yður; hann grátbænir yður að miskuna sjer og margbiður yður fyrirgefningar.“

Kalífinn fyrirgaf honum og bauð honum upp að standa; þvínæst vjek hann sjer að Persameynni fögru og sagði að hún mundi geta ráðið það af því, er nú hefði fram farið, að það væri ósamboðið tign sinni, að þiggja hana að gjöf, þó Núreddín hefði verið svo einstaklega stórlyndur, að gefa sjer hana. Kvaðst hann nú hafa sent hann til Balsora og skyldi hann gerast konungur þar, en hana sagðist hann mundu senda þangað, þegar öllu væri svo í lag komið, að hann gæti gengið að konungdóminum. Huggaðist þá Persamærin fagra og beið nú bætur harma sinna, svo mikillar gleði fjekk það henni, að Núreddín, sem var henni svo innilega ástfólginn, skyldi hefjast til slíkrar tignar. Kalífinn efndi heit sitt við hana og fól hana Sobeide eiginkonu sinni á hendur; sagði hann henni, hversu mikils hann virti Núreddín.

Núreddín náði farsællega til Balsora og það nokkrum dögum fyrr enn óskandi var, ef vel skyldi fara; gekk hann undireins til konungshallarinnar og hitti svo á, að konungur var að veita mönnum áheyrn. Ruddist hann áfram gegnum mannþröngina og hjelt brjefinu hátt upp í hendinni, rjetti hann konungi það, en hann tók við því; braut hann það upp og brá við, er hann las það. Þvínæst kyssti hann brjefið þrisvar sinnum og ætlaði þegar að hlýðnast skipun kalífans, en þá kom honum til hugar að spyrja vezírinn Sawy ráða. Hafði þessi svarni óvinur Núreddíns þá þegar sjeð hann; varð hann þá mjög áhyggjufullur, því hann þóktist vita að honum mundi ekki ganga gott til heimkomunnar, og brá honum ekki síður við brjefið enn konunginum. Með því hann nú að sínu leyti átti eins mikið í hættu, hugsaði hann sjer úrræði; hann gengur með brjefið afsíðis einsog hann vilji sjá betur til og lesa það yfir ennþá einusinni, og rífur af brjefinu formálann ofan máls, er ritaður var með smáu letri, og settur af kalífanum til merkis um, að tafarlaust skyldi fullnægja skipun hans; fór vezírnum það svo hönduglega, að enginn tók eptir því, nje heldur varð það sjeð á brjefinu, þó grandgæfilega væri skoðað. Ljet hann brjefsnudduna uppí sig og renndi henni niður, fjekk konungi þvínæst brjefið aptur og spurði hann í hljóði: „Herra! hvað ætlar yðar hátign nú að gera?“ „Það sem kalífinn skipar mjer,“ ansaði konungur. „Verið þjer ekki að því,“ sagði vezírinn, „það er

raunar hönd kalífans á brjefinu, en formálann vantar.“ Hafði konungur að vísu áður tekið eptir formálanum, en nú er hann vantaði, hjelt hann að sjer hefði missýnzt í ósköpunum, sem komu yfir hann. En vezírinn ljet dæluna ganga og mælti: „það leikur enginn efi á því, að kalífinn hefur skrifað brjefið eptir þeim sakargiptum, sem Núreddín hefur borið á yður og mig, og fengið honum það til að hafa hann af sjer. En til þess ætlaðist hann ekki, að þjer skylduð hlýðnast því. Hann hefur ekki heldur sent neinn sjerstakan sendiboða með lögmætt konungsbrjef, en án þess er brjefið marklaust. Slíkum konungi sem þjer eruð, má ekki víkja úr sæti svo að brugðið sje útaf þessari reglu. þá gætu allt að einu komið aðrir einsog Núreddín með marklaus brjef; slíkt hefur heyrzt áður. Yðar hátign má óhætt trúa orðum mínum og hljótist illt af, þá skal það lenda á mjer.“

Skipaðist konungur nú við fortölur hans, og fóru vopnaðir menn með Núreddín í hús Sawys, var honum þar misþyrmt með iljastrokum, þangaðtil hann lá hálfdauður eptir. Var honum síðan varpað niðrí hina dýpstu og myrkvustu díflissu, en verðinum skipað að gefa honum ekki annað enn vatn og brauð.

þegar Núreddín, sem laminn var til óbóta, raknaði við í díflissunni, hljóðaði hann upp yfir sig og grjet yfir gæfuleysi sínu. „En hvað þú, fiskimaður! hefur gabbað mig,“ mælti hann, „en hvað eg var auðtrúa að eiga undir þjer! En hvernig átti eg líka að trúa þjer til slíkrar grimmdar, þegar eg hafði gert þjer svo mikið gott. Guð blessi þig nú samt, því ekki get eg trúað því, að þú hafir viljað mjer illa, og þolinmóður skal eg vera, þangaðtil hörmungar mínar taka enda.“ Díflissuvörðurinn leitaðist við að gera raunir hans ljettbærari og bjó upp handa honum mjúka rekkju, og þó vezírinn skipaði honum á degi hverjum að lemja Núreddín, þá fór hann samt vel með hann og veitti honum alla hjúkrun. Hugsaði Sawy nú ekki um annað enn hvernig hann ætti að fá honum hinn svívirðilegasta dauðdaga, en samt þorði hann ekki að gera það uppá sín eigin eindæmi. þá er fjörutíu dagar voru liðnir, ljet hann allmarga þræla sína flytja ríkmannlegar gjafir til konungshallarinnar og fór þangað sjálfur. þókti konungi vænt um það, en Sawy spillti þeirri gleði hans svo mælandi: „Herra! þessar

fallegu gersemar eru ef til vill ætlaðar nýja konunginum.“ Skildi konungur, hvað Sawy fór og mælti: „Hverju sætir það? lifir illmennið ennþá? eg hjelt þú hefðir látið drepa hann.“ „Herra!“ svaraði Sawy, „eg á ekki með að stytta nokkrum manni aldur, yðar hátign hefur vald til að skipa.“ „Farðu þá,“ ansaði konungur og láttu hálshöggva hann, eg gef þjer heimild til þess;“ þakkaði Sawy fyrir fullnægju þá, er konungur veitti honum og mælti: „Af því hann Núreddín hefur svivirt mig svo opinberlega, einsog þjer vitið, þá beiðist eg þess, að hann verði líflátinn fyrir framan höllina og kunngjöri kallarar það hvervetna um borgina, svo að hver maður komist að raun um, að skapraun sú, er mjer var gerð, muni verða fullgoldin.“ það samþykkti konungur, en er kallarar lýstu því yfir, gerðist mikill harmur um alla borgina. það var öllum í glöggu minni, hvílíkur ágætismaður Khakan, faðir Núreddíns hafði verið, og því gramdist mönnum að sonur hans skyldi deyja háðuglegum dauða sökum mannvonzku Sawys og eptir hans áeggjun. Fór Sawy með tuttugu þræla til díflissunnar og skipaði verðinum að framselja Núreddín. Varð Núreddín nú að fara úr hinum þokkalegu fötum, er díflissuvörðurinn hafði fengið honum og fara í vondar og útataðar flíkur; þvínæst var hann ofurseldur fjandmanni sínum. þá grjet hann og mælti: „Eruð þjer þá óhultur fyrir óhamingjunni? Hafið þjer ekki heyrt spakmælið: þeir beittu valdi sínu, en þeir beittu því einsog harðstjórar og því var innanskamms sem þeir hefðu aldrei verið.“ „Ætlarðu að hræða mig með þessu, Núreddín!“ ansaði vezírinn, „eg ætla nú að láta höggva af þjer höfuðið, hvað sem lýðurinn í Balsora segir. Er þetta ekki líka spakmæli, sem stendur í bókum vorum: Sá hefur hreppt ósk sína, sem lifir óvin sinn, þó ekki sje nema einn dag.“ Var Núreddín settur upp á múlasna eptir skipun Sawys og fór nú öll mannþyrpingin á stað til hallarplássins. En þetta var kallað hátt á undan honum: „þetta er hin vægasta refsing fyrir þann mann, sem ber lygabrjef frá kalífanum til konungsins.“ Undir hallargluggunum stóðu þrælar Sawys og varðmannaflokkur konungs í víðum hring og áttu þeir fullt í fangi með að verjast ásókn lýðsins, sem leitaðist við að ryðjast að og frelsa Núreddín. Skildi Sawy hann eptir hjá böðlinum og fór til

konungs, sem nú ætlaði ásamt honum að horfa á hina blóðugu sjón, útum glugga hallarinnar.

Gekk nú böðullinn að Núreddín og beiddi hann að fyrirgefa sjer dauða sinn, því hann væri ekki nema þræll og gæti ekki komist hjá því að gera skyldu sína. „En þurfirðu einhvers ennþá,“ mælti hann, „þá segðu mjer það, svo að eg geti annast það, því þú átt ekki lengur eptir ólifað enn þangaðtil konungur lætur sjá sig útí glugganum.“ Þá mælti hinn ógæfusami Núreddín og leit á báðar hendur sjer: „Er nokkur svo brjóstgóður, að hann vilji hjálpa mjer á þessari hræðilegu stund og gefa mjer einn vatnssopa til að slökkva þorstann?“ Í sama bili kom krukka full af vatni og rjetti hana maður manni, þangaðtil Núreddín tók við henni. En er vezírinn Sawy sá, að dvöl varð á, kallaði hann til böðulsins út um glugga þann, er konungur stóð við: „Eptir hverju ertu að bíða? höggðu!“

Allur manngrúinn á hallarplássinu æpti við þessi grimdarfullu orð vezírsins og bölfaði honum. Konungi, sem var mjög um sæmd sína hugað, geðjaðist ekki að ofdirfsku þeirri, er vezírinn hafði sýnt í návist hans, og ljet hann það skilja á því, að hann skipaði að bíða við stundarkorn. En honum gekk og annað til þess, því hann sá hvar riddaraflokkur hleypti ofaneptir stræti einu, er lá niður að hallarplássinu, og vakti hann athygli Sawys á því. Grunaði Sawy mart um erindi þeirra og herti því að konungi, að nú skyldi hann gera bendingu til líflátsins, en konungur synjaði þess og sagðist fyrst vilja vita, hverjir riddararnir væru. Og sjá! þar var stórvezírinn Gíafar kominn með föruneyti sínu frá Bagdad og var sendur af kalífanum.

Þrjátíu dagar höfðu liðið svo, að kalífinn aldrei mundi eptir að senda Núreddín konungsbrjef það, er honum var ómissandi; þá var það einhverju sinni, er hann var í höll kvenna sinna, að honum varð gengið framhjá dyrum herbergis nokkurs og heyrði hann þá frábærlega sæta rödd. Hann stóð við og jafnskjótt sem hann hafði heyrt nokkur orð, er lýstu sárum skilnaðartrega, spurði hann einn af geldingum þeim, er honum fylgdu, hvaða kona byggi þar. Svaraði hann, að það væri ambátt hins unga manns, er hann hafði sent til Balsora, til þess að taka þar við ríki Mohammeds sonar

Solimans Es-Seyni. þá kallaði kalífinn hátt: „Veslings Núreddín Khakansson! eg hef öldungis gleymt þjer. Kallið undireins á hann Gíafar!“ En er hann kom, sagði kalífinn við hann: „Gíafar! 'eg hef gleymt að senda konungsbrjef um það, að Núreddín skuli taka við ríki í Balsora. Nú er ofnaumur tíminn til að semja það, taktu því menn og hesta og ríddu sem skjótast til Balsora. Ef búið er að drepa Núreddín, þá skaltu láta hengja vezírinn Sawy, en sje hann enn á lífi, þá komdu til mín með hann, konunginn og vezírinn.“

Stórvezírinn fór nú tafarlaust á hestbak og lagði á stað með álitlegu föruneyti og hitti svo á í Balsora, sem fyrr er frá sagt. þegar hann reið fram á hallarplássið þokuðust allir undan til að greiða honum veginn, og beiddu Núreddín miskunnar. Sá konungurinn í Balsora að þar var kominn æðsti ráðgjafi kalífans og kom til móts við hann í dyrum herbergis síns. Spurði stórvezírinn fyrst, hvort Núreddín væri lífs ennþá, og er honum var sagt, að svo væri, skipaði hann að leiða hann fram. En er hann kom bundinn og keflaður, ljet hann leysa hann, en taka Sawy fastan og binda hann sömu böndunum. Var hann ekki nema eina nótt í Balsora og lagði næsta dag á stað aptur til Bagdad; hafði þann þá með sjer Núreddín, konunginn og vezírinn.

Undireins og þangað var komið, leiddi hann þá alla fram fyrir kalífann, og skýrði frá ferð sinni, en einkum frá því, hvernig hann hitti Núreddín til reika og hverja meðferð hann hafði orðið að þola eptir skipun hins heiptræka Sawys. Sagði kalífinn þá við Núreddín, að hann mætti sjálfur höggva höfuðið af Sawy. En Núreddín svaraði: „Drottinn rjetttrúaðra manna! svo mikið illt sem þorpari þessi hefur gert mjer og reynt að gera föður mínum, þá þæktist eg samt vera hinn mesti ódrengur, ef eg flekkaði hendur mínar á blóði hans.“ Kalífanum hugnaðist vel göfuglyndi hans og ljet hann böðulinn fullnægja dómnum.

Nú ætlaði kalífinn að senda Núreddín aptur til Balsora til að ráða þar löndum, en hann beiddist undan því. „Drottinn rjetttrúaðra manna!“ mælti hann, „eg hef svo mikla óbeit á Balsora eptir að eg hef átt þar í slíkum raunum, að eg dirfist að biðja yðar hátign leyfa mjer, að efna eið þann, sem eg hef svarið, að koma þangað

aldrei framar á æfi minni. En það þykir mjer mestur sómi að þjóna yðar hátign, ef þjer viljið mildilegast unna mjer þeirrar náðar.“ Tók kalífinn hann þá í tölu hinna vildustu hirðmanna sinna, gaf honum aptur Persameyna fögru og gerði svo vel til hans, að þau gátu lifað hinu sælasta lífi, hvert með öðru allt til dauðadags. En það brýndi kalífinn fyrir Mohammed konungi, með hvílíku vandlæti og varkárni hann ætti að kjósa ráðgjafa sína, og sendi hann að svo búnu aptur til Balsora.

# Frá 290. til 314. nætur.

## Sagan af Gulnare drottningu hinni sæbornu, Beder kóngssyni frá Persalandi og Gíohare kóngsdóttur frá Samandal.

Einusinni í fyrndinni fyrir allar aldar var konungur einn á Persalandi, er í mörg ár hafði stýrt ríkjum sínum farsællega, svo að hann var allra konunga ánægðastur. Þó taldi hann sig ófarsælan að því einu, að hann var þegar háaldraður maður og hafði engan erfingja eignazt með neinni af konum sínum. Átti hann fleiri enn hundrað konur og bjuggu þær allar í skrautlegum húsakynnum og hver útaf fyrir sig, höfðu þær ambáttir til að þjóna sjer, en geldingar voru verðir þeirra. Hvernig sem hann leitaðist við að gera þeim allt að óskum, þá ljet engin þeirra vonir hans rætast. Voru honum opt færðar konur úr hinum fjarlægustu hjeruðum, og ef þær urðu honum að skapi, þá borgaði hann hvað sem upp var sett, og þaráofan auðsýndi hann seljendunum virðingu og velgjörðir. Gerði hann það til að laða fleiri til sín í þeirri von, að hann mundi þó að endingu fá konu, er fæddi honum son. Eigi ljet hann heldur hjá líða, að leita guðlegrar miskunar með góðum verkum. Gaf hann fátæklingum stórar ölmusur og sæmdi stórgjöfum fjelög guðhræddra manna, er sömu trú höfðu og hann, setti hann og konunglegar stofnanir á fót þeim í hag, svo að óskir hans mættu uppfyllast fyrir þeirra bænastað.

Einusinni hjelt hann hirðmanna fund, einsog tíðkazt hafði með forfeðrum hans, þegar þeir áttu dvöl í höfuðborginni; á þeim fundi voru allir sendiboðar og útlendir höfðingjar. Ekki var þar rætt um þær nýjungar, er varða land og lýð, heldur um vísindaleg efni, sögu, bókmenntir, skáldskap og hvað annað, er veitt getur andlega unun. Þá sagði geldingur einn konunginum, að kaupmaður nokkur væri kominn úr fjarlægu landi með ambátt og beiddi leyfis, að mega leiða hana fyrir konung. Skipaði konungur þá að láta kaupmanninn koma inn og vísa honum til sætis, kvaðst hann skyldu tala við hann þegar hirðfundinum væri slitið. Var honum þá vísað til sætis þarsem hann vel gat sjeð konunginn og heyrt hann tala í trúnaði við þá, er næstir honum voru. Var það vani konungs að taka útlendum mönnum þannig, er hans fundi vildu ná, og gerði hann það með ásettu ráði, svo að þeir skyldu venjast ásýnd hans og verða uppburðameiri, er þeir sæju hann tala góðmannlega og kompánlega við aðra, en ekki láta koma fát á sig frammi fyrir slíkri hátign og dýrðarljóma, er vel gat slegið þögn á þann, sem slíku var óvanur. En er fundinum var slitið og allir voru burt gengnir svo að enginn var eptir nema kaupmaður, fleygði hann sjer fram fyrir hásætið með andlitið á grúfu og óskaði konungi, að allar óskir hans mættu uppfyllast. Þegar hann var aptur uppstaðinn spurði konungur eptir ambáttinni, hvort hún væri fríð. Svaraði kaupmaður því, að konungur mundi eiga afbragðs fríðar ambáttir, fyrst menn með svo mikilli kostgæfni leituðu þær upp fyrir hann í öllum heimsálfum, „en án þess eg lofi vöru mína um of,“ mælti hann ennfremur, „þá er mjer óhætt að segja það, að þjer hafið enga sjeð, er við þessa ambátt geti jafnast, ef litið er til fríðleika hennar, vaxtarlags, yndisleika, og allra þeirra kosta, sem hana prýða.“ „Hvar er hún?“ spurði konungur, „komið með hana hingað.“ „Herra!“ svaraði kaupmaður, „eg fjekk hana höfuðsmanni geldinganna; yðar hátign þarf ekki annað enn segja til, þá skal hún verða sókt.“ Var nú ambáttin leidd fram, en jafnskjótt sem konungur sá hana, varð hann hugfanginn af hinu fagra og ljettilega vaxtarlagi hennar. Gekk hann þá undireins inn í klefa einn með kaupmanni og nokkrum geldingum og tók kaupmaðurinn þar skýluna frá andliti ambáttarinnar; var skýlan úr rauðu silki og gullskotin.

þá sá Persakonungur slíka fegurð, er langt bar af öllum þeim konum, er hann þá átti og feldi hann undireins ákafa ást til hennar. Spurði hann, hvað kaupmaður setti upp fyrir hana, en hann svaraði: „Herra! eg hef keypt hana fyrir þúsund gullpeninga, og reiknast mjer svo, sem eg hafi kostað jafnmiklu til hennar í þau þrjú ár, sem eg var á leiðinni með hana til yðar. En vara skal eg mig á því, að heimta nokkuð af svo voldugum konungi, sem þjer eruð, og bið eg yðar hátign þiggja hana að gjöf. ef hún er eptir yðar skapi.“ „Haf þökk fyrir!“ ansaði konungur, „en það er ekki minn vandi að fara svo með kaupmenn, er sækja hingað langar leiðir til að gleðja mig. Þú skalt fá tíu þúsund gullpeninga út í hönd; ertu ánægður með það?“ „Eg mundi hafa talið mig sælan,“ svaraði kaupmaður, „ef yðar hátign hefði þegið hana borgunarlaust, en ekki dirfist eg að drepa hendi við slíkri rausn, og henni skal eg við bregða bæði í átthögum mínum og hvervetna þar sem mig ber að.“ Var nú fjeð talið honum af hendi og áðurenn hann fór burt ljet konungur að sjer ásjáanda færa hann í gullsaumaða skikkju. Ambáttinni fögru voru nú fengin til íbúðar þau herbergi, sem næst gengu herbergjum konungsins að viðhöfn og prýði, og voru margar gamlar konur og ambáttir settar til að þjóna henni. Var þeim skipað að fylgja henni til lauga og færa hana í hinn skartmesta klæðnað, er til væri, skyldu þær og færa henni hin fegurstu perlumen, dýrustu demanta og aðra kostulega gimsteina, svo að hún gæti sjálf valið úr það, sem henni yrði bezt að skapi. Jafnvel þjónustukonur þessar, er ekki höfðu hugann á öðrū enn að þóknast konunginum, urðu svo gagnteknar af fegurð ambáttarinnar, að þær voru sem utan við sig. Höfðu þær gott skynbragð á slíku og sögðu því við konung: „Ef yðar hátign vill gefa okkur þriggja daga frest, þá skyldum við okkur til að gera hana miklu yndislegri á að sjá enn hún er nú, svo að þjer skuluð ekki þekkja hana aptur.“ Tók konungurinn það nærri sjer, að sjá svo lengi af samlagi við ambáttina, en þó ljet hann til leiðast.

Höfuðborg konungs lá á ey nokkuri og höll hans, sem var hin glæsilegasta, stóð frammá sjávarbakkanum. Voru herbergi amb-

áttarinnar fögru nálægt þeim, er konungur dvaldi í, og sást útá sjóinn úr hvorum tveggja, en þeim mun skemmtilegra var í hennar herbergjum, sem öldurnar gengu þar þvínær upp að hallarveggnum. Þá er hinir þrír dagar voru liðnir, sat ambáttin fagra skrautbúin í herbergi sínu og hallaðist uppvið glugga einn, er vissi út að sjónum; gekk konungur inn til hennar, þegar honum var sagt, að hann mætti sjá hana. Heyrði hún undireins á skóhljóðinu, að það var engin af þjónustukonum hennar sem kom; leit hún þá við og sá að það var konungurinn. En hún brá sjer hvergi við og stóð ekki einusinni upp til að heilsa og fagna honum, heldur fór hún aptur að horfa út um gluggann, einsog hún skeytti alls ekki um hann. Tók konungur eptir þessu og undraðist mjög, að svo fögur ambátt skyldi kunna sig svo illa, kenndi hann uppeldi hennar um það, og hjelt, að hún hefði ekki einusinni verið vanin á hina einföldustu kurteisi. Gekk hann þá til hennar fram að glugganum, en þó hún í fyrstu hefði tekið honum svo fálega, þá lofaði hún honum nú samt að horfa á sig og enda láta blítt að sjer og umfaðma sig svo sem honum ljek lyst til. En sem hæzt stóð á ástar atlotum þessum, hætti konungur allt í einu, til að virða hana fyrir sjer og mælti: „Þú mín fegursta, dásamlegasta, yndi mitt! gerðu það fyrir mig, segðu mjer, hverjir eru hinir gæfusömu foreldrar, er komið hafa slíku dásemdarverki í veröldina? En hvað eg elska þig, og hversu mun eg elska þig síðar! Aldrei hef eg áður haft það hugarþel til nokkurrar konu, sem eg hefi til þín. Margar hef eg sjeð og sje dags daglega mikinn fjölda, en aldrei hef eg litið slíkan yndisleik, því hann tekur mig allan frá sjálfum mjer og leggur mig á þitt vald. En þú svarar mjer ekki, hjartað mitt góða! sýndu mjer hið lítilfjörlegasta merki þess, að þú þekkist ofurást mína, sem eg hef vottað þjer svo margfaldlega; þú gleður mig ekki einusinni með því að láta þín augu mæta mínum. Því þegirðu alltaf og gerir mig svo sem agndofa? af hverju kemur þessi alvörugefni þín eða öllu heldur þessi hryggð, er gerir mig áhyggjufullan? Tregarðu heimili þitt, foreldra eða vini? er þá ekki konungur Persaríkis, sem elskar þig og tilbiður, þess um kominn að hugga þig og bæta þjer allan missir?“ En hvernig sem konungur sór ambáttinni elsku sína og hvað sem hann sagði til að

koma henni til að ljúka munni sundur, þá var hún alltaf furðu fáleg, horfði augum til jarðar og leit ekki einusinni uppá hann, og talaði ekki orð. Konungur var samt feginn, er hann hafði fengið slíka konu, sem fullnægði honum svo vel að öllu öðru leyti, því hann vonaði, að hún mundi lagast, þegar vel væri farið með hana. Skellti hann nú saman lófunum og komu þá inn konur nokkrar, skipaði hann þeim, að bera kvöldmat á borð. En er það var gert sagði hann við ambáttina: „Komdu nú, hjartað mitt! og borðaðu með mjer.“ Stóð hún þá upp og settist gagnvart honum, skamtaði hann henni fyrst, og svo gerði hann í hvert skipti sem hann tók nýjan rjett. Borðaði hún með honum, en horfði alltaf niður fyrir sig og í hvert skipti sem hann spurði, hvernig henni líkaði sá og sá rjettur, ansaði hún engu. Fór þá konungur að tala um annað, og spurði hana, hvað hún hjeti, hvort hún væri ánægð með klæðnað sinn, gimsteinana, húsakynni sín og fyrirkomulag þeirra, og hvernig henni geðjaðist útsjónin til hafsins. En hún þagði alltaðeinu við öllum þessum spurningum, svo að konungur vissi ekki, hvað hann ætti að halda, og varð loksins þeirrar trúar, að hún væri mállaus. „Skyldi það geta átt sjer stað,“ hugsaði hann með sjer, „að svo fögur og algjör kona sje sköpuð með slíkum ágalla? Mikill skaði væri það! En hvað sem því líður, þá get eg samt ekki að því gert, að eg elska hana eins eptir sem áður.“

Þegar konungur var uppstaðinn frá borðum, þvoði hann hendur sínar, og svo gerði ambáttin líka. Spurði hann ambáttirnar, er rjettu honum vatnsskál og handklæði, hvort hún hefði talað við þær. En því var honum svarað, að enginn hefði heyrt hana mæla orð, heldur enn hann sjálfur. „Við höfum þjónað henni til lauga,“ sögðu þær, „búið hana, spurt hana, hvort hún þarfnaðist einskis og sagt, að hún ætti yfir okkur að segja, en hún hefir aldrei látið í ljósi með einu orði, hvort sjer líkaði vel eða illa. Hvort henni gengur fyrirlitning eða einþykkni til, hvort hún þegir af harmi eða er mállaus, það vitum við ekki, en hitt er víst að við höfum ekki getað togað úr henni orð.“ Fjekk það konungi enn meiri undrunar og með því hann hugði að ambáttin mundi búa yfir einhverjum harmi, vildi hann reyna að pipra hana upp. Ljet hann því allar

þær konur, sem í höllinni voru, safnast saman, ljekn þær á hljóðfæri sín, sem það kunnu, en aðrar sungu, stigu dans, eða gerðu það tvennt í einu; frömdu þær og allskonar leika konunginum til skemmtunar. En ambáttin fagra tók enga hlutdeild í gleði þessari. Hún sat grafkyr í sæti sínu, engu sinnandi og horfði í gaupnir sjer og furðuðu hinar konurnar sig ekki síður á því enn konungurinn. Gengu þær loksins burt, hver til sinna herbergja, en konungurinn gekk til hvílu með ambáttinni fögru.

Næsta morgun, reis hann á fætur með enn ákafari ástar hug á ambáttinni fögru, enn daginn áður, og ljet hann það skjótt á sannast. Hann rjeði það af, að elska hana eina og ljet hann verða af þeirri ætlun sinni. Sendi hann samdægurs allar hinar aðrar konur sínar á brott með hinum skrautlegustu klæðum og kostgripum, er þær höfðu til skarts, veitti hann þeim öllum heimild til að giptast eptir geðþekkni og gaf hverri um sig allmikið fje. Hjelt hann engum eptir nema þeim, sem gamlar voru og ómissandi til að ganga ambáttinni fögru til handa. En hún veitti honum ekki þá huggun í heilt ár, að tala orð við hann. Allt fyrir það var hann í öllu hinn kurteisasti við hana og sýndi henni hin augljósustu merki ástar sinnar.

Leið svo árið, en einhverju sinni sat hann hjá henni og sór og sárt við lagði, að svo færi því fjærri, að elska sín til hennar kólnaði, að hún miklu fremur færi dagvaxandi. Kvaðst hann einskis framar óska úr því hann ætti hana, og svo stórt sem ríki hans væri, þá virti hann það að vettugi, nema því að eins að hann mætti hafa hana fyrir augum sjer og tjá henni elsku sína; gæti hún bezt sjeð, að hann talaði þetta í einlægni af því, að hann fyrir ári síðan hefði vísað burt öllum þorra kvenna sinna hennar vegna; hefði hann enganveginn tekið það nærri sjer og aldrei mundi hann þess iðrast. Sagði hann að þá vantaði ekkert á sælu sína og ánægju, ef hún ljeti sig með einu orði skilja, að hún kynni sjer nokkra þökk fyrir. „En hvernig áttu að geta það,“ mælti hann ennfremur, „ef að þú ert mállaus. Æ! eg er helzt til hræddur um það! Og má eg ekki líka óttast það, þarsem eg nú upp í heilt ár hefi marg beðið þig að tala, dagsdaglega, en þú hefur þagað einsog steinn, mjer til mestu hugraunar? En sje það

ómögulegt, að mjer verði þessarar huggunar auðið, þá gefi guð það, að þú alir mjer erfingja að ríki mínu. Eg finn hvernig ellin þyngir á mjer dag frá degi og því þyrfti eg hans nú til að ljetta á mjer þyngslum kórónu minnar. En eg hverf aptur að því, sem er hjarta mínu næst, lönguninni eptir að heyra þig tala, því mjer segir svo hugur um, að þú munir ekki vera mállaus. Eg særi þig nú, elsku lífið mitt! gerðu það fyrir mig að láta af þessari langvinnu þögn. Talaðu þó ekki sje nema eitt orð við mig og skal eg þá glaður deyja.“

Meðan konungi fórust þannig orð hafði ambáttin hlýtt á hann og alltaf horft til jarðar, og hjelt hann því að hún mundi vera mállaus og að henni hefði aldrei á æfi sinni leikið bros á vörum. Því brá honum mjög við af feginleik, er hann nú allt í einu sá að hún brosti við. Ljek honum þá enginn efi á, að hún mundi ætla að tala og var nú sem á glóðum. Enda brá hún nú hinni langvinnu þögn og tók þannig til máls: „Herra! eg hef svo mikið að segja yðar hátign, að eg ekki veit hvar eg á að byrja. En fyrst og fremst álít eg það vera skyldu mína að þakka yður fyrir þá náð og virðingu, sem þjer hafið mjer ríkuglega auðsýnt, og biðja guð að blessa yður, afstýra illræðum óvina yðar og gefa yður langa lífdaga. Þessu næst get eg ekki sagt yður annað gleðilegra enn það, að eg er með barni og óska eg þess með yður að það verði sonur. En hefði ekki þetta að höndum borið — þjer takið ekki illa upp hreinskilni mína — þá var það eindregið áform mitt, að verða yður aldrei unnandi og þegja æfinlega; en nú ann eg yður einsog skyldan býður mjer.“

Þá varð konungur frá sjer numinn af fögnuði, faðmaði hana að sjer með viðkvæmni og mælti: „Þú ljós augna minna! meiri gleði gat mjer ekki að hendi komið enn sú, sem þú boðar mjer. Þú hefur talað og sagt mjer barns von þína! eg ræð mjer ekki fyrir fögnuði útaf þessum gleðilegu atburðum, sem koma mjer svo óvænt.“ Konungur var allur á lopti af fögnuði og sagði ekki meira að sinni, heldur gekk hann burt frá ambáttinni fögru; mátti þó sjá á fasi hans, að hann mundi fljótt koma aptur. Hann vildi gera gleðiefni þetta heyrimkunnigt, sagði hann því embættismönnum sínum í hirðinni frá því og ljet kalla á stórvezírinn.

Skipaði hann honum að skipta hundrað þúsund gullpeningum á milli þeirra guðs manna, sem heitið höfðu að lifa í örbyrgð, milli ekkna og fátæklinga, og skyldi þetta vera þakklætisfórn til drottins. En er konungur hafði sagt fyrir um þetta, gekk hann aptur til ambáttar sinnar og mælti: „Fyrirgef mjer, að eg gekk svo skyndilega burt, en þú gafst sjálf tilefni til þess. Lofaðu mjer nú að geyma það til seinni tíma, að segja þjer meira frá þessu, því nú langar mig til að verða þess vísari af þjer, sem meira er um vert. Segðu mjer nú, elskan mín góð! hvernig stóð á því, að þú í heilt ár skyldir sjá mig á degi hverjum, heyra mig tala, borða með mjer og sofa hjá mjer, svo að þú aldrei laukst munni sundur til að tala, fórstu því fram með frábærri staðfestu, og ljezt ekki einusinni á því bera, að þú skildir glöggt allt, sem eg sagði. það er mínum skilningi ofvaxið og veit eg ekki, hvernig þú hefur getað haft slíkan setning á þjer. það er ómögulegt annað enn að þjer hafi gengið eitthvað sjerlegt til.“

þá svaraði ambáttin fagra: „Herra! yðar hátign furðar sig á þögn minni, en er ekki öll von á, að sú kona þegi, sem er í ánauð, fjærkomin átthögum sínum, og úrkula vonar um, að sjer verði heimkomu auðið, en sármædd af hjartasorg útaf því, að vera skilin um eylífð frá móður sinni, bræðrum og ættingjum. Föðurlandselskan er manninum ekki síður meðfædd enn foreldraástin, og frelsismissirinn er hverjum þeim manni óbærilegur, sem ekki er svo skyni skroppinn, að hann ekki veit hvað mikið er í það varið. Líkaminn getur að vísu orðið þeim manni háður, sem valdið hefur, en viljinn verður frjáls eptir sem áður, og þetta hefur yðar hátign reynt á mjer. það er furða að frelsis ástin ekki hefur leitt mig til þess óyndis úrræðis að fyrirfara mjer, einsog mörgum ólánssömum manni hefur orðið.“ Svaraði konungur þá: „Eg er fullkomlega sannfærður um það, sem þú segir, en allt til þessa hef eg haldið, að fríð kona, vel viti borin og andrík, einsog þú ert, sem í það ólán rataði að verða ambátt, mætti telja sig sæla ef hún eignaðist konung fyrir herra.“ „Sje hún af lágum stigum,“ mælti ambáttin, „þá vil eg halda, að hún þykist hafa hreppt lán í óláni. En er það lán, ef hún er slitin úr faðmi foreldra sinna, og kannske frá elskhuga sínum, er aldrei má henni úr minni líða? En sje hún í

engu minni þeim konungi, sem gerist herra hennar, þá getur yðar hátign dæmt um, hversu hörðu hlutskipti hún á að sæta, hvílíkt hugarangur, og hverjar hörmungar græta hana, og hvort ekki má við öllu búast af henni.“ Furðaði konungur sig mjög á svari hennar og mælti: „þú mín elskulega! á eg að trúa því, sem þú segir, að þú sjert konungborin? En seg mjer nú glögga grein á því og ger mig ekki óþolinmóðari enn eg er orðinn. Fræddu mig á því, hver faðir og hver móðir áttu því hamingjuláni að fagna, að eiga slíkt dásemdarverk fegurðarinnar? hverjir eru bræður þínir, systur og frændur? en seg mjer samt fyrst og fremst nafn þitt.“

„Herra!“ mælti ambáttin fagra, „eg heiti Gulnare hin sæborna: var faðir minn sæli einhver hinn voldugasti sækonungur og eptirljet ríkið Saleh bróður mínum og drottningunni móður minni, sem er dóttir eins afarvoldugs sækonungs. Lifðum við rósömu lífi í ríki voru, í hinni mestu friðsælu, en óvini einum ljek öfund á láni okkar og rjeðist hann á land vort með óvígan her. Sókti hann allt að höfuðborginni og vann hana, og gafst okkur aðeins tími til að forða okkur á ógengan og óvinnandi stað, með nokkrum tryggum og þolgóðum þjónum. þar hugði bróðir minn á ráð. hvernig hann ætti að reka sigurvegarann úr landi og sagði hann þetta við mig einusinni: „Elsku systir! það er ætíð vafasamt, hvernig hverri fyrirætlun lýkur, hvað lítilfjörleg sem hún kann að vera og vel getur svo farið, að eg bíði lægri hlut, ef eg reyni að ná aptur landi okkar. Miklu minni kvíðboga ber eg samt fyrir sjálfum mjer ef illa skyldi fara, heldur enn þjer, ef þig kynni eitthvað illt að henda, og vildi eg því gipta þig áður, svo eg vissi þjer borgið. En með því nú svo illa áhorfist fyrir okkur, þá er ekki að hugsa til, að þú getir gipzt neinum sæbornum kóngssyni, og því vildi eg að þú tækir það ráð að heita einhverjum landkonungi eiginorði. Er eg albúinn að neyta til þess allrar orku, og ert þú svo fögur, að eg held enginn sá konungur sje til, hvað voldugur sem hann kann að vera, sem ekki hrósaði happi ef hann mætti skipta tign sinni með þjer.“ Varð eg þá stórreið útaf þessum tillögum hans og mælti: „Eg er ekki síður enn þú komin af sækonungum og sædrottningum bæði í föður og móðurætt, eru þær ættir óblandaðar landkonungakyni og veit eg ekki, hversvegna eg ætti

heldur að taka niður fyrir mig enn þeir. Vann eg þess dýran eið undireins og eg kunni skyn á tign og aldri ættar vorrar. Og þó við nú sjeum komin í krappan stað, þá mun eg samt ekki bregða ætlun minni, og vil eg fegin tortýnast með þjer, miklu heldur enn fara að því ráði, sem eg átti sízt von á af þjer."

Bróðir minn hafði nú tekið í sig að koma fram giptingu þessari, er mjer var svo ógeðfeld, og ætlaði að telja mjer trú um, að þeir landkonungar væru til, sem ekki stæðu sækonungum á baki. Þá reiddist eg honum ákaflega, en hann ljet mig kenna á hörðu og skapraunaði mjer stórum. Skildum við í illu skapi hvert til annars, og í reiði minni skauzt eg upp frá mararbotni og fór til Mánaeyjar. Lifði eg allvel ánægð þar á eynni þó eg vel mætti vera hrygg útaf atvikum þeim, er neyddu mig til að flýja þangað. Hafðist eg við á afskekktum stöðum, þarsem eg gat verið óhult, en þrátt fyrir forsjálni mína kom einn tíginn maður með þjónum sínum að mjer þarsem eg svaf, og hafði mig á burt með sjer. Hann auðsýndi mjer mikla ást og gerði allt sitt til að eg skyldi unna honum aptur á móti, en er honum varð ekkert ágengt með þessu móti, ætlaði hann að taka mig nauðuga, en eg ljet hann svo mjög iðrast ósvífni sinnar, að hann rjeði það af að selja mig. Komst eg þannig á vald kaupmannsins, sem færði mig yðar hátign. Hann var hygginn, hjartagóður og nærgætinn, og á allri hingaðferðinni gat eg ekki annað enn verið ánægð með hann í alla staði."

„En hvað yðar hátign snertir," mælti Gulnare köngsdóttir ennfremur, „þá hika eg mjer ekki við að segja einsog er, að eg aldrei mundi hafa eirt hjá yður, nema þjer hefðuð sýnt mjer þá nærgætni, sem eg kann yður þökk fyrir, tjáð mjer svo mörg merki fölskvalausrar ástar, og vísað öllum hinum öðrum konum yðar á burt. Að öðrum kosti mundi eg hafa fleygt mjer niður í sjó útum gluggann, sem eg sat við, þegar þjer nálguðust mig fyrst í herbergi þessu, og farið að leita upp bróður minn, móður og ættingja. Eg mundi líka hafa látið verða af þessu áformi mínu, hefði eg ekki innan nokkurs tíma orðið vongóð um að eiga barn, en nú mun víst þessi ætlun mín farast fyrir. Því hvernig sem eg reyndi að tala um fyrir móður minni og bróður þá mundu þau aldrei

trúa því, að eg hefði getað orðið ambátt slíks konungs sem þjer eruð, og mundu þau aldrei fyrirgefa mjer það glappaskot, að eg spillti meyjarsóma mínum með ásettu ráði. Hvort sem nú barn það, er eg geng með, er sveinbarn eða meybarn, þá legg eg það að veði. svo þjer vitið, að eg aldrei mun skilja við yðar hátign. Eg vona líka. að þjer ekki lengur farið með mig einsog ambátt, heldur sem konungborinni konu sæmir, sem yður er fullkosta.“

Svo mælti Gulnare og þagnaði, en konungur kallaði upp og og mælti: „þú tilbeiðslu verða drottning! mikil undur eru það. sem þú nú hefur sagt mjer. Hjer er nú heldur enn ekki um mart að spyrja, sem mjer leikur forvitni á. En fyrst verð eg að þakka þjer góðsemi þína og þolinmæði, er þú reyndir einlægni og staðfestu ástar minnar. Eg hafði aldrei haldið, að eg gæti elskað heitar enn eg elskaði þig, og þó ann eg þjer nú þúsundfalt meira. er eg veit að þú ert svo tígin kóngsdóttir. En því kalla eg þig kóngsdóttur, þú ert hjeðan í frá drottning mín, drottning Persaveldis einsog eg er konungur þess, og það nafn skal bráðum hljóma um allt ríkið. Á morgun skal það verða kunngjört í höfuðborginni og fyrir löngu skyldi það vera orðið kunnugt, hefðirðu sagt mjer fyrr í hverri villu eg var. því allt frá því eg sá þig í fyrsta sinn, var eg eins fastráðinn í því að elska þig eina æfinlega, einsog eg er nú. En áðurenn eg fullnægi sjálfum mjer í þessu og gef þjer það, sem þú átt tilkall til, þá ætla eg að biðja þig að segja mjer nokkuð ítarlegar frá þeim löndum og þjóðum, sem í hafinu eru. því eg er með öllu ófróður um slíkt. Reyndar hef eg heyrt talað um marbendla. en eg hef alltaf haldið að sögur þær, er af þeim ganga, væru ekki annað enn æfintýri.“

„Eg skal gjarna láta eptir beiðni yðar hátignar.“ ansaði Gulnare drottning. „Við göngum á mararbotni allteinsog menn ganga á landi og drögum andann að okkur í sjónum einsog menn anda í lopti, og köfnum við ekki af því. Ekki vökna heldur klæði okkar í sjónum, þó merkilegt sje, og þegar við komum á land, þurfum við ekki að þurka þau. Jafnaðarlegast tölum við það mál. er letrað stendur á innsiglishring Salómons, hins mikla spámanns. Ekki daprast heldur sjón okkar í sjáfardjúpinu; við höldum augunum opnum og er okkur ekkert mein að því, enda höfum við

afbragðs góð augu og sjáum svo vel með þeim, sem á landi væri, þrátt fyrir dýpt hafsins. Allt að einu sjáum við um nætur, því þá lýsir máninn okkur, og ekki leynast þá heldur jarðstjörnur eða sólstjörnur sjónum vorum. Með því nú hafið er miklu stærra enn landið, þá eru þar bæði fleiri og miklu stærri ríki, sem skipt er í skattlönd og í hverju þeirra um sig eru margar stórar og fjölmennar borgir. Þar er og fjöldi þjóða einsog á landi, og greinast þær mjög hver frá annari eptir siðum og lifnaðarháttum.

Hallir konunganna eru miklar og skrautlegar og ljóma þær af allskonar marglitum marmara og glerhalli, sem ógrynni er af í sjónum, svo og perlumóður, kóral og öðrum efnum, sem enn dýrmætari eru. Miklu meira er þar af gulli, silfri og allskonar gimsteinum heldur enn á landi og þeir gimsteinar, sem hjer þykja dýrmætastir, eru þar virtir að vettugi, og hefur alþýðan þá til búningsbótar. Vagna og eykja þurfum við ekki, því það gegnir undrum, hvað fljót við erum í förum, og getum við í einum svip farið hvert sem við viljum. Samt á hver konungur sjer hesthús fullt af hrossum og nykra stóð, en þeir hestar eru aldrei hafðir nema við hátíðahöld og opinbera leika. Þegar þeir eru fulltamdir, hafa sumir gaman af að sýna ágæti þeirra í kappreiðum, en sumir beita þeim fyrir opna perlumóður vagna, sem skreyttir eru allskonar skeljum, ljómandi af fegurstu litum. Efst á vögnunum er hástóll, og sitja konungarnir þar, þegar þeir birtast þegnum sínum, kunna þeir vel að stýra vögnum svo að þeir ekki þurfa kerrusveins. Óteljandi margt annað er þar merkilegt, sem yðar hátign mundi þykja gaman að heyra frá sagt, en með yðar leyfi ætla eg að láta hjer við lenda að sinni, svo eg geti talað um nokkuð, sem nú varðar meiru. Svo er mál með vexti, að barnburði hafmeyjanna hagar öðruvísi enn þeirra kvenna, sem á landi lifa og er eg því hrædd um, að ljósmæðurnar hjer geti ekki dugað mjer til hlítar. Stendur yðar hátign þetta á eins miklu og mjer sjálfri, og held eg ráðlegt sje, ef vel á að fara, að láta drottninguna móður mína koma hingað, ásamt frændkonum mínum og konunginum, bróður mínum, því eg vildi gjarna sættast við hann. Munu þau verða fegin að finna mig aptur, þegar eg hef sagt þeim sögu mína og látið þau vita, að eg er eiginkona hins volduga

Persakonungs. Eg ætla nú að biðja yðar hátign að leyfa mjer þetta; mun þeim og þykja vænt um að geta vottað yður virðingu sína, og það skal eg ábyrgjast, að þjer munuð hafa ánægju af að sjá þau.“ „Þú skalt ráða þessu, elskan mín!“ ansaði Persakonungur, „ger þú sem þjer líkar; eg skal reyna að fagna þeim með allri virðingu, sem þeim ber. En það langar mig til að vita, hvernig þú ætlar að láta þau vita vilja þinn, og nær þau muni koma, svo að eg geti haft allan viðbúnað til að fagna þeim og sjálfur farið til móts við þau.“ „Herra!“ mælti drottningin, „allri slíkri viðhöfn er ofaukið, þau munu koma hingað að vörmu spori. Þjer þurfið ekki annað enn að ganga inní næsta herbergi og horfa útum grindagluggann, og munuð þjer þá sjá þegar þau koma.“

Óðara enn konungur var út genginn, ljet Gulnare eina af þjónustukonum sínum færa sjer reykelsisker með glæðum í. Þvínæst vísaði hún henni burt og skipaði henni að loka dyrunum. En er hún var alein í herberginu, kastaði hún viðsmjörsviðar flís á glæðurnar og þuldi nokkur orð í reykinn, er uppaf þeim lagði, horfði Persakonungur á aðfarir hennar með mestu eptirtekt, en skildi ekkert í því, er hún sagði. Áðurenn hún var búin að þessu, sá konungur útum gluggann, að sjórinn tók að ylgjast. Klofnaði hann loksins í sundur kippkorn undan landi og kom þar upp ungur maður fríður sýnum og hár vexti með sægrænan kamp á efri vörinni, en á eptir honum kom upp roskin kona, tignarleg yfirlitum og fylgdu henni fimm hafmeyjar, hvergi ófríðari enn Gulnare var. Ljet hún nú sjá sig út við gluggann og þekkti undireins bróður sinn, móður sína og frændkonur, könnuðust þau einnig við hana og liðu inn eptir sjónum, og sást ekki að þau gengju, en er þau voru rjett komin að fjöruborðinu tóku þau sig á lopt hvert af öðru og liðu innum gluggann, sem Gulnare hafði staðið við, því nú var hún farin að taka til sæti handa þeim. Saleh konungur, drottningin móðir hennar og frændkonur hennar umföðmuðu hana grátandi hvert af öðru, en hún fagnaði þeim öllum með mestu virktum. Þegar móðir hennar var sezt í legubekk einn, tók hún þannig til orða: „Dóttir mín! en hvað eg er feginn, að sjá þig aptur eptir svo langa burtuveru og það er

eg fullviss um, að ekki er það minna gleðiefni fyrir bróður þinn og frændkonur þínar. Það fjekk okkur óumræðilegrar sorgar, að þú hvarfst á burt svo enginn vissi og höfum við grátið yfir því mörgum tárum. Ekki vitum við neitt, hvað þjer hefur gengið til þess, nema það sem bróðir þinn hefur sagt af viðtali ykkar. Það, sem hann þá eggjaði þig á, leizt honum hyggilegt eptir því sem á stóð, og þó þjer þækti fyrir, hefðirðu ekki átt að láta það fá þjer svo mikils, enda muntu ekki þykkjast við þó eg segi, að þú hafir tekið allt öðruvísi undir þetta mál, enn vera átti. En sleppum nú því, sem ekki mundi verða til annars enn að ýfa upp harma og kveinstafi, sem bæði við og þú ættum að láta falla í gleymsku. Segðu okkur heldur, hvað á dagana hefur drifið síðan við skildum, en það umfram allt, hvort þú nú unir vel hag þínum." Þá fleygði Gulnare drottning sjer fram fyrir fætur móður sinnar og kyssti á hönd hennar, þvínæst stóð hún upp aptur og mælti: „Elskulega móðir! mjer hefur mikið á orðið og það skal eg við kannast; á eg það góðsemi yðar einni að þakka að þjer fyrirgefið mjer. En af því, sem eg nú ætla að segja yður, munuð þjer skilja. að það stoðar ekkert á stundum, þó við höfum andstyggð á sumum hlutum. Eg hef nú reynt það á sjálfri mjer, að forlögin hafa einmitt leitt mig til þess, sem mjer var fjærst skapi." En er hún hafði sagt frá öllu, er hana hafði hent og hversu hún loksins var seld Persakonungi, mælti bróðir hennar: „Það var rangt af þjer, systir mín! að þola slíka ósæmd, en þú getur engum um það kennt, nema sjálfri þjer. Þjer var í sjálfs vald sett, að forða þjer frá því og ekkert skil eg í þolinmæði þinni, að þú skyldir eira ánauðinni svo lengi. Stattu nú upp og farðu heim með okkur í ríki okkar, sem eg nú hef aptur náð frá fjandmanni vorum."

Allt þetta heyrði Persakonungur og sá úr hinu næsta herbergi og varð hann nú dauðhræddur um að Gulnare mundi hlýða áskorun bróður síns. „Dauðinn er mjer vís ef hún yfirgefur mig," hugsaði hann með sjer. „Eg get ekki framar lifað án hennar og nú á að taka hana frá mjer." En Gulnare ljet hann ekki vera lengi í vafa um þetta, því hún svaraði bróður sínum á þessa leið: „Aldrei hef eg betur sjeð, hvað einlæglega þú elskar mig, enn af því, sem þú nú sagðir. Þegar þú rjeðir mjer til að giptast landkonungi, hafði

og hina mestu andstyggð á ráði þínu, en nú liggur mjer við að reiðast útaf því, er þú leggur til, að eg skuli yfirgefa Persakonunginn eiginmann minn, sem hefur sýnt mjer óræk merki einlægrar ástar. Fyrstu dagana, sem hann átti samlag við mig, vísaði hann öllum hinum öðrum konum sínum burt, til þess að búa saman við mig eina. Eg er nú ekki lengur ambátt hans, heldur drottningin hans, og rjett fyrir skemmstu sagði hann, að eg skyldi vera drottning Persaríkis og eiga sæti í ríkisráði hans. Þar að auki er eg með barni og láti guð mig ala sveinbarn, þá er það nýtt band, sem gerir samtenging okkar ennþá óslítanlegri enn áður. Því fer svo fjærri, bróðir minn! að eg fallist á ráðleggingu þína, að eg finn mjer miklu fremur skylt, að verða konungi unnandi, og helga honum líf mitt, öllu fremur af þakklátsemi enn fyrir skyldu sakir. Eg geri ráð fyrir, að hvorki móðir mín, þú, nje föðursystur mínar sjeu mótfallnar þessum ásetningi mínum, nje heldur ráðahag þeim, er eg gekk að óbeðin; hafa sækonungar ekki minni sæmd af honum enn landkonungar. Annars bið eg ykkur ekki misvirða, að eg ómakaði ykkur frá sjávardjúpinu, til þess að eg gæti sagt ykkur þetta, og notið þeirrar sælu að sjá ykkur aptur eptir svo langvinnan skilnað.“

Sagði Saleh henni þá, að sjer hefði ekki gengið annað til, enn að hann vildi sýna, hversu vænt þeim öllum þækti um hana, hverja virðingu hann fyrir sitt leyti bæri fyrir henni, og hversu þau fremur öllu öðru hefðu hugann á því, að stuðla til gæfu hennar. „Af sömu ástæðum,“ mælti hann ennfremur, „fellst eg á ráð þitt, sem er viturlegt og þjer samboðið, eptir að þú hefur sagt okkur, hversu mikið gott þú átt Persakonungi upp að unna og hver maður hann er. Eg geng að því vísu, að drottningin móðir okkar muni vera mjer samdóma um þetta.“

Drottningin móðir Gulnare kvað svo vera og sagði henni, hversu vænt sjer þækti um, að hún var ánægð; kvaðst hún þá fyrst mundu ámæla henni, ef hún ekki auðsýndi þeim konungi skylduga þakklátsemi, er ynni henni svo af alhuga og hefði gert svo vel til hennar. Engum fjekk þetta meiri gleði enn Persakonungi og varð Gulnare honum ennþá hugþekkari, ásetti hann sjer nú að votta henni þakklátsemi sína með öllu móti. Meðan hann

var að hugleiða þetta. hafði Gulnare klappað saman lófunum, komu ambáttir hennar þá og skipaði hún þeim að bera mat á borð. En er þær voru búnar að því, bauð hún móður sinni, bróður sínum og hafmeyjunum að borða með sjer. þá kom þeim öllum til hugar, að þau væru leyfislaust í höll voldugs konungs, sem aldrei hafði sjeð þau nje heldur þekkti þau, og mundi það vera mikil ósvinna, að matast við borð hans, án þess hann sæti þar með þeim. Roðnuðu þau útaf þessu og af innri geðshræringu brunnu augu þeirra, en eldur stóð út úr munni þeirra og nösum. Brá Persakonungi mjög við þessa sjón, því hann vissi ekki hvernig á henni stóð og varð næsta skelkaður. En Gulnare vissi, hvað ættfólk hennar vildi, stóð hún því upp og sagði um leið og hún gekk út, að hún skyldi undireins koma aptur.

Fór hún þá inní næsta herbergið til Persakonungs og rjenaði hræðsla hans, er hann sá hana. Fóru nokkur orð á milli þeirra um elsku þá, er þau ættu hvert að öðru og tók Gulnare þannig til máls: „Herra! komið nú og gangið úr skugga um, hversu einlæga lotningu drottningin hún móðir mín og konungurinn bróður minn hafa fyrir yður. þau brenna af löngun eptir að sjá yður og láta virðingu sína í ljósi fyrir yður. Eg var hrædd um, að þau kynnu að þykkja það við mig, að eg bauð þeim að borða, án þess eg fyrst hefði verið þeim í útvegum um þessa sæmd. þessvegna bið eg nú yðar hátign að koma og sæma þau með nærveru yðar.“

„Hjartkæra kona!“ ansaði konungur, „mjer skyldi vera hin mesta ánægja að heilsa fólki því, sem þjer er svo nákomið, en eg er svo hræddur við logana, sem standa útaf munni þeirra og nösum.“ „Ekki þarf yðar hátign hót að hræðast það,“ svaraði drottningin og brosti við, „það var ekki annað enn að þau ljetu í ljósi, að sjer væri á móti skapi, að borða í höll yðar, nema þjer væruð viðstaddur.“

Varð konungur þá óhræddur og fór með konu sinni til skyldmenna hennar, leiddi hún hann fram fyrir þau og sagði þeim, að þetta væri maðurinn sinn. Fleygðu þau sjer þá undireins fram fyrir fætur honum með andlitið á grúfu, en hann beiddi þau að standa upp aptur og faðmaði þau hvert að öðru. En er þau voru

öll sezt niður, tók Saleh konungur þannig til máls: „Við getum ekki nógsamlega lýst því fyrir yðar hátign, hvað vænt okkur þykir um, að Gulnare systir mín skyldi eiga því láni að fagna í óláni sínu, að komast undir ásjá svo voldugs konungs. Við þorum að fullyrða, að hún er ekki óverðug þess tignarsætis, sem þjer hafið valið henni. Hjartaþel okkar til hennar hefur alltjend verið viðkvæmara og ástríkara enn svo, að við gætum fengið af okkur að fastna hana nokkrum af hinum voldugu sækonungum, er báðu hennar áður enn hún var gjafvaxta. Guð hefur ætlað yður hana og getum við ekki betur þakkað honum þá náð, sem hann hefur auðsýnt oss, enn með því að biðja hann að láta yðar hátign lifa með henni langan aldur í skauti hamingjunnar.“

„Vel má svo vera,“ ansaði Persakonungur, „að guð hafi ætlað mjer hana, því elska mín til hennar var svo rík, að eg fann að eg aldrei hafði vitað, hvað ást er, fyrr enn eg sá hana. Eg get ekki fullþakkað drottningunni móður hennar og yður fyrir það, að þið með slíku veglyndi unnið mjer tengda þeirra og mægða, er eg hef svo mikinn sóma af.“ Að svo mæltu beiddi hann þau að setjast aptur til borðs og settist hann sjálfur við hlið Gulnare. En er þau höfðu matazt, sátu þau langt fram á nótt og voru að tala saman, þangaðtil konungur loksins fylgdi þeim til herbergja þeirra, er þeim voru ætluð. Hjelt hann nú hverja hátíðina eptir aðra þeim til vegsemdar og sýndi þannig vald sitt og dýrð í öllum sínum ljóma. Hjelt hann þeim með því móti kyrrum við hirð sína, þangaðtil að þeim tíma kom, að Gulnare skyldi fæða. Ól hún sveinbarn og varð þá sárglöð, færði hún Persakonungi það sjálf undireins og það var reifað. Tók konungur við gjöf þessari með slíkri gleði, að hægra er að ímynda sjer hana enn útmála. Af því nú andlit sveinsins var fullt að vöngum og ljómandi fagurt, þóktist hann ekki geta valið honum nafn, er betur ætti við enn Beder (fullt tungl). En til þess að færa drottni þakkir, ljet hann gefa fátæklingum ríkmannlegar ölmusugjafir, en bandingjum og öllum þrælum sínum og ambáttum gaf hann frelsi; hann veitti og hirðmönnum sínum og þegnum stórgjafir og ljet halda gleðihátíðir um alla borgina, er stóðu yfir í marga daga.

Þegar Gulnare var staðin upp úr barnssæng, voru þau móðir

hennar, frændkonur hennar og Persakonungur einhvern dag inni hjá henni, og kom barnfóstran inn með litla Beder á handleggnum. þá stóð Saleh konungur upp, tók sveininn af henni, vafði hann að sjer, gerði gælur við hann með mesta blíðlæti og ljek sjer við hann gangandi um gólf, en allt í einu leið hann í kæti sinni burt með hann útum opinn glugga og hvarf niður í sjóinn. Við þessa óvæntu sýn rak Persakonungur upp hræðilegt óp, því hann var hræddur um, að hann mundi aldrei framar sjá son sinn, nema ef til vill dauðan, og lá við sjálft, að hann gæfi upp öndina af ótta, harmi og ekka. En Gulnare sagði, að hann skyldi vera óhræddur. kvaðst hún ekki unna sveininum síður enn hann og væri hún öldungis ósmeik um hann, enda væri honum engin hætta búin og mundi konungurinn móðurbróðir hans hið bráðasta koma með hann aptur heilan á húfi. því þó drengurinn væri af hans bergi brotinn, hefði hann samt tekið þá náttúru í arf af móður sinni, að geta lifað eins vel í sjó og á landi.

Drottningin, móðir Gulnare og hafmeyjarnar samsinntu því, er hún sagði, en samt varð Persakonungur ekki óttalaus fyrr enn sjórinn fór að ókyrrast aptur og Saleh konungur kom í augsýn með Beder í fanginu. Leið hann undireins innum sama gluggann, sem hann hafði horfið út um, og sá Persakonungur með undrun, að ásjóna sonar hans var áþekk fullu tungli á heiðskýrri nótt. Saleh tók nú þannig til máls: „Yðar hátign varð víst hrædd um sveininn unga, þegar eg svona upp úr þurru þaut með hann ofaní sjóinn.“ „Að vísu varð eg það,“ ansaði Persakonungur, „og hjelt eg að eg aldrei mundi sjá hann framar heilan á húfi.“ „Ekkert þurfið þjer að hræðast hans vegna,“ mælti Saleh konungur, „því við höfum dreypt á hann nokkurskonar augnavatni, og lesið yfir honum þau orð, er standa á innsigli Salómons, Davíðs sonar, einsog gert er við hvert barn, sem hjá okkur fæðist. Verða þau þannig gædd þeirri náttúru, sem við höfum fram yfir þá, er á landi búa. Verið því öldungis óhræddur um, að hann getur hvorki drukknað nje kafnað, og meðan hann lifir getur hann, hvenær sem vera skal, brugðið sjer niður í sjáfardjúpið og farið um hin víðlendu ríki, sem hulin eru í skauti hafsins. Af þessu getið þjer

ráðið, hverjum hagsmunum Beder á að hrósa umfram aðra menn, og er honum þetta ættgengt frá móður sinni.“

Nú hafði Saleh aptur fengið barnfóstrunni sveininn og lauk þvínæst upp kistli einum, sem hann hafði sókt heim í höll sína á þeim örstutta tíma, er hann var í burtu. Í kistli þessum voru þrjúhundruð demantar og var hver á stærð við dúfuegg, þrjúhundruð rúbínar óvenju stórir og jafnmargir smaragðar, er voru hálft fet á lengd; þaraðauki voru í honum þrjátíu perlubönd eða hálsmen, og voru tíu perlur á hverju. Gaf hann Persakonungi allt þetta svo mælandi: „þegar Gulnare drottning, systir mín kallaði á okkur, vissum við ekki, hvar hún væri á landi, nje heldur að henni hefði orðið þeirrar sæmdar auðið, að verða eiginkona svo voldugs konungs, og komum við fyrir þá sök tómhent. Nú með því við ekki getum auðsýnt yður þakklátsemi okkar í verkinu, þá biðjum við yður að þiggja þetta einsog lítilfjörlegan vott þakklætis okkar fyrir hina frábæru ástarhylli yðar henni til handa, er okkur finnst ei minna um vert enn sjálfri henni.“

Persakonungur varð frá sjer numinn af undrun, er hann sá slík auðæfi samankomin í svo lítilli hirzlu og mælti: „þetta er ómetanlega mikil gjöf, og annað eins kallið þjer lítilfjörlegan þakklætis vott! Eg segi yður það ennþá einusinni, að eg á ekki hið minnsta til skuldar að telja, hvorki hjá yður nje móður yðar. Eg þykist nú þegar eiga frábæru láni að hrósa, þarsem þjer veittuð yðar samþykki til þeirra mægða, sem eg er kominn í við yður.“ Þvínæst vjek hann sjer að Gulnare og mælti ennfremur: „Hjartkæra kona! hann bróðir þinn kemur mjer í vanda, sem eg veit ekki hvernig eg á úr að ráða. Eg skyldi biðja hann að hlífa mjer við að þiggja gjöfina ef eg ekki væri hræddur um, að eg kynni að styggja hann, en biddu hann nú að þykkjast ekki við mig, þó eg drepi hendi við henni.“

„Það gengur yfir mig,“ ansaði Saleh konungur, „að yðar hátign skuli þykja gjöf þessi svo frábær. Eg veit að það er fágætt á landi að sjá svo marga og svo dýrmæta gimsteina saman komna í einu, en ef þjer vissuð að eg á fleiri gimsteina ráð enn geymdir eru í öllum fjehirzlum landkonunga samtals, þá munduð þjer furða yður á því, að eg skyldi dirfast að koma með annað

eins lítilræði. Gerið okkur því ekki þá skapraun að hafna gjöfinni.“ Gat Persakonungur þá ekki annað enn tekið stórgjöf þessari með mestu þökkum. Nokkrum dögum seinna sagði Saleh konungur honum, að drottningin móðir sín, hinar konungbornu hafmeyjar og sjálfur hann vissu reyndar enga meiri ánægju enn að dvelja við hirð hans alla daga, en nú hefðu þau langan tíma verið fjærkomin ríki sínu, og væri öll þörf á þeim heima fyrir, og beiddu þau hann því leyfa sjer að kveðja hann og Gulnare drottningu. Ljet Persakonungur þá í ljósi, hvílík raun sjer væri að því, að geta ekki heimsókt þau aptur einsog skylt væri. „Eg geng að því vísu,“ mælti hann, „að þið munið ekki gleyma Gulnare drottningu, en finna hana öðru hverju og vona eg því að sjá ykkur opt ennþá í húsum mínum.“

Við skilnað þeirra var mörgum tárum úthellt af beggja hálfu; fyrst kvaddi Saleh konungur þau hjónin, en drottningin móðir hans og hinar konungbornu hafmeyjar urðu þvínær með valdi að slíta sig úr faðmi Gulnare, því hún gat ekki fengið af sjer að sleppa þeim. En er þetta konunglega aðkomufólk var aptur horfið niður í sjóinn, gat Persakonungur ekki að sjer gert að segja þetta við konu sína: „Hjartað mitt! það mundi eg hafa ætlað, að sá maður ætlaði að gabba mig, sem hefði reynt að telja mjer trú um, að tilhæfa væri í þessum undrum, sem eg nú hef sjeð, meðan þitt hágöfuga ættfólk gerði mjer þá sæmd að vera í höll minni. En eg get ekki verið í neinum vafa um það, sem eg hef sjeð með mínum eigin augum: mun það verða mjer minnistætt alla æfi, og skal eg án afláts lofa guð fyrir að hann sendi mjer þig og virti mig þannig umfram alla aðra konunga.“

Beder kóngsson var nú uppalinn fyrir augum foreldra sinna og fjekk þeim það mikillar ánægju, að sjá, hversu vel hann dafnaði. því eldri sem hann varð, því meira yndi höfðu þau af honum, því hann var alltaf síglaður og kátur, og látbragð hans var kurteislegt, en allt, sem hann sagði, lýsti fjörugum anda og góðri greind. Jók það á gleði þeirra að Saleh konungur, amma hans og annað skyldfólk hans í móðurætt kom opt að finna þau. Veitti honum hægt að læra að lesa og skrifa og eins lítið varð honum fyrir að nema öll þau vísindi, sem konungasonum sæmir að kunna.

En er hann var fimmtán vetra gamall bar hann langt af öllum kennurum sínum og reyndist stórvitur og djúphygginn. Hafði Persakonungur þvínær allt frá fæðingu hans tekið eptir því, að hann var þeim mannkostum gæddur, sem eru svo mikils verðir fyrir konunga, og sá hann að þeir fóru dagvaxandi. Nú með því ellin sókti æ fastara á hendur honum dag frá degi vildi hann láta son sinn taka við ríkis forræði meðan hann enn var á lífi. Var honum hægðarleikur að fá ríkisráðið til að samþykkja vilja sinn í þessu efni og var þegnum hans því meiri gleði að frjetta fyrirætlun þessa, sem Beder var verður þess að ráða yfir þeim. Var hann þá fyrir löngu farinn að sýna sig á mannfundum svo allir höfðu getað sannfærzt um það, að hann var ekki þóttafullur og afundinn í viðmóti sínu einsog flestir aðrir konungasynir, sem litu með óbærilegri fyrirlitningu niður á allt, sem þeim var undirgefið. Af honum fór gagnstætt orð og var sagt að hann liti hvern mann vinaraugum og laðaði hann að sjer, og hlýddi með góðgirni á hvern þann, er nokkuð hafði að bera upp fyrir hann, en svör hans lýstu einstakri hjartagæzku, sem honum var eiginleg, og synjaði hann aldrei neinnar bænar, nema ills væri beðið.

Nú var dagur ákveðinn, er konungur ætlaði hátíðlega að segja af sjer ríkisstjórn. Á þeim degi safnaðist ríkisráðið saman og var í fjölmennara lagi, settist Persakonungur fyrst í hásæti sitt, en stje þvínæst ofan úr því, tók kórónuna af höfði sjer og setti hana á höfuð Beders. Þvínæst leiddi hann son sinn uppí sæti það, er hann var úr genginn og kyssti á hönd hans til merkis um það, að hann fengi honum alla tign sína og vald í hendur, tók hann sjer síðan sæti fyrir neðan hann hjá emírunum og vezírunum. Allir vezírar, emírar og æðstu embættismenn fleygðu sjer nú fram fyrir fætur nýja konungsins og unnu honum trúnaðareið. Bar stórvezírinn þessu næst upp merkismál nokkur og lagði Beder úrskurð á þau með slíkri speki, að allt ríkisráðið dáðist að. Eptir það vjek hann nokkrum jörlum úr tign sinni, sem uppvísir voru orðnir að svikum, og setti aðra í þeirra stað, gerði hann það með slíku rjettdæmi og sanngirni að allir luku lofsorði á. Gekk hann nú loksins af ráðstefnu og fór með föður sínum til Gulnare

móður sinnar. Óðara enn hún sá hann koma með kórónu á höfðinu hljóp hún á móti honum, faðmaði hann með blíðu og óskaði honum langrar og farsællegrar stjórnar.

Fyrsta árið fullnægði Beder konungur stjórnar skyldum sínum með miklu kappi. Einkum ljet hann sjer vera annt um að komast fyrir, hvernig á öllu stóð og kynna sjer allt það, er stuðlað gat til velferðar þegna hans. En næsta ár fól hann ríkisráðinu stjórnar störfin á hendur og fór úr borginni með samþykki föður síns; ljet hann það í veðri vaka, að hann ætlaði á dýraveiðar, en hann hafði reyndar hitt í hyggju, að fara um gjörvöll hjeröð ríkis síns til að aftaka ósiðu, en koma á reglu og hlýðni; svo ætlaði hann og að sýna sig á landamærunum, svo að illgjarnir nágranna konungar sæjust fyrir að ráða á ríki hans. Veitti Beder ekki af minna enn einu ári til að koma fram fyrirætlun þessari, en skömmu eptir að hann var heim kominn tók faðir hans svo hættulega sótt, að hann fann á sjer, að hann mundi ekki framar rísa á fætur. Beið hann andlátsins með mestu geðró og ljet sjer einungis um það hugað, að áminna ráðgjafana og höfðingjana í hirðinni um að efna trúnaðareið þann, er þeir höfðu svarið syni hans. Sóru þeir þá allir eiðinn á ný jafn fúslega og í fyrra skiptið og andaðist hann loksins Beder konungi og Gulnare móður hans til sárustu sorgar. Ljetu þau jarða hann í skrautlegum legstað.

Ekki þurfti Beder að taka það nærri sjer að fullnægja hinum persneska sið, að gráta hinn frammliðna í heilan mánuð og láta engan sjá sig á þeim tíma. Mundi hann alla æfi hafa grátið sinn ástkæra föður, ef hann hefði látið eptir ofurmegni sorgarinnar, og væri þess kostur fyrir voldugan konung að syrgja án afláts. Móðir Gulnare drottningar, Saleh konungur og hinar konungbornu hafmeyjar komu nú um þetta leyti og samhryggðust honum. En er mánuður var liðinn gat Beder konungur ekki komizt hjá að lofa stórvezírnum og öðrum embættismönnum í hirðinni að finna sig að máli; beiddu þeir hann að leggja niður sorgarbúninginn, birtast þegnum sínum og taka að sjer stjórnarstörfin einsog fyrri. En er konungur fyrst ljet í ljósi, að hann hefði mikla óbeit á því, sá stórvezírinn að ekki dugði annað enn að leggja fast að honum, og minnti hann meðal annars á það, að faðir hans hefði aðeins goldið þá skuld, sem allir eiga

að gjalda, og hefði hann í andlátinu ekki efast um, að hann mundi verða endurborinn í syni sínum; ætti Beder nú að sýna, að hinn framliðni hefði ekki vonazt þess ófyrirsynju. Gat Beder þá ekki lengur skorast undan að leggja niður sorgar búninginn; tók hann aptur á sig konungs skrúða og skraut og bar nú umhyggju fyrir ríki sínu og þegnum með sama athuga og við sama orðstír og meðan faðir hans lifði. Hjelt hann vandlega lög hinna fyrri konunga svo að þjóðin fann valla að konungaskipti voru orðin.

Saleh konungur hafði undireins farið heim aptur í ríki sitt, þegar hann sá að Beder konungur tók aptur við ríkis stjórninni. En að ári liðnu kom hann aptur einsamall; þá var það eitt kvöld eptir að borð voru upp tekin, að hann var að tala um hitt og þetta við Gulnare systur sína og Beder konung. Fór hann þá ósjálfrátt að hæla mannkostum og ágætisverkum Beders fyrir henni, en honum var ekki mikið um það gefið, að sett væri uppá sig hól; hinsvegar gat hann ekki beðið móðurbróður sinn að þegja, hallaðist hann því upp við dogg og ljet sem hann sofnaði. Lofaði Saleh konungur bæði sálargáfur hans og líkams atgjörfi og talaði um sköpulag hans einsog eitthvert furðuverk, sem ekkert fengi við jafnast hvorki á landi nje í þeim ríkjum, sem liggja á mararbotni. Kvaðst hann furða sig á því, að Gulnare ekki skyldi hafa til hugar komið, að láta son sinn kvongast. „Ef mig minnir rjett,“ mælti hann, „þá er hann nú á tvítugasta árinu og má enginn konungur, slíkur sem hann er, vera konulaus, úr því hann er kominn á þann aldur. Eg skal sjálfur sjá honum fyrir ráði, fyrst þú ekki gerir það og skal eg gipta honum kóngsdóttur frá ríkjum vorum, sem honum sje fullkosta.“

„Þú vekur þar máls á því,“ ansaði Gulnare, „sem mjer allt til þessa aldrei hefur dottið í hug nje hjarta. Hann hefur aldrei ennþá látið á sjer skilja, að sjer væri hugur á að kvongast, hef eg því ekki skeytt um það, og þykir mjer vænt um að þú leiðir það í tal. Eg fellst á ráð þitt að láta hann eiga sæborna kóngsdóttur og bið eg þig að koma með einhverja, sem er svo fríð og kostum búin, að sonur minn ekki getur annað enn elskað hana.“ Svaraði Saleh í hljóði, að hann þekkti eina slíka, en áður enn hann segði ítarlegar frá henni, yrði hún að komast fyrir, hvort Beder

konungur svæfi. „Eg skal nú þegar segja þjer, hversvegna þessarar forsjálni er þörf,“ mælti hann.

Gulnare gáði nú að, hvort sonur sinn svæfi, og efaði hún ekki, að hann mundi sofa fasta svefni. En Beder hjelt augunum aptur og tók vandlega eptir, svo að hann ekki missti nokkurs orðs, sem móðurbróðir hans talaði. Tók hann nú aptur þannig til máls: „Það er ekki ráðlegt, að sonur þinn fái svo fljótt að vita það, sem eg ætla að segja þjer. Þú veizt, að ástin leitar sjer stundum leiðar til hjartans innum eyrun og væri ekki hollt, að hann færi að leggja ástarhug á þá konu, sem eg nú ætla að segja þjer deili á. Hjer er við mikil vandkvæði að stríða, ekki af hálfu kóngsdótturinnar, vona eg, — heldur af föður hennar hálfu — er þar fljótt frá að segja, að eg ræði um Gíohare, dóttur konungsins í Samandal.“ „Er hún ógipt ennþá?“ mælti Gulnare, „eg man að eg sá hana skömmu áðurenn við skildum; þá var hún ekki nema þriggja missera gömul, en frábærlega fríð. Hafi hún fríðkað eptir það, þá hlýtur hún nú að vera furðuverk heimsins og þó þessi litli aldurs munur sje á henni og Beder, þá ættum við samt að gera allt, sem unnt er, til að fá svo góðan kvennkost. Nú er að vita, hver vandkvæðin eru, sem þú talar um og hvernig við getum sigrast á þeim.“ „Þau rísa öll af hinum óbærilega ofmetnaði konungsins í Samandal,“ ansaði Saleh, „þykist hann hafinn upp yfir alla aðra konunga og eru litlar vonir til, að okkur verði samkomulags auðið við hann um þenna ráðahag. Eg skal samt undireins fara og biðja dóttur hans og synji hann ráðsins, þá förum við í annan stað, þarsem bænir okkar verða betur heyrðar. Það er því bezt, að Beder frændi fái enga vitneskju um þetta fyrr enn við erum viss um samþykki konungs, svo að hann ekki fari að leggjast á hugi við kóngsdóttur, sem við ekki getum fengið honum til handa.“ Ræddu þau nú lengur um þetta mál og varð loksins sú niðurstaðan, að Saleh konungur skyldi undireins fara heim í ríki sitt og hefja bónorð til Gíohare hjá konunginum í Samandal.

Þegar þau Gulnare og Saleh ætluðu að ganga til hvílu vöktu þau Beder, sem þau hugðu sofa, og ljet hann einsog hann vaknaði af fasta svefni. Hafði hann heyrt hvert orð, sem þau töluðu, og hafði lýsing þeirra á Gíohare vakið ástríðu í hjarta hans, sem

honum var með öllu ný. Gerði hann sjer eptir lýsingu þeirra svo miklar hugmyndir um fegurð hennar, að honum kom ekki dúr á auga alla nóttina, svo mikill hugur var honum á að fá hennar.

Daginn eptir þegar Saleh konungur ætlaði að kveðja, brá hinn ungi Persakonungur lit, því hann vissi gjörla, að móðurbróðir hans flýtti því aðeins burtför sinni, að hann ætlaði þegar í stað að vinna allt honum til hags og heilla. En ást hans var nú orðin svo rík, að hann gat ekki einusinni beðið svo langan tíma, sem hann hjelt á bónorðsförinni mundi standa, svo ákaft langaði hann til að sjá ástmey sína. Ætlaði hann því að biðja móðurbróður sinn að lofa sjer að fara með honum, en af því hann ekki vildi að Gulnare drottning yrði þess vísari, óskaði hann sjer tækifæris til að ræða um þetta við hann einslega. Beiddi hann því Saleh konung að vera kyrran svo hann gæti farið á dýraveiðar með sjer næsta dag, og vonaði hann, að þá mundi sjer veitast tækifæri til að segja honum ætlun sína. Enda varð hann opt einn eptir hjá móðurbróður sínum á veiðunum, en hann vantaði uppburði til að segja, hvað sjer byggi í huga. En er menn voru sem ákafastir að veiða, varð Saleh viðskila við hann og með því enginn af föruneyti þeirra var þar hjá Beder konungi, þá fór hann af baki á lækjarbakka og batt hestinn við skuggamikið trje, lagðist hann þar niður í grasið og svalaði sorgarlöngun sinni með gráti og andvörpum.

Þannig sat hann lengi þungt hugsandi og fjekk engu orði upp komið; en af Saleh er það að segja, að hann varð mjög hræddur um systurson sinn, er hann saknaði hans; gat enginn sagt honum, hvað af honum var orðið. Fór hann þá sjálfur að leita að honum og sá hann loksins álengdar. Hafði hann daginn áður tekið eptir því, að ekki lá eins vel á Beder og endrarnær, og að hann þvert á móti vanda var sem í leiðslu og seinn til að svara því, er hann var spurður um. Samt grunaði hann ekkert, hvað þessum skapbrigðum mætti valda, fyrrenn hann sá hann þarna í öngum sínum. Fór hann því af hestbaki spölkorn í burtu og batt hestinn við trje, fór síðan á sig krók og læddist svo nálægt honum, að hann heyrði hann mæla á þessa leið: „Þú elskulega kóngsdóttir í Samandal! eg veit þau muni hafa lýst þinni óviðjafnanlegu

fegurð þinni helzt til dauflega. Ef eg vissi, hvar eg gæti fundið þig, skyldi eg undireins fara og bjóða þjer hjarta mitt. Þú átt það og aldrei skal það verða annari konu háð.“ Þurfti Saleh þá ekki að heyra meira og gekk svo nærri Beder, að hann hlaut að verða hans var. „Eg sje það, frændi!“ mælti hann, „að þú hefur heyrt viðræðu okkar Gulnare móður þinnar í gærkveldi. Við ætluðumst ekki til þess og hjeldum við að þú mundir sofa.“ „Kæri móðurbróðir!“ ansaði Beder, „eg heyrði hvert orð og hefur viðtal ykkar haft þau áhrif á mig, sem þú sást fyrir. Mjer gekk það mest til að halda þjer kyrrum, að eg ætlaði að tala við þig um ástir mínar, áðurenn þú færir á stað. En tunga mín hefur verið sem bundin, svo mjög hef eg fyrirorðið mig að kannast við breiskleika minn fyrir þjer, ef það getur heitið breiskleiki að unna svo elskulegri kóngsdóttur. Nú sárbæni eg þig sakir vináttu þinnar og náinnar frændsemi, sem mjer er sómi að, hafðu meðaumkvun með mjer og fyrirmunaðu mjer ekki að sjá hina himnesku Gíohare áður enn þú hefur öðlazt samþykki konungsins í Samandal til giptingar okkar, því annars mun eg deyja af ástar trega.“

Saleh konungur komst í bobba við þessi orð Persakonungs. Hann leiddi honum fyrir sjónir, hvílíkt vandhæfi væri að fá óskum hans framgengt, og væri það því aðeins mögulegt, að hann færi með sjer; en svo væri það áríðandi fyrir Beder að vera heima í ríki sínu, að hann ætti fyrir hvern mun að þagga niður ástríðu sína, þangaðtil hann hefði komið öllu svo í lag, að hann gæti fullnægt henni, hjet hann að gera allt sitt til þess, og kvaðst mundu segja honum að fárra daga fresti, hvað sjer yrði ágengt. En Beder konungur daufheyrðist við þessum fortölum hans og mælti: „Nú sje eg að þú hefur ekki þá elsku til mín, sem eg hugði og að þú vilt heldur láta mig deyja enn veita mjer hina fyrstu bæn, sem eg bið þig.“ Saleh sór og sárt við lagði, að hann vildi gera honum allt til vilja, hvað sem vera skyldi, en hann gæti ekki haft hann með sjer, nema hann ljeti Gulnare móður sína vita af því, og yrði hann ásamt með sjer að biðja hana leyfis til þessa. „Þú veizt það,“ ansaði Persakonungur, „að móðir mín mun aldrei leyfa mjer að yfirgefa sig og sjest það á þessum orðum þínum, hvað þú ert harðbrjósta við mig. En ef þú annst mjer svo sem þú vilt telja mjer

trú um, þá skaltu undireins fara heim í ríki þitt og hafa mig með þjer.“ Sá Saleh þá ekki annað sýnna enn að láta eptir Persakonungi og fjekk honum hring, sem hann hafði á hendinni; voru hin leyndardómsfullu nöfn drottins grafin á hann, einsog á hring Salómons; hafa mörg stórmerki gerzt fyrir þeirra krapt. „Settu upp hringinn,“ sagði hann við Beder, „og hræðstu hvorki öldur nje dýpt hafsins.“ En er Persakonungur hafði sett upp hringinn, sagði Saleh: „Gerðu nú sem eg!“ þvínæst tóku þeir sig báðir á lopt, liðu ofan að sjónum, sem ekki var allfjærri, og stungu sjer á kaf. Leið ekki á löngu áðurenn sækonungurinn kom í höll sína með Beder. Leiddi Saleh hann í fyrsta sinn á fund drottningarinnar gömlu, ömmu sinnar; kyssti Beder á hönd hennar, en hún faðmaði hann að sjer og var hin kátasta. „Eg sje það á þjer, að þjer er ekki mart að meini,“ mælti hún, „en hvernig líður dóttur minni, henni Gulnare móður þinni.“

Sagði Persakonungur, að henni hefði liðið æskilega, þegar hann skildi við hana og hefði hún beðið sig að bera henni beztu kveðjur sínar, — því hann varaðist að láta á því bera, að hann hefði farið í óleyfi hennar. þvínæst leiddi drottning hann fyrir kóngsdæturnar og sagði þeim, hver hann væri, en meðan hann gaf sig á tal við þær, gekk hún inní annað herbergi með Saleh; sagði hann frá öllum atvikum, hversvegna Beder væri kominn þangað með sjer, og kvaðst hann nú hyggja á ráð, hvernig hann ætti að fá Gíohare kóngsdóttur honum til handa. þó nú Saleh í raun og veru ekki væri valdur að ástarhug Beders, þá láði móðir hans honum mjög, að hann skyldi hafa talað svo ógætilega um Gíohare í hans viðurvist. „það var ófyrirgefanleg vanhyggni af þjer,“ mælti hún. „þú veizt hvernig konungurinn í Samandal er skapi farinn, og geturðu eptir því haldið að hann muni gera sjer ódælla við þig enn svo marga aðra konunga, sem hann hefir vísað burt með frábærri fyrirlitningu? Ætlarðu þá að láta hann reka þig burt með sömu svívirðingunni.“

Saleh leiddi henni fyrir sjónir, að það hefði verið þvert á móti vilja sínum að svona fór, en það væri nú komið sem komið væri, og mundi Beder deyja af harmi og ástar þrá, nema þau einhvernveginn fengju konunnar fyrir hans hönd. „Mjer ber að

leggja ljettan á þetta,“ sagði hann, „því þó eg ekki gæti að gert, hefur ógæfa þessi samt hlotizt af mjer og vil eg því gera allt, sem unnt er, til að bæta úr henni. Vona eg, móðir mín! að þú fallist á þá ætlun mína, að fara til konungsins í Samandal og biðja hann að gefa Beder dóttur sína. Ef gætilega er farið að honum held eg hann láti til leiðast að gerast tengdafaðir þess konungs, sem er einhver hinn voldugasti á landi.“

„það hefði verið æskilegt,“ ansaði drottning, „ef við ekki hefðum þurft að ráðast í þetta, sem svo mjög er hæpið að takist. En fyrst að hjer er um heill og hugarró dóttursonar míns að tefla, þá skal eg ekki synja míns samþykkis; en með því þú þekkir lunderni konungsins í Samandal þá bið eg þig umfram allt að sýna honum alla þá virðingu, sem honum ber, og tala svo vingjarnlega til hans, að hann ekki styggist.“ Fór drottning nú að taka til gjafirnar, og valdi demanta, rúbína, smaragða og perlubönd, læsti hún gripi þessa niður í dýrindis skrín, harðla fagurt. Morguninn eptir kvaddi Saleh hana og Persakonung og fór á stað við lítið en vel valið föruneyti. Var hann ekki lengi að bregða sjer til konungsríkisins Samandal, og jafnskjótt sem hann var kominn í höllina og konungi var sögð koma hans, ljet hann leiða hann á sinn fund. Undireins og hann sá hann koma inn, stóð hann upp úr hásætinu; kærði Saleh sig ekki um, þó hann í þann svipinn yrði að brjóta odd af oflæti sínu, og fleygði sjer fram fyrir fætur honum, og óskaði honum hamingju til alls þess, er hann hefði hug á. Konungur Samandals reisti hann þá á fætur, ljet hann setjast niður hjá sjer og bauð hann velkominn, spurði síðan, hvort hann gæti greitt nokkuð fyrir honum.“

„Herra!“ svaraði Saleh, „ef eg ekki kæmi til annars enn að tjá lotningu mína fyrir hinum voldugasta konungi í heimi, sem er jafn ágætur að vizku og hreysti, þá mundi eg aldrei geta lýst henni til hlítar. En ef þjer gætuð skoðað í djúp hjarta míns, þá munduð þjer sjá, hversu mikla virðingu eg ber fyrir yður og hversu feginn eg vil sýna yður hollustu mína.“ Þvínæst tók hann gimsteina skrínið af einum fylgdarmanna sinna, og lauk því upp, rjetti konungi það og beiddi hann svo vel gjöra að þiggja það.

„Þvíaðeins gefið þjer mjer slíka stórgjöf,“ mælti konungurinn

í Samandal, „að þjer hafið einhverrar bænar að biðja, sem samsvarar gjöfinni. Ef þjer biðjið einhvers, sem mjer er unnt að veita, þá skal mjer vera ánægja að gera yður til vilja. Segið mjer því hispurslaust, hvað get eg gert yður til skaps?“ „Satt er það,“ svaraði Saleh, „að eg ætla nokkurs að beiðast af mildi yðar hátignar; mun eg því að eins bera bæn mína upp, að þjer eruð fær um að veita hana.“ „Þjer þurfið þá ekki annað enn að segja mjer, hvers þjer biðjið,“ sagði konungurinn í Samandal, „og munuð þjer þá komast að raun um, hvað bóngóður eg get verið, ef eg er þess um kominn.“

„Herra!“ mælti Saleh, „með því góðsemd yðar hátignar hefur mjer í brjóst blásið fullu trúnaðartrausti á góðvilja yðar, þá skal eg þess eigi lengur dyljast, að eg er kominn til að biðja yður, að unna oss þeirrar gleði, að gipta Gíohare dóttur yðar í ætt vora, og tryggja enn betur með því vinsemd þá, er í langan tíma hefur verið á milli beggja ríkjanna.“ Konungurinn í Samandal rak þá upp skellihlátur og reigðist aptur á bak upp að hægindinu, svo Saleh var skapraun að. Þvínæst sagði hann með fyrirlitningu: „Saleh konungur! eg hafði alltjend haldið, að þjer munduð vera hygginn, vitur og ráðsettur konungur, en nú sje eg, hvað hraparlega mjer hefur skjátlazt. Hvar höfðuð þjer vitið, þegar þjer voruð að búa til þenna stórkostlega bollalagnað, sem ekki nær neinni átt? Hefur yður í alvöru að tala komið til hugar að fá dóttur svo voldugs konungs sem eg er? Þjer hefðuð átt að hugsa eptir því áður, hversu fjarskalegur tignarmunur er á yður og mjer; og hefði yður verið nær að koma ekki hingað og glata allt í einu allri þeirri virðingu, sem eg hafði fyrir yður?“

Saleh veitti nú erfitt að sekkja reiði sína, er honum var svarað slíkum skapraunarorðum, en samt stillti hann sig og mælti: „Guð launi yðar hátign eptir verðleikum! Leyfið mjer að geta þess, að eg bið ekki dóttur yðar sjálfum mjer til handa, en þó svo væri, þyrfti hvorki yðar hátign nje dóttir yðar, að láta sjer þykja fyrir, því eg þæktist gera báðum ykkur sæmd. Eg er sækonungur einsog þjer vitið, hvergi síður enn þjer, og stendur ætt forfeðra minna engum konungaættum á baki hvað aldurinn snertir, en ríki það, er þeir eptirljetu mjer stendur nú með einsmiklum blóma og fyrri.

Hefðuð þjer ekki gripið frammí fyrir mjer, þá munduð þjer hafa orðið þess vísari, að eg ekki geng fyrir knje yðar sjálfs mín vegna, heldur fyrir hönd systursonar míns, hins unga Persakonungs; veit eg að yður getur ekki verið ókunnugt um, hversu hann er voldugur og hvílíkur ágætismaður hann er. Einsog allir ljúka upp einum munni um það, að Gíohare sje allra kvenna fríðust undir sólinni, svo er það sannmælt, að hinn ungi Persakonungur er fríðastur og algjörvastur allra konunga bæði á landi og í sjó, og leikur þar á enginn efi. Nú með því bæn mín ekki getur annað enn horft yðar hátign og Gíohare dóttur yðar til mikils ágætis, þá megið þjer ganga að því vísu, að ef þjer gjaldið jáyrði við, þá munu allir það vel róma. Dóttir yðar er fullboðin Persakonungi og hann ekki síður henni, það lof getur enginn konungur í heimi dregið af honum.“

Konungurinn í Samandal ljet Saleh því aðeins ná að tala svo langt erindi, að hann gat ekki tekið frammí ræðu hans fyrir heiptar æði. Sat hann enn nokkra stund orðlaus eptir að Saleh var þagnaður, svo var hann utan við sig; en loksins rauk hann uppá hann með hroðaskömmum, er ósæmandi voru svo miklum konungi sem hann var: „Hundurinn þinn!“ kallaði hann upp, „vogar þú að tala svo við mig og taka nafn dóttur minnar í munn þjer svo eg heyri, og halda systursyni þínum til jafns við hana? Hvað ert þú, hver er systir þín, hver er sonur hennar, og hver var faðir hennar? Hvað eruð þið hjá mjer? ekki nema hundar. Heyrið þrælar! höggið höfuðið af þessum ósvífna þorpara.“ Saleh konungur varð nú skjótari að bragði enn hinir fáu hirðmenn, sem viðstaddir voru og ætluðu að sækja að honum, flýði hann sem fætur toguðu og komst fram að hallar dyrunum og hitti þar úti fyrir þúsund vel vopnaða riddara, sem voru rjett nýkomnir. Hafði móðir hans sent þá á eptir honum, þegar hún heyrði, hversu fámennur hann hafði farið, því hún sá fyrir, að hann mundi fá illar viðtökur hjá konunginum í Samandal. Frændur hans, er rjeðu fyrir riddaraflokknum, urðu fegnir, að þeir komu svo í tækan tíma, er þeir sáu hann hrakinn á flótta útúr höllinni með föruneyti sínu. Varð þeim það fyrst að orði, að þeir sögðu: „Við erum reiðubúnir að hefna yðar og þjer þurfið ekki annað enn að segja

fyrir.“ Sagði Saleh konungur þeim í stuttu máli, hvernig farið hafði og ruddist þvínæst inní höllina með mikinn liðsflokk, en hinir, sem eptir urðu, gættu dyranna á meðan, tók hann nú konunginn í Samandal höndum, en menn hans lögðu á flótta. Leitaði Saleh síðan um alla höllina að Gíohare dóttur hans; en hún hafði þegar brugðið við, er hún fyrst heyrði hergnýinn og skotið sjer upp á yfirborð hafsins með þjónustumeyjum sínum og flúið til eyðieyjar einnar.

Meðan þetta gerðist í höll konungsins í Samandal varð móðir Saleh næsta óttaslegin, af því nokkrir komu af fylgdarliði hans, sem flýðu þegar hann fyrst komst í hættu. Var Persakonungur viðstaddur er þeir komu og fjekk það honum því meiri áhyggju, sem hann kenndi sjálfum sjer um alla þá ógæfu, er af því mætti hljótast. En er hann varð þess vísari, í hverjum háska Saleh konungur var, hafði hann ekki þor til að koma fyrir augu ömmu sinnar, og brá hann sjer upp á yfirborð hafsins, meðan hún skipaði fyrir það er þurfa þókti. Samt vissi hann ekki, hvort stefna skyldi, ef hann ætti að komast til Persalands, en forlögin sem fyrirhuguð voru frá eylífð, ljetu hann bera að sömu eynni sem Gíohare var á. Settist hann þar niður undir trje nokkru einsog í leiðslu, en er hann rankaði við sjer, heyrði hann mannamál. Var það svo langt í burt, að hann heyrði ekki orðaskil og gekk hann því sem hægast á hljóðið, sá hann þá í skógarrunni ljómandi fagra konu; virti hann hana fyrir sjer fanginn af undrun og mælti: „þetta er víst Gíohare kóngsdóttir og hefur hún líklega flúið úr höll föður síns af hræðslu, en sje það ekki hún, þá á þessi ekki síður skilið, að eg unni henni af alhuga.“

Nú faldi hann sig ekki lengur, heldur gekk hann til hennar, og hneigði sig djúpt fyrir henni svo mælandi: „Drottning mín! eg fæ ekki fullþakkað guði þá náð, að hann í dag lætur augu mín sjá það, sem í hans augsýn er fegurst. það er sú mesta hamingja, sem mjer gat hlotnast, að mjer býðst tækifæri til að bjóða yður hjálp mína, og sárbæni eg yður að þiggja hana. Slík kona sem þjer eruð, getur ekki verið í slíkum óbyggðum stödd, nema hún sje hjálparþurfi.“ því samsinnti kóngsdóttir með hryggðar svip og sagðist vera dóttir konungsins í Samandal. „Eg

sat áhyggjulaus í herbergi mínu,“ mælti hún, „en allt í einu heyrði eg hræðilegan gný og var mjer samstundis sagt, að Saleh konungur hefði gert áhlaup á höllina, handtekið föður minn og höggið allt niður, sem mótvörn sýndi, veit eg ekki, hvað honum hefur gengið til þess. Mjer gafst rjett aðeins tími til að flýja hingað undan ofríki hans.“

Beder konungi þókti nú illt, að hann svo ófyrirsynju hafði yfirgefið ömmu sína og ekki beðið greinilegri tíðinda af móðurbróður sínum. Þókti honum vænt um, að hann hafði handtekið konnginn í Samandal, því hann efaði ekki, að hann mundi vinna það til frelsisins, að gefa sjer dóttur sína. Svaraði hann því þessum orðum: „Lotningar verða kóngsdóttir! það er von að illa liggi á yður, en auðleystur mun faðir yðar verða úr fangelsinu, því vita skuluð þjer, að eg er Beder Persakonungur, dóttursonur Saleh konungs. Það megið þjer eiga víst, að það er ekki tilgangur hans að ná löndum föður yðar, heldur vill hann aðeins afla mjer þeirrar sæmdar, að verða tengdasonur hans, en eiginmaður yðar. Eg heyrði sagt af fegurð yðvarri og þurfti ekki meira til, því þá þegar gaf eg hjarta mitt yður á vald; fer því svo fjærri að eg sjái eptir því, að eg nú bið yður að þýðast ást mína og vera þess fullvissa, að eg aldrei mun brenna af elsku til annarar konu enn yðar. Dirfist eg að vona, að þjer ekki vísið boði þessu frá yður, enda lítzt mjer sem þeim konungi sje í vilnandi, sem fór heiman úr ríki sínu til að bjóða yður ástir sínar. Unnið mjer því, fagra kóngsdóttir! þeirrar sæmdar, að fara með yður á fund móðurbróður míns, mun hann lofa föður yðar að ráða ríkjum sínum einsog fyrri, undireins og hann geldur jákvæði til hjónabands okkar.“

Þessi játning Persakonungs hafði ekki þann árangur, sem hann hafði búizt við; í fyrstunni leizt kóngsdóttur reyndar vel á hann, en óðara enn hún heyrði að öll sú ógæfa, sem hún og faðir hennar höfðu orðið fyrir, hafði hlotizt af honum, þá skoðaði hún hann einsog fjandmann, sem hún ætti ekkert samneyti að hafa við. Og þó hún kynni að vera hneigð til giptingarinnar, þá duldist henni samt ekki, að það var eitt með öðru, sem komið hafði föður hennar til að synja ráðsins, að Beder var af landkonungum kominn; en í þessu efni vildi hún alveg hlíta forsjá föður síns. Ásetti

hún sjer að leyna reiðinni að sinni og hugsaði ekki um annað enn að sleppa fimlega úr höndum Beders. Ljet hún því einsog sjer væri ánægja að sjá hann og sagði með mestu blíðu: „Herra! þjer eruð þá einkasonur Gulnare drottningar, sem var svo orðlögð fyrir frábæran fríðleik sinn; það fær mjer óumræðilegs fagnaðar, að sjá son hennar, sem verður er að eiga slíka móður. það er rangt af föður mínum að standa svo ákaft á móti giptingu okkar, en þegar hann sjer yður, mun hann ekki heldur hika sjer lengur við að lofa okkur að ná saman.“ Að svo mæltu rjetti hún honum hönd sína og þóktist Beder þá hafa himin höndum tekið. Hann greip um hönd hennar og laut niður til að kyssa á hana, en kóngsdóttirin ljet hann ekki fá tíma til þess. „þú ósvífni maður!“ sagði hún og hratt honum frá sjer og skirpti framan í hann, því hún hafði ekki vatn fyrir hendi til að stökkva á hann, „leggðu niður mannsmynd þína og breytztu í hvítan fugl, með rautt nef og rauða fætur.“

Óðara enn hún hafði talað þessi orð breyttist Beder í slíkan fugl sem fyrr sagði; varð hann í einu hlessa og harmþrunginn. Skipaði hún þvínæst einni af þjónustumeyjunum að fara með hann til þurrkeyjar; sú ey var ekki annað enn hræðilegur klettur og fjekkst þar ekki vatnsdropi. En þjónustumærin kenndi í brjóst um hann og hugsaði með sjer, að það væri mikill skaði, að konungur, sem svo var verður að lifa, skyldi deyja úr hungri og þorsta, enda kynni kóngsdóttir, sem annars var ljúflynd og hjartagóð ef til vill að iðrast eptir svo grimdarfulla skipun, þegar henni væri runnin reiðin. Fór hún því með hann í eina fjölbyggða ey, þangað sem landslag var fagurt og nægð af aldintrjám, en jörðin vökvuð af uppsprettulindum.

Nú víkur sögunni aptur til Saleh konungs. þegar hann hafði árangurslaust leitað að Gíohare kóngsdóttur, ljet hann hafa örugg varðhöld á föður hennar í höll sjálfs hans. En er hann hafði skipað fyrir um landsstjórn í fjærveru sinni svo sem þörf var á, fór hann til drottningarinnar móður sinnar til að segja henni, hvernig farið hafði.

Undraðist hann mjög og hryggðist, er hann heyrði, að systursonur sinn væri allur á brottu; sagði móðir hans, drottningin, að

hann hefði horfið, þegar hún frjetti hvað hætt Saleh var kominn, og skipaði að senda honum meira lið, eða hefna hans; hefði hann að líkindum orðið smeikur við fregn þessa og ekki þókzt vera óhultur. Sárnaði Saleh þetta mjög og sá nú eptir því, að hann hafði látið eptir vilja Beders og ekki gert Gulnare drottningu vitneskju um það. Ljet hann leita hans vandlega í öllum áttum, en frjetti ekkert til hans, og því vænna sem honum þókti um, að hann hafði komið ráðahagnum svo vel áleiðis, því sárar hryggðist hann af þessu óvænta atviki. Fól hann nú móður sinni ríkisstjórn á hendur þangaðtil hann mætti fá frjettir af systursyni sínum, hvort sem góðar yrðu eða illar; sjálfur stjórnaði hann ríki konungsins í Samandal, og ljet gæta hans vandlega, en sýndi honum þó alla þá virðingu, sem honum bar. Sama daginn sem hann hvarf aptur til konungsríkisins Samandal, kom Gulnare til móður sinnar. Hafði hvarf Beders sonar hennar ekki fengið henni neinnar áhyggju í fyrstunni, því hún hjelt að veiðihugurinn hefði ginnt hann lengra enn hann ætlaði, því slíkt hafði hent hann fyrr. En burtvera hans dróst æ lengur og lengur og föruneyti hans, sem lengi hafði leitað hans árangurslaust, kom heim og sagði að þeim konungunum Beder og Saleh hlyti að hafa viljað eitthvað til, eða þeir væru báðir saman á einhverjum þeim stað, sem ekki hefði orðið fundinn; varð drottning þá næsta hugsjúk. Höfðu hestar konunganna fundizt, en þeirra sjálfra varð hvergi vart. Gulnare drottning leyndi samt áhyggju sinni og sendi föruneyti þeirra aptur á stað til að leita; vísaði hún þvínæst öllum konum út frá sjer og sagðist vilja vera ein, steypti hún sjer þá niður í sjóinn til að komast fyrir, hvort Saleh konungur, einsog hana grunaði, mundi hafa tekið Beder son hennar með sjer. Mundi móðir Gulnare hafa tekið henni með mesta fögnuði hefði hún ekki vitað erindi hennar. „Dóttir mín!“ sagði hún, „eg veit að þú kemur ekki mín vegna, heldur til að leita tíðinda af syni þínum; en það, sem eg get sagt þjer af honum, er ekki til annars enn að ýfa upp harma okkar beggja. Eg varð allshugar glöð þegar eg sá hann koma með bróður þínum, en sambryggðist þjer undireins og eg heyrði að þeir höfðu farið á laun við þig.“ Sagði hún henni þá frá því, er Saleh fór sjálfur að biðja Gíohare kóngsdóttur, og því er gerzt hafði allt þangaðtil Beder konungur

hvarf. Kvað hún líklegt vera, að hann mundi finnast aptur, þarsem sízt skyldi ætla.

En Gulnare drottning var svo áhyggjufull, að hún ljet ekki huggast af þessu, því hún hugði son sinn tortýndan, grjet hún beisklega og kenndi bróður sínum um alla ógæfuna. En móðir hennar leiddi henni fyrir sjónir, að hún yrði að stríða við harm sinn, og með því ekki væri víst, að Beder konungur væri dauður, ætti hún að hafa sig alla við að varðveita ríkið fyrir hann. Væri því ráðlegast að hún hvyrfi undireins heim aptur í höfuðborg sína; skyldi hún gera þar heyrimkunnugt, að Beder konungur væri í orlofi hjá ömmu sinni, eg mundi þá hinn sami friður haldast, sem verið hafði. þetta varð Gulnare drottningu hvöt til að hverfa hið bráðasta heim í höll sína, og kom hún þangað fyrr enn nokkur hafði orðið áskynja um burtför hennar. þá, sem sendir voru til að leita að syni hennar, ljet hún undireins kalla heim, því hún sagðist vita, að hann mundi koma aptur innanskamms. Ljet hún þetta berast út um borgina og annaðist hún landsstjórn ásamt stórvezírnum og ríkisráðinu og var hin mesta friðsemd, allteinsog Beder stjórnaði sjálfur.

Nú er það af Beder að segja, að hann var mjög svo hnugginn í álögunum. Vissi hann hvorki hvar hann var, nje hvar Persaland lægi, enda hefði honum komið fyrir lítið að vita það, því þó vængirnir hefðu kunnað að bera hann þangað, þá hefði hann ekki verið neinu bættari. Sá hann því ekki annað sýnna enn að sitja kyrr þarsem hann var og lifa einsog aðrir fuglar. Liðu svo nokkrir dagar og fjekk fuglari nokkur augastað á honum; neytti hann allrar lagkænsku til að veiða svo fallegan fugl, sem þartil var óþekktrar tegundar. Tókst honum það, og með því hann vænti sjer meiri ábata af honum einum enn mörgum öðrum fuglum til samans teknum, þá fór hann heim til borgarinnar með hann í búri, og bauðst honum þar skjótt kaupandi og spurði sá, hvað fuglinn ætti að kosta. Fuglarinn ansaði því engu, en spurði til hvers hann ætlaði að kaupa hann; hinn sagðist ætla að láta steikja hann og eta hann síðan. „þjer þæktust þá víst borga hann vel,“ sagði fuglarinn, „ef þjer gæfuð mjer lítinn silfurpening fyrir hann. Nei, eg virði hann hærra enn svo, og þjer fáið hann ekki fyrir

heilan gullpening. Eg er gamall maður, en aldrei hef eg sjeð slíkan fugl og ætla eg því að færa konunginum hann að gjöf; hann kann betur að virða hann enn þjer.“

Fuglarinn stóð nú ekki lengur við, heldur gekk hann til konungshallarinnar og staðnæmdist þar fyrir neðan herbergi konungs Konungurinn stóð út við glugga einn, þarsem sjá mátti yfir allt hallarplássið, og jafnskjótt sem hann kom auga á svo fallegan fugl, sendi hann einn af höfuðsmönnum geldinganna til að kaupa hann. En er hann spurði, hvað fuglinn ætti að kosta, svaraði fuglarinn: „Ef þjer ætlið hans hátign konunginum fuglinn, þá bið eg hann þiggja hann að gjöf og bið eg yður færa honum hann.“ Höfuðsmaðurinn færði konungi fuglinn og þókti honum hann svo merkilegur, að hann sendi fuglaranum tíu gullpeninga, fór hann þá harðla glaður heim til sín. Var fuglinn settur í skrautlegt búr og var honum gefið vatn í dýrindis skálum og allskonar korntegundir til fæðu; var hann látinn eiga sig sjálfur, því nú reið konungur á veiðar. En er hann var kominn heim aptur ljet hann einn geldinginn færa sjer fuglinn, tók hann útúr búrinu og ljet hann setjast á hönd sjer. Horfði hann á hann með undrun og spurði, hvort hann hefði etið. „Yðar hátign getur sjeð það,“ ansaði geldingurinn, „að kornskálin hans er full ennþá og hef eg ekki sjeð hann snerta á korninu.“ Skipaði konungur þá að gefa fuglinum ýmskonar fæðu, svo hann gæti valið það úr, sem honum líkaði.

Nú var búið að bera á borð og tók fuglinn að baða út vængjunum, flaug burt af hendi konungs og settist á borðið, fór hann að kroppa í brauð og kjöt og alla rjetti, sem þar voru. Furðaði konungur sig svo mjög á þessu, að hann ljet höfuðsmann geldinganna segja drottningunni frá því, svo að hún skyldi koma og horfa á undur þetta. Hún kom undireins, en óðara enn hún sá fuglinn, sveipti hún blæjunni fyrir andlit sjer og ætlaði að fara út aptur. Nú með því engir voru við nema geldingar og konur þær, er drottningunni fylgdu, spurði hann hana forviða, því hún gerði slíkt. „Ekki skal yðar hátign furða sig á því,“ mælti hún, „því vita skuluð þjer, að þetta er enganveginn fugl, heldur maður.“ Konungur hjelt hún mundi draga dár að sjer, en drottning bar á

móti því með alvörugefni og sagði fyrir fullt og fast, að fuglinn væri enginn annar enn Beder Persakonungur, sonur hinnar nafntoguðu drottningar, Gulnare hinnar sæbornu, og hefði Gíohare dóttir konungsins í Samandal komið honum í þessar álögur. Hún sagði og konungi með hverjum atvikum það hefði orðið og trúði hann henni því heldur, sem hann vissi að hún var einhver hin reyndasta fjölkynngiskona, sem vissi allt útí hörgul, hvað gerðist í heiminum, svo að hann fjekk opt vitneskju af henni um vjelræði þau, er nágranna konungarnir bjuggu honum, og gat þannig ónýtt þau. Kenndi hann nú í brjóst um Persakonung og beiddi hana fyrir alla muni að leysa hann úr álögunum, kvaðst hún fegin skyldu gera það. „Herra!“ mælti hún, „farið með fuglinn inn í herbergi yðar og skal eg samstundis láta yður sjá konung, sem maklegur er virðingar þeirrar, er þjer hafið fyrir honum.“

Fuglinn var hættur að eta og hafði hlýtt á viðræðu konungs og drottningar. Ljet hann því ekki konunginn bera sig, heldur flaug hann á undan honum inní herbergið. Kom drottning á eptir með fulla skál af vatni og tautaði yfir henni nokkur orð, sem konungur ekki skildi, þangað til vatnið fór að sjóða. Þvínæst stökkti hún því á fuglinn og mælti: „Fyrir krapt hinna helgu og dularfullu orða, sem eg hef mælt fram, og í nafni skapara himins og jarðar, sem uppvekur dauða og viðheldur alheimi, þá leggðu niður fugls ham þenna og taktu á þig þá mynd, sem þú hefur meðtekið af skapara þínum.“ Óðara enn hún hafði talað þessi orð, sá konungur standa frammi fyrir sjer ungan konung prýðilega vaxinn, og svo fríðan, að enginn í heimi var fegurri, og varð hann því öldungis hugfanginn.

Þá mælti Beder Persakonungur: „Enginn guð er til nema guð og Mahómet er spámaður hans. Lofaður sje algjörleiki þess, sem skapað hefur hið skapaða, og ræður tilveru þess og endalokum.“ Þvínæst kyssti hann á hönd konungs til að votta innilegt þakklæti sitt, en hann faðmaði hann að sjer með feginleik og kyssti hann á ennið. En drottning hafði þegar farið burt til þess að Beder ekki skyldi geta þakkað sjer. Settist nú konungur til borðs með honum og er þeir höfðu matazt beiddi hann Beder að segja sjer sögu sína, og hversvegna Gíohare kóngsdóttir hefði gert það

illvirki, að töfra svo elskuverðan kóngsson í fuglslíki. En er Beder hafði gert sem hann beiddi, sagði konungur, að dóttir konungsins í Samandal ætti að vísu lof skilið fyrir það, að hún ljet sjer sárna, hvernig farið var með föður hennar, en það gæti hún aldrei afsakað, að hún fyrir þá sök hefndi sín á kóngssyni, sem saklaus var. „En sleppum því nú,“ mælti hann ennfremur, „og segið mjer á hvern hátt eg get orðið yður að liði?“

„Eg á yðar hátign svo mikið að þakka,“ ansaði Beder, „að eg ætti að vera hjá yður alla æfi til að votta yður þakklátsemi mína. En af því þjer setjið drengskap yðar engin takmörk, þá bið eg yðar hátign fá mjer skip, svo eg geti á því komizt til Persalands; hef eg lengi verið burtu þaðan og er eg því hræddur um, að óregla hafi af því hlotizt, og að Gulnare drottning móðir mín, sem eg duldi burtfarar minnar, kunni að vera dáin af harmi útaf því.“ Veitti konungur honum bæn sína með mestu mildi, valdi hann úr flota sínum eitthvert traustasta og gangfljótasta skipið og ljet búa það og skipa mönnum. Var það fljótgert og sigldi Beder burt í góðu leiði. Enn á ellefta degi tók vindur að snúast á móti þeim og gekk upp veður mikið, brast á geysistormur svo að skipið hraktist afleiðis en siglutrjen brotnuðu; braut skipið seinast á kletti einum og fórst þar allur þorri skipverja. Sumir treystu handafli sínu og reyndu að bjarga sjer á sundi, en sumir þrifu dauðahaldi í skipsflökin og svo gerði Beder. Ráku öldurnar hann forstreymis, þangaðtil hann barst nálægt landi, ekki allfjærri stórborg einni. Neytti hann þá hinna síðustu krapta sinna og komst svo nálægt ströndinni þarsem sjóinn var kyrr, að hann gat fótað sig. En rjett sem hann var að stritast við að ná landi, brá honum mjög í brún, því hann sá hesta, úlfalda, múlasna, naut og önnur dýr drífa að sjer hvaðanæfa ofanað sjáfarmálinu, einsog þau ætluðu að verja honum uppgöngu. Var það með mestu hörkubrögðum, að hann gat troðizt áfram gegnum hóp þenna og komizt upp á kletta nokkra; hvíldi hann sig þar og þurkaði föt sín í sólskininu.

En er hann lagði á stað þaðan og ætlaði til borgarinnar reyndu dýrin aptur að varna honum. Þegar hann nú loksins var kominn á hin breiðu og fögru stræti borgarinnar, furðaði hann sig mjög á

því, að engin hræða var að sjá. En er honum varð lengra gengið, kom hann að nokkrum opnum sölubúðum og sá að þær voru ekki svo auðar af mönnum, sem hann hafði haldið. Gekk hann að einni búðinni, þarsem allskonar lystilegir ávextir voru til sölu og heilsaði gömlum karli, er sat í henni. Leit hann upp frá vinnu sinni og er hann sá að ungur maður tíguglegur og göfuglegur ásýndum var kominn, spurði hann með undrun, hvaðan hann kæmi og hvernig á þarkomu hans stæði. Sagði Beder honum lauslega frá því og spurði karlinn þá, hvort enginn hefði ennþá orðið á vegi hans. En er Beder neitti því, sagði karlinn: „Komið þá inn og standið ekki lengur við dyrnar, annarskostar getur yður hæglega hent einhver ógæfan. Eg skal segja yður seinna, hversvegna þjer verðið að vera svona var um yður.“

Beder konungur ljet ekki segja sjer það tvisvar, heldur fór hann inn og settist niður hjá karlinum. En með því karlinn af skipbrotssögu hans gat ráðið, að hann mundi vera matþurfi, þá vatt hann bráðan bug að því að gefa honum að eta. Beiddi Beder hann að segja, hversvegna hann hefði varað sig við, en karlinn vildi ekki gera það fyrr enn hann var búinn að borða. Hann var hræddur um að Beder mundi missa matarlystina, ef hann gerði honum það uppskátt. En þegar Beder var búinn að snæða, sagði karlinn: „þjer megið þakka guði fyrir, að þjer komust slysalaust til mín.“ „Hversvegna þá?“ spurði Persakonungur hræddur og kvíðafullur.

„Vita skuluð þjer,“ ansaði karlinn, „að borg þessi heitir Töfraborg og ræður yfir henni drottning ein, sem er allra kvenna fegurst, en jafnframt því hin argasta og háskalegasta fordæða, sem hugsast getur. þjer getið bezt skilið, hvort ekki muni svo vera af því, að allir hestarnir, múlasnarnir og hin dýrin, sem þjer sáuð, eru menn, sem hún hefur tryllt. Lætur hún erindsreka sína færa sjer alla velvaxna, unga menn, sem í borgina koma, hvort heldur með góðu eða illu. Hún fagnar þeim með mesta blíðlæti, kjassar þá, veitir þeim vel og fær þeim fögur híbýli; leitast hún á allar lundir við að telja þeim trú um, að hún elski þá, og veitir henni það hægt. En ekki lætur hún þá lengi njóta þessarar ímynduðu sælu, því þegar fjörutíu dagar eru liðnir, má enginn flýja þau forlög, að

breytast í eitthvert ferfætt dýr eða fugl fyrir hennar helvízku kunnáttu. Þessvegna vildu dýrin aptra yður að stíga hjer á land, því þau gátu með engu öðru móti varað yður við háska þeim, sem yfir yður vofði.“ Við þetta gerðist Persakonungur hugsjúkur og mælti: „Æ! mikil skelfileg vandræði lætur ólánið mig rekast í! Valla er eg leystur úr einum álögunum, sem mjer ennþá rís hugur við, fyrr enn eg á aðrar enn voðalegri yfir höfði mjer.“ Sagði hann karlinum þvínæst greinilega sögu sína og duldist hann þess eigi, hversu hræddur hann væri um, að hjer vofði enn meira ólán yfir sjer.

Karlinn leitaðist við að hughreysta hann og mælti: „Þó eg nú ekki haft sagt nema hvað satt er um mátt töfradrottningarinnar, þá þurfið þjer ekki að vera svo angistarfullur sem þjer virðist vera. Eg er mjög vel þokkaður í borginni og ekki ókunnugur drottningunni, mjer liggur við að segja, að hún haldi mikið uppá mig. Það var því mikið lán fyrir yður, að þjer skylduð einmitt hitta mig. Þjer eruð óhultur í húsum mínum og ræð eg yður til að vera hjer, ef yður líkar. Ef þjer ekki farið út, skal eg ábyrgjast, að yður mun ekki henda neitt það, sem getur gefið yður tilefni til að kvarta undan svikum af minni hálfu.“ Beder konungur þakkaði karlinum fyrir gestrisni sína og ásjá þá, er hann hjet honum svo góðgjarnlega, og settist hann við búðardyrnar. Öllum, sem framhjá gengu varð starsýnt á hann sökum æsku hans og fegurðar, stóðu margir við og óskuðu karlinum til hamingju, að hann hefði fengið svo fallegan þræl og furðuðu sig mjög á því, að hann skyldi hafa komizt undan erindsrekum drottningarinnar. En karlinn sagði þeim, að öðru væri nær enn hann væri þræll, og vissu þeir vel, að hann skorti bæði fje og virðingu til að hafa svo fallegan þræl. Hann sagði hann vera son bróður síns sæla og hefði hann látið hann koma til sín sjer til aðstoðar, því hann var barnlaus maður. Samglöddust menn honum þá, er hinn ungi maður var kominn, en allir kváðust vera hræddir um, að hann ekki mundi komast undan umsátrum drottningarinnar.

Svaraði karlinn því, að sjer þækti vænt um, hvað þeir ljetu sjer vera annt um sína hagi, en hann kvaðst ekkert óttast af drottningarinnar hálfu, því hún hefði jafnan auðsýnt sjer mikinn

góðvilja, og enda þó hún kynni að heyra sagt af þessum unga manni, þá mundi hún ekki skeyta um hann, þegar hún yrði þess vísari, að hann væri bróðursonur hans. Lofræður þær, er menn hjeldu yfir Beder Persakonungi glöddu karlinn eins mikið og væri hann sonur sjálfs hans; lagði hann mikla ást á hann, og fór hún vaxandi, því lengur sem hann var hjá honum og því betur sem hann kynntist honum.

Svo leið einn mánuður; þá var það einn dag er Beder eptir vanda sat frammí búðardyrunum hjá karlinum, að töfradrottningin Labe (þ. e. sól) reið framhjá með mikla sveit. Óðara enn Beder sá hina fremstu í varðliðsfylkingu hennar, hörfaði hann aptur inní búðina og spurði karlinn, hverju þetta gegndi. „Drottningin ríður framhjá okkur,“ svaraði hann, „en verið kyrr og hræðist hvergi.“ Fór nú varðmannaliðið framhjá, búið purpuraklæðum og vel ríðandi, með brugðnum sverðum í fjórsettri fylkingu, var það þúsund manns og gleymdi enginn af sveitarhöfðingjunum að heilsa karlinum. Þaráeptir komu geldingarnir og voru þeir jafnmargir að tölu; voru þeir búnir gullsaumuðum klæðum og höfðu enn betri hesta; heilsuðu foringjar þeirra karlinum einsog hinir. Á eptir þeim kom flokkur ungra meyja jafn fjölmennur og hinir; allar voru þær þvínær jafnar að fegurð og gengu jöfnum skrefum með stuttar kesjur í höndum, en mitt á meðal þeirra reið Labe drottning skrautbúnum hesti, við gullsöðul og geysi dýrmætt söðulklæði og glitruðu öll reiðtygin af demöntum. Meyjarnar heilsuðu karlinum er þær gengu framhjá, en drottning staðnæmdist við búðardyrnar. því hún varð frá sjer numin af fegurð Beders konungs. „Abdallah!“ segir hún við karlinn, því það var nafn hans, „eigið þjer þenna velvaxna og fríða þræl? hafið þjer haft hann hjá yður lengi?“

Abdallah fleygði sjer niður frammi fyrir drottningunni, stóð síðan upp aptur og svaraði: „Drottning mín! hann er sonur bróður míns, sem fyrir löngu er dáinn. Eg, sem er barnlaus, hef tekið mjer hann í sonar stað og látið hann koma hingað mjer til aðstoðar í elli minni, ætlast eg og til, að hann eptir mig látinn taki við því litla, sem eg á.“ Hafði drottning aldrei sjeð nokkurn ungan mann, sem í samjöfnuð kæmist við Beder og felldi hún ákafan girndarhug til hans. Vildi hún því fá karlinn til að láta

hann af hendi við sig og mælti: „Faðir góður! viljið þjer ekki gera mjer það til vilja, að gefa mjer hann? Synjið mjer þess ekki fyrir alla muni, eg sver yður við eld og ljós, að eg skal gera hann svo mikinn og voldugan, að enginn hefur svo vel í veg komizt. Þó mjer dytti í hug að gera öllu mannkyninu illt, þá mundi eg samt láta hann vera undanskilinn. Eg tel það víst, að þjer munið verða við bæn minni, og það fremur sökum vinfengis yðar til mín enn virðingar þeirrar, sem eg ber og ætíð hef borið fyrir yður.“

„Drottning mín!“ svaraði Abdallah, „eg kann yðar hátign mikla þökk fyrir yðar góða hugarþel til mín og sæmd þá, er þjer ætlið bróðursyni mínum. En hann er ekki verður þess, að koma svo nálægt slíkri drottningu sem þjer eruð og bið eg yðar hátign hverfa frá þessu áformi.“ „Eg gladdi mig í þeirri von, að þjer væruð mjer vinveittari,“ mælti drottning, „og því hefði eg aldrei trúað, að þjer munduð gefa bænum mínum svo lítinn gaum. En eg sver aptur við eld og ljós, já, við það, sem helgast er í trú minni, að eg ekki skal hjeðan fara fyrr enn eg hef sigrast á mótþróa yðar. Eg veit hvað þjer eruð hræddur við, en eg lofa því. að yður skuli aldrei gefast tilefni til að iðrast, þó þjer gerið mjer þenna mikla greiða.“

Abdallah fjell það mjög nærri, að hann neyddist til að láta eptir drottningunni. Kvaðst hann þá vera fús til þessa og mælti: „Eg treysti fullkomlega loforði yðar og beiðist þess einungis, að þjer frestið að veita bróðursyni mínum sæmd þá, er þjer ætlið honum, til þess dags, er þjer næsta sinn farið hjer framhjá.“ „Því skal þá frestað til morguns.“ ansaði drottning, hneigði höfuð sitt í þakklætis skyni og fór leiðar sinnar heim í höll sína.

Þegar hin skrautlega sveit hennar var komin framhjá, sagði Abdallah við Beder konung: „Sonur kær!“ því svo var hann vanur að kalla hann, til þess að ekki skyldi uppskátt verða, hver hann var, „eg gat ekki synjað drottningunni þess, er hún beiddi, einsog þjer sjálfur sáuð. En það gekk mjer líka til þess, að eg vildi ekki gefa henni tilefni til að beita við yður fjölkynngi sinni, hvorki leynt nje ljóst, og ætlaði eg að koma í veg fyrir, að hún af reiði sinni við okkur báða, ljeki yður harðara enn þá, sem hún allt til þessa hefur

fest hendur á. Eg hef nokkra ástæðu til að halda, að hún muni fara vel með yður einsog hún hefur lofað, því hún virðir mig umfram aðra menn, einsog þjer gátuð sjeð af kurteisi hirðfólksins við mig og virðingu þeirri, er mjer var sýnd. En svo mikið er víst, að hún skal hitta sjálfa sig fyrir, ef hún svíkur yður."

þessi óljósu orð Abdallah urðu Beder ekki til mikillar hughreystingar. „Eg fæ þess ekki dulizt," mælti hann, „að mjer rís hugur við að koma nálægt þeirri drottningu, sem þjer hafið borið mjer svo margar illar sögur af. Vera má að eg ekki gæfi því neinn gaum og ljeti á tálar dragast af dýrð þeirri, er ljómar allt í kringum hana, ef eg ekki vissi af eigin reynslu, hvílík ógæfa það er, að vera á valdi fjölkunnugrar konu. Mig hryllir við henni, þegar eg hugsa til þess auma ástands, sem eg komst í fyrir álögur Gíohare kóngsdóttur, því nú sýnist svo sem eg hafi ekki verið leystur úr þeim til annars enn að komast í aðrar nýjar."

Meiru kom hann ekki upp fyrir grátstaf, og mátti af því ráða, að hann ekki talaði um hug sjer, en karlinn huggaði hann svofeldum orðum: „Verið óhryggur! eg játa því, að ekki er mikið treystandi á heit og jafnvel ekki á svardaga svo kyndugrar drottningar, en það skuluð þjer vita, að með öllu sínu valdi má hún ekkert við mjer, og er það mest þessvegna, að hún hefur svo mikið við mig. Eg veit ráð til að koma í veg fyrir. að hún geri yður nokkurt mein, þó hún kynni að vera svo hrekkvís að reyna til þess: megið þjer í þessu treysta mjer, og ef þjer gætið vandlega ráða minna, þá skal eg ábyrgjast yður, að hún ekki mun megna meira á móti yður enn sjálfum mjer."

Daginn eptir kom Labe drottning aptur að búð Abdallah með jafn skrautlega sveit og daginn áður og sagði við hann: „Faðir góður! þjer sjáið hversu ákaft mjer leikur hugur á að fá bróðurson yðar af því, hvað fljótt eg minni yður á loforð yðar. Eg þekki yður að orðheldni og vil eg eigi ætla, að yður hafi snúizt hugur."

þegar drottningin kom hafði Abdallah fleygt sjer til jarðar frammi fyrir henni, en nú stóð hann upp aptur og með því hann ekki vildi, að aðrir skyldu heyra, hverju hann svaraði henni, þá færði hann sig allt að höfði hestsins, sem hún reið og sagði í hálfum hljóðum: „Volduga drottning! eg vona að yðar hátign

leggi það ekki illa út fyrir mjer, að eg í gær var svo tregur á að láta bróðurson minn af hendi; þjer munuð skilja, hvað til þess kom. Nú mun eg að vísu afhenda yður hann í dag, en þess bið eg yður, að þjer látið hann á engan hátt kenna á hinni leyndardómsfullu íþrótt, sem þjer kunnið svo frábærlega vel. Eg ann bróðursyni mínum einsog hann væri minn eiginn sonur, og mundi yðar hátign steypa mjer í örvílnun, ef þjer færuð öðruvísi með hann, enn þjer mildilegast hafið lofað mjer.“

„Eg ítreka loforð mitt,“ ansaði drottning, „og sver með hinum sama eiðstaf sem í gær, að eg skal gera svo báðum ykkur líki. Eg sje glöggt, að þjer þekkið mig ekki til hlítar. Þjer hafið aldrei sjeð mig nema með skýlu fyrir andliti, en með því mjer þykir bróðursonur yðar vera maklegur vinfengis míns, þá skuluð þjer sjá, að eg er ekki ómakleg vináttu hans.“ Að svo mæltu sýndi hún Beder konungi, sem stóð þar hjá Abdallah, frábæra fegurð sína, en hann hugsaði með sjer: „Fegurðin er ekki einhlít, heldur eiga verkin að samsvara vænleiknum.“

Abdallah vjek sjer nú að honum, tók hann við hönd sjer og leiddi hann til drottningarinnar svo mælandi: „Hjerna er hann, drottning! og bið eg yðar hátign ennþá einusinni ekki að gleyma því, að hann er bróðursonur minn, og lofa honum að finna mig öðru hverju.“ Því lofaði drottning og ljet til merkis um þakklátsemi sína fá Abdallah pyngju með þúsund gullpeningum í, og varð hann að þiggja, þó honum væri þvernauðugt. Hún hafði haft þangað með sjer hest handa Beder og var hann jafn skrautbúinn þeim, er hún reið sjálf; meðan Beder var að stíga í ístaðið segir hún við Abdallah, að sjer hafi gleymzt að spyrja að nafni bróðursonar hans. En er Abdallah sagði henni, að hann hjeti Beder (fullt tungl), sagði hún, að það væri rangnefni, því hann hefði átt að heita Schems (sól).

Beder Persakonungur ætlaði að ríða á eptir drottningunni, en hún ljet hann verða á hlið sjer og horfði á hann, riðu þau svo leiðar sinnar. Sá Beder á leiðinni, að allur lýður leit drottninguna fyrirlitningar augum og marga heyrði hann bölfa henni og heitast við hana. Sumir sögðu: „Þarna hefur drottningin fengið sjer einn nýjan til að níðast á með fúlmennsku sinni. Ætli guð frelsi þá

aldrei heiminn frá illmennsku hennar?“ þá voru aðrir, sem aumkvuðu hinn ókunnuga mann vegna óhamingju þeirrar, er fyrir honum lá og gekk Beder nú úr skugga um, að Abdallah hefði ekki sagt nema satt eitt um drottninguna. En nú var enginn kostur að flýja hættu þá, er yfir vofði og gaf hann því ráð sitt í guðs hönd.

þegar töfradrottningin var komin til hallar sinnar, ljet hún Beder konung leiða sig og gekk inn með þjónustukonum sínum og höfuðsmönnum geldinganna. Sýndi hún Beder sjálf öll herbergin og var þar ekki annað að sjá enn gull og gimsteina og afardýrmæt húsgögn. En er hún var komin í herbergi sitt, gekk hún með Beder frammá gluggsvalir nokkrar, mátti þaðan sjá yfir aldingarð einn inndælislega fagran. Lofaði Beder allt það er hann sá og fórust honum laglega orð, en þó eigi á aðra leið enn vænta mátti af bróðursyni Abdallah. Ræddu þau mart og mikið saman, þangaðtil drottningu var sagt að búið væri að bera á borð; settist hún þá til borðs með Beder. Var bæði borðið og diskarnir úr skíru gulli. Var ekki fyrr tekið til drykkju enn aldin og sætabrauð voru á borð borin, því þá ljet drottningin skenkja dýrindis vín í skál. Drakk hún þá minni Beders og tæmdi skálina, ljet hún aptur hella á hana og hjelt á henni á meðan, síðan rjetti hún hana að Beder, en hann tók við henni með lotningu og hneigði sig djúpt til merkis um, að hann drykki aptur hennar minni. Nú komu inn þjónustumeyjar drottningarinnar með hljóðfæri sín, ljeku þær á þau og sungu með fagri rödd, en þau drukku þangaðtil langt var liðið frammá nótt, og svo fór að lokum, að Beder gleymdi því, að hjer var flagð undir fögru skinni, en heillaðist af því að sjá þá drottningu fyrir augum sjer, er fegurst var í heimi. Til þess var og leikurinn gerður af drottningu og skipaði hún öllum að fara út, sem við voru. En er allir voru komnir út, háttuðu þau saman.

þegar þau Beder og drottningin voru komin á fætur, gengu þau til lauga. Konur þær, er þjónuðu Beder, fengu honum hreint lín og einhvern hinn skrautlegasta klæðnað, en drottning kom sjálf til að sækja hann og var hún enn skrautbúnari enn daginn áður. Gengu þau þvínæst bæði til herbergis síns og var þar góður matur á borð borinn; það sem eptir var dagsins styttu

þau sjer stundir með skemmtigöngum um garðinn og öðrum unaðsemdum.

Labe drottning fór eins með Beder og hina aðra friðla sína, að hún veitti honum vel í fjörutíu daga. En aðfaranótt hins fertugasta dags stóð hún hljóðlega upp úr rúmi sínu, einsog hún hjeldi að Beder svæfi fastasvefni. En hann var glaðvakandi og ljet einsog hann svæfi, til þess að sjá hvað hún tæki sjer fyrir hendur. Sá hann þá að hún tók upp úr kistli einum öskjur með gulu dupti í og stráði nokkru af því í beina línu eptir gólfinu, og rann samstundis hreinn og tær lækur eptir því. þetta sá Beder forviða og skjálfandi af hræðslu og ljet nú sem hann svæfi enn fastara enn áður svo að drottning ekki yrði þess vör, að hann var vakandi. Jós nú drottningin vatni úr læknum í krukku, sem mjöl var í, og hnoðaði úr því deig. Tók hún og ýmskonar krydd úr mörgum öskjum og bjó til köku og bakaði hana í lokpönnu yfir glæðum, sem hún tók úr eldi, er hún áður hafði kynt. Meðan kakan var yfir glæðunum, lagði hún öskjur og ílát frá sjer og tautaði nokkur orð yfir læknum, sem rann eptir gólfinu og hvarf hann þá þegar. En er kakan var fullbökuð, bar hún hana inn í næsta herbergi og lagðist þvínæst aptur niður hjá Beder.

þessi næturiðja drottningar minnti Beder glögglega á öldunginn Abdallah, sem hann hafði alveg gleymt í munaðarlífinu. Nú þóktist hann þurfa hans ráða við og jafnskjótt sem hann var á fætur risinn, beiddi hann drottningu að lofa sjer að fara og finna hann. „Hvað er að tarna, Beder minn góði!“ mælti hún, „er yður nú farið leiðast í svo fagurri höll, þarsem svo margt er til skemmtunar, og það hjá drottningu þeirri, sem hefur ákafa ást á yður og sýnir yður það með svo mörgu móti?“ Beder bar á móti því með blíðmælum og brá því á, að sjer gengi ekki annað til að finna föðurbróður sinn enn það, að hann vildi segja honum hve fjarska mikið gott hann ætti drottningunni að þakka, og vildi hann líka sýna honum, að hann ekki væri búinn að gleyma honum; en Abdallah hefði svo innilega ást á sjer, að hann vildi eigi lengur fresta að heimsækja hann og þannig gefa honum tilefni til að halda, að hann ljeti kulda og tómlæti koma í móti ástríki hans. Leyfði drottning honum það, er hann bað um, en sagðist um leið vona

að hann yrði ekki lengi í burtu, ef hann hugsaði til þess, að hún mátti ekki án hans lifa.

Öldungurinn Abdallah varð frá sjer numinn, er hann fann Beder aptur og faðmaði hann að sjer án nokkurs tillits til tignarmunar þess, er á þeim var, og tók Beder því, svo að enginn skyldi halda annað enn að hann væri bróðursonur karlsins. Þegar þeir báðir voru seztir niður, spurði Abdallah hvernig fallið hefði á með honum og flagðinu og hvernig þeim nú kæmi saman. „Enn sem komið er,“ ansaði Beder, „hefur hún sýnt mjer hina mestu hugulsemi og eptirlæti, til þess að telja mjer trú um, að hún unni mjer af alhuga. En í nótt eð var sá eg það, sem að vonum vekur hjá mjer illan grun um, að öll blíða hennar við mig hafi verið einber yfirdrepskapur.“ Þvínæst sagði hann honum greinilega frá því, er Labe drottning gerði áðurenn hún bakaði kökuna og meðan hún var að því og hversu það hefði rifjast upp fyrir sjer, sem Abdallah hafði sagt honum af illsku hennar. „En eg tel mig sælan,“ mælti Beder ennfremur, „að hún þvert á móti von minni var fús á að leyfa mjer að finna yður.“

„Þjer hafið ekki getið rangt til,“ svaraði Abdallah brosandi og mátti af því ráða, að hann hafði ekki búizt við betra af flagðinu. „En verið óhræddur, eg skal búa svo um hnútana, að hið illa, sem hún ætlar yður, skal lenda á henni sjálfri. Það var mjög í tækan tíma, að grunsemd yðar vaknaði og að þjer komuð til mín. Af því hún aldrei hefur friðla sína lengur enn í fjörutíu daga og lætur þá ekki eptir þann tíma frá sjer fara með sæmd, heldur breytir þeim í dýr og fyllir með þeim skóga sína og merkur, þá gerði eg ráð mitt þegar í gær til að afstýra slíkum voða frá yður. Jörðin ber ókind þessa helzt til lengi og dugir ekki annað enn að henni sje goldið illt fyrir illt. Flagðið hefur einsog þjer sögðuð bakað köku og er hún ætluð yður, en varist að smakka á henni. Bjóði hún yður nokkuð af henni, þá takið við því, en látið það ekki uppí yður, heldur skuluð þjer í þess stað neyta annarar af þessum tveimur kökum,“ — um leið og Abdallah mælti þetta, fjekk hann Beder tvær kökur — „og hafa svo skipti á þeim að hún ekki sjái. En undireins og hún heldur að þjer hafið etið af kökunni, mun hún reyna til að breyta yður í dýrs líki, og er það mistekst,

mún hún láta sem hún hafi gert það að gamni sínu til að hræða yður. En niðri fyrir mun henni gremjast og kennir hún því um, að kökugerðinni hafi í einhverju verið áfátt. Þvínæst skuluð þjer rjetta henni hina kökuna, sem eg fjekk yður og biðja hana að smakka á henni og mun hún undireins gera það til þess að sýna, að hún alls ekki tortryggi yður, þarsem hún þó gaf yður tilefni til að tortryggja hana. En þegar hún hefur neytt nokkurs af kökunni, skuluð þjer taka dálítið af vatni í lúkuna, stökkva því framaní hana og segja: „Leggðu niður þá mynd, sem þú nú hefur og taktu á þig líki þess dýrs, sem þjer lízt.“ En dýrið skuluð þjer færa mjer og skal eg þá segja yður, hverju ráði þjer síðan skulið fram fara.“

Beder konungur þakkaði Abdallah innilega fyrir fulltingi það, er hann veitti honum gegn illræðum svo háskalegrar fordæðu; átti hann enn tal við hann um stund og snjeri síðan heim aptur til hallarinnar. Var honum þar undireins sagt, að drottningunni leiddist mjög að bíða hans og væri hún nú í aldingarðinum. Óðara enn hún sá hann, hljóp hún til móts við hann og mælti: „Beder minn elskulegi! það er mikið hæft í því, sem mælt er, að ekkert láti manninn betur til þess finna, hvað ástin er rík, enn skilnaðurinn frá þeim, sem hann elskar. Eg hef engan frið haft síðan þjer skilduð við mig og þykir mjer sem ár sjeu liðin síðan eg sá yður, og hefðuð þjer verið nokkru lengur í burtu, mundi eg sjálf hafa sókt yður.“

Beder sór henni, að hann hefði að sínu leyti eins ákaft óskað, að hann væri kominn til hennar og hefði svo mjög af skyndingu slitið sig frá sínum kæra föðurbróður, að hann hefði ekki tekið nema tvær kökur af máltíð þeirri, er hann hafði ætlað að veita sjer, og hefði hann tekið kökurnar með sjer til að færa henni. Rjetti hann henni síðan aðra kökuna, sem Abdallah hafði fengið honum; hafði hann vafið hana í hreinan klút, og beiddi hana að þiggja. Drottning gerði svo og mælti: „Eg skal gera yður og föðurbróður yðar, góðkunningja mínum það til vilja, að eta af henni; en fyrst verðið þjer að gera mjer í vil og borða dáítið af kökunni þeirri arna, sem eg hef bakað meðan þjer voruð í burtu.“

„Fagra drottning!“ ansaði Beder, „ekkert getur komið frá

höndum yðar hátignar, nema það sem ágætt er, og auðsýnið þjer mjer slíka náð, að eg fæ ekki nógsamlega þakkað yður.“ Þvínæst hafði Beder fimlega skipti á köku drottningarinnar og þeirri, er Abdallah hafði fengið honum, braut mola af henni og át og kvað aldrei betri bita hafa sjer í munn komið. Nú hittist svo á, að þau voru hjá gosbrunni einum og hjelt drottning, að Beder hefði etið af hennar köku og ætlaði að eta meira, jós hún þá vatni í lúkuna, stökkti því í andlit honum og mælti: „Þorparinn þinn! leggðu niður mannsmynd þína og breytztu í eineygða og draghalta meri.“ En orð þessi urðu áhrifalaus, og brá fordæðunni í brún, er hún sá Beder standa óbreyttan, nema hvað hann var felmtraður. Roðnaði hún við og með því hún sá, að henni hafði brugðizt bogalistin, tók hún þannig til máls: „Beder minn blessaður! þetta var ekki neitt, — verið ekki hræddur; eg ætlaði ekki að gera yður neitt til meins, — eg ætlaði að sjá hvernig yður yrði við. Væri eg ekki allra kvenna örmust og argvítugust, ef eg gæti fengið af mjer, að fremja annað eins níðingsverk ofaná svardaga mína, og það sem meira er, ofaná slík ástar merki, sem eg hef auðsýnt yður?“

„Volduga drottning!“ ansaði Beder, „svo sannfærður sem eg er um það, að yðar hátign gerði að gamni sínu, þá gat eg ekki að því gert, að það kom flatt uppá mig. Hver má heyra þau orð, sem geta komið svo kynlegum hamskiptum til vegar, svo að honum ekki verði bilt við? En sleppum því nú, drottning mín! og með því eg hef etið af yðar köku, þá vona eg þjer auðsýnið mjer þá náð, að smakka á minni.“ Labe drottning gat ekki rjettlætt sig með öðru betur enn þessu, braut mola úr kökunni og át. Óðar enn hún hafði etið, var sem fát kæmi á hana og stóð hún einsog blýföst í sömu sporum. Sá Beder sig þá ekki úr færi, heldur jós hann vatni úr sama gosbrunninum, stökkti því framaní hana og mælti: „Viðurstyggilega flagð! leggðu niður þá mynd, er þú nú hefur og breytztu í meri,“ og varð Labe drottning í sama svip að meri, harðla fagurri. Brá henni svo við það, að hún úthellti mörgum tárum og drap höfði niður að fótum Beders til að hræra hann til meðaumkvunar. En þó henni hefði tekizt það, þá var hann ekki þess umkominn, að brigða því sem gert var.

Fór hann nú með merina í konungs hesthúsið og ljet þræl nokkurn beizla hana, en ómögulegt var að fá beizli, sem henni væri mátulegt. Skipaði hann þá að leggja á tvo hesta og reið síðan til Abdallah með merina í taumi, en þjónn einn fylgdist með honum og reið hann hinum hestinum. Undireins og Abdallah sá til Beders álengdar, gat hann þess til, að hann mundi hafa gert einsog hann lagði fyrir, og hló honum hugur við, að óhræsis fordæðan loksins hafði tekið makleg málagjöld. Fór Beder af baki fyrir utan búð Abdallah, gekk síðan inn og sagði karlinum greinilega, hvernig farið hafði. Lagði karlinn þá beizli við merina, sem mátulegt var hverjum hesti, og er Beder hafði sent þjón sinn heim með báða hina hestana sagði Abdallah við hann: „Nú þurfið þjer ekki að vera hjer lengur; farið á bak merinni og ríðið heim í ríki yðar. En til þess eins verð eg að ráða yður, að ef þjer fargið merinni einhverntíma, þá látið þjer ekki beizlið fylgja með.“ Því lofaði Beder, kvaddi Abdallah þvínæst og reið á burt.

Þegar Beder var kominn út úr borginni, rjeði hann sjer valla fyrir fögnuði, er hann var úr slíkum háska sloppinn og átti alls kosti við hina voðalegu galdrakonu. Að þremur dögum liðnum kom hann að stórborg einni og mætti í forstaðnum öldungi einum fyrirmannlegum, og var hann á leið til lystiskála síns. Stóð hann við og segir við Beder: „Má eg spyrja, herra! hvaðan ber yður að?“ Staðnæmdist Beder þá til að leysa úr spurningu hans, og spurði karlinn að fleiru, en í því bili kom að gömul kerling og staldraði hún líka við og setti að henni grát og ekka, er hún sá merina. Þeir Beder og karlinn brugðu þá tali sínu og spurði Beder kerlinguna, því hún grjeti. „Herra!“ svaraði hún, „það er af því að merin yðar er svo gagnlík meri, sem sonur minn átti, að eg mundi halda, að það væri sú hin sama, ef hún ekki væri dauð. Seljið mjer hana, eg sárbæni yður og skal eg greiða yður verð hennar og þaráofan kunna yðar mikla þökk fyrir.“

„Móðir góð!“ ansaði Beder, „því er miður, að merin mín er ekki föl.“ En kerling sárbændi hann í guðs nafni, að láta sig fá hana og sagði að hún og sonur hennar mundu annarskostar deyja af harmi. En Beder svaraði einsog áður að merin væri ekki föl, „en

þó svo væri,“ mælti hann, „þá munduð þjer trauðlega gefa þúsund gullpeninga fyrir hana, og ódýrari læt eg hana ekki.“ „því skyldi eg ekki vilja gefa svo mikið,“ ansaði kerlingin; „ef þjer viljið ganga að þeim kosti, þá skal eg greiða fjeð.“ Beder gat ekki trúað því, að kerling, sem var tötralega til fara, gæti útreitt svo mikið fje, og segir hann því til að vita, hvort henni væri alvara að slá kaupum: „Gott og vel! fáið mjer fjeð og þá eigið þjer merina.“ Leysti kerling þá óðara poka frá belti sínu, fjekk Beder og beiddi hann að fara af baki og telja með sjer til þess að sjá, hvort ekki vantaði á rjetta tölu, því ef svo væri, skyldi hún sækja það heim í hús sitt, er þar væri rjett hjá.

Beder rak í rogastanz er hann sá peninga pokann og svaraði: „Móðir góð! skiljið þjer þá ekki, að eg talaði þetta í gamni? eg segi yður það ennþá einusinni, merin mín er ekki föl.“ En karlinn, sem hlýtt hafði á viðtal þeirra, tók nú til máls og sagði við Beder: „Sonur kær! þjer skuluð nú verða þess vísari, sem þjer virðist vera ófróður um, að í borg þessari er bannað að tala nokkurt ósatt orð og liggur dauðahegning við. þjer getið því ekki komizt hjá að taka við fjenu af hinni góðu konu og fá henni merina, úr því hún borgar það, sem upp var sett. það er bezt að þjer gerið útum kaupin umtalslaust, því ella kunnið þjer illt af að hljóta.“ Fór Beder þá af baki og gramdist honum mjög, að hann svo ófyrirsynju hafði bendlast við þessi illu kaup. En kerling var ekki sein á sjer að ná í beizlið og taka það fram af merinni, tók hún þá vatn í lúku sína úr læk, sem rann eptir strætinu og stökkti því á merina svo mælandi: „Dóttir mín! varpaðu af þjer þessari annarlegu mynd og taktu aptur á þig þína eigin mynd!“

Urðu þá hamskipti þessi samstundis, en Beder fjell í öngvit, er hann sá Labe drottningu, og mundi hafa dottið til jarðar, hefði karlinn ekki látið hann falla í fang sjer. Kerling þessi var móðir Labe drottningar og hafði kennt henni alla leyndardóma fjölkynnginnar. Faðmaði hún dóttur sína af fögnuði, og blístraði þvínæst, kom þá samstundis ofboðslegur andi, geysi stór og hrikalegur. Varpaði hann Beder upp á öxl sjer, en kerlinguna og Labe drottningu tók hann í fang sjer og flutti þau þrjú á svipstundu til hallar drottningarinnar í Töfraborginni. Óð Labe drottning þar upp á Beder

með bríxlyrðum og hótaði því, að hann og Abdallah föðurbróðir hans skyldu fá að gjalda þess, er þeir höfðu gert henni. Hún hafði nú ekki fleiri orð um þetta, en stökkti þvínæst vatni í andlit honum og mælti: „Leggðu niður þessa mynd þína og breytztu í andstyggilega uglu.“

Gerðust hambrigði þessi í sama svip og lokaði ein af þjónustukonunum ugluna inní búr, eptir skipun drottningar, skyldi hún hvorki fá mat nje drykk. En konan bar búrið burt og gaf fuglinum fæðu; fór hún á laun við alla til öldungsins Abdallah og sagði honum, hvernig komið var. Sá hann nú, að drottning var allrar vægðar ómakleg, og blístraði með einkennilegu lagi; kom þá geysimikill andi með fjórum vængjum og spurði, því hann kallaði á sig. „Leiptri!“ segir Abdallah við hann, því svo hjet andinn, „nú ríður á að forða fjöri Beders Persakonungs sonar Gulnare drottningar, ennar sæbornu.“ Skipaði hann honum að fara þegar með konuna, sem til hans var komin, til höfuðborgar Persalands, svo að hún gæti sagt Gulnare drottningu, hversu hætt sonur hennar væri kominn og hversu hann væri hjálpar þurfi.

Hvarf Leiptri nú í einum svip til Persalands og settist niður á hallarþak Gulnare drottningar. Þaðan gekk konan til herbergis drottningarinnar og hitti þar fyrir móður hennar, Farasche drottningu. Öldungurinn Abdallah þekkti þær að því, að þær voru öllum mönnum fremri í allskonar fjölkynngi. Fleygði konan sjer fram fyrir fætur þeim og er hún var staðin upp aptur sagði hún þeim ítarlega frá óförum Beders konungs. Stóð Gulnare þá glöð upp úr sæti sínu, þakkaði henni og sýndi henni mikla virðingu. Þvínæst gekk hún út og ljet berja bumburnar og boða hirðar höfðingjunum og öllum lýðnum, að nú væri Beders bráðlega heim von.

En er Gulnare kom aptur til móður sinnar, hitti hún þar Saleh konung bróður sinn, því Farasche hafði kallað á hann meðan hún gekk út. Dró hann að sjer óvígan her úr sjávar ríkjum sínum, og alla þá anda, er honum voru undirgefnir. En er allt þetta lið var samankomið, þustu þau gegnum loptið til borgar og hallar Labe drottningar, og var þar öllum eldsdýrkendum tortýnt í einu. Hafði Gulnare haft með sjer þjónustumey Labe drottningar, þá er sagði henni, hvernig komið var fyrir Beder. Var henni

skipað að ná búrinu, sem uglan var í, og tókst henni það. Tók Gulnare ugluna, stökkti vatni á hana og mælti: „Sonur kær! leggðu niður þessa annarlegu mynd, og vertu sem þú varst áður!“ Óðar enn hún hafði mælt þetta, skók uglan sig og stóð Beder sonur hennar frammi fyrir henni, vafði hún hann þá að brjósti sjer og rjeði sjer ekki fyrir gleði. Hún mátti ekki mæla fyrir fögnuði, en því, sem hún gat eigi komið orðum að, lýstu tárin miklu betur. Ætlaði hún ekki að sleppa höndum af honum og varð Farasche amma hans þvínær að slíta hann af henni, svo að hún gæti líka þrýst sínum ástkæra dóttursyni að hjarta sínu; á sömu leið vafði Saleh konungur hann í faðm sinn.

Gulnare drottning ljet það nú sitja fyrir öllu að senda eptir valmenninu Abdallah, og þakkaði hún honum fyrir allt gott, sem hann hafði gert Beder og gipti honum þjónustumeyna, sem hann hafði sent til hennar með andanum Leiptra, og var það með vilja hennar sjálfrar. Þvínæst gerði hún hann að konungi yfir Töfraborginni og stefndi þeim saman, er á Mahómet trúðu og ljet þá sverja nýja konunginum tryggð og hollustu. Við þetta atvik ljet Beder Persakonungur í ljósi við móður sína, að sjer líkaði vel gipting þessi, er hún var frumköðull að, en ein giptingin væri þó eptir og það væri sín.

Þau Gulnare, Farasche, Saleh konungur og hinar konungbornu hafmeyjar voru boðnar og búnar að veita honum að þessu máli. Skipuðu þau öndum sínum að leita í öllum höllum hafsins og jarðarinnar að þeirri kóngsdóttur, sem fegurst væri og boðlegust Persakonungi, en Beder beiddi þau að ómaka sig ekki með þarflausri fyrirhöfn, því engin sú kona væri til, er sjer þækti fegri enn Gíohare dóttir konungsins í Samandal; hefði föður hennar nú ef til vill snúizt hugur og gildi hann jákvæði sitt, væri það vonandi, að hún ekki synjaði ráðsins. En er þau öll voru komin heim aptur í höfuðborg Persalands, ljet Saleh sækja konunginn frá Samandal, sem allt til þessa hafði verið í sterku varðhaldi, þó vel væri farið með hann að öðru leyti. Ljet Gulnare drottning Beder son sinn vita þegar hann var kominn; fór hann þá á fund hans og fagnaði konungur Samandals honum með vinsemd. Hóf Persakonungur nú bónorð sitt til Gíohare dóttur hans, en faðir hennar

svaraði því, að hún væri ambátt hans og ætti hann vald yfir henni. Konungur Samandals sendi þá undireins nokkra af þjónum sínum; skyldu þeir segja dóttur hans, að hann væri hjá Beder Persakonungi, og sækja hana. Leið ekki á löngu áður hún kom með þjónustumeyjum sínum, hljóp hún um háls föður sínum og sagði hann henni þá, að hann hefði kosið henni til eiginmanns Beder Persakonung, sem væri sonur Gulnare ennar sæbornu; væri enginn annar konungur henni fullboðinn, enda væri engin önnur kóngsdóttir fullkosta honum. „Faðir minn!“ ansaði Gulnare drottning, „eg hef ætíð verið þjer hlýðin og er eg enn fús að gera þinn vilja.“ Var þá sent eptir yfirvöldum og vitnum, og fór nú fram brúðkaup þeirra Beders Persakonungs og Gíohare kóngsdóttur. Prýddi lýðurinn borgina dúkum og blómum til viðhafnar á gleðihátíð þessari; voru bandingjar látnir lausir úr myrkvastofum, og klæddi konungur ekkjur og munaðarlausa, en höfðingjunum í hirðinni gaf hann tignarmöttla. Stóð hátíð þessi yfir í tíu sólarhringa og var brúðurin níu sinnum leidd fyrir Beder konung, og var í sínum búningnum í hvert skipti. En er brúðkaups hátíðin var á enda, gaf Beder konungi Samandals aptur ríki sitt og lifðu þau nú öll í góðu samlyndi, vinsemd og velsæld, þangaðtil spillir gleðinnar og frumkvöðull vinaskilnaðarins vitjaði þeirra. Og lýkur svo þessari sögu. Náð vors drottins sje með öllum!

Endir annars bindis.

---

# INNIHALD.

---

# LEIÐRJETTINGAR.

Bls. $76^{30}$: Bakbúk, l. Bakbarah.
- $77^{1-4}$: Bakbúk, l. Bakbarah.
- $105^{14}$: miðvitundarlaus, l. meðvitundarlaus.
- $117^{29}$: gnll, l. gull.
- $124^{35}$: höllna, l. höllina.
- $127^{7}$: oh, l. og.
- 130 vantar fyrir ofan fyrirsögn sögunnar: Frá 205 til 230 nætur.
- $175^{31}$: 205, l. 250.

